

*Náðin drottins vors Jesú Krists*
*sé með yður öllum. Amen.*

*P. Pjetursson.*

1808—1908

# ÆFISAGA

# PJETURS PJETURSSONAR

DR. THEOL.

BISKUPS YFIR ÍSLANDI

ÞORVALDUR THORODDSEN
SAMDI



REYKJAVÍK
KOSTNAÐARMENN: SIGURÐUR KRISTJÁNSSON OG
ÞORVALDUR THORODDSEN
1908

Ef eignumst vér margan afbragðsmann
með iðni, gáfur og þrek sem hann,
og mannúðarríkt og hógvært hjarta,
vjer höfum í vændum framtíð bjarta.

*V. Br.*



Prentsmiðjan Gutenberg.

# Efnisyfirlit.

## Myndir í bókinni.

## I. Ætt Pjeturs biskups og foreldrar.

Pjetur Pjetursson biskup átti í báðar ættir til góðra og göfugra að telja; hann var í föður og móðurkyn kominn af hinum helztu höfðingjaættum norðanlands, og má telja sex biskupa í ætt hans. Pjetur prófastur Pjetursson á Víðivöllum (1754—1842), faðir hans, var hinn mesti merkismaður, gáfumaður og höfðingi í sjón og raun, hann var prýðilega hagmæltur og eitt hið bezta latínuskáld, sem verið hefir á Íslandi. Afi Pjeturs biskups, Pjetur Björnsson prestur á Tjörn, var líka skáld gott, gáfumaður og fjörmaður, en Þóra móðir hans var sonardóttir Halldórs biskups Brynjólfssonar og komin af gömlum biskupaættum, Þorláki Skúlasyni og Guðbrandi Þorlákssyni. Hjer er ekki þörf að rekja ættirnar með því það hefir áður verið gert á prenti,[1]) vjer skulum aðeins lauslega geta nokkurra þeirra manna, sem mest kveður að í ættinni.

Í beinan karllegg má telja föðurætt Pjeturs biskups fram í byrjun 15. aldar eða lok hinnar 14.; höfðu forfeður hans, hver fram af öðrum, í meir en 200 ár haft umboðsvöld í Húnavatnssýslu, verið þar sýslumenn og valdamenn og búið mann fram af manni á Geitaskarði. Á 16. og 17. öld var mikill auður í ættinni (Geitaskarðs-

1) Tímarit Jóns Pjeturssonar I, bls. 14—20.

ætt). Uppruni ættar þessarar er þó að nokkru leyti vestan frá Breiðafirði, úr Dalasýslu. Á seinni hluta 15. aldar bjó Oddur Pjetursson, Finnssonar, í Holti í Saurbæ, bróðir Laga-Finns í Ljáskógum, afa Daða í Snóksdal; um ætt Odds vita menn lítið með vissu, en sjálfur kemur hann opt við brjef á seinni hluta 15. aldar. Fyrst er Oddur nefndur í dómi 3. nóv. 1461 og svo kemur hann eptir það opt við alþingisdóma, hjeraðsdóma og önnur brjef, hann er 15. apríl 1480 við skipti eptir Ólöfu ríku á Skarði og er viðriðinn skipti á peningum Guðmundar Arasonar á Reykhólum, hann gefur í Flatey 27. júlí 1480 með 7 heldri mönnum vitnisburð Þorleifi Björnssyni hirðstjóra, að hann hafi farið vel með völd sín. Kona Odds Pjeturssonar hjet Sigríður Steinþórsdóttir, og með ráði Sveins biskups Pjeturssonar spaka settu þau hjón á stofn kirkju í Holti í Saurbæ 1467 og gáfu þar til jarðir, kvikfje, messuklæði, bækur og annað, er þurfti. Oddur er kallaður »bóndi«, eins og þá var títt um heldri menn, og sjest það á öllu, að hann hefir verið í áliti og talinn með höfðingjum, enda var hann fjáður vel. Oddur Pjetursson mun hafa dáið fyrir 1496. Einn af sonum Odds hjet Einar, hann giptist 1480 Ásu Egilsdóttur Grímssonar á Geitaskarði sýslumanns í Húnavatnssýslu og lagði hvort þeirra fram við kaupmála tvö hundruð hundraða í jörðum. Einar Oddsson varð sýslumaður í hálfri Húnavatnssýslu (líklega um 1495) og hjelt henni hálfri eða allri fram yfir 1509 og líklega hefir hann ekki dáið fyrr en eptir 1520. Einar bjó á Geitaskarði eptir tengdaföður sinn og varð ættfaðir Geitaskarðsættarinnar.

Sonur Einars Oddssonar hjet Jón, hann tók við sýslunni hálfri að föður sínum lifandi um eða fyrir 1513. Jón Einarsson gjörðist snemma mikill og ríkur hjeraðshöfðingi og eigi minnkuðu völd hans nje auður við kvonfangið. Jón Einarsson giptist 1516 á Hólum Kristínu dóttur Gottskálks biskups Nikulássonar hins grimma; hún hafði áður átt Þorvarð lögmann Erlendsson (d. 1513), sem var hinn mesti auðmaður. Gottskálk biskup gaf

dóttur sinni í heimanmund tvö hundruð hundraða í lausafje og þrjú hundruð hundraða í jörðum, og voru þar með jarðirnar Hóll og Bessastaðir, sem biskup hafði kúgað af Björgu konu Jóns lögmanns Sigmundssonar. Út úr þeim jörðum urðu síðar, sem kunnugt er, hin mestu málaferli á dögum Guðbrands biskups. Á vorum dögum mundi það þykja hin mestu undur, ef stúlka fengi 50—60 þúsund krónur í heimanmund, en efnahagur höfðingjanna var þá annar en nú. Sjálfur taldi Jón Einarsson sjer til kaups við Kristínu sjö hundruð hundraða í jörðum og lausafje (70—80 þúsund krónur); Kristín Gottskálksdóttir varð fjörgömul og dó 14. apríl 1578. Þau Jón og Kristín áttu mörg börn, voru tveir af sonum þeirra Egill sýslumaður og Gottskálk prestur í Glaumbæ, hann reit annál þann, sem við hann er kenndur. Jón Einarsson bjó fyrst í Saurbæ á Kjalarnesi, en síðan á Geitaskarði eptir föður sinn. Árið 1516 komst Jón í illdeilur við Ólaf Diðriksson fógeta á Bessastöðum út úr sýslugjaldi, og mun hafa orðið stórorður, svo fógeti reiddist, ljet taka Jón og setja í fjötra, og varð að leysa hann úr fangelsi með ærnu gjaldi. Jón Einarsson sýslumaður var vellauðugur að fje og einn hinn ríkasti höfðingi norðanlands á þeim tímum.

Sonur þeirra Jóns og Kristínar var Egill Jónsson (hinn fyrri), hann bjó líka á föðurleifð sinni Geitaskarði og dó 1560, hann átti Guðrúnu dóttur Þorleifs lögmanns Pálssonar á Skarði, sem var dóttursonur Björns ríka; Egill Jónsson þótti mikill höfðingi sem faðir hans og var auðugur mjög, hann hafði hálfa Húnavatnssýslu og síðar alla; Egill var einn af þeim, sem Kristján konungur þriðji skrifaði 1550 um að fanga Jón biskup Arason. Jón sonur Egils þessa tók og við Húnavatnssýslu eptir föður sinn og síðan tók aptur við Egill sonur hans, kallaður hinn seinni, hann átti og son, er Jón hjet, sem líka var sýslumaður í Húnavatnssýslu († 1691). Þannig höfðu þeir langfeðgar í tvær aldir búið mann

fram af manni á Geitaskarði, hafi völd í Húnavatnsþingi og allir verið stórbændur og auðmenn.

Annar sonur Egils sýslumanns Jónssonar hins fyrra var Eiríkur á Stóruborg, hann átti Solveigu, dóttur Nikulásar klausturhaldara á Munkaþverá, Þorsteinssonar, Finnbogasonar lögmanns, og af þeim hjónum eru þeir Víðivallafeðgar komnir í karllegg. Jón sonur Eiríks Egilssonar bjó á Núpi í Húnavatnssýslu og Eiríkur Jónsson eptir föður sinn. Sonur Eiríks Jónssonar á Núpi hjet Pjetur og var afi Pjeturs prests Björnssonar á Tjörn á Vatnsnesi.

**Pjetur Björnsson** afi Pjeturs biskups var fæddur á Breiðabólsstað í Vesturhópi 8. maí 1723, og voru foreldrar hans Björn Pjetursson og Halldóra Árnadóttur bláfátæk, en hann ólst upp hjá Halldóri presti Hallssyni[1]); í æsku var hann nákunnugur Bjarna sýslumanni Halldórssyni á Þingeyrum og hafði dvalið nokkuð þar á bæ, þessvegna kunni hann svo ágætlega að herma eptir Bjarna, eins og segir í hinni skrítnu skólasögu, er síra Jón Steingrímsson segir frá í æfisögu sinni[2]). Pjetur Björnsson datt ungur af hestbaki og gekk að mestu sundur hægri handleggurinn um ölnbogabótina, lá hann í því 12 vikur, smárjettist handleggurinn, en aldrei að fullu. Pjetur fór fyrst að læra latínu hjá síra Halldóri, en gat eigi haldið áfram sakir fátæktar og varð eptir það sex ár smaladrengur á Hvoli. Árið 1746 frjetti hann, er hann eitt sinn kom heima frá smalamennsku, að móðir hans hefði brunnið inni í Klömbrum og þrjú börn hennar, og fjekk honum það mikils. Næstu nótt eptir fjekk hann svima yfir höfuðið og missti við það að mestu heyrn á vinstra eyra og hjelzt það við hann síðan. Næsta vor eptir fór hann frá Hvoli einmana vestur um land, flaug honum þá í hug að finna Halldór

---

1) Munnmæli um að Pjetur hafi verið launsonur síra Halldórs virðast ekki hafa við nein söguleg rök að styðjast.

2) Þjóðólfur XIV, bls. 47—48.

biskup, er þá var væntanlegur með biskupstign að utan, ef ske mætti hann gæti komið sjer fyrir hjá honum; komst hann þá að Grunnasundsnesi til Jóhanns Gottrúps, sem hann var nokkuð kunnugur, og innti honum frá ástandi sínu; hjet Jóhann honum liðsyrði við biskupinn þegar hann kæmi og ljet Jóhann hann fara með sjer til alþingis og mæltu þar margir vel máli hans, einkum Vigfús prófastur í Hítardal, fór hann svo að Hólum um haustið og gat biskup þá eigi við honum tekið, en skrifaði síra Halldóri að taka hann um veturinn; fjekk hann svo skóla næsta vor, var þar 2½ vetur og útskrifaðist 1751. Síra Halldór hafði lofað góðu um að taka Pjetur sem kapellán, en það brást og líkaði biskupi það illa. Biskup veitti honum þá Tjörn á Vatnsnesi og var hann vígður þangað 6. ágúst 1752 af síra Stefáni Einarssyni (í Laufási, † 1754) í sjúkdómsforföllum Halldórs biskups[1]). Sama ár giptist síra Pjetur Guðrúnu Jónsdóttur frá Tungu í Fljótum, hún var í beinan karllegg komin af Smiða-Sturlu og voru margir nafntogaðir smiðir í ætt hennar. Þau áttu saman 4 börn, 3 dóu í æsku, en eitt lifði, Pjetur síðar prófastur á Víðivöllum. Pjetur Björnsson var atgjörvismaður, skáld gott bæði á íslenzku og latínu og vel að sjer um marga hluti, en þótti litill búmaður; hann orti marga sálma og prentað var eptir hann: »Samtal biskupsstólanna« Hólum 1781 og grafletur yfir Sigurð biskup Stefánsson. Hólum 1799. Árið 1792 sagði síra Pjetur af sjer prestsskap, var þá á fátæku útkjálkabrauði orðinn örvasa og snauður eptir hin mörgu hallærisár er þá gengu yfir landið. Fluttu þau hjón þá til sonar síns síra Pjeturs á Miklabæ og dóu þar bæði í septembermánuði 1803.

Móðir Pjeturs biskups var Þóra Brynjólfsdóttir, hún var fædd á Hafsteinsstöðum 1766, faðir hennar var Brynjólfur Halldórsson gullsmiður, hann dó undir aldamótin 1800, var vel hagmæltur og orti rímur af Kórmaki og

1) Prestaæfir Hallgríms Jónssonar djákna Lbs. 501 — 4to.

Friðþjófi frækna. Kona hans hjet Ingibjörg Eggertsdóttir. Brynjólfur var sonur Halldórs biskups Brynjólfssonar á Hólum (f. 1692, d. 1752) og frú Þóru Björnsdóttur. Ætt Halldórs biskups má í beinan karllegg rekja upp á seinni hluta 15. aldar, en þegar kvenliðir koma í milli má rekja hana til Lopts ríka, Jóns Loptssonar og Þóru Magnúsdóttur konungs berfætts, til Sæmundar fróða og hinna elztu Oddaverja. Frú Þóra var fjörkona mikil og vel gáfuð, hún var af ætt Þorláks Skúlasonar biskups og Guðbrands biskups, faðir hennar var Björn Jónsson Thorlacius, prófastur í Görðum á Álptanesi, en afi hennar Jón Þorláksson biskups Skúlas. sýslumaður á Víðivöllum í Fljótsdal († 1712); hann ritaði lækningabók. Af Halldóri biskupi er allmikil ætt komin, því þau hjón áttu saman 10 börn, 6 dætur og 4 syni, af þeirri ætt er meðal annara Gísli Magnússon skólakennari og Sigurður bóndi á Skúmsstöðum, Ólafur læknir Sigvaldason og síra Þórhallur lektor. Ingibjörg kona Brynjólfs Halldórssonar var dóttir Eggerts prests Sæmundssonar á Undirfelli († 1781) Hrólfssonar prests í Stærra-Árskógi († 1738) af ætt Hrólfs sterka og má rekja þá ætt til landnámsmanna, til Þórólfs smjörs Þorsteinssonar og upp í Grím kamban, er fyrstur byggði Færeyjar. Börn Brynjólfs og Ingibjargar voru Halldór Kláus silfursmiður og Þóra kona Pjeturs prófasts á Víðivöllum. Halldór var hinn mesti þjóðhagi á smíðar, er það t. d. sagt, að stúlkur hafi eitt sinn gletzt við hann og beðið hann að gera við saumnál, sem augað var brotið af, og skilaði hann aptur nálinni jafngóðri með nýju auga. Hann smíðaði líka hesputrje og setti saman niðri í stútmjóu glasi og átti Pjetur biskup það glas; það er nú á forngripasafni.[1]) Halldór var fæddur á Sauðá um 1769, en dó 74 ára á Höskuldsstöðum í Blönduhlíð 21. júlí 1843.

**Pjetur** prófastur **Pjetursson** var fæddur á Tjörn á

---

1) Glasið brotnaði sama daginn sem Pjetur biskup var jarðsunginn.

Vatnsnesi 1. nóvember 1754, hann byrjaði latínulærdóm hjá föður sínum, fór í Hólaskóla 15 vetra árið 1769 og útskrifaðist þaðan með ágætum vitnisburði 1775. Þá var Hálfdán Einarsson þar skólameistari, en Gísli Magnússon biskup.[1]) Pjetur langaði til að sigla til háskólans, en skorti fje og fór þá til Vigfúsar Hanssonar Schevings á Víðivöllum og var þar eitt ár, líkaði Vigfúsi sýslumanni mætavel við hann, því Pjetur »var iðjumaður og gildlegur að öllu«.[2]) Fyrir tilstilli Vigfúsar sýslumanns giptist Pjetur stúdent 11. október 1777 Elínu Grímólfsdóttur á Sjóarborg. Elín var ekkja Sveins Þorlákssonar, greind kona og vel látin, efnuð vel og þá nokkuð við aldur. Pjetur Pjetursson tók nú við búsforráðum á Sjóarborg og sýndi það sig fljótt, að hann var »hinn mesti fyrirhyggjumaður og athafnamaður til sjós og lands, sótti hann iðulega sjó, þegar til gaf, með húskörlum sínum, fuglaveiði við Drangey og silungsveiði, sem opt er mikil á Sjóarborg í sjó og vötnum þar í nánd, og er þar þá, þegar svo ber við, margt og mikið við að vinna; skorti Pjetur ekki útsjón nje atorkusemi; kona hans affærði og ekki fyrir honum. Jafnaðarlega á vetrum fylgdi hann fje sínu í haga, og í Eldreykjar-harðindunum 1783—84, hjelt hann því, þegar allur fjöldi manna gjörfelldi kvikfjenað, sem ekki hafði gömul hey«.[3])

Sumarið 1783 voru hin mestu harðindi um land allt (Móðuharðindin) og var þá hið aumlegasta ástand

---

1) Smásaga um viðtal Gísla biskups við Pjetur stendur í Sunnanfara I. bls. 16.

2) Árbækur Jóns Espólíns XI, bls. 14. Um siglingar-vonbrigði sín orti Pjetur Pjetursson latnesk ljóð, sem prentuð eru í »Stuttri æfiminning« bls. 12.

3) Stutt æfiminning síra Pjeturs Pjeturssonar, fyrrum prófasts í Hegranessþingi eptir Jón prófast Konráðsson. Reykjavík 1881, 35 bls. 8vo. Aptan við eru ljóðmæli Pjeturs prófasts bæði á íslenzku og latínu. Úr þessu riti hefi eg tekið flest, sem hjer er sagt um æfi Pjeturs prófasts. Sbr. Tvær líkræður, önnur flutt við jarðarför Pjeturs Pjeturssonar prófasts á Víðivöllum, 1842; hin flutt við jarðarför Dr. Hallgríms Schevings. 1862. Reykjavík 1879, 24 bls. 8vo. Pjetur biskup gaf út bæði þessi rit.

á Norðurlandi. Þá tók Árni Þórarinsson við biskupsdæmi á Hólum; þurfti hann þá mjög að halda á duglegum ráðsmanni að halda stólsbúinu til viðréttingar, og hafði þá helzt augastað á Pjetri á Sjóarborg og vildi fá hann til þess að taka að sér þessa sýslan, en það tjáði ekki, Pjetur fjekst ekki, hvernig sem á hann var leitað; hann sá vel, hve mikið vandaverk þetta var á þeim tímum sökum báginda almennings, enda fór efnahag biskupsstólsins þá mjög hnignandi og dró loks að því, sem kunnugt er, að hið forna biskupsdæmi vesladist upp. Árni Þórarinsson dó 46 ára, þrem árum síðar, og hinn síðasti Hólabiskup Sigurður Stefánsson var 9 ár í embætti († 1798). Þessir tveir síðustu biskupar voru engir afburðamenn og alls ekki færir um að koma því í lag sem umbæta þurfti. Miklu síðar (1820) dó Guðríður Halldórsdóttir, ekkja Sigurðar biskups, meir en áttræð hjá Pjetri prófasti á Víðivöllum, og »var þá örsnauð og seinasta biskupsfrú á Norðurlandi.«[1])

Á Sjóarborg bjuggu þau Pjetur og Elín hinu mesta rausnarbúi og tregaði hann það jafnan síðan, að hann varð að fara þaðan. Þá bjó Brynjólfur gullsmiður, sonur Halldórs biskups, á Áshildarholti, næsta bæ við Sjóarborg og átti oftast þröngt í búi, var hann hneigður til drykkjar og spilaðist lítt úr efnum hans.[2]) Þóra og Halldór hjetu börn Brynjólfs, bar það oft við að þau komu til Borgar og var þar vel tekið. Geðjaðist Pjetri mjög vel að börnunum og orti til þeirra gamanvísur, þótti hann þá forspár mjög eins og oft síðar. Pjetur Pjetursson kvað þá til Þóru Brynjólfsdóttur:

Auðs ei neina ásýnd ber
andlits-hreina snótin;
þessi eina mun þó mjer
mæðu reynast bótin.

Og um systkinin bæði orti hann:

1) Árbækur Jóns Espólins XII, 115.

2) s. st. XI, bls. 52.

Lánið stóra liggur Þóru fyrir,
en Halldóri ami kífs
ef hann tóra náir lífs.

Þetta þótti hvorutveggja koma fram. Þóra varð seinni kona síra Pjeturs og átti miklu láni að fagna í hjúskapnum, eptir því sem annars er hægt að fá, en þó Halldór hefði allmikla hæfilegleika átti hann jafnan í basli. Þegar Þóra Brynjólfsdóttir stálpaðist fór hún að Sjóarborg og var í miklu uppáhaldi hjá báðum hjónunum.

Árið 1786 bar það til tíðinda, að Oddur prestur í Miklabæ, sonur Gísla biskups Magnússonar, hvarf váveiflega og hefir ekki spurzt til hans síðan; hjeldu menn hann hefði farizt í Hjeraðsvötnum, en engin vissa var þó fyrir því[1]). Vigfús sýslumaður á Víðivöllum vildi nú gjarnan fá Pjetur vin sinn á Sjóarborg fyrir prest sinn og nágranna og hvatti hann til að sækja um brauðið, sóttu margir aðrir, sumt gamlir prestar, svo Pjetur grunaði sízt, að hann mundi fá það, en svo varð þó; hann fekk veitingu fyrir Miklabæjar-brauði 15. janúar 1787 og var vígður til prests á Hólum á uppstigningardag s. á., ásamt Árna Illugasyni, sem þá gerðist prestur í Grímsey. Árni prestur (1754—1825) var faðir Jóns Árnasonar bókavarðar og þjóðsagna-safnara, en langafi Ólafs Davíðssonar. Í næstu fardögum flutti Pjetur prestur sig frá Sjóarborg og tók við stað og kirkju á Miklabæ. »Þótti hann þegar merkilegur í klerkdómi sínum, bæði utan og innan kirkju«. Þegar sáttanefndir voru skipaðar hér á landi 1793 var síra Pjetur settur sáttanefndarmaður í Akrahreppi og heppnaðist sá starfi ágætlega vel. Árið 1803 varð síra Pjetur prófastur í Skagafjarðarsýslu, en sagði því embætti af sjer 1813; hann hjelt fyrir kapellána og aðstoðarmenn fyrst Jón Konráðsson og svo Gísla Oddsson, sem báðir síðar urðu prestar í Skagafirði og síðast Jón Jónsson, sem varð eptirmaður hans í Miklabæ, þegar síra Pjetur sagði af sjer prestskap 1824, sjötugur að aldri.

1) Árb. Esp. XI, bls. 52.

Fjárhagur síra Pjeturs stóð lengi með miklum blóma og jukust töluvert eignir hans 1802 við uppboð Hólastólsjarða. Þó var hart í ári um aldamótin og gestrisni jafnan mikil og góðgjörðir á heimili hans við þurfamenn og fátæklinga. En Pjetur prófastur var hinn mesti dugnaðarmaður í búskap öllum og framúrskarandi aðdráttarmaður.

Eptir flutninginn að Miklabæ var Elín Grímólfsdóttir kona síra Pjeturs opt veik og lá löngum rúmföst þunglega haldin og kendi undarlegra veikinda á geðsmununum, en um veturinn 1801—1802 skánaði henni snögglega. Hinn sama vetur tók Pjetur prófastur þungan sjúkdóm og var lengi tvísýnt um líf hans, lá hann veikur nærri hálft ár, en var þó að mestu leyti batnað haustið 1802, svo hann gat þjáningalítið ferðast norður á Akureyri. Um sama leyti fór konu hans aptur að hnigna og var jafnan lasin unz hún andaðist snögglega í rúmi sínu nóttina milli 15. og 16. maí 1804.

Árið 1805 síðasta dag vetrar gekk Pjetur prófastur að eiga Þóru Brynjólfsdóttur Halldórssonar biskups, sem lengi hafði dvalið á heimili hans. »Var þar ekki fyrir auðlegð að gangast« segir Jón Konráðsson, »en þar á móti gáfnasnild, geðprýði og guðrækni«. Brúðkaup þeirra var haldið að Miklabæ,« var þar saman kominn fjöldi virðingarmanna úr Skagafjarðarsýslu og víðar og var veizla hin rausnarlegasta, en daginn eptir var veizla haldin sóknarfólkinu, og þá veitt af kappi sem hinn fyrra dag«. Bæði voru þau hjón þá nokkuð roskin að aldri er þau giptust, Pjetur prófastur rúmlega fimtugur, en kona hans nærri fertug. Þó urðu þau svo kynsæl sem raun varð á. Bjuggu þau nú fyrst á Miklabæ, en fluttu svo að Víðivöllum 1809. Vigfús sýslumaður Scheving fjekk lausn frá embætti 1800 og flutti sig 1804 suður að Innra-Hólmi til Magnúsar Stephensen tengdasonar síns, og hjá honum dó hann í Viðey 1817.

Á Víðivöllum var Pjetur prófastur búsýslumaður sem fyrr og bjó líka á hálfum Miklabæ, en hinn helm-

inginn byggði hann kapelláni sínum Gísla Oddssyni. Víðivelli keypti hann 1807 og hóf þar mikla garðyrkju og starfaði mest að henni sjálfur. Garðrækt var þá að útbreiðast á Íslandi og af eptirdæmi og fortölum síra Pjeturs útbreiddist hún mjög í Skagafirði. Pjetur prófastur var hinn mesti hjeraðshöfðingi og lýsa samtíðarmenn honum svo, að hann hafi verið fágætur og framúrskarandi maður, mikilmenni að líkamlegu og andlegu atgjörvi og hið mesta prúðmenni í framgöngu. Hallgrímur Jónsson djákni lýsir honum svo: »Síra Pjetur er höfðingi mikill, gestrisinn, góðgjörðasamur við fátæka, auðugur maður og búþegn góður, andríkur ræðumaður, mjög lærður og merkilegt skáld, með stærri meðalmönnum á hæð, vel þrekinn, kraptamaður mikill, fríður sýnum og einn hinn duglegasti jarðyrkjumaður«. Jón Espólín getur Pjeturs prófasts alstaðar með mikilli virðingu, enda voru þeir beztu vinir, og frá Víðivöllum kom Espólín úr kynnisför er hann andaðist 1. ágúst 1836. Árið 1824 getur Espólín þess í árbókunum, að Pjetur prófastur hafi látið af prestsskap og segir um leið: »hafði hann verið hinn mesti merkismaður og hjelt höfðingsskap sínum og góðgjörðum«[1]). Pjetur Pjetursson var mjög vinsæll maður, friðgjarn og ráðhollur, enda var hans jafnan leitað í vandamálum, hann var ætíð skemtinn og fjörugur í samræðum og það fram á elliár þegar líkaminn var farinn að hrörna. Síra Pjetur var mjög gott skáld og orti margar hnittnar og heppilegar tækifærisvísur og sumar snildarlegar, hafði hann erft hagmælskuna eptir föður sinn og fór snemma að yrkja. Fjórtán vetra orti hann Berserkjarímur og eru þær vísur, sem úr þeim eru kunnar, mjög liðlegar, og eins margar aðrar vísur, sem prentaðar eru[2]). Latínumaður var Pjetur prófastur framúrskarandi og ágætt latínuskáld, sem sjá má á ljóðum þeim, sem enn eru til.

1) Árbækur Espólíns XII, bls. 149.

2) Sýnishorn af ljóðmælum Pjeturs prófasts er prentað aptan við »Stutt æfiminning«. Rvík 1881, bls. 12—35.

**Þóra Brynjólfsdóttir** var fædd 1766, sem fyrr var getið; hún var fremur lítil vexti[1]), dökkhærð og hjálmfögur, kvik og ljett á sjer, fjörug og skemmtin, hin bezta móðir og skörungur í hússtjórn og búnaði; mann sinn stundaði hún í elli hans, með nákvæmni, umhyggju og aðhjúkrun. Þóra Brynjólfsdóttir andaðist á Víðivöllum 8. sept. 1843. Börn þeirra Pjeturs prófasts og Þóru voru:

1. Elinborg Pjetursdóttir f. 1. nóvember 1805, hún giptist 1828 Sigurði stúdent Arnórssyni, sem hafði uppalizt hjá síra Pjetri, hann var fæddur 7. marz 1800, vígðist 1838 og varð prestur á Mælifelli 1851, dó 1866. Þeirra son er Pjetur Sigurðsson, sem bjó á Sævarborg, en nú í Borgargerði, faðir Sigurður Pjeturssonar, sýslumanns í Suður-Múlasýslu (f. 23. nóv. 1867; d. 1. jan. 1896). Elinborg Pjetursdóttir var hin mesta merkiskona, afbragðsfríð sýnum, gáfuð og prýðilega vel að sjer til munns og handa[2]; í hannyrðum var hún framúrskarandi, og var stúlkum opt komið til hennar til náms. Eptir dauða manns síns fluttist Elinborg Pjetursdóttir á eignarjörð sína Sjávarborg og dó þar 9. febrúar 1886.

2. Pjetur Pjetursson biskup f. 3. október 1808; d. 15. maí 1891.

3. Brynjólfur Pjetursson f. 15. apríl 1810, d. 18. október 1851. Brynjólfur var áður en hann dó orðinn forstöðumaður hinnar íslenzku stjórnardeildar í Kaupmannahöfn, og hafði mikil áhrif á íslenzk mál; var það mikill mannskaði að hann dó svo ungur, því hann var fyrirtaks gáfumaður og dugnaðarmaður og hvers manns hugljúfi; var hans sárt saknað af öllum, er þekktu hann[3].

---

1) Guðlaug Aradóttir frá Flugumýri, seinni kona Björns Gunnlaugssonar, sem var nákunnug Þóru Brynjólfsdóttir, sagði mjög opt við Þóru Pjetursdóttir biskups, er hún hitti hana: »en hvað þú getur verið lík henni ömmu þinni«.

2) »Hún var alþekkt gáfu og atgerfiskona og eigi síður fyrir guðrækni« segir Ísafold XIII, 1886 bls. 53.

3) Æfiágrip í Lögfræðingatali Magnúsar Stephensen, Tímarit Bókmf. III, 1882, bls. 217.

4. Jón Pjetursson háyfirdómari, f. 16. janúar 1812, d. 16. janúar 1896[1].

5. Jónas Pjetursson f. 28. ágúst 1813, dó ungur. Það mun vera fágætt, ef ekki einsdæmi á Íslandi, að jafnroskin hjón hafi eignast slíkt afkvæmi, með jafnmiklum hæfillegeikum til sálar og líkama.

Pjetur prófastur sparaði ekki fje til að mennta börn sín og koma þeim fram; hann kostaði alla syni sína til skólanáms og utanferða til háskólans, vildi það til, að hann var búsýslumaður mikill og aflamaður, því mjög var staða hans útdráttarsöm á þeim árum, »hjelt hann þó jafnan hinum sama höfðingskap og gestrisni, og örlæti við nauðstadda, jafnvel framar en efni hans og ástæður sýndust leyfa; var jafnan viðkvæði hans, það verður drjúgast, sem flestir af njóta«. Síra Pjetur naut þeirrar ánægju í elli sinni, að sjá syni sína alla á hinum ágætasta framfaravegi; Pjetur sonur hans var orðinn háskólakandídat í guðfræði, prestur og prófastur á Staðarstað og »licentiatus« í guðfræði. Brynjólfur og Jón voru báðir kandídatar í lögum með beztu einkunn og Brynjólfur var orðinn aðstoðarmaður í rentukammerinu. — Allir voru þessir upprennandi ungu menn í miklu áliti.

Pjetur á Víðivöllum varð mjög gamall maður og hjelt heilsu sinni fram í háa elli, en burðir hans tóku, sem eðlilegt var, mjög að þverra, eptir að hann var orðinn áttræður, og þá missti hann sjón á öðru auga »las þó jafnaðarlega í bókum, þegar þoldi, og hafði fótaferð, þótt með veikum burðum, allt fram á þorra veturinn 1842, þá lagðist hann til fulls og alls í rekkju, hafði þó með köflum uppisetumátt, og gat í viðlögum ritað einstöku brjef á hnje sjer, bar hann veikindi sín með hetjulegri og kristilegri þolinmæði og hugarrósemi; dapraðist meir og meir lífsljós hans, þar til það slokknaði til fulls með hægu og friðsælu andláti, samkvæmt hans

1) Æfiágrip í Andvara 26. árg. 1901. Sunnanfari I, 1892. bls. 61—62. Þjóðólfur 48. árg. 1896, bls. 14.—15.

friðgjarna líferni, á föstudag 29. dag júlímánaðar 1842, þá hann lifað hafði í þessum heimi 88 ár, 3 mánuðum og 2 dögum fátt í, verið prestur 38 ár og prófastur 10 ár«[1].

1) Jón Konráðsson: Æfiminning P. P. bls. 10.

## II. Æska og námsár Pjeturs biskups.

Það er einkennilegt að sjá, hvernig mikilmenni með framúrskarandi hæfilegleikum stundum koma fram í veraldarsögunni í hópum, á vissum tímum og á vissum stöðum, án þess hægt sé að gjöra sjer nokkra grein fyrir hvernig á því stendur. Þegar svo ber undir hefjast stór og smá þjóðfjelög á hærra menningarstig en áður, en svo kemur opt ládeyða á eptir og apturför, þangað til ný alda rís og er hennar opt langt að bíða. Um slíka framkomu afbragðsmanna fá þjóðirnar engu ráðið, stundum virðist hin mesta þörf á gáfuðum leiðtogum, en þá fæðast engir afburðamenn um langan aldur, aptur er gróðurinn stundum svo mikill, að hver kappinn öðrum meiri rís upp á stuttu tímabili. Úr veraldarsögunni mætti tilfæra ótal dæmi, það má aðeins minna á skörunga þá á Englandi, sem uppi voru á dögum Elísabetar drottningar, og á ríkisárum Victoríu drottningar, á hin miklu andans mikilmenni í Aþenuborg á dögum Periklesar og í Rómaborg á dögum Augustusar keisara o. s. frv.

Þó ólíku sje saman að jafna, þá virðist mega sjá einhver drög til svipaðra fyrirbrigða á Íslandi. Þannig er það mjög athugavert, hvernig andlegur áhugi og hæfileikar á 19. öld, hafa dafnað á víxl í ýmsum hjeruðum á Íslandi, horfið og komið svo fram annarstaðar.

Framan af 19. öld var bókmennta-áhugi og fróðleiksfýsn mest í Skagafirði, síðar, um miðja öldina á Breiðafirði og eptir það í Þingeyjarsýslu. Á fyrsta hluta 19. aldar, var Skagafjörður aðsetur margra fræðimanna og skálda, nefna má t.d. Jón Espólín, Pjetur Pjetursson á Víðivöllum, Gísla Konráðsson, Jón Konráðsson, Hjálmar Jónsson í Bólu, Níels Jónsson o. m. fl., prestar voru þar lærðir vel og allmargir bændur voru sögumenn og ættfróðir. Eptir 1840 fór að draga úr þessari fróðleiksástundun Skagfirðinga, en þá tóku Breiðfirðingar við; annars hefir sagnafróðleikur og ættvísi þróast vel að fornu og nýju í þessum hjeruðum. Það getur ekki hjá því farið, að andlegur áhugi umheimsins, hafi haft áhrif á unga gáfumenn í þessum sveitum og eflaust hafa þeir Víðivalla-bræður í uppvextinum notið góðs af hinni almennu þjóðmenningu og fróðleiksfýsn, sem þá gagntók alla hina greindari menn í Skagafirði.

Pjetur biskup var fæddur 3. októbermánaðar 1808 á Miklabæ í Blönduhlíð, en þaðan fluttu foreldrar hans á næsta ári að Víðivöllum, þar ólst hann upp með bræðrum sínum og systur sinni Elínborgu, sem var þrem árum eldri, en Pjetur var elztur bræðranna. Öll voru börnin mjög mannvænleg og eru þjóðsögur um það, að Pjetur prófastur hafi þegar sjeð fyrir upphefð sona sinna og ágæti, því hann þótti mjög framsýnn. Meðal annars er altalað, að hann hafi eitt sinn sagt: »Pjetur verður biskup, Brynjólfur eitthvað mikið og Jón minn lallar á eptir«. Þá er það líka í frásögur fært, að Pjetur hinn ungi var mjög veikur og móðir hans sorgbitin og áhyggjufull og hélt hún mundi missa hann; síra Pjetur gekk að vöggunni, en hinn sjúki sveinn leit stórum augum upp á föður sinn, þá mælti Pjetur prófastur: »ekki deyja biskups-augun«. Þessa hefir þjóðskáldið sjera Matthías Jochumsson löngu síðar getið í fögru kvæði.

Börnin á Víðivöllum ólust upp við vanalega sveitavinnu, og fengu eigi aðeins mikla munnlega tilsögn, heldur og verklega, og störfuðu kappsamlega að hverju

því, sem þeim var á hendur falið. Drengirnir urðu duglegir smalar og sláttumenn, systirin varð fyrirmynd í hússtjórn og hannyrðum; sagði Pjetur biskup líka að þeir bræður hefðu á vökunum prjónað marga eingirnissokka. Pjetur Pjetursson var 12 ára gamall sendur sem lestadrengur með lest suður Stórasand til Reykjavíkur og á þeirri ferð kom hann til Geirs biskups Vídalíns, sem var aldavinur föður hans; biskup tók sveininum mjög vel, árnaði honum allra heilla og gaf honum silkiklút. Pjetur prófastur sendi Geir biskupi vanalega ýmislegt með lestamönnum, optast hest með smjöri og kom það sjer vel, því jafnan þótti útdráttarsamt í búi Geirs biskups[1]).

Pjetur á Víðivöllum var mjög lærður í fornmálunum og kenndi mörgum piltum undir skóla, hjá honum lærðu þeir bræður hinn fyrsta skólalærdóm í latínu og grísku, því forntungurnar voru þá aðal-kjarni alls náms. Síðan fóru þeir bræður Pjetur og Brynjólfur 1822 til síra Einars Hallgrímssonar Thorlacius í Goðdölum, sem var nafnfrægur latínumaður, og fluttust brátt með honum að Saurbæ í Eyjafirði. Þar hjeldu þeir kappsamlega áfram náminu tvo vetur, og lásu þar marga latneska höfunda, og af grískum höfundum Xenófón, Plutarch og Homer. Þeir bræður fengu snemma mikla æfingu í að skrifa latínu, og var það sjerstaklega yndi og ánægja Pjeturs, að gjöra latínska stýla, notaði hann til þess allar frístundir sínar frá vinnu á sumrum, og skauzt opt frá orfinu í stýlakompuna.

Árið 1824 fóru þeir bræður báðir í októbermánuði í Bessastaðaskóla og voru þá svo vel undirbúnir í fornmálunum, að þeir settust í efra bekk. Inntakan var eingöngu eptir latneska stýlnum, og Pjetur var þá þegar

1) Hjá Geir biskupi var mikill gestagangur og gestrisni og uppgangsamt í búi, enda þröng kjör biskupa þá í samanburði við það sem áður var. Þegar Geir eitt sinn gekk í gegnum eldhúsið hjá sjer, varð honum að orði: »á tveim stöðum slokknar aldrei eldur, í helvíti og hjá mér«.

orðinn svo fær, að hann varð við inntökupróf hinn 6. í efra bekk. Við miðsvetrarpróf hrapaði hann með því hann hafði því nær ekkert lært í öðrum námsgreinum en fornmálum, áður hann kom í skóla, enda var þess eigi krafizt. Pjetur stundaði námið af hinu mesta kappi, og fór opt á vetrum á fætur kl. 5 og las við ljóstýru niðri í köldum bekk; alla æfi var hann mjög árrisull. Piltar gerðu sjer þá helzt til skemmtunar í jólafríi og og öðrum fríum, að heimsækja kunningjana á Álptanesi, og var þá einkum mannkvæmt hjá Þórði Bjarnasyni í Sviðholti[1], en þeir bræður Pjetur og Brynjólfur áttu helzt athvarf hjá Jóni lektor. Stundum fóru menn kynnisfarir til Reykjavíkur, en þar áttu þeir bræður þá fáa kunningja, því Geir biskup Vídalín var dáinn árinu áður en þeir komu í skóla; bærinn mátti þá heita aldanskur, verzlunarmenn og iðnaðarmenn voru allir útlendir, en fátt var þar af íslenzku fólki nema sjómenn og vinnufólk.

Aldrei hefur á jafnstuttum tíma jafnfrítt úrvalalið ungra manna komið frá nokkrum skóla á Íslandi, eins og frá Bessastaðaskóla á árunum 1820—1840. Orsökin til þessa blóma, getur ekki eingöngu hafa verið sú, að á því tímabili hafi fleiri gáfaðir og þrekmiklir menn fæðst og þroskast, heldur hitt, að góðir hæfilegleikar hafa fundið hentugan jarðveg. Bessastaðaskóli hefur á þeim tímum haft mikil og góð áhrif á lærisveinana, enda ber öllum saman um, að skólalífið hafi þá, fyrir tilstilli samvaldra ágætiskennara, verið staðbetra til menningar og þroskunar, en síðar varð. Það var ekki fjöldi kennslugreina, sem þessu olli, þær voru fáar og sumar fátæklega frambornar, heldur var það eptirdæmi góðra manna og samvera við þá, sem mestu rjeði, kennararnir nutu sín, af því þeir voru samhentir, og af því skólinn var í sveit og enginn bæjarglaumur glapti fyrir.

---

1) Þórður var faðir Sesselju fyrri konu Bergs Thorbergs landshöfðingja.

Þegar Pjetur Pjetursson kom í Bessastaðaskóla var skólinn í sem mestum blóma, þar voru fjórir kennarar allir ágætismenn hver í sinni röð og þó ólíkir, en eitt einkenndi þá alla, að þeir voru mestu sómamenn, þjóðlegir í anda og frábitnir allri fordild og tildri og allir meira en í meðallagi gæddir siðferðislegu þreki og alvöru. Kennararnir bjuggu allir búi sínu á jörðum á Álptanesi og skólinn var líka á sveitabæ, lífið var því allt alíslenzkt, einfalt og óbrotið og miklu heilsusamlegra var það fyrir siðmenningu pilta, en bæjarlífið hefir síðar orðið. Á Bessastöðum voru kennararnir allir samlyndir og má það heita undur meðal Íslendinga. Einum af lærisveinum Bessastaðaskóla farast þannig orð: »Kennararnir lifðu í hinni mestu eindrægni, samlyndi og vináttu, og það má fullyrða, að ástúðlegri samvinna og samfjelag en var milli kennaranna við skólann á Bessastöðum hefir eigi átt sjer stað við nokkurn skóla, þar voru líka því nær altaf sömu kennararnir, hver um sig hinir ágætustu menn; áttu lærisveinarnir því einnig í þessu atriði fyrirmynd í kennurum sínum eins og þessi eindrægni andans hafði á hinn bóginn heillarík áhrif á kennsluna í skólanum, er hver kennaranna studdi annan í því, er laut að þeirra sameiginlega ætlunarverki«[1]) Skólinn átti þá líka því láni að fagna, að stjórnarvöldin voru fjarri, suður í Danmörku, svo stofnunin fjekk að vera í friði, en síðar hefur hlutsemi yfirvalda og afskipti ábyrgðarlausra blaðamanna allopt spillt reglu og framförum skólans.

Þessir fjórir kennarar voru: Jón Jónsson lektor, Hallgrímur Scheving, Sveinbjörn Egilsson og Björn Gunnlaugsson. Jón Jónsson (f. 31. jan. 1777, d. 14. júní 1860) var þá skólastjóri, eða lektor, sem þá var kallað; hann var guðfræðiskandidat frá háskólanum og aðallega kennari í guðfræði, því að skólinn var þá meðfram prestaskóli sem kunnugt er. Jón lektor ljet sjer mjög annt um framfarir pilta og hegðun, vandaði rækilega um við

1) Þjóðólfur XII, 1860 bls. 141.

þá og gekk ríkt eptir, að engir ósiðir næðu að festa rætur í skólanum, og tókst honum skólastjórnin mæta vel á þessum árum meðan hann var í fullu fjöri, en tregar seinna, eptir að hann fór að lýjast og eldast og nýjar hreyfingar utan að tóku að hafa áhrif á skólann. Samt var piltum altaf vel við lektor, því þeir fundu velvildarhug hans, en hentu stundum gaman að honum fyrir fljótfærni hans, fum og mismæli. Jón lektor var góður kennari og mesti gæðamaður. Annar kennarinn var Hallgrímur Scheving (f. 13. júlí 1781, d. 31. des. 1861) hann var langatkvæðamestur kennaranna, fastlyndur og geðríkur, kjarkmikill og fornmannlegur í sjón og reynd, hann var mjög skyldurækinn maður, vandlátur kennari og hin öruggasta stoð skólans, hann var siðavandur mjög en þó mikils virtur af öllum skólasveinum. Einn af lærisveinum hans lýsir honum svo: »Þegar hann kom inn í skólann með hina latínsku rithöfunda undir hendi, var eins og rómversk alvörugefni sæti á svip hans; enda kom þá optast einhver alvörufull breyting á hin ungu hjörtu í brjóstum lærisveina hans. En þrátt fyrir þessa alvörugefni brá hann stundum fyrir sig og það í tímunum sjálfum hæglátri glaðværð; þótti þá lærisveinum hans sem ský drægi frá sólu, og að sjá hann brosa álitu þeir sem merki þess, að þá væri mál til að brosa. Það var líka furða, hversu hann gat, fremur öllum hinum kennurunum á Bessastöðum, tekið þátt í leikum lærisveina. Varla aldrei var þar haldin svo bændaglíma, að doktor Scheving horfði eigi á til enda; vakti nærvera hans ekki lítið kapp hjá lærisveinum, er þeir vissu að þar horfði á þá einhver mesti glímumaður á fyrri árum, og svo eymdi eptir hjá honum af gamalli glímulöngun og glímulagi, að ósjálfrátt bar hann stundum fæturna eptir því, sem hann sá að leggja skyldi á glímubrögðin. Með því að taka þannig hlutdeild í skemtunum skólapilta ávann hann sjer hylli þeirra og innilega velvild, sem hans hversdagslega alvörugefni hefði annars trauðlega útvegað honum. Doktor Scheving elskaði skól-

ann svo af hjarta, að hann mátti ekki einu sinni vita að skólapiltur fjelli til jarðar fyrir utanskólamanni«.[1]) Dr. Pjetur Pjetursson segir um Scheving: »skylduræki hans og áhugi á framförum skólans var sameinuð næmri rjettlætistilfinningu. Þó æskualdurinn sje gjálífisaldur, er þó hjartað vant að vera óspilt á þeim aldri og á meðan er tilfinningin fyrir hinu rjetta næm og lifandi. Þess vegna er það eðlilegt, þó æskumaðurinn beri sjerlega traust til þess kennara, sem hann veit að hlutdrægnislaust vill gefa hverjum sitt og láta hvern einn ná rjetti sínum, og þetta var eitt með öðru sem ávann Dr. Scheving heiður og hylli lærisveina skólans, að þeir vissu, að eins og hann gekk ríkt eptir, að hver einn gerði skyldu sína, eins átti sjerhver hjá honum vísa vörn og vernd, væri rjetti hans í einhverju misboðið. En eins og hann vildi gæta rjettar hins einstaka, eins varði hann og jafnan rjett skólans yfir höfuð eptir því sem embættisstaða hans frekast leyfði. Og það, sem hann áleit rjett vera í hverjum hlut, varði hann með einurð og djörfung, hverjir sem í hlut áttu, hvort heldur það voru æðri eða lægri«. Scheving var ágætur málfræðingur í latínu og íslenzku og í alla staði hinn merkasti maður. Sveinbjörn Egilsson (f. 6. marz 1791, d. 17. ág. 1852) og Björn Gunnlaugsson (f. 28. sept. 1788, d. 17. marz 1876) voru ágætir vísindamenn, góðir kennarar og mestu gæðamenn, en stjórn á unglingum ljet þeim miður, enda þurfti ekki á því að halda á Bessastöðum meðan Scheving hjelt í taumana. Sveinbjörn var sem kunnugt er einn hinn lærðasti fornfræðingur, sem Ísland hefur átt, ritsnillingur og skáld, og Björn Gunnlaugsson var alþekkt mikilmenni í stærðfræði og stjörnufræði, orti Njólu, mældi Ísland o. s. frv. Það voru því engin smámenni sem skólanum stýrðu. Um þetta leyti var Þorgrímur

1) Þjóðólfur III, 1850 bls. 220. Dr. Pjetur hjelt ræðu yfir Hallgrími Scheving látnum 1862 og er hún prentuð í ritlingi sem heitir »Tvær líkræður« Reykjavík 1879; í þessari ræðu er Dr. Scheving mjög vel lýst.

Tómásson († 1849) skólaráðsmaður, hann var atorkumður og mikið í hann spunnið að mörgu leyti, hjálpsamur og raungóður, en var harðlyndur og ráðríkur, hrottalegur og ófyrirleitinn þegar því var að skipta, og svakalegur við drykk[1]. Þótti piltum vistarveran hjá honum ekki alltaf hin bezta, fæði illt og af skornum skammti, og aðbúnaður allur ljelegur, en menn voru þá litlu vanir og sættu sig við flest[2].

Eitt hið þýðingarmesta afrek Bessastaðaskóla á þessu tímabili var viðreisn íslenzkrar tungu á 19. öld, þaðan rann sú alda, er síðan óx, umskapaði íslenzkar bókmentir, og hafði hin mestu áhrif á íslenzkt þjóðerni. Eggert Ólafsson var hinn fyrsti, sem fann til þess á miðri 18. öld, að íslenzkunni var hætta búin og brýndi fyrstur fyrir löndnm sínum að vanda málið, en Íslendingar nutu hans ekki lengi. Aðrir tóku þá við er hann hætti, einkum eptir að gömlu Félagsritin fóru að koma út undir umsjón og stjórn Jóns Eiríkssonar. Jón Eiríksson, einn af hinum mestu mönnum, sem Ísland hefir átt, hafði smekk fyrir góðu máli og málið á Félagsritunum er miklu betra en menn áður höfðu átt að venjast, og miklu betra en mál Magnúsar Stephensens síðar. Því miður leið lærdómslistafjelagið undir lok eptir dauða Jóns Eiríkssonar, mest fyrir sorglegt sundurlyndi og regluleysi ungra Íslendinga í Höfn. Framan af öldinni áttu Íslendingar þó alltaf einhverja rithöfunda,

1) Svo sagði Magnús Eiríksson mjer, að það hefði jafnan orðið æði hávaðasamt og slarkfengið á Bessastöðum þegar Bjarni assessor á Gufunesi heimsókti Þorgrím vin sinn og þeir sátu við drykkju, því báðir voru stórir við öl. Þorgrímur var ráðríkur og fannst mikið til sín og þótti jafnvel öll ábyrgð um skólans hag hvíla á sjer. Eitt sinn kom P. F. Hoppe stiptamtmaður suður að Bessastöðum til þess að skoða skólann, gekk stiftamtmaður með Jóni lektor og leit eptir ýmsu, en Þorgrímur gullsmiður gekk á eptir þeim, talaði fram í og var málskrafsmikill, þangað til Hoppe snögglega sneri sjer við og hrópaði: »Hold Mund!« Þá þagnaði Þorgrímur en piltum var skemmt.

2) Safn til sögu Íslands IV. bls. 89—90.

sem rituðu lipurt og tiltölulega hreint mál eins og t. d. Sveinn Pálsson, Hannes Finnsson, Jón Espólín o. fl. En hin verulega umbót, sem gagntekur allar bókmenntirnar, kemur frá Bessastöðum, einkum frá hinum mikla snillingi Sveinbirni Egilssyni og svo mun dr. Scheving einnig hafa haft mikil áhrif. Endurbótin á íslenzkri tungu mundi aldrei hafa getað rutt sér svo fljótt til rúms, ef hún hefði eigi komið frá skólanum; það voru áhrif Bessastaða-kennaranna á hinn menntaða æskulýð, sem mestu rjeðu, þó voru áhrif þessi meira innifalin í eptirdæmi en kennslu, því kennslan í þeirri grein var mjög lítil á Bessastöðum. Björn Gunnlaugsson(!) kendi íslenzku og öll kennslan var í því fólgin að neðri bekkingar voru látnir einu sinni í viku snara einhverri danskri klausu á íslenzku. Þó eru framfarirnar auðsjeðar á flestu, sem skrifað var fyrir miðja öldina. Síðan tók Fjölnir við og þar var það lipurð og fegurðartilfinning Jónasar Hallgrímssonar, sem mestu rjeði, og svo málfræðisleg greind Konráðs og leiðbeiningar. Þó mun optast vera of mikið gjört úr áhrifum Fjölnis; um sama leyti og litlu síðar rísa upp margir íslenzkir rithöfundar sem skrifa fallegt og vandað mál og geta þeir ekki hafa lært það af Fjölni, þeir byggðu á Bessastaða-kennurunum og þeim málhreinsunar-anda sem þá var útgenginn frá skólanum. Um það leyti vakti líka fornfræðafjelagið í Kaupmannahöfn mikinn áhuga á fornmálinu, fornfræði og íslenzkum sögum. Á þeim tímum (milli 1840 og 50) játuðu menn líka fúslega að endurbót íslenzkunnar væri skólanum að þakka. Í nýjum Fjelagsritum 1849 er komizt svo að orði[1]: »Það atvik undirbjó einnig að vorri hyggju viðreisn móðurmáls vors næsta mikið þegar þeir Hallgrímur Scheving og síðar Sveinbjörn Egilsson gjörðust kennarar við skólann á Bessastöðum, að vísu var þar aldrei kennt íslenzkt mál svo að teljandi væri, en þessir menn voru ekki að eins betur að

1) Ný Fjelagsrit IX, bls. 72.

sjer i íslenzkri tungu en allir samtíðarmenn þeirra, heldur ólu þeir einnig í brjósti sjer svo lifandi virðingu og ást á móðurmáli sínu og höfðu slíkt yndi af að vekja sömu tilfinningu hjá þeim lærisveinum, sem sinntu því, að það gat ekki orðið ávaxtalaust og varð það ekki, margir þeirra Íslendinga, sem á hinum seinni árum hafa gjörzt forgöngumenn að efla og endurbæta málið með ritum sínum og vandað það mest sjálfir, hafa einmitt verið í nánum kunningsskap við þá og handgengnir þeim úr skóla«. Ástin á móðurmálinu er augljós grundvöllur flestra ritgjörða, er ungir Íslendingar skrifuðu í þá daga og það er auðsjeð á hinum elztu ritgjörðum Pjeturs Pjeturssonar, að hann hefir mjög gjört sjer far um að vanda málið og skrifa það hreint og lipurt.

Hinn 16. júní 1827 útskrifaðist Pjetur Pjetursson úr Bessastaðaskóla með bezta vitnisburði, en Brynjólfur bróðir hans útskrifaðist árinu eptir. Hina næstu tvo vetur dvaldi Pjetur Pjetursson á Norðurlandi og fjekkst þá mest við kennslu bæði heima á Víðivöllum og á Geitaskarði. Um sumarið 1829 sigldu þeir báðir bræðurnir Pjetur og Brynjólfur til háskólans og var Pjetur skrifaður í stúdentatölu 24. október 1829. Pjetur tók 1. próf þá um veturinn 16. apríl 1830 með lofi og annað próf 23. október s. á. líka með bezta vitnisburði[1]).

Meðal hinna yngri landa í Kaupmannahöfn var þá mikill flokkur framúrskarandi manna, sem höfðu síðar mikil áhrif á framfarir Íslands á 19. öld. Hið fjöruga samlíf milli þessara ungu manna hlýtur að hafa haft vekjandi og hvetjandi áhrif. Sú kynslóð ungra manna, sem útskrifaðist úr Bessastaðaskóla á árunum 1825—35, ber höfuð og herðar yfir flesta, ef ekki alla, námsmannaflokka, sem síðar hafa farið til háskólans. Tómas Sæmundsson útskrifaðist úr skóla með Pjetri Pjeturssyni 1827, Baldvin Einarsson árinu áður, Brynjólfur Pjetursson og Bjarni Jónsson rektor komu til Hafnar 1829,

1) P. P. fjekk í öðru prófi 5 præ, 3 laud og 1 haud.

Konráð Gislason, Magnús Eiríksson og Oddgeir Stephensen 1831, Jónas Hallgrímsson 1832, Jón Sigurðsson 1833, Jón Hjaltalín og Páll Melsted 1834, Jón Pjetursson 1835 o. s. frv. Það er eptirtektavert, hve ungir íslenzkir námsmenn í Kaupmannahöfn þá eru andlega þroskaðir, hver sem les hinar mörgu ritgjörðir um almenn mál, sem þessir námsmenn rituðu á árunum 1825—45, hlýtur fljótt að sjá, að þeir, hvað þroskaða hugsun snertir, standa miklu framar en flestir háskóla-stúdentar á sama reki síðar meir. Hver sá, sem þekkir til fullnustu störf og ritgjörðir þessara manna, mun finna hjá þeim vísirinn til flestra þeirra framfara, sem síðar eru orðnar.

Um Hafnarveru Pjeturs Pjeturssonar á námsárunum vitum vjer nú lítið, stúdentalífið mun að hinu ytra hafa verið líkt því sem síðar var, nema hvað menn almennt í þá daga voru lítilþægari í kröfum sínum til lífsins en nú er orðið. Pjetur stúdent bjó um tíma á Christianshavn í kvistherbergi saman við Geir Bachmann († 1886) er þeir báðir fengu mislinga; Geir fyrst og stundaði Pjetur hann; áttu þeir mjög illt og örðugt, því herbergið var svo hrörlegt, að þar rigndi og snjóaði inn um rifurnar, þegar úrkoma var, en ekkert fje var fyrir hendi til þess að fá sjer betri hjúkrun og húsakynni.

Þegar Pjetur Pjetursson hafði tekið hin fyrstu lærdómspróf, tók hann að lesa guðfræði af miklu kappi og var mjög ástundunarsamur, sagði hann síðar svo sjálfur frá, að hann hefði gjört sjer það að reglu, að láta engan dag líða svo, að hann ekki læsi, því hann minntist þess jafnan, að hver dagur var til útgjalda fyrir foreldra hans. Það hefði heldur ekki verið hægt fyrir annan en mjög iðinn mann að afkasta svo miklu og taka jafngott próf á jafnstuttum tíma. Í guðfræði naut hann kennslu prófessoranna J. Möller, H. N. Clausen og M. H, Hohlenberg. Sumarið 1831 brá hann sjer snöggva ferð til Íslands og tók um haustið próf í hebresku með lofi. Þá um veturinn hafði hann tilsögn

Chr. Th. Engelstofts, sem síðar (1833) varð prófessor í guðfræði og biskup, í útskýringu Nýja Testamentisins, og sagði Pjetur biskup, að Engelstoft hefði fyrstur vakið hjá sjer áhuga á sjálfstæðum vísindalegum rannsóknum, voru þeir jafnan góðkunningjar eptir það. Pjetur biskup bar jafnan mikla virðingu bæði fyrir Chr. Engelstoft, og fyrir Laurids Engelstoft, sem líka var hinn lærðasti maður, sögumaður mikill og vinveittur Íslendingum[1]; skrifaðist hann síðar á við þá báða. Hjá Hohlenberg og Clausen tók Pjetur Pjetursson þátt í skriflegum æfingum og fjekk jafnan mjög góða vitnisburði fyrir úrlausnir sínar. Kenningar heimspekingsins F. Chr. Sibbern höfðu og all-mikil áhrif á hann, sem aðra unga menn í þá daga, en það dró nokkuð úr, að unglingar á ýmsan hátt gjörðu sjer dælt við Sibbern, af því hann var nokkuð sjervitur og utan við heiminn.

Hinn 14. aprílmán. 1834 tók Pjetur Pjetursson próf í guðfræði með bezta vitnisburði og með sjerstöku lofi fyrir hið skriflega próf. Engelstoft, sem þá var orðinn háskólakennari sagði, er hann hafði lesið hinar skriflegu úrlausnir Pjeturs Pjeturssonar, að hann mundi fá »laud« þó hann þegði í hinu munnlega, og um hina skriflegu trúfræði (dogmatik) sagði hann, að það væri hin bezta prófritgjörð í þeirri grein, sem hann hefði sjeð við háskólann. Þess má geta hjer, að Pjetur Pjetursson kynntist á þeim árum hinum mikla málfræðing N. Madvig, sem þá var upprennandi stjarna í latneskri málfræði og nýlega orðinn háskólakennari. Einu sinni í viku kom Pjetur Pjetursson saman við Madvig og fáeina aðra unga menn, og var þá aldrei töluð nema latína, höfðu þeir þessar samkomur sjer til æfingar í latínu. Dáðist Madvig síðar að því, hve liðugir þeir höfðu verið í latínu Pjetur biskup og Konráð Gíslason og hafði

1) Um hann segir Dr. Pjetur í Landstíðindum II. bls. 207: »hann var tryggur vin og velgjörðamaður Íslendinga og talaði jafnan máli íslenzkra stúdenta og hjelt í hönd með þeim meðan hann var í háskólastjórninni«.

hann vonað, að Konráð mundi leggja fyrir sig latneska málfræði[1].

Að afloknu embættisprófi fór Pjetur Pjetursson heim til Íslands til foreldra sinna og fekkst við kennslu hinn næsta vetur, en hinn 17. nóvember 1835 gekk hann að eiga heitmey sína Önnu Sigríði Aradóttur læknis á Flugumýri[2] og dvöldu þau hjón þar hinn næsta vetur. Hefur kand. Pjetur Pjetursson þessa vetur eflaust fengizt við vísindaleg störf og undirbúið rit þau, er hann síðar gaf út. Auk þess prjedikaði hann við og við og æfði sig í barnaspurningum. Í brjefabók Skagafjarðar prófastsdæmis 1824—42 eru enn til vitnisburðir um kand. Pjetur Pjetursson; Jón Konráðsson segir, að hann sje í miklu afhaldi, vel lærður og mikið góðmenni, en síra Benedikt Vigfússon á Hólum segir, að Pjetur hafi »prjedikað með snilli«. Hinn 1. ágúst 1836 andaðist Jón Espolín sýslumaður og sagnaritari, hann var aldavinur Pjeturs prófasts á Víðivöllum og dó í kynnisför þangað; Pjetur kandidat var einn af þeim, sem hjelt ræðu við útför hans[3], og nokkru síðar samdi hann skrá yfir eiginhandarrit Espolíns[4]. Sumarið 1836 fór Pjetur Pjetursson suður til Reykjavíkur og tók þá prestsvígslu 17. júlí til Breiðabólsstaðar á Skógarströnd, en samtímis mun hann þó hafa sótt um Hrafnagil[5].

---

1) Löngu síðar heimsótti Pjetur biskup Madvig í Kaupmannahöfn, er hann fór utan til vígslu 1866, og töluðu þeir þá margt um æskuárin. Madvig komst þá meðal annars svo að orði, að mjög hefði sjer þótt leiðinlegt, að ekkert skyldi hafa orðið úr Konráði Gíslasyni! Konráð var þó þá orðinn embættisbróðir Madvigs og prófessor í norrænni málfræði, en það þótti Madvig ekki neitt sjerlega merkileg fræði.

2) Ari Arason á Flugumýri f. 1764, hafði verið fjórðungslæknir í Norðlendingafjórðungi, sagði af sjer 1820, dó 1840.

3) Saga Jóns Espolíns. Kmh. 1895 bls. 181—182.

4) Hún er prentuð í Sýslumannaæfum Boga Benediktssonar I. bls. 426—430.

5) Brjef til L. Kriegers frá Pjetri Pjeturssyni dags. 1. sept. 1836. Lbs. nr. 166. Fol.

## III. Pjetur Pjetursson prestur á Helgafelli og Staðastað (1837—1847). Ársrit presta í Þórnesþingi.

Hinn 17. júli 1836 var Pjetur kandidat vígður í Reykjavík til Breiðabólsstaðar á Skógarströnd af Steingrími biskupi Jónssyni, þangað hafði árinu áður síra Ásmundur Jónsson (síðar í Odda) verið vígður og kom hvorugur þeirra þó þangað til að þjóna sóknunum. Má sjá að þessir tveir ungu menn hafa verið í áliti, er annar strax fjekk Odda, en hinn Staðastað, og voru þó báðir óreyndir eða lítt reyndir sem prestar. Næsta ár, hinn 22. april 1837, fjekk síra Pjetur Helgafell og síðar á sama ári (26. ágúst) Staðastað; um vorið 1837 settist hann að á Helgafelli og þjónaði því brauði tæplega ár. Staðurinn var allur í niðurníðslu og húsakynni mjög ljeleg, rjett komin að falli; átti Pjetur prestur í nokkru stímabraki út úr úttekt og álagi svo leita varð biskupsúrskurðar. Helgafell var þá metið 97 rd. 8 sk. og var þar í afgjald af Hlíðarhúsum og Ánanaustum í Reykjavík[1]). Það var mjög örðugt fyrir síra Pjetur að haldast í húsum á Helgafelli um veturinn sakir kulda, en næsta vor flutti hann búferlum að Staðastað, svo aldrei kom til þess að hann þyrfti að byggja upp staðinn á Helga-

1) Ólafur bóndi Ólafsson gaf Helgafellskirkju Hlíðarhús með Ánanaustum (F. J. Hist. eccles. Isl. III, bls. 510), en með konungsúrskurði 21. febrúar 1835 (Lovs. f. Isl. X, bls. 602) voru

felli að fullu[1]); skilaði hann af sjer kallinu í hendur síra Jóni Guðmundssyni hinn 12. júlí 1838. Veitingu fyrir Staðastað fjekk síra Pjetur, sem fyrr var getið, 26. ágúst 1837 og á ný konunglega staðfestingu fyrir brauðinu 21. janúar 1842; prófastur varð hann í Snæfellsnessýslu 1838, en síra Jón Guðmundsson á Helgafelli gegndi prófastsstörfum þegar síra Pjetur var fjarverandi.

Vorið 1838 flutti síra Pjetur að Staðastað og varð sama ár prófastur í Snæfellsnessýslu; þar var síra Pjetur í 10 ár prestur, þó með mörgum frátöfum sakir innanlandsferða og siglinga. Á Staðastað settu þau hjón bú 1838, þó af litlum efnum, gekk búskapurinn þá optast fremur tregt. Anna Sigríður fyrri kona Pjeturs prófasts var mikil fríðleikskona, gæf og góðlynd[2]), en lítill skörungur og engin búkona; þó síra Pjetur væri ráðdeildarmaður, þá hafði hann á þeim árum svo miklar frátafir, að hann gat lítt sinnt búinu. Það var síra Pjetri til mikillar aðstoðar hin fyrstu búskaparár, að hann hafði próventufólk, sem lagði vel til búsins. Þegar þau hjón Pjetur og Anna fluttu suður að Staðastað, fylgdu með þeim að norðan vel efnuð, barnlaus prestshjón, sem höfðu tekið ástfóstri við síra Pjetur og Önnu Sigríði konu hans, síra Sigurður Jónsson uppgjafaprestur frá Goðdölum og Elín Magnúsdóttir kona hans. Síra Sigurður var ættaður norðan úr Þingeyjarsýslu, hann var sonur síra Jóns Sigurðssonar prests á Garði í Kelduhverfi († 1796), móðurbróðir Þórðar Jónassonar

---

jarðir þessar lagðar undir Reykjavíkur-kaupstað með því skilyrði að kaupstaðurinn árlega greiddi Helgafellspresti 9 vættir og 30 fiska, en kirkjan á Helgafelli skyldi halda óskertum rekarjetti sínum fyrir landi jarðarinnar.

1) Daði Níelsson segir að síra Pjetur hafi tekið við staðnum á Helgafelli niðurníddum, »en byggði á næsta hausti mikla og vandaða baðstofu með aðstoð sóknarmanna sinna og komst hann brátt í virðingu hjá þeim« (Hdrs. J. Þorkelss. nr. 37 fol. bls. 579).

2) Pjetur prófastur getur þess opt í brjefum sínum, hve ástúðleg eiginkona hún sje.

háyfirdómara, og var fæddur 1770. Þegar Sigurður Jónsson hafði lokið námi í Hólaskóla, varð hann aðstoðarprestur hjá síra Magnúsi Jónssyni á Saurbæ í Eyjafirði († 1807) og kvongaðist dóttur hans Elínu. Þegar síra Magnús sagði af sjer 1801 fjekk síra Sigurður brauðið og hjelt því til 1822, þá flutti hann að Goðdölum, var þar prestur í 16 ár og sagði af sjer 1838; s. á. fluttust þau hjón þaðan vestur að Staðastað og dvöldu hjá síra Pjetri fram úr því. Son höfðu þau hjón átt, síra Magnús Sigurðsson á Reynistað (f. 1800)[1], en hann drukknaði í Svartá í Tungusveit »af ógætilegri reið« 1827. Síra Magnús hafði beðið Önnu Sigríðar en ekki fengið, hún mun þá hafa verið leynilega lofuð síra Pjetri; snemma hefir kviknað æskuást milli nábúabarna, því örstutt er á milli Flugumýrar og Víðivalla og hafa þar eflaust opt verið samgöngur. Síra Sigurður galt með sjer á ári 20 spesíur, en Elín gaf síra Pjetri (með testamentisgjörningi 2. september 1840) próventu sína, helming búsins. Síra Sigurður þjónaði tvisvar brauðinu í fjarveru Pjeturs prófasts er hann sigldi 1839—41 og 1843—44. Þegar Dr. Pjetur flutti til Reykjavíkur stóð til að þau hjón færu suður með honum, en þau voru þá sakir ellilasleika hvorugt ferðafær, og útvegaði hann þeim samastað á Rauðkollsstöðum, því þar gátu þau fengið góða hjúkrun hjá Þórði bónda og dannebrogsmanni Jónssyni († 1866), en sonur hans Þórður Þórðarson hafði lært skrift og reikning hjá síra Pjetri, og Ásdís Gísladóttir kona hans hafði verið þjónustustúlka á Staðastað. Á Rauðkollsstöðum dó síra Sigurður 78 ára gamall, hinn 8. júní 1848 og Elín kona hans 12 árum síðar (1860). Síra Sigurði er lýst svo, að hann hafi verið atorku- og dugnaðarmaður við búskap, fjörmaður og iðinn, fljótgeðja nokkuð og fljótfær, en stillti sig vel, hann var nokkuð hneigður til bókmennta

1) Daði Níelsson fróði segir, að síra Magnús hafi verið »pokaprestur og kallaður Magnús hinn græni«. (Hdrs. J. Þork. nr. 37 fol. bls. 582).

og hafði auk skólalærdóms lært töluvert í þýzku og ensku[1].

Daði Nielsson lýsir Önnu Sigríði á þenna hátt í »Prestaæfum«: »Hún var með fríðari konum, bjarthærð og fjell hárið að belti niður, hún var góðlát upp í eyru hverjum manni, en í meðalmáta einlæg, kímin máske nóg, aðsjál og skrautgjörn«[2]. Aptur segir Þorsteinn Loptsson, sem þá var á Staðastað að hún hafi verið »afbragðsfríð kona og hugljúfi allra, og manni sínum svo eptirlát og ástúðleg eiginkona að annálsvert væri«.

Samfarir þeirra Önnu Sigríðar og Péturs prófasts voru hinar ástúðlegustu, en urðu ekki langar, hún andaðist barnlaus á Staðastað á uppstigningardag 1839 eptir $3^1/_2$ árs hjónaband.

Daði Nielsson segir, að Anna Sigríður hafi orðið veik litlu eptir að hún kom að Staðastað, hafði Oddur Hjaltalín með miklum ráðum og dáð reynt að lækna hana, en fjekk ekki aðgjört. Hún var jörðuð að Staðastað 3. maí 1839 »með dæmafárri viðhöfn og óþarfri« segir Daði, »hafði hún sjálf sagt fyrir útför sinni áður hún andaðist, en Pjetur prófastur setti prýðilegan minnisvarða á leiði konu sinnar«[2]. Síra Sigurður hjelt húskveðju og ræðu yfir Önnu Sigríði og eru þær prentaðar[3]. Síra Pjetur tók sjer eðlilega þenna missi mjög nærri og óþreyjan á heimilinu mun meðal annars hafa hvatt hann til siglingar til þess að leita sjer afþreyingar með vísindalegum störfum; tvo hina næstu vetur (1839—41) dvaldi Pjetur prófastur í Kaupmannahöfn og á-

1) Ræður við útför prestsins síra Sigurðar Jónssonar frá Staðastað. Reykjavík 1849, 18 bls. 8vo.

2) Hdrs. Jóns dr. Þorkelssonar nr. 37 fol. bls. 578—579. Daði er stundum æði illhryssingslegur í dómum sínum, svo þá er ekki altaf að marka. Mælt er að Pjetur prófastur léti búa lík konu sinnar svo til moldar að það hvíldi í kistunni á koddum úr hreinsuðum æðardún. Löngu síðar ljet hann smíða grindur úr rauðaviði kringum leiðið.

3) Tvær fáorðar líkræður, fluttar við jarðarför Madame sálugu Önnu Sigríðar Aradóttur. Kmhöfn 1840, 16 bls. 8vo.

vann sjer 11. maí 1840 við háskólann nafnbót sem »Licentiatus Theologiæ« og hafði enginn Íslendingur hlotið þann heiður fyrri, en hinn næsta vetur ljet hann prenta kirkjusögu Íslands (1740—1840).

Þegar Pjetur prófastur kom úr siglingu vorið 1841 og átti að taka við embætti og búsforráðum á Staðastað hugði hann aptur til kvonfangs. Þá voru þær Staðarfellssystur, dætur Boga Benediktssonar sagnaritara og Jarðþrúðar Jónsdóttur, taldar beztur ráðahagur vestan lands. Hildur var þá fyrir löngu gipt Bjarna Thorarensen amtmanni, Solveig Oddi lyfsala, en Ragnheiður átti M. Smith kaupmann, síðar konsúl í Reykjavík, en Jón Pjetursson háyfirdómari giptist síðar (1848) Jóhönnu yngstu systurinni. Pjetur prófastur bað Sigríðar Bogadóttur og fjekk hennar, þau giptust í ágústmánuði 1841 og varaði sambúð þeirra nærri í 50 ár, þau eignuðust 6 börn, en að eins 3 þeirra komust til fullorðinsára.[1])

Sigríður Bogadóttir var hin mesta búkona, og komst nú búskapurinn á Staðastað í annað horf en

---

1) Í þá daga urðu allir þeir, sem fóru úr einni sýslu í aðra, að hafa passa. Þegar Sigríður Bogadóttir fór frá Staðarfelli hafði hún eðlilega passa sem aðrir, og af því hann er enn til, set jeg hann hjer til gamans og fróðleiks:

»Christian Magnusen K. H. sýslumaður í Dala Sýslu Gjörir vitanlegt, að veleðla jómfrú Sigríður B. Benediktsen frá Staðarfelli, innan Dala Sýslu víkur nú þaðan alfarin til Garða þingsóknar innan Snæfellsnessýslu með sínu heiðarlega standi samboðnu mannorði og civil friheitum, hvar fyrir velnefndri jómfrú hjermeð meðdeilist þessi sýslupassi, uppá hvörn viðkomandi sóknarpresti mætti því þóknast að teikna sitt geistlega attesti«.
Skarði þann 10da august 1841.
C. Magnusen.

»Ofannefnd S. T. Jómfrú Sigríður Bogadóttir Benedictsen 23 ára, revaccineruð, sem nú hið bráðasta ásetur að víkja hjeðan frá sókn til Staðarstaðar, er geistlega frjáls, og að minni vitund öldungis óhindruð hjer frá prestakalli til að byrja áformaðan ektaskap, hvörn góður Guð blessi og farsæli í bráð og lengd.«
Á embættisferð að Staðarfelli þann 22. Aug. 1841.
Þorleifur Jónsson sóknarprestur.

áður hafði verið. Bogi á Staðarfelli gaf hverri dætra sinna þúsund dali í heimanmund, og þótti það mikið í þá daga, en fje þetta gekk að miklu leyti upp í skuldir og til þess að auka búið á Staðastað, sem tiltölulega var lítið og fátæklegt. Gat frú Sigríður þess síðar, að sjer hefði þótt mikil viðbrigði að koma úr allsnægtum á Staðarfelli í fátækt á Staðastað, en hún ljet ekki sitt eptir liggja til þess að reyna að rjetta við efnahaginn, því þar var dugnaður og hagsýni samfara. Almennur efnahagur Pjeturs prófasts batnaði þó eigi að neinum mun fyrst um sinn, af því hann stóð í þeim stórræðum, sem enginn annar fátækur sveitaprestur nokkurn tíma mun hafa ráðist í, að sigla tvisvar til Kaupmannahafnar til þess með mikilli fyrirhöfn að ávinna sjer vísindalegar nafnbætur við háskólann. Til þessara siglinga gekk mikið fje, sem síra Pjetur varð að lána, og komst hann á þeim árum í stórskuldir, og þurfti síðar langan tíma og mikla ráðdeild til þess að borga þær, og hafði hann ekki lokið þeim fyrr en löngu eptir að hann var fluttur til Reykjavíkur. Veturinn 1843—44 dvaldi síra Pjetur aptur í Kaupmannahöfn, og ávann sjer þá doctorsnafnbót í guðfræði, hafði hann verið tregur til þeirrar siglingar fyrir kostnaðar sakir, og velti því lengi fyrir sjer, hvort hann ætti í það ráðast, og þakkaði hann það síðar upphvatningu frú Sigríðar konu sinnar, að nokkuð varð af ferðinni.

Dr. Pjetur hafði snemma hug á að komast að latínuskólanum, og í brjefi dags. 24. febrúar 1842, biður hann Finn Magnússon, að sækja um lectorsembættið fyrir sig, ef það losnaði, og mun Finnur hafa gjört það 1844 eða 1845. En þá skrifar dr. Pjetur prófessor Finni (15. febrúar 1845): »eg heyri sagt, að Bardenflet vilji hafa prófast Árna Helgason (fyrir rector) og vík eg fúslega úr vegi, og hefi nú sótt um Reykjavíkurbrauð-

ið«; en hann fjekk það ekki heldur, sem síðar mun sagt verða.[1]

Meðan Pjetur Pjetursson var prestur á Staðastað var hann sístarfandi, fjörið og þrekið voru samfara, það gegnir undrum, hve miklu hann þá fjekk afkastað. Hin vísindalegu rit hans, sem út komu á árunum 1840—44 eru svo yfirgripsmikil, að það er ómögulegt að hann hafi framkvæmt þau öll á þeim tíma, hefir hann eflaust á námsárunum meðan hann dvaldi í Höfn verið farinn að safna til þeirra, því á Staðastað gat hann ekki átt kost á að nota heimildarrit þau og skjöl, er hann þurfti. Þegar hann var heima í prófastsdæmi sínu vantaði heldur ekki dugnað í embættistörfum, ljet hann sjer mjög annt um menntun sóknarmanna og kom á samtökum milli presta, svo þar komst miklu meira fjör í andlega lífið en menn þar um slóðir áður höfðu sjeð dæmi til. Allar þessar tilraunir kulnuðu þó út þegar hann flutti úr sýslunni. Síra Pjetur stofnaði lestrarfjelag í Staðarsveit og starfaði með Bjarna Thorsteinsen amtmanni að stofnun og aukning bókasafns Vesturamtsins, rituðu þeir mörgum fjelögum erlendis um bókastyrk og sömdu skrá yfir bókasafnið.[2]) Á þeim árum voru gjörðar ýmsar tilraunir til að stofna styrktarfjelög fyrir hið íslenzka Bókmenntafjelag í ýmsum hjeruðum á Íslandi, þar eð menn ætluðu að slík fjelög með laglegri forstöðu gætu orðið til hinna mestu nota á margan hátt til að efla samheldni og bóklega menntun í hjeruðunum og jafnframt til styrks fyrir Bókmenntafjelagið, en ekki heppnaðist neinum, neinstaðar á Íslandi, að koma á slíku fjelagi, nema Pjetri prófasti, en fjelag þetta liðaðist aptur í sundur er hann

---

1) Bréf Dr. Péturs til Finns prófessors Magnússonar eru geymd í brjefasafni Finns í Ríkisskjalasafninu í Kmhöfn.

2) Skýrsla um Vesturamtsins almenna bókasafn í Stykkishólmi samin af B. Thorsteinson og P. Pjeturssyni. Rvík 1847. 39 bls. 8vo.

fór frá Staðastað.[1]) Fornfræðafjelagið styrkti hann líka með því að útvega því fjelaga og 1841 var hann ásamt Birni Gunnlaugsen og amtmönnunum Bjarna Thorarensen og Bjarna Thorsteinson kosinn í landfræðis- og fornfræðanefnd fyrir Ísland, en hvort sú nefnd hefur afrekað nokkru, vitum vjer ekki.

Það getur ekki hjá því farið, að Dr. Pjetur hefur stundum orðið að taka nærri sjer er hann stóð í svo miklum framkvæmdum, enda fjekk hann 1846 hættulegan blóðspýting. Í brjefi til Árna Helgasonar stiptsprófasts dags. 9. maí 1846 segir hann: »Opt má eg rembast við og blása í verkinn eins og illhveli, ef nokkru á að verða framgengt, enda hefi eg nú í hálfan mánuð legið rúmfastur í blóðspýting; en er þó nú kominn á fætur aptur. Okkar danski læknir, sem hefur skoðað mig innan með glerpípu sinni, eða stethoscoperað mig, segir, að blóðker í lungunum hafi sprungið og sje sárið eins og væn specía, líklega af Christians 8da«.

Árið 1845 stofnaði Dr. Pjetur prestafjelag í Þórnesþingi[2]) og ritaði og gaf út ársrit þess í tvö ár, (1846—47), en það dó líka út er hann fór úr hjeraðinu. Rit þetta var að mörgu leyti merkilegt og mun þess brátt nánar getið. Árið 1846 kom Pjetur prófastur á póstferðum um sýsluna milli allra presta í prófastsdæminu og hafði slíkt aldrei þekst þar áður. Póstur þessi hóf ferð sína frá Staðastað í byrjun hvers mánaðar og fór svo með brjef, bækur og böggla hringinn í kring til allra prestanna. Staðastaður hefur auðsjáanlega meðan Dr. Pjetur dvaldi þar verið miðdepill hins andlega lífs á Snæfellsnesi.

Hið fyrsta rit sem síra Pjetur ljet prenta heitir »Stutt ræðusnið«[3]) og kom út í Viðey 1839; ritlingur þessi

---

1) Fimtíu-ára afmælisrit Bókmenntafjelagsins. Kmhöfn 1867 bls. 46.

2) Gestur Vestfirðingur I, bls. 42—43.

3) *P. Pjetursson:* Stutt ræðusnið eða fáeinar hugvekjur ætlaðar prjedikurum. Viðeyjarklaustri 1839, 52 bls. 8vo.

er tileinkaður Steingrími biskupi og Pjetri prófasti á Víðivöllum, föður höfundarins. Bæklingurinn er fróðlegur og hefir inni að halda hugleiðingar um kennimannlegt embætti og leiðarvísir fyrir unga klerka, hvernig þeir skuli laga ræður sínar svo, að þær verði sem áheyrilegastar og áhrifamestar. Er enginn efi á því, að margir hefðu not af að lesa bækling þenna enn á vorum dögum, þar eru margar góðar bendingar og hugleiðingar. Málið á riti þessu er ágætt, hreint og lipurt og segir höf. þó í formálanum »þykir mjer íslenzka vísindamálið allerfitt og ógreitt yfirferðar, sem vonlegt er, þar sem vegir þess eru svo að kalla hjá okkur óruddir, einkum hvað heimspekina snertir, og hefi eg víða rekið mig á þetta, þegar jeg ætlaði að samþýða þesskonar hugmyndir eðli íslenzkunnar«. Yfirleitt á dr. Pjetur miklar þakkir skilið fyrir það, hve stórkostlega hann hefur bætt málið á íslenzkum guðsorðabókum, beri menn hinar eldri hugvekjur og prjedikanir, sem þá voru notaðar á hverju heimili, saman við hin fyrstu rit dr. Pjeturs, þá bera rit hans eins og gull af eiri af hinum eldri, þar sjest afarmikil breyting til batnaðar.

Hinn mikli framfarahugur, sem á þeim árum gagntók unga menn, svo þeir fremur en áður leituðust við að knýja þjóðina áfram til endurbóta í öllum greinum, lýsir sjer ekki sízt í »Ársriti presta í Þórsnesþingi«.[1]) Pjetur prófastur ritaði sjálfur meir en helming af tímariti þessu, ef ekki meir, og lýsir sjer í ritgerðum hans eldlegur áhugi á að vekja þjóðina úr gömlum doða og drunga; hann hvetur stjettarbræður sína til framkvæmda og dugnaðar og vill laga margt í þjóðlífinu, einkum á þeirri hlið, sem að honum sjálfum snýr í kirkjulífi og kennidómi, sjerstaklega lætur hann sjer annt um ytri kjör presta, af því hann sá, hve afarmikla þýðingu þau höfðu, eigi aðeins fyrir álit og þroska stjettarinnar, heldur

1) Ársrit samið og gefið út af prestum og aðstoðarprestum í Syðra-Þórsnesþingi, I.—II. Reykjavík 1846 og 1847. 8º. (IV+59 og IV+52 bls.). Ritdómur í Reykjavíkurpósti I, bls. 179—184.

og fyrir andlegan vöxt og viðgang kirkjulífsins. Takmarkinu vill hann ná með samtökum og fjelagsskap, hvetjandi samkomum og umræðum. Tímarit þetta er nú flestum ókunnugt og gætu þó margir enn á vorum dögum haft gott af að lesa það. Ritgjörðirnar eru samdar á góðu máli, liprar og liðugar. Til þess að sýna stefnu ritsins set jeg hjer kafla úr ritgjörðum Dr. Pjeturs. Útgefandinn byrjar ársritið með ljómandi herhvöt til Íslendinga um að vakna nú til meiri samtaka og framkvæmda:

»Það er komið upp í svo langvinnan vana fyrir okkur Íslendingum, að hver fari einförum og sje að pukra sjer, að flestir eru búnir að missa sjónar á öllum þeim hinum óteljandi gæðum sem samtök og fjelagsskapur leiða af sjer fyrir þá, sem ætla að koma einhverju til leiðar. Það mun þykja gífurlega mælt, en er þó dagsanna, að fjelagsandinn, sem þó er verndarengill allrar menntunar og framfara, er sofnaður hjá okkur, að þjóðlíf okkar er fyrir löngu út af dáið, og við göngum hver sína götu, flestir áhugalausir og afskiptalausir um það, hvort gata vor liggi áfram eða aptur á bak, eða hvort vjer sjálfir stöndum í stað eða okkur miði nokkuð á vegferðinni. Að sönnu getum við ekki komist hjá allri samvinnu við aðra meðan við ekki tökum fyrir okkur að leggjast út í Ódáðahraun eða öðrum óbyggðum, á meðan við erum í mannlegu fjelagi og höfum lög þau, sem með mörgu móti aptra okkur frá að komast á sundrungu, og það eru sum verk, sem ekki verða unnin án samtaka t. d. áralagið; við eigum ennþá málsháatt þann, sem segir, að margar hendur vinni ljett verk, en mun ekki margur þykjast góðu bættur þegar hann getur unnið einn og þarf hvorki að ljá öðrum hönd eða þiggja liðveizlu annara«.

»Því fer miður að þessu er þannig varið. Landslagið og búnaðarhættirnir, örbyrgðin og langvinn verzlunar-einokun eru búin að gera okkur þreklitla og áræðislausa bæði í líkamlegum og andlegum efnum, svo við

þorum hvorki sjálfir að ráðast í nokkurn hlut nje fara að annara ráðum, og lítum hornauga til hvers þess, er sýnir okkur ofan á vesæld okkar og hvetur okkur til samtaka og samvinnu. Það kynni nú einhver að segja, að athugasemd þessi eigi nú ekki lengur við, og þurfi ekki að vitna lengra en til alþingis til að sýna rökleysu hennar, því þar birtist fjelagsandi þjóðarinnar með fullu fjöri. Þetta væri nú öldungis satt, ef við allir í einu hljóði hefðum beðið konung vorn um að gefa okkur einhverja þess konar tilskipun, því við gætum nú ekki lifað einlífinu lengur. En — hjer er allt öðru máli að gegna. Alþingi er sett að boði konungs, en ekki fyrir okkar bænastað, og það er kunnugra en frá þurfi að segja, hvaða mótspyrnu gjöf þessi hefir mætt.[1]) Alþing er ekki vottur þess að fjelagsandi sje vaknaður hjá okkur, heldur er það gæzkurík tilraun konungs til að vekja hjá okkur fjelagsandann, og meðan þessi andi lifnar ekki í landinu sjálfu, þá er þingið eins og dauður drumbur, eins og beinagrind, sem hefir alla ytri sköpun og samtengingu, en vantar sálina, sem þó ríður mest á. En við því er

---

1) Bændur margir voru á þeim árum og síðar mjög óánægðir með alþingi, einkum af því þeir þurftu beinlínis að borga kostnaðinn. Árið 1849 neituðu bændur í Ölfus- og Selvogshreppum í einu hljóði á manntalsþingum að greiða alþingiskostnaðinn af þeim ástæðum »að kostnaði þessum væri skipað niður á landið öðruvísi en vera ætti og að alþingi hefði ekki unnið landinu gagn«. Fyrir þetta tiltæki voru þrír hreppstjórar settir af (Reykjavíkurpóstur III, 1849 bls. 145—146. Sbr. Þjóðólfur, II, 1850 bls. 139—40). Árið 1865 er þess jafnvel getið í Norðanfara (IV. bls. 29) að sú skoðun sje ekki óalgeng, að þingið sje »landplága, sem ekki verði undan komist«; í sama blaði (VIII, bls. 94) er 1869 talað um hvað illa gangi að flytja þingtíðindin út um landið og er það kennt »áhugaleysi landsmanna, sem sprottið er af ólund þeirra við og vantrausti á þinginu«. Árnesingar sömdu líka 1845 bænaskrá um það, að alþingi yrði haldið fyrir luktum dyrum. (Ný Fjelagsrit V. bls. 84; VI, bls. 19) og margt fleira skrifið mætti til tína frá þeim árum, ef þörf gerðist. Jónas Hallgrímsson segir í brjefi til Finns Magnússonar dags. Bessastöðum 18. oct. 1840 »konungsúrskurðurinn 20. maí þ. á hefir þó vakið umhugsun margra, en ekki skilur samt almenningur vel hvað um er að vera«.

ekki að búast, að nýir lífsstraumar spretti upp á alþingi og renni þaðan út yfir landið til að frjóvga og vökva það, ef við eins eptir sem áður stöndum aðgjörðalausir og störum og einblínum á alþingi, leitandi þaðan teikns einsog af himni, bíðandi eftir því, að þaðan fljúgi steiktar gæsir í munn okkur. Við verðum sjálfir að lifna við ef við viljum hafa nokkur not alþingis, þá verðum við að rísa upp af svefninum og hrinda frá okkur smámuna-andanum, en faðma og aðhyllast og glæða fjelagsandann hjá sjálfum okkur og öðrum alstaðar þar sem við sjáum nokkuð lífsmark með honum. Við verðum að taka hvert málefni, sem viðvíkur stöðu okkar eða almennings heillum, hugsa um það svo vandlega sem við getum og ræða og ráðgast um það við aðra«.

»Miðaldirnar hafa stungið okkur Íslendingum svefn-þorn, svo við höfum sofið fast og lengi, en þó hefðum við altaf getað heyrt hinn fagra frelsis-óm sögu vorrar, ef við hefðum rjett gefið gætur að honum. Opt hefir verið dimmt í landi hjer, en þó aldrei svo dimmt, að ekki hafi endur og eins brugðið fyrir bjarma upp af gullöld vorri og nú er farið að elda aptur og sól er farin að roða á fjöll, og nú getur gullaldarljósið skinið skært í hjörtum okkar og lýst okkur og leiðbeint okkur og sýnt okkur, hvernig vjer eigum að feta í fótspor feðra vorra með dáð og dugnaði, djörfung og framsýni. Við eigum að lesa sögur okkar, ekki einungis til að muna mannanöfn og ættartölur og einstök afreksverk, ekki heldur til að rígbinda hugann við fornöldina, heldur til þess vjer öruggari og vonglaðari getum rennt honum fram á leið til hins yfirstandanda og ókomna tímans. Í söguna eigum vjer að sækja fjörið og frelsið og þaðan eiga fyrirtæki vor sífellt að draga og drekka í sig nýjan lífsvökva, svo þau verði ekki kæfð og ofurliði borin af sipingsskapnum og sjervizkunni, afskiptaleysinu og tortrygninni, eigingirninni og öfundinni og öðru þesskáttar illgresi, sem allt of lengi hefir tímgast hjer í landi.

Snemma gekk hin fagra frelsissól okkar Íslendinga í æginn, í hið mikla djúp heimskunnar, hjátrúarinnar og ánauðarinnar. Nú er vonandi að nýr dagur sje runninn með alþingi hinu nýja, en vjer vitum að oss ber að vinna meðan dagur er, og það þeim mun hraustlegar og kappsamlegar sem nóttin hefir verið lengri. Verkefnið er mikið, margt og mikið liggur óunnið, en eigi okkur að verða nokkuð ágengt, hljótum við að hafa það sívakandi í minni, að margar hendur vinna ljett verk, ekki að eins í líkamlegum, heldur öllu fremur í andlegum efnum. Sá fær litlu afkastað, sem einsamall er að bjástra og berjast, hann þreytist fljótt, leggur árar í bát og lætur reka á reiðanum; en ef menn halda saman og eru samtaka í áreynzlunni, þá verða þeir hraustari og hugbetri og þá gengur langt um meira undan þeim«.

Það er efasamt hvort hljómfegri og mergjaðri hvöt til frelsis og samtaka hefir verið rituð á íslenzku, að minnsta kosti hefi jeg hvorki í Ármanni á alþingi, Fjölni nje Fjelagsritum fundið neina hugvekju, er taki þessari ræðu fram; og svo er málið svo gott og lipurt, að aðrir skrifuðu það eigi betur í þá daga.

Eptir þessa almennu hvöt til framfara snýr höf. sjer að höfuðatriðinu að hvetja presta til meiri fjelagsskapar: »Það er grátlegt að hugsa til þess, hve lítil samtök hafa verið og eru ennþá meðal prestanna hjer í landi, því það er eins og þeir víða hafi ýmugust og agnúa hver á öðrum og vilji halda sjer sem lengst hver frá öðrum og sjaldgæft mun það vera að þeir beri sig saman um nokkur málefni embættum þeirra viðvíkjandi«. Höf. brýnir fyrir mönnum hve mikil tálmun það er fyrir framfarir í öllu siðgæði að prestar eru eigi samhentir í að útrýma ýmsum ósiðum, og það ber stundum við, að klerkar gjöra lítið úr tilraunum nábúapresta og draga svo mátt úr framkvæmdum þeirra. »Gætu nú meiri samtök og nánari fjelagsskapur komist á með prestunum, þá er auðsjeð, að það mundi eyða margri óreglu bæði

í fari sjálfra þeirra og annara og verða öflug máttarstoð heillavænlegra áforma og fyrirtækja«. Prestar í sama prófastsdæmi sjást nú, segir höf., stundum aðeins einu sinni á ári, »ef til vill í kaupstað og þá voru gömlu prestarnir vanir að segja: salve domine frater! en nú geta þeir sagt: god Dag. Þeir sjást einstöku sinnum í veizlum og erfisdrykkjum og geta þá farið í tvísöng ef þeir eru raddmenn og sungið að tarna: »annars erindi rekur« o. s. frv. eða »mörg er hryðja mótlætis um aldur- etc.« Lestrarfélögin, sem þá voru að komast á, voru reyndar spor í áttina, en þó engan veginn fullnægjandi. Höf. hvetur presta til nánari fjelagsskapar og stingur upp á, að þeir semji ritgjörðir um kirkjumálefni og jafnvel ýms önnur málefni er snerta almenna þjóðarheill og láti síðan ritgjörðirnar berast til embættisbræðra sinna, ættu menn svo að gjöra athugasemdir hver við annars ritgjörðir og láta skoðanir sínar í ljósi. Aðfinnslur og umræður um rit og málefni eru alveg nauðsynleg, en aðfinnslurnar verður að meta rjettilega, hvorki of mikils eða of lítils. »Okkur Íslendingum hættir við að vera hræðilega hörundssárir, og það er eins og komið sje við hjartað í okkur, ef fundið er að nokkrum hlut, einkanlega þegar við ritum eitthvað, og þetta fælir marga frá að rita sem þó annars væru færir um og eflaust gætu með ritum sínum komið mörgu góðu til leiðar, en á meðan því fer fram er litilla framfara að vænta hjá okkur í vísindum og bókmentum, því aðfinnslan er ómissandi hlutur, hún er hreinsunareldur sannleikans og það sem í sjálfu sjer er gott og gullvægt, getur ekki brunnið. Það er að vísu satt, að á seinni tímum hefir verið tekið nokkuð djúpt í árina og ómjúklega farið með margt það, er oss virðist mega hrinda með vægari orðum,[1]) en enginn getur þó neitað því, að hlífðarleysi þetta hefir leitt af sjer margt og ómetanlega mikið gott, einkum fyrir málið okkar.... Vjer skulum heldur ekki taka okkur

[1]) Hér er víst átt við Fjölni.

of nærri þó þeir hinir góða menn rífi og tæti sundur það sem við ritum, því til þess er jarðveginum rótað um, að hann verði frjósamari og færi meiri ávöxt«.

Þýðingarmestar álítur þó höf. samkomur presta til þess að ræða almenn málefni og því betra því fleiri eldri og yngri menn sem koma saman »þegar hugsanir þeirra birtast í einu þá upplýsir hver annan og nýju ljósi slær yfir óþekkta eða efasama hluti, æskumennirnir koma með fjörið og ákafann og hinir eldri með dýrmæta reynslu og ráðdeild«. »Ættu menn að undirbúa slíkar samkomur á undan og hugsa þau málefni sem ræða skal, svo tíminn eyðist ekki þegar á fund er komið í ráðleysi og handaskolum«.

Samkvæmt þessum skoðunum stofnaði Pjetur prófastur fjelag presta í Þórsnesþingi og var það þá einsdæmi að þesskonar fjelagsskapur væri settur á stofn. Hefðu menn í öðrum prófastsdæmum farið að dæmi síra Pjeturs og fylgt hugmyndum hans, einmitt á þeim árum þegar umhugsunin um almenn mál var að vakna hjá almenningi og töluverður framfarahugur var kominn í hina yngri kynslóð mentamanna, þá hefði það eflaust getað orðið að miklu gagni, eigi aðeins fyrir prestastjettina, heldur og fyrir land allt. Kjör og kringumstæður presta á Íslandi hafa jafnan verið nátengdar hag alþýðunnar, svo ólíklegt er, að veruleg misklið hefði orðið milli stjetta, er þurftu að gæta svipaðra hagsmuna. En þessi tilraun Pjeturs prófasts datt fljótt um koll; þegar hann fór úr hjeraðiuu losnaði fjelagið sundur, og annarstaðar skeyttu menn eigi að fylgja uppástungum hans; Dr. Pjetur var of langt á undan tímanum.

Fyrsta fund hjelt fjelag Þórsnespresta á Staðastað 1. júlí 1845 og voru þar teknar ýmsar ákvarðanir, sem allar eru samkvæmar þeim skoðunum, sem Pjetur prófastur hafði, enda hefur hann einn verið líf og sál í þessum fjelagsskap. Prestar gerðu þá ákvarðanir og samtök um barnaspurningar og húsvitjanir, um verðlaun handa iðnum börnum og um sameining lestrarfje-

laga við bókasafn Vesturamtsins. Ennfremur samþyktu þeir að reyna að stofna jarðabótafjelög hver í sinni sókn, ásettu sjer að reyna til með skynsamlegum fortölum að leiða almenningi fyrir sjónir, þau hin miklu not, sem hann geti haft af alþingi, og gangast fyrir því með innbyrðis samtökum, að alþýða geti látið alþingi vilja sinn í ljósi, og kosta kapps um hvervetna að glæða þjóðerni og fjelagsanda, Ennfremur samþykktu þeir að leitast við af fremsta megni að eyða drykkjuskap og nota öll tækifæri til lesturs og samfunda.[1]) Að lokum var samþykkt að gefa út ársrit. Öllu þessu ætluðu þeir að koma í verk af eigin rammleik, þá voru menn ekki enn farnir að læra að sækja um styrki til hvers smáræðis.

Á hinu fyrsta alþingi 1845 var til umræðu »frumvarp til tilskipunar, er nákvæmar tiltæki það sem fyrir er mælt í reglugjörð 17. júlí 1782«, en sú reglugjörð er um tekjur presta og kirkna á Íslandi; þetta frumvarp snerti þó því nær eingöngu upphæð á aukatekjum presta, sem lengi hafði verið þjarkað um meðal stjórnarvaldanna. Þingmönnum þótti stjórnin taka aukatekjurnar of riflega til fyrir klerkana, og þó skoðanir væru mjög misskiptar og mikið væri skrafað, þá varð aðalárangurinn af öllum umræðunum að klípa fisk eða alin af ýmsum tekjugreinum og meiri hluti lagði þess utan til »að ekki væri hreyft við endurbót á kjörum presta að svo vöxnu máli«. Pjetur prófastur hafði jafnan haft mikinn áhuga á að stuðla til þess að kjör prestastjettarinnar bötnuðu, hann ritaði álitsskjöl um þetta mál til stjórnarinnar 1840 og ritgjörð í Fjölni 1844, hann hafði þó ekki mikla trú á því að hækkaðar aukatekjur mundu að nokkrum mun bæta hag presta. Honum gramdist samt að alþingi tók svo klaufalega í þetta mál og skrifaði í ársritið[2]) stutta, en kjarnorða grein um meðferð alþingis á þessu frumvarpi. Höf. telur frumvarpið í

1) Ársrit presta I, bls. 12—14.
2) Ársrit presta I, bls. 44—48.

sjálfu sjer sjer ekki mikils virði, því hvort aukatekjurnar eru hækkaðar um fáein fiskvirði hefir í raun og veru ekki mikla þýðingu, en honum þykir »of mikill jarmur hafa komið upp á þinginu um þetta mál og kröptum þeirra manna hafa verið heldur óheppilega varið, sem hafa rembst við að gjöra málalenging úr því«. Í samfleytt 17 ár hafði utan lands og innan verið skrifað og skrafað svo mikið um þetta mál, að þingið þrátt fyrir langar umræður bætti engu við sem nýtilegt var og segir síra Pjetur, að það hefði verið heppilegra ef málið umtalslítið hefði verið samþykkt eða fellt, en í stað þess fór nú allt á sundrungu. Höf. þykir þingið hafa heldur en ekki sýnt prestum smámunasemi og bætir við: »Það er nú komið sem komið er, og útsjeð um afdrif máls þessa að svo stöddu, og liggur nú ekki annað fyrir okkur prestunum en lifa við vonina, von um, að einhverntíma muni hlýrra og betur blása, en þessi nápínunæðingur, sem lagði á okkur úr atkvæðum alþingis um þetta mál, að einhverntíma muni rakna fram úr fyrir okkur og kjör okkar batna, þó það ef til vill eigi langt í land. Von þessi mun þó eflaus rætast, þó ekki verði fyrr en menntun og samtök okkar eru orðin meiri, samband okkar nánara og fjelagsandi okkar alvakandi. Þá munum við ekki lengur una við eintóman skötufót, og stjórnin mun þá líka mildilega ljá eyra sanngjörnum bænum stjettar þeirrar, sem hefir svo háleitt og áríðandi, en þó svo vandasamt og erfitt embætti á hendi. Leggjum því ekki árar í bát, bræður góðir! róum heldur að því öllum árum, að oss miði áfram í menntun og mannkostum og öllu því sem okkur og almenningi getur orðið til heilla í andlegum og líkamlegum efnum, en gætum þess að hafa allir sama áralagið og vera samtaka í áreynzlunni, látum aldrei á okkur rætast, að vosi venjist vesæll maður«.[1])

1) Um kjör presta sjá Ný Fjelagsrit VI, 1846 bls. 71—90.

Í ársritinu eru ýmsar leiðbeiningar er snerta kirkjur og kristindómskennslu, meðal annars ritaði Pjetur prófastur »Um að kenna foreldrum og húsbændum að spyrja börn«[1]), og ennfremur »Bæn um nýja messusöngsbók«[2]) og um kirkjurækni[3]). Að því er snertir barnalærdóminn leggur Dr. Pjetur aðaláherzluna á skilninginn, hann vill að börnin »nái skýrri þekkingu á því, er þau nema, að skilningur þeirra æfist og greindarafllið aukist«. Að læra kverið skilningslaust utan að, þykir höf. þýðingarlítið, barnaspurningarnar eiga aðallega að gera tvennt, að æfa skilninginn, svo sálin vekist til umhugsunar, og að hræra tilfinninguna »svo guðlegum sannindum greiðist vegur til hjartans«. Dr. Pjetur getur þess, að það hafi fyrrum verið alsiða á Íslandi »að spyrja börn og unglinga bæði úr lestri og messu. Þetta var fallegur siður og kom miklu góðu til leiðar, og fer illa, að hann er nú afræktur af vel flestum«.

Hin stutta ritgjörð um messusöngsbókina er mjög athugaverð, því hún sýnir, hve snemma Dr. Pjetur hefir farið að hugsa um það málefni, sem hann síðar bar svo mjög fyrir brjósti. Hann sá þá þegar glöggt, að sálmabækur frá aldamótum, sem Magnús Stephensen hafði komið út, voru alveg óhafandi. Trúarstefna og aldarandi var nú allt annar en þá. Dr. Pjetur byrjar ritgjörð sína um messusöngsbókina með þessum orðum: »Seinustu aldamótin voru illa löguð til sálmaskáldskapar. Sá hinn mikli byltingastraumur, sem gekk yfir Norðurálfuna, var þá búinn að brjóta niður flestar gamlar vísindabyggingar í andlegum og veraldlegum efnum, en átti eptir að reisa nýjar í hinna stað; aldarblærinn var gráleitur og trúræknin var efnislítil. Menn fundu að sönnu til þess, að ekki mátti við svobúið standa og höfðu allan vilja á að endurbyggja það sem hrunið var,

1) Ársrit presta II, bls. 25—39.

2) s. st. II, bls. 49—52.

3) s. st. II, bls. 3—16.

en þeir voru ekki búnir að átta sig á hvernig byggja skyldi og lituðust um eptir nýju byggingarefni; þeir sáu fyrst seinna, að ekki varð hjá því komist, að byggja ofan á hinn gamla hyrningarsteininn, sem er Jesús Kristur«. Síðar heldur hann áfram: »Það er því ekki von til að okkar þjóð uni nú við þær sálmabækur, sem komu á gang um seinustu aldamót, þær voru ekki annað en líksöngur liðinnar aldar, og geta því ekki verið lofsöngur yfirstandandi eða ókomins tíma«. Telur höf. þá messusöngsbók, sem þá var brúkuð í alla staði úrelta og lítt nýtilega, enda hafi hún aldrei fallið almenningi í geð«. Því auk þess sem hún, eins og vonlegt er, ber menjar trúardeyfðar þeirrar, er alstaðar ríkti um aldamótin, og hefir allvíða skort á sönnum iðrunaranda, innilegum auðmýktar tilfinningum og kristilegri andagipt, þá er bókin mikilstil of stutt, gömlu sálmunum í henni er víðast hvar illa og óheppilega breytt, fáir sálmar eru frumkveðnir og í mörgum sálmum er skáldskapurinn svo óviðfeldinn og stirður, að tilfinningarnar eru orðnar brotnar og brenglaðar, þegar þær loksins koma í ljós og eiga því svo bágt með að vekja viðkvæmar tilfinningar hjá söfnuðinum, því guðsorð verður að koma frá hjartanu, eigi það að ná til hjartans«. Ritgjörðin endar með bæn til biskups, að hann vilji gangast fyrir því, að ortir sjeu nýir sálmar og safnað til nýrrar sálmabókar, að prófóstum sje skrifað í þessu skyni og sett sjerstök sálmabókarnefnd til þess að dæma um sálmana og velja þá beztu.

Í tímaritinu[1]) eru tvær ádeilugreinir um ýmsa ósiði, sem tíðkast á Íslandi við kirkjur, og er í þeim greinum margt hnittilega sagt. Ekki vitum vjer með fullri vissu hvort þær að öllu leyti eru eptir Dr. Pjetur, en ritblær hans virðist vera auðþekktur á þeim, svo hann hlýtur að minnsta kosti að hafa átt nokkurn þátt í samningi þeirra. Hörundsárum mönnum mislíkuðu þær og töldu

1) Ársrit presta I, bls. 33—43; II, bls. 17—24.

það ósæmilegt, að trúfræðistímarit flytti þesskonar skoplegar frásagnir, en þær hafa þó líklega ekki verið áhrifaminnstar[1]). Greinir þessar hafa enn þýðingu fyrir kúltursögu 19. aldar, og því set jeg hjer tvo kafla úr þeim sem sýnishorn. Fyrri greinin lýsir kirkjusöngnum svona: »Þú sjerð þá mann sitja við altarishornið, það er nú forsöngvarinn. Jeg sje strax á þjer, að þig furðar á hann skuli sitja þarna, við annan enda safnaðarins og þjer dettur í hug að spyrja, hversvegna hann sje ekki eins látinn sitja við kirkjudyr? Þetta get jeg ekki láð þjer, en gættu að: hann hefir verið hreppstjóri og þeir vilja hjerna láta raða sjer niður í kirkjunni eptir metorðum, auð, ættgöfgi, aldri og jeg veit ekki hverju fleiru, þó ætla jeg það margt nokkuð. Forsöngvarinn byrjar nú þarna, hann er sæmilega lagviss og hefir allgóð hljóð, en þau hafa ætíð verið veik og nú er hann farinn að eldast; það hefir aldrei gjört betur en til hans hafi heyrst fram að kórstaf, auk heldur lengra er hann var upp á sitt bezta. Sá sem honum situr næstur er hreppstjóri núna, hann ber alls ekki við að syngja og svo er um þrjá hina næstu utar frá honum, forsöngvarinn verður því að tísta einn sjer, þar sem svo illa vill til að presturinn tekur ekki sessunautum hans fram með sönginn, þó hann sje góður í stólnum. Sönginn hinna, sem utar sitja þarna að sunnanverðu, skulum við ekki nefna. Norðanvert við altarishornið situr spjátrungur, sem kom inn í sóknina í vor; þú sjerð að hann er í marghneptri stýrimannstreyju, á stígvjelum og með hringi í eyrunum, svo hann varð að sitja þarna; hann hefir dáfalleg hljóð, skær, há og liðug, en þú heyrir hvernig hann fer með þau; mjer skal mikið þykja, ef þú þekkir lagið, sem hann er að syngja og er það þó algengt; hann ber sig optast nær að fara þar upp sem lagið gengur niður, hann heldur að það beri ekki á hljóðunum ella, svo þá hæst fer og hann fer að beita röddinni, þá heyrirðu að

1) Reykjavíkurpóstur I, bls. 183—184.

hann þrí- og fjórhnykkir á atkvæðunum, við skulum ekki kalla það nótur, meðan hann er að hækka sig; síðan er nú leikið stundarkorn á hjólum og á þeim oltið niður í gornótur aptur. Þar utar sitja þrír, sem allir syngja, en ógæfan er að þeir heyra ekki til forsöngvarans fyrir dillinu í spjátrunginum, svo þeir fylgja honum. Aptur við kórstafinn eru tveir eða þrír sem nokkuð syngja, þeir heyra ekki heldur til forsöngvarans, en ýmist sýngja sjer, eða ráða af því að horfa framan í hann, hvar komið er í laginu, optar fara þeir samt eptir stígvjelamanni, nema hvað þeir syngja fljótar en hann af gömlum vana. Í framkirkjunni er bæði kvenfólk, vinnumenn og unglingar, sem margt hvað hefir dágóð hljóð. Þú spyr hvers vegna það syngi ekki? Naumast hugsaði jeg þú mundir spyrja svo fávíslega, fyrst er það ekki siður, og þá er það ógjörningur eins og þú skilur, enda mundi þá ekki fara betur, þar kæmi þá ennþá einn söngflokkur og hver veit hvað margir, því þangað heyrist ekki vitund til forsöngvarans, er situr innst í kórnum. Er nú von að vel fari, og er kyn þó þjer heyrist þetta laglaus óhljóð. Forsöngvarans gætir ekkert og er hann þó beztur. Stígvjelamaðurinn er að leika á hjólunum, hnykkja og rykkja, þegar honum líkar við sig hvað hátt hann kemst, dregur hann seiminn svo að sem lengst skuli til hans heyrast upp úr öðrum, er því ætíð hálfri hendingu á eptir forsöngvaranum og þeir sem stígvjelamanni fylgja annari hálfri á eptir honum, svo aldrei heyrist hvenær forsöngvarinn hættir eða byrjar á hendingu. Þú heyrir hvernig söngurinn fer í dag og er hann þó í skárra lagi, en þeir hafa margsinnis átt eptir helminginn af versinu að norðanverðu í kórnum, þá er úti var að sunnan; það vill líka svo vel til, að bóndinn á Heiði er ekki við kirkju, verst fer þegar hann er, hann hefir bylmingshljóð, mikil, en fjarska stirð, getur ekkert lag haft og engum manni orðið samróma, þegir samt aldrei og syngur alltaf úti á þekju«. Eptir þessa lýsingu, sem vel mun hafa átt við margar kirkjur

um miðja 19. öld, koma ítarlegar og fróðlegar hugleiðingar um kirkjusönginn, hvernig hann megi bæta.

Í greininni um siðsemi við kirkjur[1]) er prestur á Hálogalandi látinn að nafninu til segja frá kirkjusiðum í sinni sókn, en í rauninni getur öll frásögnin ekki verið meira háíslenzk en hún er. Presturinn er meðal annars látinn segja svo frá kirkjusiðum: »Þegar loks er nú orðið messufært, þá geng eg út í kirkjuna og eru þá ætíð nokkrir seztir í framkirkjuna eður uppi á lopti. Eg fer þá að ganga um gólf, meðan djákninn er að kveikja o. s. frv. Þá þykir mér opt og tíðum orðræður og athæfi þeirra, sem inn eru komnir, ekki samsvara mínum hugleiðingum og því, sem stendur til að framfari í kirkjunni. Kvennfólkið er að skauta hvert öðru og lagfæra klútana, það læt eg nú allt saman vera, fáist ekki rúm eða næði til þess í íveruhúsum staðarhaldara, en mjer þykir það mætti fara lægra. Ein kallar upp: Þar stakkstu mig; önnur: Þú hárreitir mig, klaufinn þinn, Sigga, haltu vel til bekkjanna á rósaklútnum o. s. frv. Svo heyrist í sömu andránni ofan af loptinu: Hvað fjekkstu í gær, lagsmaður? Þrjátíu í hlut af þorski, ýsu og heilagfiski. Þú held jeg hafir ekki farið svangur af stað í morgun; hvar var hann beztur? Hamarinn fastan og Hausinn um Kerlinguna. Hann hefir verið hríðvitlaus við ykkur, því þið sátuð enga stund. Honum var varla þakkandi þó hann vildi blóðrauða skildina og glóandi greppina. Já! það er allteins og við, sem aldrei fáum neitt í hrognkelsa-netin, þið eruð aldrei seinastir í þau á morgnana. Ha! ætlarðu . . . . Þegar þetta og annað eins gengur, þá verður mjer að sönnu stundum að líta upp með þykkjusvip, kemur þá hljóðskraf fyrst á eftir, líkast til um hið sama áriðandi efni, en sumir bregðast svo við, að þeir fara að hlæja, og ef til vill giöra gys að mjer. Þegar nú djákninn er búinn

1) Daði Nielsson segir, að síra Magnús Hákonarson í Miklaholti sje höfundur þessarar greinar.

að samhringja og lesa bænina í kórdyrum, þá eru ekki nema við tveir einir í kórnum fram í annað versið í inngöngu-sálminum, þá fer almenningur fyrst að koma og lætur þá fótatakið og skröltið í bekkjunum opt hærra en söngurinn, sumir ganga ekki inn í kirkjuna fyrr en rjett undir prjedikun; hvað þeir eru að gjöra úti, veit jeg ekki, en það lítur svo út sem þeir álíti ekki sálmasönginn hluta messugjörðarinnar. Undir prjedikuninni, rjett þegar búið er að flytja guðspjallið, fara þeir að heilsast og kyssast, sem ekki eru búnir að hittast fyrir embætti, sumir fara að gera þetta undir söngnum, en þá ber minna á. Svo er nú líka farin að tíðkast hjer tóbaks-neyzla og ber ekki sízt á henni undir embættisgjörð í kirkjunum. Þegar litið eitt fer að sækja fram í prjedikun, þá eru ýmist teknar upp dósir eða baukar; jeg læt nú vera þó hver taki í nefið sjer, svo lítið á bæri, en því er ekki þannig varið; þegar eigandinn er búinn að hressa sig, rjettir hann sessunaut sínum, svo þegar þessi er búinn og ætlar að skila ílátinu aptur, hnippir eigandinn í hann til að láta næsta mann fá hressingu, bendir síðan þessum til að láta ganga enn lengra og slíku fer fram unz komnir eru ef til vill einir 7 eða 8, svo verður opt að lokunum að rjetta dósirnar eða pontuna yfir um þvert kórgólf, gráður eða jafnvel altarið sjálft að eigandanum aptur. Opt eru mörg ílát á lopti í einu og má nærri geta, að þessi háttsemi ásamt snýtunum, soginu og hnerrunum, sem hjer af fljóta, muni ekki stuðla til að taka eptir orðinu, sem fram er flutt. Sumir hafa þann ósið, að spretta á fætur undir miðri prjedikun, ganga út fyrir kirkjudyr og dvelja þar stundarkorn og það þó þeir sjeu nýkomnir inn; auk þess sem þeir missa mörg orð og kunna að týna öllum þræði ræðunnar sjálfir, glepja þeir fyrir mörgum öðrum . . . . Ekki er nú enn búið með það, sem glepur fyrir mjer og söfnuðinum meðan á embættisgjörð stendur. Hjer er eins og víða annarsstaðar við sjó mikill hundafjöldi á hverjum bæ; þeim er ekki aptrað að elta á kirkju-

staðina og eru stundum þrír og fjórir með hverjum manni; þó þeim sje haldið utankirkju, sem stundum veitir örðugt, þá eru þeir með áflogum, gelti og spangóli alls staðar umhverfis hana, koma stundum á glugga og upp á þekju[1]) og það hefir optar en einu sinni borið við, að jeg hefi orðið að þagna í miðju efni þangað til mestu ólátunum hefir linnt.«

Þó ársrit presta í Þórsnesþingi væri lítið rit, lifði að eins í tvö ár, fengi litla útbreiðslu og enn sé þekkt af fáum, þá eru þó auðsjen á því fjörmerki hins vaknandi þjóðaranda; það stefnir að sama takmarki eins og Fjölnir og Ný-Fjelagsrit, þó það sjerstaklega snúi sjer að einni hlið þjóðlífsins. Að máli og orðfæri stendur Ársritið að minnsta kosti jafnfætis Nýjum-Fjelagsritum, en prófarkalestur og rjettritun er mjög ábótavant, enda var það prentað langt frá höfundinum. Ritið ber vott um mikinn áhuga á almennum málum, frjálslyndi og þjóðrækni og útgefandinn hefir fullt áræði til að segja mönnum til syndanna, þó með allri kurteisi og því umburðarlyndi, sem var svo nátengt öllu eðli hans.

Hinn seinasta vetur sem Pjetur prófastur dvaldi á Staðarstað, samdi prestafjelag í Þórnesþingi ýmsar uppástungur og bænarskrár, sem það sendi vorið 1847 til alþingis. Bænarskrár þessar fara fram á ýmsar mikilsverðar endurbætur og hefir dr. Pjetur eflaust verið við þær riðinn og líklega frumkvöðull þeirra eða höfundur. Bænarskrárnar voru fjórar og komu þær til umræðu á þinginu 1847. Efni þeirra var: Endurskoðun og um-

1) Snemma á 19. öld var prestum boðið að skrifa ræður sínar og lesa þær á stól. Margir gömlu prestarnir, sem voru vanir að tala blaðalaust, voru mjög óánægðir með þessa ráðstöfun, meðal annara Pjetur prófastur á Víðivöllum. Í gamanbrjefi til Geirs Vídalíns biskups vinar síns skrifaði hann eitt sinn: »Eins og þú veizt, er dimmt hjá okkur í sveitakirkjunum. Hvernig á ég að fara að, ef hundur sezt á stólgluggann undir miðri prjedikun, svo jeg ekki sé til að lesa ræðuna.?« Geir biskup svaraði að eins: »Sigaðu, blessaður, sigaðu!«

P. Th.

bót á tilskipunum um húsaga, húsvitjanir, helgidagahöld og hjónabönd; uppástunga um jarðamat, skattgjald o. fl. Hin þriðja uppástunga um að nefnd manna yrði sett til að veita prestaköll og hin fjórða um löggjöf viðvíkjandi jarðabótum.

Löggjöfin um húsvitjanir, helgidaga og húsaga var þá orðin 100 ára gömul og alveg úrelt, tilskipun 29. maí 1744 bauð t. d., að hver maður skyldi fara til kirkju á hverjum sunnudegi, en ef hann kom eigi tvo sunnudaga á sumrum eða þrjá á vetrum, átti hann að sektast um 4 mörk, en ef prestur þagði yfir slíku afbroti sóknarmanna sinna, átti hann að borga fyrir tvöfalt helgidagsbrot. Eptir tilskipun 27. maí 1746 átti prestur að húsvitja hvert býli þrisvar á ári og yfirheyra hvern mann í kristindómi, ef hann vanrækti þetta var hann sektaður. Í tilskipun 3. júní 1746 um húsaga er bannað að fara með svonefndar sögur, afmorsvísur eða rímur »sem kristnum sómir ekki um hönd að hafa, og heilagur andi angrast við.« Þingið beiddist þess af stjórninni að allar þessar gömlu tilskipanir væri endurskoðaðar og ný frumvörp lögð fyrir þingið og fjekkst smátt og smátt breyting á þessu síðar. Uppástungan um nefnd til að veita brauðin var felld með 19 atkvæðum og sömuleiðis uppástungurnar um jarðamat, skattgjald og jarðabætur.

Eptir það höfum vjer ekki orðið varir við neitt lífsmark eða framkvæmdir hjá fjelagi presta í Þórnessþingi, svo það hefir líklega dáið út á næsta ári. Flestallar uppástungur um framkvæmd og breytingar á íslenzkum kirkjumálum á þeim árum eiga rót sína að rekja til fjelags þessa, en dr. Pjetur Pjetursson var lífið og sálin í fjelaginu og frumkvöðull alls þess, sem það starfaði.

Það var varla við öðru að búast en að sumum mislíkuðu kenningar þær, sem fluttar voru í »Ársritinu«, því þær komu of nærri kaunum alþýðu, áminntu menn um siðgæði og fundu að brestum þeirra, en slíkt kemur sjer sjaldan vel. Þá komu út tvö deilurit gegn »Árs-

ritinu« og var hið fyrra[1]) mest stílað gegn ritgjörðinni um tekjur presta og er allharðort í þeirra garð, heldur með ályktunum þingsins í því efni og telur útgefendur vanþakkláta gegn stjórninni, sem annist svo einstaklega vel hag prestanna! Hið síðara ritið er miklu stærra, en þó í raun og veru eins ómerkilegt,[2]) sýnir að eins gremju höfundarins og er alveg röksemdalaust. Þar eru tvö kvæði illa ort í 20 versum með sálmasniði, það eru skætingsvísur gegn flestu því, sem gott er í ritinu; höf. er ákaflega reiður, sjerstaklega yfir greininni um kirkjusiðina, vill heldur ekki hafa nýja sálmabók og vill ekki auka tekjur presta. Um greinina um söng segir hann meðal annars: »Slíkur þvættingur sem hún er, er ekki að eins hæðnisfullur og meiðandi alla siðsama söfnuði í landinu, heldur og orsakar ritsins höfundum óvildar og óþokka hjá öllum vel innrættum og siðuðum mönnum og jafnvel mörgum embættisbræðrum höfundanna.« Um ritin segir hann: »Þau fáu, sem almenningur hefir glæpst á að kaupa, eru höfð til sýnis sem furðuverk í kristninni og sem ljós vottur þess hve mjög höfundana skortir af hógværð og ástúð til sóknarmanna þeirra og allrar alþýðu.«

Dr. Pjetur undi allvel hag sínum á Staðastað og þótti þar fagurt og skemmtilegt. Hann var almennt elskaður og virtur af sóknarmönnum sínum og öðrum, er hann kynntist, fyrir lítillæti sitt, ljúft viðmót og prúðmennsku. Fjelagsmaður var hann hinn bezti, alltaf skemmtinn og glaðlyndur og alls staðar var hann í miklu áliti fyrir lærdóm og dugnað og var það þá þegar í almæli, að hann væri sjálfkjörinn til að verða biskup eptir

1) Athugasemd við ritgjörðina no. 4 í Ársriti Presta í Syðra Þórnessþingi 1846. Skrifuð á Breiðafirði af bónda í janúar 1847. 8º. 4 bls.

2) Um rit prestanna í Þórnesþingi 1846 og 1847 af J. Guðmundssyni og fáeinum bændum þar. Ábyrgðarmaður Magnús Árnason. Reykjavík 1848. 20 bls. 8º. Einkunnarorð: »Prestagóz plagar ei lengi vara.«

Steingrím Jónsson. Á þeim árum lýsir Daði Nielsson fróði Pjetri prófasti svo: »Sira Pjetur er gildur meðalmaður á vöxt, jarpur á háralit, fölleitur í andliti og ekki friður sýnum, þó eygður vel; prjedikari góður, enginn raddmaður, viðfeldinn, lítillátur í umgengni og skapvær án öls. Stendur hann nú næst til að verða biskup Íslendinga ef hann yfirlifir Steingrím biskup, sem líklegt er fyrir aldurs sakir.«[1])

Dr. Pjetur var á yngri árum afburðamaður að afli og gengu ýmsar sögur um krapta hans. Það var meðal annars talið til marks um karlmennsku síra Pjeturs, að hann hafði tekið upp hellu, sem nú er fyrir bæjardyrum á Staðastað og sem kvað í minnsta lagi vera 50 fjórðungar á þyngd.[2]) Dr. Pjetur var hinn mesti reiðmaður og hestamaður. Þá átti hann ágætan hest ljósan, sem Ari á Flugumýri tengdafaðir hans hafði gefið honum; var sá hestur kallaður Snjótitlingur og var frægur um allt Vesturland. Hestur þessi var allra hesta fegurstur og beztur að gæðum og mátti enginn koma honum á bak nema sjálfur eigandinn og fyrri kona hans meðan hún lifði, en að henni látinni reið enginn honum nema síra Pjetur sjálfur. Annan reiðhest átti dr. Pjetur, brúnan að lit, gæðing mikinn, sem ekki komst þó í hálfkvisti við Snjótitling. Einhverju sinni fór síra Pjetur á stað úr Reykjavík á báðum þessum hestum kl. 8 að morgni og kom kl. 6 næsta morgun heim að Staðarstað. Aldrei var svo slæmt veður að vetri til, að síra Pjetur ekki færi tvisvar á dag út í hesthús að finna Snjótitling sinn, tala við hann og strjúka honum. Hesturinn var hlaupstyggur, svo að jafnaðarlega náðist hann ekki í haganum nema síra Pjetur kæmi til, þá kom hesturinn til hans[3])

---

1) *Daði Nielsson:* Um presta í Skálholtsstipti. Hdrs. Jóns Þorkelss. nr. 37 fol. bls. 581.

2) Eptir sögn Bjarna Þorkelssonar, Eyjólfssonar frá Staðarstað.

3) Eptir sögn Þorsteins Loptssonar, er Bjarni Þorkelsson hefir ritað.

Þess má geta, að á Staðarstað var á þeim árum tík ein stór af útlendu kyni, sem kölluð var Kara, og fylgdi hún heimilinu suður í Reykjavík; Jónas Hallgrímsson hafði átt hana og skilið hana eptir á Staðastað, af því hún var honum til trafala á ferðalaginu. Dr. Pjetur Pjetursson var alla æfi mikill dýravinur, enda var eins og skepnurnar vissu það, hestar, hundar og kettir voru undarlega elskir að honum, sumir hestar hans í Reykjavík komu undir eins hlaupandi þegar hann kallaði til þeirra. *Benedicte Arnesen-Kall* segir frá því, hve Pjetur biskup kenndi í brjóst um og ljet sjer annt um lítið lamb, sem tekið hafði verið undan móðurinni[1]) og í hinum íslenzka »Dýravini« segir biskup sjálfur skemmtilegar smásögur um krumma á Víðivöllum[2]); hann hafði frá barnæsku vanist því hjá foreldrum sínum að vera góður við dýrin.

1) Dyrevennen 1889 bls. 78.

2) Dýravinur III, 1889 bls. 15 (Hrafnar.)

## IV. Utanferðir Pjeturs Pjeturssonar. Vísindaleg starfsemi.

---

Vjer skulum þá þessu næst fara nokkrum orðum um utanferðir Pjeturs prófasts Pjeturssonar og hina vísindalegu starfsemi hans. Þegar Pjetur prófastur á annari siglingu sinni dvaldi veturinn 1839—40 í Kaupmannahöfn voru merkileg tímamót. Um vorið 1840 20. maí, skömmu eptir að Pjetur prófastur hafði unnið sjer Licentiat-nafnbót við háskólann, kom út hið fyrsta konungsbrjef um stofnun alþingis. Fjölnir var þá í andaslitrunum og Sunnanpósturinn var alveg sofnaður, þá kom ekkert tímarit eða blað út á íslenzku. Deyfðin, sem hvíldi yfir Íslendingum breyttist við þenna fagnaðarboðskap í fjör og framkvæmdir. Þeir, sem áður höfðu staðið fyrir útgáfu Fjölnis hófust nú handa og stofnuðu nýtt fjelag til þess að halda tímaritinu áfram og var Pjetur prófastur einn af þeim er gekk í fjelagið. Jón Sigurðsson var reyndar fyrst einn af fjelagsmönnum, en honum líkaði ekki að öllu stefna þeirra, skildi sig við þá og stofnaði annað fjelag[1], sem tók að gefa út Ný fjelagsrit, þau komu fyrst út árið 1841. Pjetur prófastur var í Fjölnis-fjelaginu meðan það stóð, eins þó hann

---

1) Dr. Björn M. Ólsen hefir ítarlega skýrt frá fjelögum þessum í Tímariti Bókmenntafjelags XII, 1891 bls. 43—63.

væri heima á Íslandi, en ekkert ritaði hann í Fjölni fyrr en 1843, þegar hann í þriðja sinn kom til Hafnar til þess að verja doktors-ritgjörð sína. Að áliðnu sumri 1843 kom Pjetur prófastur heiman frá Íslandi og hinn 9. september stingur hann upp á því á fjelagsfundi Fjölnismanna, að stofnað sje *bindindisfjelag*, og var hann og *Konráð Gíslason* kosinn í nefnd til að semja lög handa því og voru þau samþykkt á næsta fundi 16. september. Á fundi 25. s. m. var Pjetur Pjetursson kosinn forseti Fjölnis-fjelagsins og hjelt þeim störfum til vors 1844, er hann fór heim, þá var Brynjólfur bróðir hans kosinn í hans stað. Pjetur Pjetursson ljet sjer mjög umhugað um að koma á bindindisfjelögum meðal Íslendinga og þó sú hreyfing hefði þá eigi mjög mikinn árangur, þá var hún þó hið fyrsta spor í áttina. Pjetur Pjetursson var einn af hinum fyrstu formælendum bindindisins á Íslandi og reit skýrslu um bindindisfjelagið og hvöt til Íslendinga gegn ofdrykkju[1]. Fjelagsmenn í Kaupmannahöfn sendu boðsbrjef um bindindið víðs vegar um Ísland og þar á ofan rituðu þeir brjef Steingrími biskupi Jónssyni og beiddu hann að greiða götu fyrir þessu áformi með því að útbýta boðsbrjefum og brást hann ljúfmannlega við þessu og sendi boðsbrjefin til allra prófasta og presta. Afleiðingin af boðsbrjefum þessum varð sú, að víðs vegar voru stofnuð bindindisfjelög í sveitum á Íslandi og flestallir piltar í Bessastaðaskóla gengu í bindindi. Höfðu fjelög þessi töluverðan árangur, svo vínnautn minnkaði að mun, en brátt sókti í sama horfið aptur[2]. Heima í hjeraði hafði Dr. Pjetur mikil áhrif á sóknarmenn sína og aðra í prófastsdæminu, svo bindindið breiddist mikið út frá honum vestra, einkum um Snæfellsnes. Pjetur prófastur var á yngri árum hneigður fyrir vín, en gat með miklu þreki yfirunnið þá ástríðu og það svo vel, að hann allan

1) Fjölnir VII, bls. 58—70. Gunnlaugur Þórðarson átti þátt í fyrri hluta skýrslu þessarar.

2) Sbr. Þjóðólfur XV, 1863 bls. 96.

seinni hluta æfi sinnar neytti hóflega vínfanga, án þess nokkurn tíma að leyfa freistingunni, að komast of langt. Það var þó ekki nema 2 eða 3 ár á Staðastað, að Pjetur prófastur naut vínfanga að mun, og aldrei kom það í bága við embættisfærslu hans eða önnur störf. *Bjarni Thorsteinsson* amtmaður segir í brjefi 16. ágúst 1846: »Pjetur prófastur var á yngri árum hneigður til vínnautnar og var þó, eins og vandi er til, meira gert úr því en það var í raun og veru, en með sjálfsaga og þreklyndi hefir hann á seinni árum yfirunnið þenna breizkleika; hann hefir hreinskilnislega játað yfirsjónir sínar og hefir leynt og ljóst sýnt kapp og einlægna viðleitni í því að útbreiða bindindi, svo drykkjuskapur er nærri horfinn í söfnuði hans og í nábúasóknunum«. Eptir að Dr. Pjetur flutti sig til Reykjavíkur var hann og töluvert riðinn við bindindismál þar syðra. Í lærða skólanum var stofnað bindindisfjelag 1846 og 16. janúar 1847 bindindisfjelag í Reykjavíkurbæ með hjálparsjóð fyrir fátæka fjelagsbræður; átti þetta fjelag að verða miðfjelag íslenzkra bindindismanna; fyrir tilstilli þess samdi Jón Þorsteinsson landlæknir rit »um skaðsemi áfengra drykkja«, sem prentað var í Reykjavík 1847. Tveir voru forsetar í fjelaginu og var Dr. Pjetur Pjetursson annar þeirra[1].

Pjetur prófastur tók á ýmsan hátt þátt í fjelagslífi Íslendinga í Kaupmannahöfn meðan hann dvaldi þar við dispútatíur sínar. Svo bar við veturinn 1843—44, að danskur maður að nafni *Beder* fjekk loforð af konungi Kristjáni 8. fyrir sýslu einni á Íslandi, en hann kunni ekki orð í íslenzku. Konungur varð þess áskynja, að Íslendingum í Kaupmannahöfn var þetta mjög á móti skapi, og tók þá af sjálfum sjer það ráð, að hann úrskurðaði: Manninum hefir verið heitið embættinu og hann skal fá það, en til þess verður hann að vinna þá þraut, að taka próf í íslenzku og standast það. Sam-

1) Reykjavíkurpósturinn I, bls. 61, 105; II, 61, 173—175.

dægurs (8. april 1844) var gefið út konungsbrjef, sem ákvað, að þeir, sem embætti vildu fá á Íslandi, yrðu að hafa vottorð um kunnáttu í íslenzku. Íslenzkir bókmenntamenn rituðu þá konungi þakkarávarp og voru þrír Íslendingar sendir með ávarpið; það voru þeir etazráð og leyndarskjalavörður Dr. phil. Finnur Magnússon, Dr. med. Jón Hjaltalín og Dr. theol. Pjetur Pjetursson[1]. Hinn fyrrnefndi Beder fjell við prófið og er úr sögunni, en lagaboði þessu var síðar slælega fylgt og farið alla vegu kringum það. Alþing tók þá í strenginn og varð árangurinn af því ráðgjafabrjef 14. júní 1857. Þá komst prófið í hendur próf. Konráði Gíslasyni, en hann hjelt prófið heima hjá sjer, einsamall án prófdómenda, en það kölluðu Íslendingar »baðstofupróf« og voru óánægðir, sem eðlilegt var. Þá var prófið gert opinbert og með prófdómendum, en eigi líkaði mönnum það að heldur og spunnust út úr því miklar blaðadeilur[2]; mörgum árum síðar varð próf þetta líka, sem kunnugt er, að ásteitingarsteini, þegar Schierbeck átti að verða landlæknir.

Árið 1844 skrifaði Dr. Pjetur í Kaupmannahöfn fróðlega ritgjörð um tekjur presta[3]; hún er ágætlega leiðbeinandi fyrir alþýðu og þó rituð með þekkingu og lærdómi; þar er rakin tekjusaga presta frá því kristni var lögtekin og svo sýnt fram á, hve kjör presta hafi versnað eptir siðabót og hve mikil nauðsyn sje á að endurbæta brauðin. Við siðabótina hefði verið hægt að leggja eitthvað af klausturjörðum til brauðanna og af stólsjörðum, þegar þær voru seldar, en ekkert varð af því. Um siðabótina hugsuðu stjórnarvöldin mest um að rupla og ræna kirkjurnar, sem engan rjett áttu á sjer. Höf. ræðir flestallar uppástungur um endurbót brauða,

1) Ávarpið er prentað í Fjölnir VII, bls. 136—138 og í Nýjum fjelagsritum IV. bls. 168—171.

2) Þjóðólfur XV. bls. 161—63, 169—70, 178—179, 182—83 XVI, bls. 12—14.

3) Fjölnir VII, bls. 3—26.

sem síðan hafa verið á dagskrá. Hann telur litla von á því, að hægt sje að hækka borgun fyrir aukaverk, og álítur ólíklegt, að hægt sje að sameina brauð »vegna erfiðleika þeirra, sem prestur og sóknarfólk á flestum stöðum eiga við að stríða sökum vegalengdar, vatnsfalla og ýmislegra torfærna, sem of víða leiðir af sjer hirðuleysi í fræðingu barna og tíðasóknum og deyfir og deyðir allt andlegt fjör og samheldi bæði hjá prestinum og sóknarbörnum hans«. Ef prestarnir í hinum samsteyptu brauðum eiga að taka sjer aðstoðarprest, þá batna brauðin ekki nema að nafninu til, »og öll líkindi eru þá til, að embættið verði miður stundað en áður; auk þess eru rjettindi aðstoðarpresta svo lítil og hagur þeirra svo stopull, að það má virðast áhorfsmál, að fjölga þeim fram yfir það, sem nú er«. »Ekki mundi brauðunum heldur bót að því, að selja allar kirkjujarðir og setja andvirði þeirra á leigu, og ber það einkum til þess, að verði ekki leiga andvirðisins meiri en nemur landskuldarupphæð, þá er ekkert áunnið með því, en prestinum bökuð þau umsvif, að kaupa það, sem hann þarf við af landaurum, fyrir peninga, í stað þess hann tók áður við landaurum á hlaðinu hjá sjer«. Auk þess yrði það mikill skaði síðar meir, af því peningar falla allt af í verði gagnvart landaurum. Pjetur prófastur er sannfærður um, að prestsekjurnar sjeu rjettastar og vissastar í hinu forna formi samkvæmt mörg hundruð ára landsvenju, og álítur litlar líkur til þess, að prestar verði settir á föst laun af almannafje, enda yrðu launin þá bæði lítil og ónotalegri en þau sem eru nú. Telur hann tekjur presta smátt og smátt muni aukast með vaxandi velmegun alþýðunnar og við landbúskapinn sje framtíð prestanna bundin. Sjerstaklega leggur hann áherzlu á, að bújarðir presta sjeu bættar og vel setnar, og hvetur presta til að stunda betur búskap en verið hefir, rækta vel jörðina, girða tún og gera aðrar jarðabætur. Allir prestar á Íslandi þurfa að búa, en mörgum er búskapurinn til eintómrar armæðu og stafar það

opt af þekkingarleysi og óbeit á búskapnum, »en allt vill lagið hafa og langt um minna þarf að hafa fyrir þeim hlutum, sem byggðir eru á þekkingu, forsjá og framsýni, en hinum, sem barðir eru fram blákaldir í hugsunarleysi og vankunnáttu. Það er því ótrúlegt og eðli hlutanna öldungis gagnstætt að ímynda sjer, að það mundi deyfa andlegt fjör og framkvæmdarsemi presta, þó búsönnum þeirra væri komið í betra horf; þó þeir lærðu betur að þekkja eðli jarðarinnar og laga búskap sinn eptir því. Það væri langtum skynsamlegra að geta sjer til hins, að eptir því sem þekking þeirra færi vaxandi og þeir þyrftu að hafa minna fyrir búskapnum og sæju góðar afleiðingar hans, þá mundu þeir bæði fá betri hentugleika til að gegna embættisönnum sínum og stunda þær með betra og glaðara geði en áður. Því betur, sem menn læra að þekkja eðli hlutanna og krapta þá, sem stjórna náttúrunni, því andlegri verða hugsanirnar, og því meira nálgast þeir drottin og stjórnara allra hluta, en fjarstar þekkingu hans eru skynlausu skepnurnar, sem bíta grasið í haganum, og þeir sem ólmast eins og skynlausar skepnur og grúfa sig ofan í jarðarsvörðinn og lypta aldrei augum sínum til himins eða huga sínum til hins almáttuga kraptar, sem erfiðar í öllum hlutum«. Það hefir líka sýnt sig á Íslandi, og er nóg reynsla fyrir því, að þeir prestar sem eru beztir búmenn, eru optast beztir leiðtogar lýðsins í andlegum efnum, því skynsemi og ráðdeild þarf til beggja hluta, en búskussar eru opt ljelegir prestar, þó undantekningar sjeu eðlilega til. Pjetur prófastur álítur það nauðsynlegt, að prestsefni þegar á skólanum fái nokkra þekkingu í búnaðarvísindum og kynnist eðli fósturjarðar sinnar, »svo þeir þurfi ekki að berjast í blindni og eyða efnum og tíma til ónýtis, er þeir reisa bú«. Höf. stingur og upp á því, að prestar fái endurgjald fyrir jarðabætur, ef þeir skipta um brauð eða styrk til að bæta jarðir sínar. Aðalefni ritgjörðarinnar er að hvetja presta til að treysta á eigin afl,

byggja velmegun sína á þjóðlegum grundvelli og gamalli landsvenju, en treysta eigi á tekjuauka af uppbótafje eða öðrum utan að komandi reytingi.

Dr. Pjetur hefir snemma haft þetta málefni í huga, því fjórum árum áður (24. júlí 1840) hafði hann sent stjórninni svipaðar uppástungur um að bæta kjör presta. Í þeim tillögum stingur hann meðal annars upp á, að holdsveikra-spítalarnir, sem þá voru engum til gagns, sjeu lagðir niður og afgjaldi spítalajarðanna skipt á milli rýrustu brauðanna, spítalahlutina vill hann líka láta ganga til klerka. Höf. vill láta hækka dálítið borgun fyrir aukaverk, en þá þegar álítur hann jarðrækt og jarðabætur á prestssetrunum aðalskilyrði fyrir aukinni velmegun presta. Höf. leggur til, að uppbótafje því, sem ætlað er fátækum brauðum, sje varið til jarðabóta á prestsetrum; hann vill láta skylda prestana til þess, er þeir fá brauðin, að gera vissar jarðabætur, túnasljettanir, garðhleðslur o. s. frv.; stingur hann upp á, að hver prestur láti minnst sljetta 100 ferh. faðma á ári, og hlaði 16 faðma af steingarði eða 20 faðma torfgarð. Prófastur átti svo að hafa umsjón með þessum jarðabótum og senda biskupi skýrslur um þær. Höf. stingur enn fremur upp á því, að settir sjeu tveir kirkjuvisitatores, því biskupi sje ómögulegt, síðan biskupsstólarnir voru sameinaðir, að visítera allar kirkjur, hve duglegur sem hann er; átti annar þessara umsjónarmanna að búa nyrðra og vera prestur á Múla og Grenjaðarstað, sem þá átti að sameina, en hinn átti að búa vestra og hafa auk brauðs síns afgjald af Arnarstapajörðum. Annars þykir höf. mjög óheppilegt að biskupsstólarnir skyldu hafa verið sameinaðir.

Hinn 11. maí 1840 varði Pjetur prófastur rit sitt um kirkjuföðurinn *Tyrannius Rufinus* við háskólann og hlaut »licentiatus«-nafnbót í guðfræði. Pjetur biskup er hinn eini Íslendingur sem »disputerað« hefir fyrir lærdómsnafnbótum í guðfræði. Árið 1774 var Finnur biskup gerður heiðursdoktor í guðfræði fyrir kirkjusögu sína

og var hann þá rjett sjötugur, hann var hinn fyrsti Íslendingur, sem þá nafnbót hlaut. Þá varð Hannes Finnsson einnig heiðursdoctor i guðfræði 1790 og var þá 51 árs; hinn þriðji og síðasti guðfræðis-doctor var Pjetur biskup; hann varð eins og aðrir tvisvar að verja rit sín 1840 og 1844. Sýnir allt, að Pjetur Pjetursson hefir verið í miklu áliti meðal háskólakennara í guðfræði, því doctors-nafnbót þessi (Doctor theologiæ) þótti þá og þykir enn tignasta nafnbót háskólans, hver og einn getur eigi fengið leyfi til að verja prófrit í þeirri grein eins og í öðrum vísindum, fyrst verður hann að vera orðinn »licentiatus theologiæ«, og svo verður hann að fá áskorun frá guðfræðisdeild háskólans um það, hvort hann vill keppa um doctors-nafnbót; nafnbót þessi er því enn mjög fágæt, hún er stundum gefin gömlum guðfræðingum i heiðursskyni, en að ungir menn vinni sjer hana inn með ritum er mjög sjaldgæft. Þar við bættist, að í þá daga varð að skrifa prófritin á latínu og líka verja þau í heyranda hljóði á sömu tungu; nú er sú skylda afnumin, bækurnar eru ritaðar á dönsku og hin munnlega vörn fer líka fram á dönsku.

Ritið um kirkjuföðurinn Tyrannius Rufinus[1]) skýrir frá æfi hans og kenningum og áhrifum á trúfræðina. Rufinus var fæddur í Aquileja á Ítalíu nærri árinu 345 e. Kr. og dó árið 410, hann hafði töluverð áhrif á hina rómversku kirkju með því að þýða rit griskra kirkjufeðra á latínu og gera Vesturlandaklerkum kunnar kristnisskoðanir Austurlanda. Rufinus var skírður 370 og gjörðist mikill vinur Hieronymusar kirkjuföður, en síðar urðu þeir ósáttir út úr kenningum Origenesar, svo vináttan breyttist í fjandskap; trúbragðadeilur voru þá algengar og orsökuðu eigi allsjaldan hættuleg upphlaup og manndráp. Rufinus fór til Egyptalands og kynntist þar munklífinu og ýmsum lærifeðrum; 378 fór hann til

1) *Pjetur Pjetursson:* Symbolæ ad fidem et studia Tyrannii Rufini presbyteri Aquileiensis illustranda, e scriptis ipsius petitæ. Havniæ 1840 IV+102 bls 8vo.

Gyðingalands og settist að í einsetumanns-klefa á Olíufjallinu. Í þá daga var sægur einsetumanna alls staðar í kringum Jerúsalem og víðar um landið helga. Rufinus fjekkst við austrænar bókmenntir og ritstörf og varð alkunnur lærdómum grísku kirkjunnar; hann fór og ferðir til Sýrlands og Mesopotamiu og svo aftur til Egyptalands, en 398 fór hann til Rómaborgar og hin seinustu æfiár sín átti hann heima í feðraborg sinni Aquileja og þar dó hann. Rufinus hafði miklar mætur á ritum hins mikla kirkjuföður *Origenes*ar (185—254), sem hefir haft afarmikil áhrif á trúfræðiskenningar kirkjunnar fram á vora daga, sjerstaklega með því að hann manna mest óf gríska og egypzka heimspeki og dulspeki saman við hina fornu kristnu trúfræði. Út úr ýmsum kenningum hans spunnust afarmiklar deilur seint á 4. öld og síðar. Skiptust menn opt í þá daga í hamslausa rifrildisflokka út úr óskiljanlegum trúargreinum og lenti opt í bardögum, sjerstaklega var borgarlýðurinn í stórbæjunum Alexandria og Konstantinopel hneigður fyrir þesskonar róstur. Rufinus var ákafur áhangandi Origenesar og gerði rit hans kunn á Vesturlöndum, einkum með því að þýða á latínu aðalverk hans *περὶ ἀρχῶν*, þessi þýðing Rufinusar er öll til, en mikill hluti af frumritinu er týndur. Hann sneri og fleiri ritum eptir sama höfund og einnig kirkjusögu *Eusebius*ar og jók hana fram til dauða Theodosiusar keisara, 395 e. Kr. Pjetur biskup hefir nú einna fyrstur í samhengi rannsakað líf og rit þessa manns og er bók Dr. Pjeturs enn aðalheimildarrit um þenna kirkjuföður og er opt vitnað til þess í útlendum bókum um kirkjusögu. Þar er fyrst æfiágrip Rufinusar, svo rannsóknir og samanburður á frumriti Origenesar og þýðingu Rufinusar, þá er 3. kapituli um trúfræðisrit Rufinusar, hinn 4. um ritdeilur Hieronymusar og Rufinusar, hinn 5. um Rufinus sem þýðara heilagrar ritningar og um hann sem sögumann. Það hefir þurft mikla yfirlegu og kunn-

áttu bæði í grísku og latínu til þess að rita þessa bók og safna í hana úr hinum fyrstu frumritum.

Hið síðara prófrit Pjeturs Pjeturssonar, sem hann varði 21. marz 1844, var um íslenzkan kirkjurjett fyrir og eptir siðabót.[1]) Rit þetta er aðallega sögulegt yfirlit yfir kirkjuskipun og kirkjurjett á Íslandi frá því kristni hófst og fram á 19. öld. Þar er fyrst inngangur um stefnu ritsins og ætlunarverk og um heimildarrit. Þá er 1. kapítuli um hof fornmanna og hinar fyrstu kirkjur og sambandið þar á milli, svo um myndun prestakalla; 2. kap. er um tekjur fornkirkjunnar, um tíundir, legkaup, o. fl.; 3. kap. um veitingarrjett brauða og tekjur presta; 4. kap. um deilur klerka og leikmanna um staðamál; 5. kap. er um breytingar þær, er urðu á stjórn kirkjunnar við siðabótina; 6. kap. um brauðaveitingar eptir siðabót og rjettindi kirkjubænda. Seinast er biskupatal fyrir siðabót.

Árið 1841 ljet Pjetur Pjetursson prenta aðalrit sitt, »Kirkjusögu Íslands«[2]) frá árinu 17 0 til 1840. Bók þessi er áframhald af kirkjusögu Finns biskups Jónssonar og tekur við þar sem hún hætti; kirkjusaga Pjeturs biskups er alveg sniðin í sama formi að því er snertir niðurskipun efnisins og annað. Þar er í fyrsta kafla sagt frá konungum, sem ríktu á þessu tímabili og lög þeirra og fyrirskipanir um kirkjur og skólamál prentuð í einni heild; þá er annar kafli um ástand kirkju og trúbragða og um lærða skóla, skólameistara og aðra fræðimenn. Þriðji kaflinn er um höfuðsmenn og um Ludvig Harboe; fjórði kafli er um Skálholtsbiskupa, hinn fimti um Hólabiskupa og hinn sjötti um biskupa yfir öllu landinu. Alls er bókin 19 kapítular. Kirkjusaga Pjeturs biskups er aðalheimildarrit um sögu þessa tíma-

---

1) *Pjetur Pjetursson*: Commentatio de jure ecclesiarum in Islandia ante et post reformationem. Havniæ 1844, IV+129 bls. 8vo

2) *P. Pjetursson*: Historia ecclesiastica Islandiæ ab anno 1740 ad annum 1840. Havniæ 1841, VIII+508 bls. i 4to.

bils og er þar safnað saman miklum fróðleik, er snertir almenna sögu landsins og bókmenntasöguna; allmargt af því, sem þar er skráð, er hvergi annarstaðar til á prenti, og er bókin því ómissandi fyrir sagnaritara og fræðimenn. Kirkjusagan er tileinkuð Kristjáni konungi VIII. sem þakklætisvottur fyrir »loforð um hina fegurstu gjöf, sem Ísland nokkurn tíma hefir móttekið úr konungs hendi,« og er hjer átt við endurreisn alþingis. Efninu til kirkjusögunnar hlýtur Pjetur Pjetursson að nokkru leyti að hafa safnað á námsárunum í Kaupmannahöfn, því óhugsandi er, að hann hafi að öllu getað samið svo stórt rit eptir að hann varð prestur á Staðastað 1838, enda vantaði þar öll skjöl og skilríki; á þeim árum samdi hann líka ritið um Rufinus, Ræðusnið og latneskt rit um notkun mannlegrar skynsemi í trúarbragðaefnum, sem til er í handriti.[1]) Hafði hann auk þess að gegna prestsembætti, prófastsdæmi og mörgum öðrum störfum. Að hann þegar hafði aflokið svo miklu 32 ára gamall lýsir miklu starfsþoli og ástundun.

Seinustu árin á Staðastað var Dr. Pjetur farinn að safna til bókar um hag hinnar íslenzku kirkju (Islands kirkelige Statistik) og hafði fengið loforð um stjórnarstyrk til útgáfu þeirrar bókar, en þá fluttist hann suður til Reykjavíkur og fjekk mikið að starfa við að koma prestaskólanum á fót, semja fyrirlestra o. fl.; fyrirtæki þetta fjell því niður.[2]) Eptir það urðu embættisannir Dr. Pjeturs svo miklar og ýms störf í þjónustu hins opinbera svo margbrotin, að enginn tími var til að sökkva sjer niður í vísindin, sem þurfa ró, næði og tómstundir. Það fór þó fjarri því, að hann hætti ritstörfum; nú sneri hann sjer að ritum guðfræðisbóka og að alþýðufræðslu,

1) De usu rationis humanæ, qui in rebus divinis examinandis cum forma indoleque religionis christianæ maxime conveniat. Ritað á Staðastað 1839. Einkunnarorð: »Nous manquons encore plus sur la terre de raison que de religion.« Fenelon. Ritgjörðin er 65 bls. skrifaðar í folio; hún var samin veturinn 1835—1836, en fullgerð 1839.

2) Dálítil drög til þessa rits eru þó enn þá til.

þess var þá hin mesta þörf og Pjetur biskup varð í þeim greinum einn hinn afkastamesti rithöfundur, sem Ísland hefir átt. Þeirrar starfsemi mun síðar getið. Í sambandi við hin vísindalegu rit má geta tveggja ritgjörða sögulegs efnis, sem Dr. Pjetur skráði fyrir alþýðu, það voru æfisögur tveggja hinna merkustu biskupa í lúterskum sið, æfi Guðbrandar biskups Þorlákssonar sem kom út 1850 og æfisaga Brynjúlfs biskups Sveinssonar[1]) 1884 og eru báðar prýðilega samdar. Æfisaga Guðbrandar biskups[2]) er hin langbezta og ítarlegasta, sem skrifuð hefir verið á íslenzku um þenna merkismann; hún er mikinn part byggð á kirkjusögu Finns, en sumpart þó á sjálfstæðum rannsóknum. Því miður er ritgerð þessi prentuð í riti, sem fáir þekkja og enn færri lesa.

---

1) *P. Pjetursson:* Æfisaga Brynjúlfs biskups Sveinssonar. (Tímarit Bókmentafjelagsins V. 1884, bls. 36—67.)

2) Ágrip af æfisögu Guðbrandar Þorlákssonar Hólabiskups (Árrit prestaskólans I. Reykjavík 1850, bls. 123—184.)

## V. Dr. Pjetur Pjetursson forstöðumaður prestaskólans í Reykjavík 1847—1866.

Arið 1846 varð *Helgi Guðmundsson Thordersen* biskup yfir Íslandi; þá losnaði dómkirkjuprests-embættið í Reykjavík og sóttu þeir um brauðið, Dr. Pjetur Pjetursson á Staðastað og síra Ásmundur Jónsson í Odda († 18. marz 1880). Dr. Pjetri hafði lengi leikið hugur á því, að verða prestur í Reykjavík og hafði þegar sótt um það brauð 1835 ný orðinn kandídat. Nú töldu allir sjálfsagt, að Pjetur prófastur fengi embættið og Brynjólfur bróðir hans, sem þá var skrifstofufulltrúi í rentukammerinu og mátti sín mikils í Íslandsmálum, skrifaði bróður sínum, að hann fengi eflaust Reykjavíkurbrauðið og mætti fara að búa sig undir að flytja suður; Árni Helgason stiptsprófastur hafði einnig mælt með honum; Bardenfleth stiptamtmaður hafði líka beinlínis boðið honum brauðið. Um vorið áður en brauðið var veitt voru allir í Kaupmannahöfn svo sannfærðir um, að Dr. Pjetur fengi það, að hið konunglega norræna fornfræðafjelag skrifaði utan á brjef til hans »Herra dómkirkjuprestur Dr. Pjetur Pjetursson í Reykjavík«. En margt fer öðru vísi en ætlað er. Þegar Helgi biskup kom til Hafnar[1]) mælti

1) Hann var vígður af Mynster biskupi 4. sunnudag eptir Trin. 1846.

hann svo fast fram með síra Ásmundi við stjórnina, að hann fjekk brauðið. Var það þá í almæli, að það hefði haft töluverð áhrif á veitinguna, að síra Ásmundur var vel efnaður og lofaði að kaupa hús Helga biskups í Landakoti[1]), því biskup flutti þá inn að Laugarnesi[2]); síra Pjetur var þá fátækur, og treysti sjer því ekki til að kaupa húsið. Annars hafði Helgi biskup engan kala til Dr. Pjeturs og var honum síðar góður og meðmæltur. Síra Ásmundur varð eigi langgæður í Reykjavík, sem kunnugt er. Dr. Pjetri fannst, eins og eðlilegt var, að sjer hefði verið gert rangt til, en þá um vorið var allt útlit

1) Í brjefi dags. Staðastað 22. febrúar 1846 skrifar Dr. Pjetur Jóni bróður sínum: »Nýi biskupinn og jeg höfum skrifast á uppskrúfuð »höflegheita«-brjef á huldu, en — það hefur atvikast svo, að jeg hefi getað gjört honum talsverða þjenustusemi. Ekki meir um það. Hann lætur, sem hann vilji fá mig, sem eptirmann sinn í brauðinu. Annars sækja, það jeg veit, auk mín, prófastarnir síra Ásmundur í Odda og síra Halldór í Glaumbæ og síra Ólafur á Reynivöllum. Sumir segja líka, líklega af skömmum sínum við biskup, að síra Sigurður á Útskálum bróðir hans sje einn í tölu sækjendanna. Biskupinum hefur þótt við mig, að jeg vil ekki kaupa hús hans með túnum fyrir 5000 rd., en 1° bæði er ómögulegt að verja túnin fyrir bæjarpeningi og verður ekki komið við túngarði, og 2° Lambafóður þar eru borguð með 2 rda hestum heys af öllum, sem hafa grasnyt, og á meira heyi þarf ekki presturinn að halda, en jeg vil ekkert hafa með mjólkur útsölu að sýsla. 3° Getur biskupinn ekki gefið mjer eins langan borgunarfrest og jeg þarf, því raunar get jeg ekkert borgað í bráð. 4° þykir mjer það of langt frá bænum, þegar slæmt er veður, og presturinn þarf, eins og opt ber við, að vera á ferð niðri í bænum, einkum ef hann verður látinn lesa við skólann. Þó trúi jeg laust, að biskup leggi á móti mjer, en vilji hann það, verður hann að ráða því. Amtmaður segir, eða rjettara skrifar mjer, að ef þar sje rjettlæti til enn þá á jörðunni, hvar um hann eigi sízt að efast, sem hafi svo lengi verið í rjettlætisins þjónustu, þá fái jeg Reykjavíkurbrauðið«.

2) Sumarið 1856 fjekk biskup leyfi til þess að flytja frá Laugarnesi til Reykjavíkur og var eignin seld á uppboði veturinn eptir. Herra Helgi keypti nýtt hús í Lækjargötu, sem timburmeistari Arenz hafði byggt, fyrir 4000 rd. og bjó þar síðan. (Nú hús Þorláks Johnsens.) Út úr Laugarnessölunni varð allmikið þref, sbr. Þjóðólfur VIII., bls. 81, 92, 93, 121, 122—23; IX. 13, 23, 25, 33; X. bls. 13, 68, 76 o. s. frv.

til að stofnun prestaskólans mundi skotið á frest um langan tíma; hann sótti þá um brauð í Danmörku, á Sjálandi (Greve og Kildebrönde), en þá varð sú breyting, að ákveðið var að koma prestaskólannm þegar á gang[1]). Helgi biskup skrifaði þá Dr. Pjetri og spurði hvort hann mætti eigi sækja um forstöðumannsembættið við prestaskólann fyrir hann, en Pjetur prófastur tók sjer svo nærri þessi vonbrigði með dómkirkjubrauðið að við sjálft lá, að hann skoraðist undan að sækja um embættið, en vildi heldur fara suður til Danmerkur; en fyrir fortölur bróður síns og annara góðra manna ljet hann tilleiðast, enda átti hann mikinn þátt í stofnun skólans. Þó þeir síra Ásmundur og Dr. Pjetur framan af á ýmsan hátt væru keppinautar, þá var þeim jafnan vel til vina; síra Ásmundur kom síðar aldrei svo til Reykjavíkur, að hann ekki heimsækti Dr. Pjetur.

Með konungsúrskurði 7. júní 1841 var fyrirheiti gefið um að stofna prestaskóla á Íslandi, en þetta komst þó eigi til framkvæmda fyrr enn 1847, þá var skólinn stofnaður með konungsúrskurði 21. maí og hinn 27. s. m.[2]) var dr. theol. Pjetur Pjetursson, prófastur á Staðastað, skipaður forstöðumaður skólans, og tveim árum síðar (1849) hlaut hann prófessors nafnbót. Skólinn var settur 2. október 1847. Pjetur prófastur fór einn síns liðs til Reykjavíkur sumarið 1847 og var þar um veturinn, enn kona hans og börn dvöldu enn á Staðastað.

---

1) Hinn 18. júní 1846 skrifar Dr. Pjetur Jóni bróður sinum: »Síra Ásmundur hefir fengið Reykjavíkurbrauðið og eru Íslendingar ytra og sumir syðra ekki sem bezt ánægðir með þá veitingu, eptir því sem sagt er. Jeg fylgi þeirri gömlu og góðu reglu: tu ne cede malis, sed contra audentior ito! og læt mjer þetta lynda, fyrst ekki verður að gjört; það er mín trú, að æðri hönd setji menn þar, sem hún ætlar þeim að dvelja um lengri eður styttri tíma. Jeg er nú farinn að láta hlaða túngarð og 120 faðma langa tröð, en byrjaði vegna óvissunnar um hagi mína svo seint, að jeg í þetta sinn kem litlu í verk«.

2) Lovsamling for Island XIII bls. 702. Reykjavíkurpósturinn I. bls. 160.

Þenna vetur (1847—48) var Dr. Pjetur í kosti hjá Carl Siemsen, þýzkum kaupmanni í Reykjavík, sem var mjög vel menntaður maður. Dr. Pjetur afhenti skjöl prófastsdæmisins 5. ágúst 1847 í hendur Einari Sæmundssyni Einarsen á Setbergi sem þá var settur prófastur. Pjetur Pjetursson var mjög vinsæll og vel látinn af prestunum vestra, sem mörg brjef bera vitni um og var hans, sem eðlilegt var, almennt saknað í sóknum hans og allstaðar á Snæfellsnesi.

Sumarið 1848 fór Dr. Pjetur vestur til þess að ráðstafa búi sínu og fluttist svo suður landveg í júnímán. með konu og tvö ungbörn. Haustið 1847 hafði hann keypt hús Möllers kaupmanns í Austurstræti nr. 16 og varð að lána alt fje til kaupsins, því hann var þá fátækur og skuldugur. Í þessu húsi bjó Dr. Pjetur til dauðadags (1891); húsið var lítið en vel byggt úr góðum viði eins og þá var títt, ljet Dr. Pjetur síðan hvað eptir annað gjöra við það, bæta við það og ofan á það, svo viðaukarnir og viðgerðirnar kostuðu að lokum margfalt meira fje en hið upprunalega húsverð.

Reykjavík var 1848 lítill bær, en þó í allmiklum uppgangi, hún var þá að verða höfuðbær landsins, stjórnarvöldin og skólarnir voru að dragast saman á þenna blett, sem brátt varð miðdepill þjóðlífsins, þó sveitamönnum lengi fram eptir þætti bærinn óþjóðlegur. Það hafði Reykjavík líka verið fyrsta fjórðung aldarinnar, íbúarnir voru margir danskir, handiðnamenn, verzlunarmenn og fyrirfólk töluðu jafnaðarlega dönsku, en aðrir íbúar töluðu dönskublending, sem var hálfu verri, og reyndu að apa allt eptir hinum dönsku verzlunarþjónum. Embættismenn höfðu framan af öldinni búið á sveitabæjum í grennd við Reykjavík, stiptamtmaður bjó fyrst á Bessastöðum, svo í Viðey, svo í Reykjavík. Biskup bjó í Laugarnesi og flutti til Reykjavíkur 1856. Landlæknirinn bjó í Nesi við Seltjörn, háyfirdómarinn í Viðey og svo á Brekku á Álptanesi, yfirdómarinn annar

í Gufunesi, síðar á Elliðavatni o. s. frv. Þetta var smátt og smátt að breytast og kringum miðja öldina voru flestir embættismenn komnir til Reykjavíkur. Árið 1845 kom alþingi fyrst saman í Reykjavík og lærði skólinn var fluttur frá Bessastöðum 1846, en prestaskólinn stofnsettur þar ári síðar. Skólarnir og embættismannastjettin urðu nú um langa hríð aðaleinkenni Reykjavíkur, lærða stjettin varð þar ráðandi og í mestu áliti, en kaupmennirnir dönsku urðu smátt og smátt að þoka úr sæti, en þeir höfðu haft þar öll ráð og virðingu framan af öldinni og um miðja öldina var danska mikið töluð í Reykjavík og enn lengur víða í kaupstöðum út um landið.

Þegar Dr. Pjetur Pjetursson settist að í Reykjavík höfðu þessir embættismenn, er nú skal greina, aðsetur sitt í bænum. Stiptamtmaður var Matthias Hans Rosenörn (1847—49), en síðar Jörgen Ditlev Trampe (1850—60), bæjarfógeti var Stefán Gunnlaugsson (1838—49), landlæknir Jón Thorstensen (1833—55), dómkirkjuprestur Ásmundur Jónsson (1846—54), í yfirrjetti var Þórður Sveinbjörnsson († 1856) justitiarius, en Þórður Jónassen og Jón Johnsen dómendur og svo Jón Pjetursson litlu síðar (1850). Við latínuskólann var Sveinbjörn Egilsson rektor (1846—51), Hallgrímur Scheving yfirkennari og Björn Gunnlaugsson, Jens Sigurðsson og Halldór Friðriksson kennarar. Meðkennandi Dr. Pjeturs við prestaskólann var Sigurður Melsted (f. 1819, d. 1895), hann fjekk veitingu fyrir embættinu 17. september 1847. Þá var Reykjavíkurpósturinn eina tímaritið í Reykjavík (1847—49), Þórður Jónassen og þeir bræður Sigurður og Páll Melsteð gáfu út fyrsta árganginn, Þórður og Páll hinn annan og hinn þriðja; svo tók Sveinbjörn Hallgrímsson að gefa út Þjóðólf 1849, en Magnús Grímsson Ný tíðindi 1852. Dr. Pjetur kynntist fljótt Rosenörn stiptamtmanni og urðu þeir brátt góðir kunningjar, hittust opt og gengu saman sjer til hressingar á morgnanna og töluðu þá mest um söguvísindi, sem báðir voru mjög hneigðir

fyrir.[1]) Dr. Pjetur sagði líka eins og satt var, að Rosenörn hefði verið afbragðsmaður að vitsmunum og iðjusemi[2]). Það heimili, sem Dr. Pjetur og hans fólk mest hafði samgöngur við hin fyrstu ár í Reykjavík, var heimili Björns Gunnlaugssonar kennara. Kona Björns var Guðlaug Aradóttir frá Flugumýri (f. 1804 d. 1873) systir fyrri konu Pjeturs prófasts. Hún var mjög menntuð kona og skemmtileg og var heldri stúlkum opt komið til hennar til kennslu. Frú Guðlaug hafði meðal annars sjálf kennt sjer þýzku og keypti og las þýzkar bækur og tímarit og var það á þeim tímum mjög sjaldgæft, að konur kynnu útlend mál. Eptir að Bjarni Thorsteinsson amtmaður var fluttur til Reykjavíkur var samganga mikil milli þeirra húsa, því þeir höfðu verið góðir vinir vestra og samverkamenn, Bjarni og Pjetur.

Stúdentar frá Hólum, Skálholti og Bessastöðum gátu eins og kunnugt er allir orðið prestar án frekari menntunar. Skólar þessir voru því um leið prestaskólar og var í þeim kennt dálítið í guðfræði, en þó mjög af skornum skammti[3]). Samkvæmt skólatilskipun 3. maí 1743 áttu stúdentar að halda stólræðu í viðurvist biskups og áður en þeir fengju brauð áttu þeir undir leiðbeining og umsjón prests að æfa sig í prjedikunarlist, barnaspurningum og öðrum prestsverkum, og áður þeir væru vígðir átti biskup eða einhver prófastur að yfirheyra þá á ný. Þessum lagafyrirmælum mun hafa verið mjög slælega

1) Þessa gat Rosenörn löngu seinna með ánægju við höfund þessa rits. M. H. Rosenörn var fæddur 24. nóv. 1814, dó 30. marz 1902.

2) Landstíðindi I. bls. 21. Hinn 3. marz 1848 segir Jón Guðmundsson í bréfi til Jóns Sigurðssonar: »Rosenörn er afskiptasamur, einbeittur og reformatóriskur, tollinn kvað hann vilja hafa í líf og blóð, frjálsa verzlun, vígi staðnum til varnar og æfa varnarlið. R. er mikið iðjusamur og skiptir sjer af öllu og skerst í allt með mestu alúð.«

3) Fjelagsrit I. bls. 4—5. *Páll Melsted:* Guðfræðiskennslan í Bessastaðaskóla um mína daga (Verði ljós II. 1897 bls. 53—58.)

hlýtt. Eptir því sem námsgreinum fjölgaði í skólunum og kennslan öll varð yfirgripsmeiri, því örðugra var að veita lærisveinum þá sjermenntun, sem þurfti til prestsþjónustu. Það var því orðið bráðnauðsynlegt, að stofna sjerstakan prestaskóla, og var farið að hugsa til þess þegar hreyfing kom á íslenzk skólamál á árunum 1830—40. Skóla-stjórnarráðið danska beiddist 1838 álits stiptsyfirvaldanna um, hvernig haga skyldi umbót lærða skólans og hversu prestsefnum og læknaefnum yrði sjeð fyrir sæmilegri menntun í landinu sjálfu. Í konungsúrskurði 7. júní 1841 var beinlínis lofað að setja á fót sjerstaka guðfræðiskennslu. Á þinginu 1845 flutti Jón Sigurðsson bænarskrá um stofnun þjóðskóla á Íslandi og er þar farið fram á endurbót lærða skólans, gagnfræðakennslu, sjerstakan læknaskóla, prestaskóla, lagaskóla o. fl.[1]) Þingið komst að þeirri niðurstöðu að biðja að eins um endurbót lærða skólans og sjerstakan prestaskóla, þar sem auk guðfræðiskennslunnar væri kennd forspjallsvísindi.[2]) Af þessari bænaskrá þingsins mun hafa leitt, að stjórnin flýtti málinu meir en áður, leitaði álita hlutaðeigandi yfirvalda og gaf svo út tilskipun um stofnun prestaskólans 21. maí 1847 og var um leið gefin út skipulagsskrá fyrir skólann til bráðabirgða.[3])

Hinn 2. oktobermán. var prestaskólinn settur og 8 stúdentum veitt inntaka. Skólinn átti fyrst heima í latínuskóla-húsinu og hafði þar aðsetur sitt hin fyrstu 4 ár, honum var ætluð þar ein kennslustofa og eitt svefnhús handa 10 lærisveinum. Árið 1851 var skólinn fluttur í Sivertsenshús í Hafnarstræti (nr. 22) og 1872 þaðan í Austurstræti, þar sem hann er enn. Helgi Thordersen biskup hjelt vígsluræðuna, en forstöðumaður dr. Pjetur

1) Alþingistíðindi 1845. bls. 42—43.

2) s. st. bls. 627—628.

3) Prentuð í Reykjavíkurpósti I. bls. 140—143. Auglýsing stiptsyfirvalda um skólann s. st. I. bls. 175. Lovsamling for Island XIII, bls 702—724.

Pjetursson flutti aðra ræðu,[1]) þar getur hann svipaðra stofnana í öðrum löndum, einkum á Þýzkalandi, talar um aðdraganda að stofnun skólans, not þau, sem hann vonaðist til að af honum leiddi fyrir andlegt líf þjóðarinnar og um þær mótbárur, sem fram höfðu komið gegn skólastofnuninni.

Kennarar prestaskólans höfðu eins og eðlilegt var ærinn starfa hinn fyrsta vetur meðan verið var að koma skólanum á fastan fót og þeir þurftu af nýju að búa til alla fyrirlestra. Dr. Pjetur Pjetursson kenndi þá og víst optast síðan trúfræði, kennimannlega guðfræði, biblíuþýðing og barnaspurningar og hafði einu sinni eða tvisvar í viku skriflegar æfingar. Þá samdi Dr. Pjetur reglugjörð fyrir skólann, þegar hann hafði staðið árlangt, og sendi stiptsyfirvöldunum, var frumvarp þetta síðan sent kennslumálaráðherranum í Kaupmannahöfn, sem bar það undir guðfræðisdeild háskólans og svo fjekk reglugjörðin konunglega staðfestingu 30. júlí 1850, því nær óbreytt eptir frumvarpi forstöðumannsins.[2]) Reglugjörð þessi stóð óhögguð í gildi í 48 ár. Þá ljet Dr. Pjetur sjer vera umhugað um að útvega skólanum bókasafn og var skólinn þegar tveim árum síðar búinn að eignast 650 bindi, voru af þeim 200 góðar og nýjar bækur, sem háskólastjórnarráðið og hið konunglega bókasafn í Höfn höfðu gefið, en hitt voru mestmegnis fornar bækur um guðfræðisefni, sem lagðar voru til prestaskólans frá bókasafni latínuskólans. Prestaskólinn átti þá engan geymslustað fyrir bækurnar, svo forstöðumaður varð að geyma bókasafnið heima hjá sjer og samdi hann skrá yfir það.

Við stofnun prestaskólans voru honum lagðar 3 ölmusur, hver að upphæð 80 rd. af styrktarsjóði háskólans í Kaupmannahöfn og þegar húsnæði misstist í latínuskólanum fengu prestaskólamenn 30 rd. hver í húsa-

---

1) Árrrit prestaskólans I, 1850, bls. 1—27.

2) Reglugjörðin er prentuð í Landstíðindum II. bls. 158—159, 165—166.

leigustyrk. 1854 sótti Dr. Pjetur til stjórnarinnar um að aukið væri við 6 ölmusum, en það fjekkst ekki.[1]) Á þingi 1857 var samin bænarskrá til konungs um að fjölga ölmusum og auka húsaleigustyrkinn.[2]) Sökum fátæktar flestra lærisveina voru styrkirnir þó ónógir og Dr. Pjetur kom því til leiðar, þegar skólinn var vígður, að kennarar og prestaefni skutu saman dálitlu fje til þess að stofna styrktarsjóð handa fátækum stúdentum, er á prestaskólann gengu og átti sjóður þessi að vera jafnhliða bræðrasjóð lærða skólans. Pjetur prófessor ljet sjer mjög annt um að auka þenna sjóð, sem kallaður var *prestaskólasjóður*, og safna handa honum gjöfum hjá prestum og öðrum, ritaði hann í Reykjavíkurpóstinn hvöt til samskota í þenna sjóð[3]) og við árslok 1848 höfðu þegar safnast 409 rd. 15 sk. Síðar ljet dr. Pjetur stöðugt auglýsa í blöðunum allar gjafir til sjóðsins og reikninga hans til þess að vekja athygli manna á þessari stofnun. Það gekk þó nokkuð tregt að auka sjóðinn, en ákveðið hafði verið, að ekki skyldi fyrr veittur styrkur af honum en höfuðstóllinn væri orðinn 1000 rd. Við árslok 1855 var eign sjóðsins enn eigi orðin meiri en 781 rd. 40 sk., en þá hljóp dr. Pjetur sjálfur undir bagga með því að gefa sjóðnum allan ágóðann af »Tækifærisræðum« sínum, sem komu út 1857 í tveim prentunum. Ágóði sjóðsins af þessu fyrirtæki varð 212 rd. 92 sk., svo upp frá þessu mátti af vöxtunum veita fátækum nemendum nokkurn styrk.[4]) Síðar var prestaskólasjóðurinn nokkuð styrktur með ágóða af gleðileikum og tombólum og fjekk auk þess við og við dálitlar gjafir frá prestum og leikmönnum. Þegar Dr. Pjetur Pjetursson fór frá prestaskóla og tók biskupsembætti var sjóðurinn orðinn 1393 rd. 22 sk.[5])

1) Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands I. bls. 1—2.

2) Alþingistíðindi 1857, bls. 51—53, 109—114, 133—134, 151—152.

3) Reykjavíkurpóstur II. bls. 117—118. Skrá yfir gefendur s. st. III. bls. 48—56, 150—151.

4) Þjóðólfur VIII. bls. 65; X. bls. 158.

5) 1903: 4857 kr. 47 au.

Enn fremur bættist prestaskólanum annar sjóður, sem líka beinlínis var prófessor Pjetri að þakka, það var gjöf Halldórs Andréssonar[1]); þessi sómamaður vildi arfleiða einhverja stofnun að fje sínu og ráðlagði Dr. Pjetur honum að styrkja prestaskólann; sjóður þessi var við árslok 1865 orðinn 1109 rd. 63 sk. (1903: 3533 kr. 66 au.)

Prestaskólinn var þegar í byrjun mjög vel metinn af alþýðumanna. Í Norðanfara 1862 er t. d. komist þannig að orði: »Vjer þorum að segja, að engin menntastofnun hafi hjer náð annari eins alþýðuhylli eins og prestaskólinn og hefir ekki alllítið gjört til þess sú ástsæld og virðing sem að forstöðumaður hans hefir fengið hjá öllum þorra manns hjer um land allt.«[2]) Þó vantaði ekki útásetningar og aðfinnslur í blöðum. Í Þjóðólfi var 1855 fundið að því að aginn í prestaskólanum væri eigi nógu strangur, lærisveinar svikjust um að sækja kennslustundir, af því þeir hefðu eigi nóg aðhald og stunduðu ýms önnur störf jafnhliða.[3]) Þessu var rækilega svarað í sama blaði og sýnt, að aðfinnslur þessar væri á engum rökum byggðar, það væri hins vegar heldur ekki hægt að hafa barna-aga á fullorðnum mönnum, sem prestaskólann sóttu, slíkt gæti ef til vill átt við á latínuskóla, en ekki á æðri menntastofnunum. Í þeirri grein er þess meðal annars getið, að æskilegt væri, að námstíminn væri lengdur um eitt ár, en því muni varla verða við komið.[4]) Ýmsir af gömlu prestunum voru líka undir niðri óánægðir með forrjettindi þau, sem þeir þóttust sjá, að kandídatar frá prestaskólanum hefðu við brauðaveitingar fram yfir Bessastaðastúdenta.[5]) Út úr þessu öllu saman varð töluvert

1) Erfðaskrá Halldórs Andrjessonar er prentuð í Þjóðólfi VII. 1855 bls. 41—42.

2) Norðanfari I., bls. 84 (á að vera bls. 86).

3) Þjóðólfur VII. bls. 130—131, 138—40; VIII. bls. 47—48.

4) Þjóðólfur VIII. bls. 9—12. Hvort grein þessi er eptir Dr. Pjetur vitum vjer ekki, en líklegt er, að hann hafi eitthvað verið við hana riðinn.

5) Sbr. Þjóðólfur VIII, bls. 29—31, 39—40.

þras á milli Reykjavíkurblaðanna, dr. Pjetur ritaði tvær greinir í Ingólf[1]) og aðrir fleiri vörðu prestaskólann gegn aðfinnslum Þjóðólfs.[2])

Hinn 16. maí 1849 veitti stjórnin dr. Pjetri Pjeturssyni prófessors-nafnbót,[3]) það var þá tízka að veita hana forstöðumönnum hinna æðri skóla og sömu nafnbót fjekk Bjarni Jónsson rektor síðar. Dr. Pjetur Pjetursson útskrifaði 60 lærisveina af prestaskólanum og má víst óhætt segja, að hann var virtur og vel látinn af þeim öllum, enda var hann hinn mannúðlegasti og liprasti maður í umgengni við lærisveina sína sem aðra. Á skólanum hafði hann hin fyrri ár mikið starf að semja alla fyrirlestra og koma stofnuninni í rjett lag. Síra Jón Helgason segir um Dr. Pjetur: hann »reyndist prestaskólanum stjórnsamur forstöðumaður og einkar samvizkusamur öll þau 19 ár, sem hann hafði það embætti á hendi og tókst sem forstöðumanni að ávinna stofnun þessari hylli og traust þjóðarinnar og sjálfum sjer virðingu samkennanda sinna og lærisveina, því þeir fundu það í hvívetna, að honum var innilega annt um heill skólans og framþróun. Hann var maður vel lærður og víðlesinn og þótti sem kennari fremur ljós og auðveldur, en hvorki djúpur nje frumlegur að sama skapi og fremur daufur mun hann hafa þótt og hitalítill í kennarastólnum. Þótt hann ritaði bæði margt og mikið meðan hann var prestaskólakennari mun hann ekki hafa hirt svo mjög um að umrita eða breyta prestaskólafyrirlestrum sínum, heldur lesið þá lengst af fyrir í þeirri mynd er þeir höfðu fengið hjá honum í fyrstu.«[4]) Hve frumlegur dr. Pjetur hefir verið í fyrirlestrum sínum getum vjer ekki dæmt um, enda mun það naumlega verða heimtað af kennara við slíkan skóla, þar sem varla getur verið að ræða um

---

1) Ingólfur 1853—55. Rvík 1855 bls. 62, 66—67.

2) s. st. bls. 98—100, 113—144.

3) Reykjavíkurpóstur III, bls. 152.

4) Verði ljós II, 1897 bls: 153.

annað en hin allra fyrstu undirstöðuatriði vísindanna; vjer höfum heldur ekki heyrt getið um neinn frumleik eða uppgötvanir í guðfræðis-vísindum hjá neinum öðrum kennurum, sem við þann skóla hafa verið. Þeir hafa eðlilega útbýtt lærisveinunum þeirri þekkingu, sem þeir sjálfir hafa fengið við háskólann og af bókum, í hæfilegri þynningu eptir menntunarstigi áheyrenda, og er ekkert út á það að setja.[1]) Hvað höfundurinn meinar með »hitalítill« í þessu sambandi er oss ekki vel ljóst, í daglegum fyrirlestrum um trúfræði, biblíuþýðing, barnaspurningar o. s. frv. mun sjerleg andagipt eða prjedikara-hitaköst, varla eiga við eða komast að. Eptir öllu eðli sínu gat Dr. Pjetur ekki verið heitur og ákafur við kennslu eða önnur störf, það var einmitt hin mikla stilling og ró, og hin göfuga og þó ljúfmannlega framganga sem einkenndi hann og ávann honum virðing allra sem kynntust honum. Á yngri árum var dr. Pjetur í miklu áliti sem ræðumaður,[2]) en hrífandi mælskumaður var hann aldrei, þó ávannst honum meira en mörgum þeim sem brjótast um kófsveittir í ræðustólunum, þeim hættir líka allajafnan við að tala áður en þeir hugsa, en allt, sem Dr. Pjetur sagði og ritaði, lýsir rólegri íhugun og stillingu. Hve mikið eða lítið Dr. Pjetur hefir breytt fyrirlestrum sínum, vitum vjer eigi, en hafi hann lítið breytt þeim, þá hefir hann, að því sem sagt er, átt sammerkt í því við aðra kennara prestaskólans.

Í þá daga voru skýrslur um opinberar stofnanir enn þá sjaldgæfar. Dr. Pjetur var í því sem mörgu öðru forgöngumaður. Hann gaf út, sem fyrr var getið, skýrslu um bókasafn Vesturamtsins 1847, enn fremur

1) Dr. Pjetur Pjetursson segir í Ingólfi 1853, bls. 62: »Það getur ekki verið tilgangur prestaskólans og verður ekki heimtað af honum, eins og nú er ástatt, að gjöra menn að eins lærðum guðfræðingum og háskólinn, heldur að veita þeim þá menntun, sem gjöri þá að hæfilegum prestsefnum og færa um að standa sómasamlega í þessari stöðu sinni.«

2) Sbr. Þjóðólfur VIII. bls. 65.

skýrslu um biblíufjelagið 1854, skýrslur um prestaskólann 1850 og 1856,[1]) registur yfir bókasafn prestaskólans 1863 o. s. frv. Þá var hann og frumkvöðull að því, að kennarar prestaskólans fóru að gefa út tímarit kirkjulegs efnis 1850.[2]) Tímarit þetta kom þó ekki út nema eitt ár; það hætti þó ekki af því, að áskrifendur eigi fengist nógu margir, þeir urðu strax 767, meira en helmingi fleiri en gert hafði verið skilyrði fyrir útkomu ritsins, heldur líklega mest af því að prentsmiðjan gat eigi prentað það sakir anna við alþingistíðindin. Svo munu tímaritinu ekki hafa boðist nægilega margar ritgerðir, en Dr. Pjetur komst eigi yfir einn að skrifa allt. Það stóð þó til að annar árgangur kæmi út, útgefendurnir lofa (10. marz 1851) áframhaldi, þegar Þjóðfundurinn sje búinn og búið sje að prenta tíðindi um Þjóðfundinn.[3]) Það hefir líka ef til vill gert útgefendurna leiða á því að vera að brjótast í þessu, hve hrottalega var tekið á móti tímaritinu í ritdómum í Þjóðólfi. Í »Árritinu« eru fyrst prentaðar ræður þær, sem haldnar voru við vígslu prestaskólans, skýrsla um ástand skólans, umburðarbrjef Helga biskups 8. marz 1850 um synodus, skrá yfir hinar helztu guðfræðisbækur, sem út komu á Þýzkalandi og í Danmörku á árunum 1842—50, og nöfn áskrifenda. Þar eru þrjár ritgjörðir og eru tvær af þeim að mestu leyti þýðingar: um kirkjuhreyfingar á Þýzkalandi og um sakramentin eptir Martensen biskup, og svo allítarleg æfisaga Guðbrandar biskups Þorlákssonar, allar þessar þrjár ritgjörðir eru eptir prófessor Pjetur, svo það má heita, að

1) Skýrslan um prestaskólann 1856 er prentuð sjerstök (65 bls. 8vo). Þar er fyrst talað um stofnun skólans, þá kemur kafli um kennara og kennslu, þá um burtfararpróf 1849—55 og eru þar talin hin skriflegu verkefni, þá eru síðast skýrslur um fjárhag skólans og um bókasafnið.

2) Árrit prestaskólans, eptir Dr. P. Pjetursson og S. Melsteð kennara við prestaskólann. Fyrsta ár. Reykjavík 1850, 218 bls. 8o

3) Landstíðindi II., bls, 180.

hann skrifaði nærri allt tímaritið (af 218 bls. eru 170 beinlínis eptir hann) og sennilega hefir hann átt þátt í skýrslunum líka. Út úr tímaritinu spunnust ritdeilur milli Þjóðólfs og útgefendanna. Fyrst kom út langur ritdómur í Þjóðólfi[1]) að mörgu leyti óbilgjarn. Var þar mest fundið að máli og rjettritun, og er þó hvorttveggja fullt eins gott eins og á Þjóðólfi. Eins og vant er að vera í þesskonar ritdómum, voru aðfinnslurnar sumar rjettar, sumar rangar og sumar eintóm hótfyndni og svaraði Dr. Pjetur þeim stillilega[2]). Þá rjeðist ritdómurinn líka á umburðarbrjef biskups um synodus og kirkjustjórnina og átaldi líka athugasemd Dr. Pjeturs um verzlunarmál í æfisögu Guðbrandar biskups. Guðbrandur Þorláksson vildi sem kunnugt er rýmka um verzlunarfrelsi á Íslandi og vildi að almenningur eignaðist verzlunarskip og stofnaði verzlunarfjelög, en Jón Jónsson lögmaður[3]) og lögrjettan lögðust á móti og sendu konungi bænaskrá um að afstýra slíkri óhæfu, líklega af því þeir hjeldu, að biskup mundi hafa einhvern hagnað af þessu. Með þessu sýndu Íslendingar velþóknun sína á einokunarverzluninni, sem litlu síðar var innleidd. Þetta er einn með svörtustu blettum í sögu Íslands og höf. æfisögunnar fer nokkrum orðum um þýðing og nauðsyn frjálsrar verzlunar, en það vill Þjóðólfur ekki heyra. Mót þessum ritdómi ljetu útgefendurnir prenta svar á sjerstökum blöðum[4]). Deilurnar snerust svo smátt og smátt

1) Þjóðólfur II. bls. 140—143.

2) Landstíðindi II., bls. 109—110.

3) Þörf væri á að einhver ritaði skynsamlega um viðureign Jóns lögmanns og Guðbrandar biskups; hið eina, sem ritað hefir verið um það í samhengi, er ritgjörð síra Arnljóts Ólafssonar um Varnarrit Guðbrandar biskups (Safn II. bls. 328—428), en hún er afar-hlutdræg og rituð af litlum skilningi á sögu Íslands.

4) Svar upp á aðsenda grein í Þjóðólfi um Árrit prestaskólans. Einkunnarorð: »Han orthografisk var.« Reykjavík 6. júlí 1850. 2 blöð 4°

að tillögunum að kirkjustjórn, er komið höfðu fram í Árritinu í umburðarbrjefi Helga biskups.[1])

Auk embættisstarfa sinna við prestaskólann fjekkst dr. Pjetur Pjetursson við margt annað, er snerti almennings þarfir, og sýndi það sig nú sem fyrr, að hann var hinn mesti starfsmaður og afkastamaður, var hann í flestu sjálfkjörinn til forustu sakir dugnaðar, lipurðar og prúðmennsku. Dr. Pjetur var þegar á yngri árum höfðinglegur í framgöngu, háttprúður og hið mesta snyrtimenni, hann var vel máli farinn, stilltur, ráðsettur og tillögugóður og iðinn og kappsamur að hverju verki. Dr. Pjetur varð því fyrir lærdóms sakir og mannkosta snemma nokkurs konar öndvegishöldur hinnar íslenzku prestastjettar og það löngu áður en hann varð biskup; var hann mjög vinsæll maður og alstaðar í miklu áliti.

Á þessum árum, sem hjer ræðir um, var prófessor Pjetur eitthvað riðinn við flest opinber mál í Reykjavík og við allmörg önnur landsmál. Eptir að Dr. Pjetur kemur til Reykjavíkur lifnar mjög yfir öllum kirkjulegum framkvæmdum og fæst hann mikið við öll kirkjumál, sem á þeim árum voru á dagskrá, bæði á alþingi og utan þings; alstaðar er hann hvatamaður til umbóta og framkvæmda og munum vjer síðar nánar geta hins einstaka. Hjer nefnum vjer að eins fátt eitt. Dr. Pjetur var aðalhvatamaður að endurskoðun sálmabókarinnar, átti mikinn þátt í viðreisn biblíufjelagsins og endurskoðun og útgáfu biblíunnar, var mikið riðinn við tilraunirnar til að auka vald og þýðingu synodusar o. s. frv., hann jók prestsekknasjóðinn mikið og af hans hvötum komust tveir sjóðir á stofn við prestaskólann. Á árunum 1849—51 var Dr. Pjetur ritstjóri Landstíðindanna og ritaði sjálfur mestallt blaðið, þá var hann þingmaður 1849—1885 og það einn af hinum afkastamestu, opt varaforseti á hinum ráðgefandi þingum, en á löggefandi þing-

1) Þjóðólfur II, bls. 159—160, 163—165, 167—168, 181—184. Hálfyrði um árrit prestaskólans (Landstíðindi II, bls. 109—110).

unum forseti í efri deild, þá var hann nokkur ár ritstjóri þingtíðindanna og í flestum hinum stærri nefndum. Árin 1848—1868 var prófessor Pjetur forseti Bókmenntafjelagsins í Reykjavík; opt aðstoðaði hann Helga biskup í embætti hans og þjónaði biskupsembættinu með köflum í siglingum og sjúkleika Helga Thordersen's. Dómkirkjubrauðinu þjónaði Dr. Pjetur um tíma og auk þess var hann eðlilega opt prófdómandi við latínuskólann og viðriðin flest skólamál. Í bæjar- og fjelagsþarfir starfaði hann og ýmislegt, þannig var hann formaður í bæjarstjórn 1848—1854 og sáttasemjari í Reykjavík[1]) í 18 ár (1848—65), þá átti hann þátt í sjúkrahúss-stofnun í Reykjavík 1863 og var kosinn í sjúkrahúss-nefndina[2]); hann var einnig annar af tveim í verðlaunanefnd er dæma átti rit um hreinlæti o. fl. fyrir tilstilli Isac Sharps.[3]) Hinn 28. jan. 1858 bar Dr. Pjetur fram þá uppástungu í Suðuramtsins húss og bústjórnarfjelagi, að veitt yrði verðlaun fyrir beztu ritgjörð um það, hvernig afleiðingar fjárkláðafaraldursins gætu orðið sem skaðaminnstar fyrir almenning,[4]) og þannig fjekkst hann eðlilega við mörg önnur fjelagsmál. Við hátíðleg tækifæri var Dr. Pjetur þá þegar opt fenginn til að halda ræður og aðstoðaði jafnan við kirkjulegar athafnir, sem fram fóru í dómkirkjunni; líkræður hjelt hann yfir flestum hinum merkari mönnum sem önduðust, einkum hin fyrri ár, og eru allmargar af ræðum þessum prentaðar.[5])

1) Þjóðólfur XVIII, bls. 40, 45.

2) Þjóðólfur XVI, bls. 29—30.

3) Þjóðólfur XIX. bls. 99.

4) Þjóðólfur X. bls. 47, 87.

5) Í Tækifærisræðum dr. Pjeturs, Reykjavík 1857, eru prentaðar líkræður yfir Sveinbirni Egilssyni rektor, Jóni Thorstensen landlækni, ekkjufrú Jóhönnu S. Bogadóttur, Þórði Sveinbjörnsen háyfirdómara, ekkjufrú Valgerði Jónsdóttur, Hannesi prófasti Stephensen. Þá eru einnig prentaðar ræður við jarðarfarir dr. Hallgríms Schevings, Helga biskups Thordersens og Jóns Sigurðssonar í öðrum ritum.

Þegar lát Kristjáns konungs hins áttunda frjettist til Reykjavíkur hjeldu hinir æðri skólar minningarhátíð 8. maímán. 1848; við það tækifæri var fyrst sungið kvæði eptir Dr. Sveinbjörn Egilsson; þá hjelt Dr. Pjetur Pjetursson minningarræðu og síðan sungu skólapiltar kvæði eptir Gísla Thorarensen; um samkomuna var svo prentað sjerstakt rit.[1]) Minningarræða Dr. Pjeturs lýsir konungi vel og skýrir frá velgjörðum hans við Ísland, er hann endurreisti alþingi hið forna á þjóðlegum grundvelli og sýndi Íslendingum velvildarhug í mörgu öðru. »Mildi hans við oss Íslendinga,« segir Dr. Pjetur, »var ekki snögglegt góðvildar-uppþot, sem kemur fljótt og fer eins fljótt aptur, líkt og sólarglampi í sjóarbáru, heldur var hún byggð á hyggindum og samfara umhugsun um forlög okkar eptirleiðis.« Í ræðulok segir Dr. Pjetur: »Vjer munum aldrei gleyma því, að þó margt kunni að verða blómlegra hjer á landi eptir en áður, þó ókomni timinn rjetti að okkur tómar rósir, þá spretta þær upp af rótum þeim, sem Kristián VIII. hefir gróðursett og verða ekki slitnar frá minningu hans nema með því að ónýta og tæta í sundur sögu okkar og sannleikann, en það getur enginn, sízt nokkur sá, sem ann hvorutveggju og er góður Íslendingur.«

Í sömu ræðu talar Dr. Pjetur meðal annars um, hve þýðingarmikið það sje að glæða þjóðernistilfinninguna, eins og Kristián konungur hafi gert með stofnun alþingis. Honum farast meðal annars þannig orð: »Þegar einhver verður altekinn af hættulegri innvortisveiki, þá kemur ekkert kák að haldi, eða nein útvortis meðul, heldur verður að komast að upptökum og tilefni sjúkdómsins til þess bót verði á honum ráðin. Eins er líka varið með vanheilsu heilla þjóða, tilskipanir og rjettar-

---

1) Sorgarhátíð í minningu dauða Kristjáns konungs áttunda, haldin í Reykjavík af vísindastiptunum landsins 8. dag maímánaðar 1848. Reykjavík 1848, 18 bls. 8vo Ræða dr. Pjeturs bls. 5–16.

bætur geta, ef til vill, grætt útvortis sár og meinsemdir, þær geta tiltekið alla ytri skipun þjóðfjelagsins og rjettindi og skyldur einstakra lima þess. En sje vanheilsan andleg, þá veita þær ekki nema stundarfrið og fróun; sje andlegur dauði kominn inn í þjóðfjelagið og farin að heltaka hjartataugar þjóðarinnar, það er að segja þjóðernið sjálft, þá verður ekki ráðin bót á því til hlítar með neinum útvortis aðgjörðum, heldur verður lækningin að byrja á hjarta þjóðarinnar, hún verður að byrja á þjóðerninu sjálfu, það verður að fá í sig nýjan yl og nýja lífsglæðingu, til þess að geta rekið dauðann á flótta og lífgað og vermt upp aptur þjóðarlíkamann.«[1]) Á sama stað talar dr. Pjetur einnig um vísindaást Kristjáns konungs, hann hafði eins og kunnugt er ágæta hæfilegleika og var mjög elskur að vísindum. Þar segir dr. Pjetur: »Öll menntun þjóðanna, sannur fjelagsandi og þjóðerni verður að draga að sjer vísinda-anda, því það er allt í ætt við vísindin sem er gott og fagurt og það breiðist með þeim út um löndin, og allt verður að fá sjer einhvern stuðning af þeim, annars dettur það sundur og hrynur, eða líður hjá eins og draumur.«[2])

Við vígslu dómkirkjunnar í Reykjavík 28. oktober 1848 aðstoðaði dr. Pjetur Pjetursson biskup og dómkirkjuprest. Við þessa athöfn var mikill mannfjöldi bæði af sóknarmönnum og sveitafólki, svo kirkjan var troðfull og margir komust eigi inn. Þegar stóð rjett á hádegi kom biskup herra Helgi í kirkjuna og bar í höndum sjer heilaga ritningu, með honum gekk Dr. Pjetur Pjeturssson og dómkirkjupresturinn síra Ásmundur Jónsson, bar annar kaleikinn og diskinn, en annar skírnarfatið. Þessir þrír gengu inn í kór, en múgurinn fylgdi þeim inn á mitt kirkjugólf. »Biskup tók þá við hinum helgu dómum og setti á sinn stað, kaleikinn á altarið og og fatið

1) S. st. bls. 9.
2) S. st. bls. 12—13.

á fontinn.[1]) Sjálfur staðnæmdist hann fyrir altarinu en hinir gengu til sætis. Nú var byrjaður söngurinn á þessu: »Guð í þínu nafni nú«, og sungu skólapiltar fjórraddað undir með organinu. Þá er sungin voru þessi tvö vers og sálmur á eptir, stje biskup í stólinn, skrýddur rikkilíninu. Gjörði hann fyrst bæn sína til drottins fyrir húsinu og fólkinu. Því næst þakkaði hann guði fyrir þá hina veglegu minningu nafn síns, er hann með þessu húsi hefði látið reisa í söfnuðinum, þá líka konunginum, Kristiáni heitnum áttunda, fyrir það örlæti, er hann hefði ekkert viljað spara til að gjöra þetta hús sem prýðilegast, og loksins smiðunum, sem með snilldarlegum hagleik hefðu unnið að þessu verki bæði fljótt og vel. Sagði biskup, að það væri ekki ófyrirsynju, að drottinn hefði látið reisa þetta veglega hús í landi voru einmitt á þessum tíma, er það, eins og talandi vottur um hans dýrðlega nafn skyldi þrýsta mönnum til trausts og trúrækni á þessari ókyrrlátu og brjálsömu öld. Þá er hann hafði lokið ræðu sinni í stólnum, var byrjað versið: »Lofið guð, lofið hann, hver sem kann!« Á meðan gekk biskup fyrir altarið og skrýddist biskupskápunni. Þar hóf hann vígsluræðuna sjálfa, unz hann lýsti því yfir, að þetta hús væri hjeðan í frá fráskilið allri veraldlegri notkun, það væri kirkja Reykjavíkur og Seltjarnarhrepps og dómkirkja landsins, og þessu lýsti hann með upplyptum höndum og í nafni heilagrar þrenningar; skoraði hann á söfnuðinn að segja þar til amen og var það gjört með því söngflokkurinn söng það þriraddað.«

Á hinum fyrri árum Dr. Pjeturs í Reykjavík var þar stundum nokkuð umbrotasamt á ýmsan hátt, breytinga-andi sá, sem ríkjandi var erlendis fluttist líka þangað, þó breytingarnar samkvæmt landsháttum væru ekki víðtækar. Veturinn 1849—50 urðu í latínuskólanum upp-

---

1) Athöfn þessari er lýst í Þjóðólfi 1. árg, 1848 bls 17—18, og þótti mjer ekki ófróðlegt að setja hjer ágrip lýsingarinnar, því fæstir eiga nú aðgang að gömlum frjettablöðum.

þot nokkur, sem enduðu með »pereatinu« svo kallaða 17. janúar 1850. Upphlaup þessi voru í rauninni þýðingarlítil barnabrek í fyrstu, en meira varð úr þeim vegna óþarfa stífni og ólags öðru megin og drengjadrambs og æsinga hinu megin, svo bætti það ekki úr að borgarar, embættismenn og blaðamenn skiptust líka í flokka í þessu máli og drógu ýmist taum pilta eða skólastjóra.[1]) Út úr óróa þessum spunnust ritdeilur milli Þjóðólfs og Landstíðinda og ritaði prófessor Pjetur töluvert um málið í blaði sínu. Hann komst að þeirri niðurstöðu, að regluleysi það, sem þann vetur hafði átt sjer stað í skólanum væri mest að kenna reglugjörð skólans, sem skipti valdinu og þar með ábyrgðinni. Vjer sjáum ekki betur, en að Dr. Pjetur einmitt taki fram aðalmeinið, sem jafnan síðan hefir staðið skólanum fyrir þrifum. Höf. kemst þannig að orði: »Sambandinu milli stiptsyfirvalda og rektors og skólans og rektors hefir samkvæmt reglugjörðinni verið þannig háttað, að rektor hefir ekkert verulegt vald haft yfir skólanum, heldur hefir hann þurft að bera hvað eina undir stiptsyfirvöldin, sem aptur hafa orðið að bera öll hin stærri mál undir úrskurð hlutað-

1) Í brjefum ýmsra manna frá þeirri tíð er talað um ólag það, sem þá var á skólanum. *Gísli Sigurðsson Thorarensen* var settur kennari við latínuskólann veturinn 1847—48 og kenndi meðal annars dönsku; hann varð að þoka fyrir Halldóri Friðrikssyni, sem varð fastur kennari 2. júní 1848. Í brjefi til Konráðs Gíslasonar dags. 20. ágúst 1848 segir Gísli Thorarensen: »Það er ein sú aumasta staða að vera hjer kennari eins og andi pilta er, hrokinn frábær, hatur við allt danskt öldungis út í loptið, og þetta er svo magnað, að enginn piltur má tala danskt orð og vilji kennarinn tala við þá á dönsku, svara þeir honum ekki, þetta er gert að lögum og rektor samsinnir þessu. Siðferðið vil jeg ekki nefna, að undanteknum drykkjuskap, Reykjavík er alþekkt og hún hneykslast þó á skólanum.« Í brjefi 20. febr. 1849 segist Gísli nú útflæmdur úr skólanum, ofsóttur af Halldóri o. s. frv. og bætir svo við: »Því skal jeg aldrei gleyma, að þá var dr. Pjetursson sá eini maður í Reykjavík, sem var mjer vel, hann sótti um Fellið fyrir mig og náði því með harðfylgi í haust.« Í hinu fyrra brjefi segir hann líka: »Síra Pjetur hefir verið sá eini maður, sem hefir verið mjer ástsamlega góður.«

eigandi ráðgjafa í Kaupmannahöfn. Þar að auk hefir rektor ekki verið ætlaður bústaður í skólanum, sem þó er öldungis nauðsynlegt og tíðkanlegt í öllum löndum, hefir hann því orðið ókunnugur ástandi og framferði skólans. Það er því ekki að kynja, þó þessi tilhögun hafi orðið til að drepa niður virðingu rektors i skólans augum, því að skólinn hlaut að sjá, að rektor var þýðingarlaus og að hann skorti bæði þekkingu á ásigkomulagi skólans og vald til að viðhalda þar góðri reglu eins og lika þessi meðvitund hjá rektor hlaut að draga kjark úr öllum aðgjörðum hans. Þegar svona var ástatt, að enginn hefir haft ábyrgð á stjórn og kennslu, hvorki kennarar, rektor nje stiptsyfirvöld, af því enginn þessara hefir haft neitt vald út af fyrir sig, þá sjer það hver góður og greindur maður, að það þurfti ekki að vera megn óhlýðnis-andi drottnandi í skólanum, þó einhvern tíma bæri út af lagi, og er hitt öllu meiri furða, að þetta bar ekki fyrr að.« Höf. álitur því nauðsynlegt, að reglugjörð skólans sje endurskoðuð og henni breytt og rektor fengið meira vald í hendur, honum útvegaður bústaður í skólanum og öll ábyrgð á kennslu og stjórn skólans sje lögð á hann einan.[1]) Seinna fjekkst dr. Pjetur tölu-

1) Landstíðindi I. bls. 75. Í brjefi 31. ágúst 1848 til Konráðs Gíslasonar er doktor Pjetur að óska þess að Konráð verði kennari við skólann og segir: »Hann (skólinn) getur ekki fengið þinn líka í því, sem einna mest á ríður, sem er þjóðernið og málið.« Þó segir hann að Konráð muni geta orðið landinu til mikils gagns og sóma með því að vera við háskólann, svo »jeg get varla fengið af mjer að æskja komu þinnar hingað; að öllum ólöstuðum mæta manni þó ýmisleg óþægilegheit af þeim, sem annaðhvort eru mosavaxnir frá 18. öld, eða vilja ofan af manni skóinn, og þar sem allir kippa hver í sína áttina er það ekki gott að vera hjer fyrir eins kóleriskan mann og þig, sem vilja koma á samtökum og láta eitthvað gott af sjer leiða.« Um ástand skólans talar dr. Pjetur í brjefi til Konráðs 6. september 1849. »Ekki get jeg sagt, að mjer líki ástand latínuskólans eins og það er núna; bæði er húsið slæmt og hefir þó kostað ósköpin öll, og svo er stjórn og agi ekki sem bezt. Rector gerir hvað hann getur og hann getur það ekki betur; honum er ekki lagið að stjórna, en kennsla hans er góð. Scheving er orðinn gamall og honum

vert við skólamál og átti mikinn þátt í umbótum á reglugjörð skólans og mun þess síðar getið. Út úr ritdeilunum um skólamálið var Þjóðólfur að drótta því að dr. Pjetri, að hann mundi vilja verða rektor og sameina þá stöðu við lektors-embættið við prestaskólann[1]). Þetta hafði þó dr. Pjetri aldrei dottið í hug, hann hafði meir en nóg að gjöra við prestaskólann, sem þá var að komast á fót, auk margra annara starfa, sem hann hafði tekist á hendur.

Nokkrum árum síðar (1854) var prófessor Pjetur nokkuð riðinn við þær breytingar sem urðu á þjónustu við dómkirkjuna í Reykjavík. Eins og fyrr var getið varð síra Ásmundur Jónsson prestur í Reykjavík 1846, hann var mesti sómamaður og merkur maður að mörgu, en honum lánaðist ekki að ná hylli safnaðarins í Reykjavík. Þegar síra Ásmundur tók við embætti, átti söfnuðurinn að sjá á bak hinum ágætasta presti; Helgi Guðmundsson var framúrskarandi ræðumaður, svo það var ekki öllum hent að feta í fótspor hans og ekki var það meðfæri síra Ásmundar. Hann var enginn afburðamaður og sízt var honum gefin mælska og orðsnilld. Síra Ásmundur lagði að sögn ræður sínar flestar út úr þýzku og var málið á þeim illt og eptir sig kveðið, svo var framburðurinn slæmur, prestur var fljótmæltur og fastmæltur, og mismælti sig stundum eins og Jón lektor faðir hans, svo gárungar hentu gaman af; kirkjan var því optast nærri tóm þegar hann embættaði. »Pereats«-veturinn (1849—50) voru ýmsar hreyfingar í Reykjavík og var þá ekki undarlegt að menn ljeti í ljós óánægju sína með prestsþjónustuna. Það bar þá til hinn 10. febrúarmán. 1850, að Helgi biskup prjedikaði í dómkirkjunni og var

er nokkuð farið að förlast. Gunnlögsen er of linur þó hann sje eins og við vitum afbragð. Jens Sigurðsson er bezti kennari, en of dulur til að geta stjórnað piltum. Undan Halldóri gengur, en hann gjörir sjer of mikið far um það, ef til vill, að láta hlýða sjer í svipinn, annars held jeg hann sje góður kennari.«

1) Þjóðólfur II, bls. 158.

þar fjöldi fólks saman kominn »til að hlýða röddu síns fyrra hirðis«, en eptir embætti stje Sveinbjörn Hallgrímsson ritstjóri upp á bekk á syðra loptpalli og talaði til biskups og safnaðar, kvartaði hann undan því að kirkjan stæði tóm á helgum dögum og krafðist þess, að söfnuðurinn fengi nýjan prest.[1]) Þetta mæltist misjafnlega fyrir, en leiddi þó til þess á endanum, að síra Ásmundur varð leiður á verunni í Reykjavík og sótti aptur um Odda þegar síra Markús bróðir hans dó 1853. Þá urðu Reykjavíkur sóknarmenn að sjá sjer út nýjan prest og voru helzt tilnefndir síra Halldór Jónsson á Hofi, síra Hallgrímur Jónsson á Hólmum og síra Ólafur Pálsson í Stafholti; hinn síðastnefndi varð sem kunnugt er hlutskarpastur og fjekk dómkirkjubrauðið 10. september 1854. Á milli presta þjónaði Dr. Pjetur dómkirkjubrauðinu frá því honum var falið það á hendur af biskupi 6. júní 1854 þangað til síra Ólafur Pálsson tók við[2]); Ólafur

1) Ræða Sveinbjörns Hallgrímssonar er prentuð í Þjóðólfi (Hljóðólfur) II, 1850, bls. 127. Fyrir ræðuna var Sveinbjörn Hallgrímsson sektaður um 10 rd. »sem helgidagsbrot«, og var neitað um prentun á því Þjóðólfsblaði í landsprentsmiðjunni, sem að ræðan átti að standa í, hann varð því að sigla til Hafnar og láta prenta blaðið þar. Um þetta skrifar dr. Pjetur Jóni bróður sínum 13. marz 1850 og bætir svo við: »Bændur ætluðu nú að skrifa presti brjef og biðja hann að sækja hjeðan eða að taka kappellán og hjeldu alteina fundi, en bæjarfógeti gat fengið þá ofan af þessu og útvegaði loforð biskups um, að hann skyldi messa og láta messa 12 sinnnm á ári. Með þetta gjörðu bændur sig ánægða, en prestur vildi ei, og klagaði bændur til Ministerii, tóku þá bændur sig saman og skrifuðu biskupi og ítrekuðu þá bón, að prestur sækti þaðan eða tæki kapellán, þar eð þeir heyrðu eigi til hans, voru 135 búendur og 40 búlausir undir brjefinu, sem einnig gengur til Ministerii. Justitiarius tók þá saman brjef þess efnis, að vel heyrðist til prests, og að ræður hans væru góðar; undir þetta brjef skrifuðu hjer um bil 50, mest embættismenn og kaupmenn og jeg þar á meðal, ásamt þrem öðrum »at jeg selv kunde godt höre« og ætluðu þeir góðu menn þó að ganga fram hjá mjer, af því þeir hjeldu, að jeg væri á móti presti«.

2) Hjónavígsluræður, skriptaræður og fermingarræða frá þeim tíma (1854) eru prentaðar í Tækifærisræðum Dr. Pjeturs, bls. 47—78.

Pálsson var í umboði stiptprófasts settur inn í embættið af prófessor Pjetri 1. sunnud. í aðventu s. á. og embættaði í fyrsta sinn næsta sunnudag eptir. Þess má geta, að síra Hallgrími á Hólmum fyrst hafði verið veitt brauðið, en hann sá sig um hönd og fjekk leyfi til að halda sínu gamla brauði. Þegar Dr. Pjetur þjónaði embættinu, brá mjög við frá því sem áður var, nú var kirkjan troðfull af fólki á hverjum helgum degi. Var það þá í almæli í sókninni, að söfnuðurinn gæti ekki fengið betra prest en síra Pjetur var, ef hann vildi sækja, en þess var ekki kostur, það var allt of mikill tekjumissir fyrir hann, fátækan mann, að sleppa forstöðumanns-embættinu við prestaskólann. Þá mun það hafa komið til orða meðal embættismanna í Reykjavík, hvort ekki væri hægt að liðka þetta mál báðum pörtum til geðs, þannig að þeir prestaskólakennararnir dr. Pjetur Pjetursson og Sigurður Melsteð þjónuðu Reykjavíkurbrauðinu auk kennslunnar við prestaskólann. Sem betur fór varð ekkert úr þessari fyrirætlun, það hefði hlotið að draga afl úr báðum embættunum[1]). Jón Guðmundsson stóð um það leyti í ritdeilum við Ingólf um prestaskólann og var þá stundum mjög óbilgjarn í dómum sínum, meðal annars dróttaði hann því að dr. Pjetri, að hann vildi sameina handa sjer embættin bæði og svaraði prófessor Pjetur því á þessa leið[2]): »Hann (Jón Guðmundsson) vílar ekki fyrir sjer — þó með vífilengjum — að drótta því að mjer, að jeg hafi róið að þessari sameiningu. Svona geta menn villst frá sannleikanum og giört öðrum rangt til, þegar þeir vilja hafa sitt fram án þess að vanda meðulin til þess. Ef jeg sæi mjer fært að gegna bæði prestsembætti hjer og þeim störfum, sem jeg hefi á prestaskólanum, og sæktist eptir að fá þetta sameinað, þætti mjer engin minnkun að gangast við því. En af því þessu er ekki þannig varið, get jeg vel unnt síra Halldóri eða hverjum

1) Sbr. Þjóðólfur V. bls. 125, 142, 156; VI. bls. 210, 230.

2) Ingólfur 1853—55. Rvík 1855, bls. 67.

öðrum góðum manni þess að fá þetta brauð þegar það losnar.«[1])

Árið 1848 sagði Árni Helgason stiptsprófastur af sjer forsetastörfum í Reykjavíkur-deild hins íslenzka Bókmenntafjelags[2]) og var dr. Pjetur Pjetursson þá kosinn forseti og hjelt hann þeirri sýslan í 20 ár, sagði aptur af sjer forsetastörfum 18. september 1868, tveim árum eptir að hann var orðinn biskup. Í þá daga urðu ekki miklar breytingar á embættaskipun í fjelaginu, því nær alla forsetatíð Dr. Pjeturs voru sömu starfsmennirnir í Reykjavíkur-deildinni, Jens Sigurðsson skólakennari fjehirðir, Sigurður Melsteð skrifari og Einar Þórðarson bókavörður; framkvæmdirnar voru nú þá heldur ekki miklar eða margbrotnar og bar ýmislegt til þess. Þess hefir fyrr verið getið, að Dr. Pjetur meðan hann var prestur á Staðastað sýndi áhuga á framförum Bókmenntafjelagsins með því að stofna styrktarfjelag í sveitinni, og það var eðlilegt og átti vel við, að hann, sem var einn hinna fáu íslenzku vísindamanna og afkastamikill rithöfundur, yrði forseti fjelagsins. Sama ár var Brynjólfur

1) Þessi tröllasaga, að dr. Pjetur hafi viljað sameina dómkirkjubrauðið við forstöðumanns-embætti prestaskólans og jafnvel ná undir sig rektors-embættinu, hefir haldist fram á vora daga hjá sumum. Sannast þar hið fornkveðna: »Calumniare audacter! semper aliquid hæret.«

2) Varla hefir þó stjórn Bókmenntafjelagsins farið frá alveg af fúsum vilja, þegjandi og hljóðalaust. Hinum yngri mönnum hefir þótt stjórnin aðgjörðalítil, enda hafði hún að heita mátti aldrei gjört neitt, og því hafa þeir viljað kjósa framfaramenn. Stjórnin fór öll frá, Árni Helgason, Jón Jónsson lektor og Þórður Jónassen; þá (1848) kaus deildin í fyrsta sinn bókavörð, Jón Árnason, og hafði hann þann starfa á hendi til 1854. Um þessa stjórnarbreytingu skrifar Dr. Pjetur Pjetursson Konráði Gíslasyni 3. marz 1849: »Hvernig lízt ykkur á revolútiónina hjerna í Bókmenntafjelaginu? Þó við hefðum sett kónginn af og steypt öllum ráðgjöfum hans úr völdum, þá hefðum við ekki orðið harðara úti eða mætt ómildari dómum, en við höfum orðið fyrir hjá einstöku mönnum hjerna. En við höfum breitt bak, og síðan embættaskiptin urðu hafa margir bæzt í fjelagið.«

bróðir hans kosinn forseti í Hafnar-deildinni og gegndi þeim starfa þangað til um vorið 1851, því þá var hann orðinn veikur af þeim sjúkdómi er leiddi hann til bana 27. október 1851. Í þá daga hafði Reykjavíkur-deildin ekki mikil störf fyrir hendi og lágu ýmsar orsakir til þess. Aðalstyrkur fjelagsins var þá í Kaupmannahöfn. Útlendir fjelagsmenn guldu þá meira til fjelagsins (3 rd.) en Íslendingar almennt (1 rd.) og fjelagið lifði að mestu leyti á dönsku fje, eins og Hafnar-deildin gerir enn í dag. Aðalbóka-útgáfan hlaut þá að vera í Kaupmannahöfn bæði vegna flutninga og prentunar. Deildin í Höfn gat sent bækur til allra hafna á Íslandi með skipum kaupmanna, en það gat deildin í Reykjavík ekki, þá voru engir flutningar á sjó kringum landið og bókasendingar frá Reykjavík til fjarlægra hjeraða hefði fyrst orðið að senda til Hafnar og svo þaðan aptur með kaupskipum. Deildin í Reykjavík hafði þá að eins bein viðskipti við Suðurland, en til Norður-, Vestur- og Austurlands sendi Hafnar-deildin allar bækur. Prentun að nokkrum mun var þá örðugt að framkvæma í þessari einu prentsmiðju, sem til var á landinu; síðar bar það jafnvel við, að mestöll prentun varð að hætta heil og hálf missiri þegar alþingistíðindin voru á prjónunum. Á árunum 1816—1845 ljet Reykjavíkur-deildin ekki prenta eina einustu bók, þar var fyrst farið að prenta »Skýringar yfir fornyrði lögbókar« eptir Pál Vídalín 1846 með ítarlegri æfisögu Páls eptir Þórð Sveinbjarnarson háyfirdómara og stóð prentun þeirrar bókar yfir í 9 ár. Fjelagar voru þá fáir, 1847 að eins 220, 1854 240, en síðar fjölgaði þeim mjög, mest fyrir dugnað Jóns Sigurðssonar. Árið 1849 sendi Reykjavíkur-deildin út áskorun um alþýðubækur[1]) og býður verðlaun fyrir hentuga lestrarbók fyrir unglinga, en í þá daga voru annars engin ritlaun borguð fyrir það, sem fjelagið gaf út. Áskorunin

1) Reykjavíkurpósturinn III, 1849 bls. 101—103: Landstíðindin II. 1851, bls. 144.

inniheldur líka efnisyfirlit yfir slíka bók eins og stjórn deildarinnar hafði hugsað sjer hana. Bókin átti að vera 18—20 arkir að stærð og koma út í tveim pörtum; efnið átti að vera smásögur, málshættir, spakmæli, ágrip af bibliusögu og mannkynssögu, ágrip af landafræði og af Íslendingasögu, »lagað til að glæða þjóðerni hjá unglingum og ást á fósturjörð þeirra«, lýsing Íslands og almennar heilbrigðisreglur. Bók þessi hefir líklega átt að vera sniðin eptir P. Hjort's »Börneven«, sem fyrst kom út 1839. Fyrirtæki þetta fjell þó niður, líklega hafa ekki ritböfundar fengist. Smátt og smátt fór Reykjavíkurdeildinni að vaxa afl og meðan Dr. Pjetur stýrði deildinni voru gefnar út allmargar bækur í Reykjavík og má af þeim nefna fornaldar- og miðaldarsögu Páls Melsteds. tölvísi Björns Gunnlaugssonar, Ilionskvæði, er Benedikt Gröndal íslenzkaði, rjettritunarreglur, landafræði og málmyndalýsing eptir Halldór Kr. Friðriksson, þýðing brjefa Hórazar o. fl. En aðalframkvæmdin var á þessum árum eins og eðlilegt var hjá Hafnardeildinni af þeim orsökum, sem fyrr er getið.

Þegar prófessor Pjetur var orðinn biskup, ritaði hann öllum prófóstum umburðarbrjef[1]) og bað þá að gangast fyrir því hvern í sínu prófastsdæmi, fyrir milligöngu prestanna, að sem flestir gengi í Bókmenntafjelagið og leiddi orð að því, hve mjög það hlyti að efla bókmenntir vorar og sóma landsins, að fjelaginu geti aukist kraptar og að það verði svo fjölskipað, sem mögulegt er. Þetta hafði þann árangur, að allmargir nýir fjelagar fengust.[2]) Á fundi 13. april 1866 minntust báðar

1) Þjóðólfur XVIII. 1866, bls. 158.

2) Í brjefi dags. 28. marz 1867 til Jóns Sigurðssonar segir Pjetur biskup: »Lítill en þó nokkur árangur hefir orðið af tillögum mínum við menn að ganga í Bókmenntafjelagið, síra Páll á Kálfafelli hefur útvegað 14 og í Ólafsvík vestra eru 7, sem við hafa bæzt. Færi nú dálítið að batna í ári, yrði árangurinn meiri, en flestir berja nú harðindum og bágindum við.« Hdrs. J. S. 141 Fol.

deildirnar 50 ára afmælis Bókmenntafjelagsins og er ræða prófessors Pjeturs Pjeturssonar við það tækifæri prentuð í minningarriti fjelagsins.[1]) Hinn 5. maí 1855 var Dr. Pjetur af deildinni í Kaupmannahöfn kosinn heiðursfjelagi hins íslenzka Bókmenntafjelags og 1867 gjörðist hann æfifjelagi hins norræna fornfræðafjelags.

1) Hið íslenzka Bókmenntafjelag, stofnun fjelagsins og athafnir um fyrstu fimmtíu árin 1816—1866. Kaupmannahöfn 1867, 4o bls. 1—5.

## VI. Landstíðindin. Þjóðfundurinn.

Það er auðsjeð á allri framkomu dr. Pjeturs Pjeturssonar, að hann þegar í æsku hafði mikinn áhuga á opinberum málum og var gagntekinn af þeim hugmyndum um mannfrelsi og stjórnarfar, sem þá rjeði mestu hjá jafnöldrum hans og skólabræðrum við háskólann í Kaupmannahöfn. Allar ritgjörðir dr. Pjeturs bera þess ljósan vott, að hann var einn af vorum frjálslyndustu mönnum; hann var sannfærður um þýðingu frjálslegrar stjórnarskipunar fyrir framfarir hinnar íslenzku þjóðar, en hann var stilltur maður og gætinn og vildi láta skynsemi og reynslu ráða, því frelsi er bezt með forsjá; hann vildi með lipurð og hagsýni smátt og smátt vinna þjóðinni frelsi á siðferðislegum grundvelli. Árið 1848 gekk mikil hreyfing yfir alla Europu sem kunnugt er; hin yngri kynslóð fylltist eldlegum áhuga og þá skapaðist grundvöllurinn undir þingræðisstjórn í flestum löndum á meginlandi Norðurálfunnar. Gleðin og eptirvæntingin var í flestum löndum mikil, þegar menn loks eptir mikla baráttu höfðu náð í þingbundna stjórn, menn þóttust hafa himin höndum tekið og höfðu barnslega trú á fljótan sigur alls hins góða í mannseðlinu.

Brynjólfur Pjetursson var 1848 mikið við stjórnmál riðinn og í svo miklu áliti, að hann var kosinn í 9 manna nefnd þá, er semja skyldi grundvallarlög Dan-

merkur; hann fjekk því til leiðar komið, að tillaga stjórnarinnar um að sjö menn af Íslands hálfu skyldu sitja á ríkisdegi Dana var felld burtu. Þetta var mjög þýðingarmikið atriði fyrir sjálfstæði og frelsi Íslands, því nú neyddist stjórnin til að leita álita hinnar íslenzku þjóðar um fyrirkomulag landsstjórnarinnar. Ekki varð samt af því að frumvarp um stjórnarfar landsins væri lagt fyrir alþing 1849, heldur var ákveðið að halda sjerstakan þjóðfund, og var búist við að hann yrði haldinn 1850, en ekki varð af því, það drógst sem kunnugt er til sumarsins 1851. Þeir bræður Pjetur og Brynjólfur voru mjög samrýmdir og voru í stjórnmálum alveg sömu skoðunar; dr. Pjetur mun á Íslandi að öllu leyti hafa hagað framkomu sinni í stjórnmálum eptir því sem þeir bræður höfðu orðið sammála um í brjefum, sem þeirra fóru á milli.

Eitt af því, sem gjört var til undirbúnings undir þjóðfundinn, var stofnun *Landstiðindanna* fyrir tilstilli stiptsyfirvaldanna og var Dr. Pjetri Pjeturssyni falin á hendur ritstjórn þeirra. Allar stjettir voru þá samhuga í því, að Ísland ætti að fá sjálfstjórn og annast sinn eigin hag, með öðrum orðum eins mikið stjórnfrelsi eins og mögulegt var, án þess ríkissambandið slitnaði. Í þessu efni voru fyrir þjóðfundinn allir embættismenn, bændur og alþýða samdóma. En fljótt gjörðust ýmsar greinir meðal manna um það, hvernig framkvæma skyldi hugsjónirnar, menn skiptust eins og eðlilegt er eptir mismunandi aldri og skapferli í ákafamenn og stillingarmenn og munu Landstíðindin hafa átt að vera málgagn hins síðara flokks, en í honum voru flestir eða allir embættismenn, kaupmenn og borgarar í Reykjavík og allmargir bændur, þó voru skoðanir manna í ýmsum efnum mjög á reiki, því allt var enn óundirbúið. Ekki var þó svo í fyrstu, að hjer mynduðust beinlínis pólitiskir flokkar, en embættismenn í Reykjavík hafa viljað tryggja sjer blað, sem með stillingu ræddi hin almennu mál, sem þá voru á dagskrá, frá þeirra sjónarmiði, og

Dr. Pjetur var þar sjálfkjörinn ritstjóri, góður rithöfundur og mikill lærdómsmaður, sem hafði áhuga á opinberum málum og var alkunnur fyrir stillingu og varfærni. Þá kom ekkert annað blað út en Þjóðólfur, sem í þá daga þótti nokkuð unggæðislegur og mærðarmikill. Reykjavíkurpósturinn sálaðist um sama leyti. Seinasta blað hans var fyrir september 1849, en fyrsta blað Landstíðindanna kom út 5. september s. á. Landstíðindin eru því nokkurskonar áframhald af Reykjavíkurpóstinum, eða koma í hans stað. Þó nú embættismenn gæfu út Landstíðindin, þá er auðfundið á efni þeirra, að þau eru ekkert eiginlegt stjórnarblað og þau fara alveg eins langt í frelsiskröfum eins og Þjóðólfur eða lengra; þau koma alstaðar hæverskulega og stillilega fram samkvæmt eðli og lunderni ritstjórans og eptir umburðarlyndi því, sem hann jafnan sýndi. Þegar í lok þjóðfundarins allt var komið í ofsa á báðar hliðar og engin málamiðlun var möguleg, hætti hann ritstjórn, því það lá mjög fjarri skapferli hans að eiga í þýðingar- og árangurslausum blaðadeilum.

Ritstjóri Landstíðinda segist gjarnan taka greinir, sem hafa aðra skoðun en blaðið, ef þær eru hyggilega samdar og siðsamlega orðaðar, því hann vill láta aðalstefnu blaðsins vera leiðbeinandi og tilgang þess að »leiða sannleikann í ljós, með því að velta málefnunum fyrir sjer á ýmsa vegu og færa ástæður með og mót«. Ritstjórinn sýnir þetta líka síðar í verkinu, hann tók greinir gagnstæðrar skoðanar og var í því frjálslyndari en Þjóðólfur, sem neitaði að taka slíkar greinir.[1]) Ritstjórinn vill láta allar umræður snerta efnið, er ræða skal, vera stillilegar og hógværar og stjórnast meira af skynsemi og hyggindum heldur en tilfinningum og orðagjálfri, honum er meinilla við allt blaðaskrum og pólitískt fimbulfamb. Þó hann í blaði sínu ætti í orðakasti við ýmsa mótstöðumenn, heldur hann jafnan umræðunum innan

1) Landstíðindi I, bls. 98.

takmarka hins mesta velsæmis og stillingar, því eins og hann segir: »eiga menntaðir menn jatnan að forðast að meiða hvern annan í orðum, þó þeir sjeu annarar skoðunar«[1]). Það, sem Dr. Pjetur skrifar um blaðagjálfur, hafa menn gott af að lesa enn, hann kemst svo að orði: »Það er ekki svo hægt að eiga orðastað við menn, sem í stjórnar eða fjelagsmálefnum lifa í tómum tilfinningum og sveima fyrir utan lífið og reynsluna eins og í vakandi draumi, sem í stað sannana koma með upphrópanir og ein og önnur orðatiltæki. Það er örðugt, að eiga orðastað við þess háttar menn, því ætli menn að hrinda ástæðum þeirra með skynsamlegum ályktunum, komast menn allt í einu að raun um, að menn eru að fást við tóman skuggann, sem hvergi verður hönd á fest og sönnun þeirra er ekki annað en hugarburður, sem leggur upp af ólgandi ímyndunarafli, en sem opt er álitlegur og glæsilegur, þegar á hann slær geislum föðurlandsástarinnar, sem opt er innileg og brennandi og æsir ímyndunaraflið hjá þessum mönnum. Að því leyti sem hugarburður þessi er geislaskyn föðurlandsástarinnar, þá er hann elskuverður, en að því leyti sem hann vill fá aðra til að sveima með sjer í loptinu, þá er hann hættulegur og getur komið mönnum í þær ógöngur, sem þeir sjá ekki fram úr[2])«.

Landstiðindin voru vel látin þenna stutta tíma, sem þau komu út. Ritstjóri Þjóðólfs Jón Guðmundsson gaf þeim nokkru síðar (1853) þenna vitnisburð: »Landstiðindin hófust undir merkjum eins hins lærðasta og merkilegasta embættismanns vors, sem þar til var og er eins kunnur að varfærni eins og að vandvirkni; það var ritstjóri, sem að öllu var samboðinn háyfirvöldum landsins, sem stofnuðu blaðið. Landstiðindin runnu út fyrsta árið, en mæturnar á þeim rénuðu brátt, miklu fremur og líklega eingöngu af því, hverjar hreyfingar

1) Landstiðindi I, bls. 23.

2) Landstiðindi II, bls. 197—198.

þá voru hjer sem annars staðar, af því blaðið fullnægði ekki því, sem flestir hinir skynsamari menn ætluðust til, að færa greinilegar skýrslur um hina margvíslegu ráðsmennsku háyfirvaldanna yfir ýmsum opinberum stiptunum o. s. frv., en þetta var *þeim* að kenna, en ekki ritstjóranum — og af því Þjóðólfur var þá uppvaxandi óskabarn lýðsins[1]) — en engan veginn af því, að það væri auðgefið að fá algjörðari ritstjóra fyrir slíkt blað en herra prófessor og Dr. Pjetur Pjetursson«.

Eitt hið fyrsta verkefni Landstíðindanna var að ræða um kosningar til Þjóðfundarins og hefir Dr. Pjetur skrifað langar greinir og frjálslyndar um það málefni. Það fer fjarri því, að hann á nokkurn hátt dragi taum embættismanna gagnvart alþýðu, þvert á móti, hann metur bændur mjög mikils. Á einum stað farast honum þannig orð: »Vér verðum að velja þá menn, er vjer vitum að hafa almennasta menntun og skarpar og liprar gáfur, eru fljótir að átta sig á því, er þeir heyra

1) Þetta er nú að eins rembilæti ritstjórans og digurmæli. Sveinbjörn Hallgrímsson var ritstjóri Þjóðólfs meðan Landstíðindin voru uppi og náði Þjóðólfur á þeim tíma lítilli alþýðuhylli; píslarvætti það, sem ritstjórinn þótti verða fyrir, er stjórnin um tíma neitaði að prenta blaðið í lands-prentsmiðjunni, mun helzt hafa hjálpað til útbreiðslunnar. Sveinbjörn Hallgrímsson var greindur maður, en líkt og Magnús Grímsson ákaflega mærðarmikill og efnislítill, svo greinir þeirra er nú varla hægt að lesa ógeispandi. Einmitt í sömu greininni (Þjóðólfur V. 1853, bls. 30—31) beinist Jón Guðmundsson allsnarplega mót hinum fyrrverandi ritstjóra Þjóðólfs, sem þá var farinn að gefa út Ingólf, orðinn skuthverfur í pólitík og »leiguliði háyfirvaldanna«. Þjóðólfur vann sjer fyrst þjóðarhylli undir ritstjórn Jóns Guðmundssonar; hann var reyndar enginn rithöfundur, framsetningin á greinum hans var opt stirð og óþægileg, en efnið var opt gott, sem mest ríður á. Jón Guðmundsson ræðir málin ítarlega og opt með mikilli þekkingu, en er laus við allt orðagjálfur og stjórnmálaþvaður. Hann finnur óspart að gjörðum yfirvaldanna, og þó hann sje stundum æði harðorður, er hann sjaldan ónærgætinn; hann er ótrauður í því að heimta gjörðir stjórnarinnar leiddar í ljós og lagðar fram fyrir dómstól almennings. Á þenna hátt gjörði Þjóðólfur mikið gagn og fjekk álit og útbreiðslu, þó hann opt væri leiðinlegur aflestrar.

umrætt, þó ekki beri þeir gott skyn á það áður og hafi litið hugsað um það að undanförnu, en einkum hlytu menn að hafa það traust til þeirra, að þeir væru samvizkusamir menn og þjóðlegir föðurlandsvinir, sem ljetu sjer einkar annt um öll almenn málefni ættjarðar sinnar og legðu því alla alúð á að hugsa hvert mál sem bezt og rækilegast. Hve miklu þvílíkur áhugi og liprar náttúrugáfur geta áorkað, höfum vjer getað sjeð á alþingi að undanförnu, þar sem vjer höfum átt einstaka bændur, er hafa verið einhverjir hinir beztu þingmennirnir, og má þó nærri geta, hversu þá hafi í mörgum greinum vantað menntun lærðra manna. Nú sem stendur má óhætt fullyrða, að hinir beztu þingmenn úr leikmanna flokki sjeu betur hæfir til þingsetu en sumir þeir, sem lærðir eru. Vjer höfum sjeð það á alþingi að undanförnu, hversu mönnum er ójafnt lagið að beita vel og koma laglega við þeirri þekkingu, sem þeir hafa; en þó er ekki allt komið undir því að vera lipur að koma fyrir sig orði, og opt fylgjast mælgi og grunnhyggni að, en margur sá, sem stirt er um mál, getur verið góður þingmaður, sje hann annars greindur og gætinn og beri gott skynbragð á þau mál, sem um er að ræða, og kemur það þá einkum fram í nefndum þeim, sem valdar eru á þinginu, til að íhuga ýms málefni þess«.

Enn fremur mælir Dr. Pjetur fastlega fram með frjálslegum kosningarlögum og segir meðal annars: »Vjer ætlum, að það sje að skapi flestra landa vorra, að kosningarlögin sjeu sem frjálslegust og minnstum þeim takmörkum bundin, er miðað gætu til að drepa niður hreinum og skynsamlegum frelsisanda þjóðar vorrar, en þó hljóta menn að gæta þess, að því frjálsari sem lögin eru, þess hyggilegri varúð og því skynsamlegri áhuga þurfa menn að hafa á því að vanbrúka ekki lagafrelsið sjer og ættjörðu sinni til óheilla, því að sje frelsið vanbrúkað, verður það að ófrelsi«. Því næst skýrir ritstjórinn nánar frá því, hverja varfærni menn

eigi að hafa við kosningar, svo beztu og skynsömustu mennirnir fáist.

Eftir uppástungu Hannesar Stephensen prófasts var Þingvallafundur haldinn 9., 10. og 11. ágúst 1850 til undirbúnings undir þjóðfundinn[1]). Menn höfðu fyrst ætlað, að þjóðfundurinn yrði haldinn á því sumri, en stjórnin frestaði honum sem kunnugt er til 1851 og var það Íslendingum mikill bagi og vonbrigði. Þingvallafundurinn 1850 var fjölmennur, þangað komu 181 fundarmenn, þótt þá væri heyannir. Hannes Stephensen var kjörinn fundarstjóri og hann kaus sjer tvo aðstoðarmenn Jóhann Briem prófast og Dr. Pjetur Pjetursson. Það var talið aðalverkefni fundarins að gefa sig við þeim málum, sem snertu undirbúning undir þjóðfundinn. »Bænaskrá til konungs var samin um að fá að sjá sem fyrst frumvarp stjórnarinnar til grundvallarlaga Íslands, svo landsmönnum gæfist kostur á að íhuga það sem vandlegast, áður þjóðfundurinn byrjaði; í sömu bænaskrá var beðið um frumvarp til verzlunarlaga Íslands og um greinilega skýrslu um fjárhags viðskipti Íslands og Danmerkur. Líka var þar samið ávarp til Íslendinga um þau atriði í stjórnarskipun Íslands, er fundarmönnum þótti mestu varða. Voru þau atriði þessi: að Ísland væri í frjálsu sambandi við Danmörk með fullu þjóðerni og þjóðrjettindum; að stjórn þeirra mála, sem sjerlega snerta Ísland, eigi aðsetur í landinu sjálfu með 3 stjórnarherrum, en Danir hafi hjer jarl; að alþingi hafi öll þau rjettindi, sem þjóðþing hafa, þar sem er takmörkuð konungsstjórn; að landið eigi erindsreka í Danmörku milli konungs og hinnar hjerlendu stjórnar;

1) Fundarhald þetta var á móti skapi háyfirvaldanna, sem þá voru. Þá var Þorsteinn Jónsson settur stiptamtmaður og H. G. Thordersen biskup, þeir bönnuðu að prenta blað það af Þjóðólfi, sem auglýsingin um fundinn stóð í, en í því blaði var nú líka ýmislegt annað snertandi »pereatið«, mótblásturinn móti síra Ásmundi o. fl., sem þeim hefir mislikað. Það blað var prentað í Kaupmannahöfn 25. april 1850 og var kallað »Hljóðólfur«.

að fjárhagur Íslands sje sjer í lagi, og að Ísland gjaldi að sinum hluta árlega til almennra ríkisnauðsynja að tiltölu. Ætlaðist fundurinn til, að sýslunefndir væri kosnar í hverju kjördæmi, til að íhuga þessi atriði og önnur, þau er merkileg þættu viðvíkjandi stjórnarskipun landsins, og að sýslunefndirnar sendu síðan álitsskjöl sín aðalnefnd þeirri í Reykjavík, sem kosin var þar á fundinum. Í þessa aðalnefnd voru kosnir: Trampe greifi, Jens Sigurðsson, Halldór Kr. Friðriksson, Jakob Guðmundsson og Pjetur Pjetursson. Ætlunarverk aðalnefndarinnar var að birta uppástungur sýslunefndanna um stjórnarskipunina[1]) og byggja á þeim frumvarp til bænaskrár til almenns fundar við Öxará að sumri (1851) sem þar á þá að ræða og senda þjóðfundinum[2])«. — Síðan var kosin þriggja manna nefnd til þess, að semja bænaskrá til konungs um, að frumvarp stjórnarinnar til grundvallarlaga Íslands yrði sent til Íslands sem allra fyrst. Í þá nefnd voru kosnir: Jens Sigurðsson, Pjetur Pjetursson og Sveinbjörn Hallgrímsson[3]).

Þessar ályktanir Þingvallafundarins 1850 eru mjög merkilegar og athugaverðar í sögulegu tilliti. Þar koma þegar fram hreinar og beinar sjálfstjórnarkröfur Íslendinga, sem þeir enn ekki hafa fengið fullkomlega uppfylltar, þó meir en hálf öld sje liðin síðan; þessar ljósu og eðlilegu kröfur hafa líka ótal sinnum horfið í moðreyk pólitiskra æsinga og flokkadrátta. Það er líka merkilegt að sjá, hve þeir Íslendingar, sem í þá daga hugsuðu um stjórnmál, jafnt alþýðumenn sem embættismenn, hafa verið einhuga í kröfum þessum og von-

---

1) Nefndarálitin eru prentuð í »Undirbúningsblaði undir þjóðfundinn að sumri 1851«. Reykjavík og Kaupmannahöfn 1850 og 1851 — 4° 44 bls.

2) Landstíðindi II. bls. 105—106.

3) Undirbúningsblaðið bls. 2.

góðir um að fá þær uppfylltar[1]). Það virðist engin ástæða vera til þess að efast um það, að hinir æðstu embættismenn í Reykjavík hafa 1850 í öllum aðalatriðum fallist á tillögur Þingvallafundarins, og sjálfur stiptamtmaður tekur á móti kosningu og er formaður í miðnefndinni, sem safna á skýrslum og skilríkjum um vilja þjóðarinnar. Nefnd þessi uppfyllir skyldu sína og lætur prenta skýrslur og nefndarálit. Á þessum árum koma þegar fram flestar greinir þeirra stjórnmála, sem ræddar hafa verið síðan í hálfa öld, og þó mikið hafi verið þjarkað um ýms atriði, þá má varla segja, að verulegar eða þýðingarmiklar nýjungar hafi síðan komið fram. Fyrir tilstilli Jóns Sigurðssonar, Hannesar Stephensen og annara góðra manna, eru þá þegar allar rjettmætar kröfur hinnar íslenzku þjóðar, sem byggðar voru á sögulegum sannindum og föstum grundvelli, ljóslega og skilmerkilega komnar fram á sjónarsviðið. Má það heita mikið happ, að þessir menn voru ekki lögfræðingar. Hártogaðar skýringatilraunir lögspekinga og sniðdómara hafa síðar eigi gjört lítið til að æsa flokkadrátt að óþörfu, því menn deila vanalega mest um það, sem þeir skilja sízt.

Eptir þeim frelsisanda, sem ríkti í Danmörku 1848, höfðu Íslendingar fulla ástæðu til að halda, að Danir mundu sinna kröfum þessum, því þó þær gengju æði langt frá því stjórnarfari, sem Íslendingar í margar aldir höfðu átt að venjast, þá voru þær fullkomlega rjettmætar samkvæmt sögulegri stöðu Íslands til Danaveldis, mátti því vænta, að þjóð, sem nýlega hafði unnið sjálfri sjer frelsi, sýndi sannsýni og rjettlæti gagnvart sambandsþjóð, þó hún væri lítil, fátæk og kraptasnauð, og vildu

---

1) Almenningur var þó ekki vaknaður til mikils pólitisks áhuga. Hinn 26. janúar 1850 skrifar Jón Guðmundsson Jóni Sigurðssyni: »Þú sjerð á Landstíðindum og Þjóðólfi, að mikið rita þeir um kosningarnar, en það kemur fyrir sára lítið sumstaðar og jeg held víðast, því alþýða er næsta dauf og hefir sára lítinn áhuga á kosningum til þjóðfundar þessa«.

unna henni jafnrjettis. Af þessum ástæðum voru Íslendingar þá allir, bæði æðri og lægri, fullvissir um, að stjórnin mundi sinna kröfum þessum í öllum aðalatriðum. En það fór öðru vísi en ætlað var. Drátturinn, sem varð á stjórnarbótinni, og þau tiðindi, sem þá gerðust í Danmörku, breyttu grundvellinum og hugsunarhætti stjórnarvaldanna gjörsamlega, og frelsismenn Dana urðu hinir verstu mótstöðumenn Íslendinga í stjórnarmálum, hálfu verri en hinir síðustu einvöldu konungar, sem virtust vera stjórnmálum Íslendinga fremur hlynnandi. Uppreisnin í Schleswig- Holstein og sigursæld Dana í þeim ófriði varð líka Íslendingum að óláni. Þegar leið að þjóðfundi voru orðin skapbrigði hjá leiðtogum Dana og ráðherraskipti. Hefði engin uppreisn orðið í hertogadæmunum, eða ef Danir hefðu beðið ósigur, mundi þjóðernisflokkur Dana líklega hafa slakað til við Íslendinga í stjórnbótamálinu, og horfurnar hefðu orðið aðrar en raun varð á. Frelsismenn í Danmörku höfðu unnið þjóð sinni frjáls grundvallarlög, en ófriðurinn gerði þá hrædda um, að los gæti komist á ríkisheildina, svo nú átti að reyra allt, sem hörðustum böndum, aðrir þjóðflokkar ríkisins máttu eigi fá sjerrjettindi að neinum mun, þeir áttu að lúta meiri hlutanum danska í miðríkinu. Ófriðurinn í hertogadæmunum hafði skapað tortryggni gegn þjóðernishreyfingum annara þjóða, er lutu Danakrúnu og mæltu aðrar tungur. Á fáum árum hafði allt breytzt Íslendingum til óhags, en það lítur út fyrir, að leiðtoga Íslendinga hafi ekki grunað þessi veðrabrigði, og jafnvel á þjóðfundinum ætluðu þeir varla að trúa sínum eigin augum, er þeir sáu frumvarp stjórnarinnar. Þó var þessi breyting eðlileg eptir rás viðburðanna í Danmörku. Þingvallafundurinn 1850 sýnir bezt með nefndarkosningum sínum og ályktunum, að menn renndu ekki minnsta grun í afstöðu málanna í Danmörku. Æðstu embættismennirnir með sjálfan stiptamtmanninn í broddi fylkingar slást í lið með forvígismönnum frelsishreyf-

inganna og sýnast hafa verið hlynntir fullkominni sjálfstjórn, sem gerði Ísland nærri óháð sambandsland. — Hefði Trampe greifi haft einhverja hugmynd um þær skoðanir viðvíkjandi stöðu Íslands í ríkinu, er næsta vetur urðu ofan á í ráðaneytinu, þá hefði hann ekki tekið við kosningu í miðnefndina, og blað embættismannanna hefði þá eigi eindregið verið fylgjandi ályktunum Þingvallafundarins 1850, ef menn hefðu haldið, að það væri með öllu óframkvæmanlegt að ná samþykki stjórnarinnar, eins og raun varð á[1]).

Fyrir þjóðfundinn hafði Jörgen Trampe stiptamtmaður þjóðhylli á Íslandi, þótti viðkunnanlegur og lipur maður, og hann var hinn fyrsti stiptamtmaður, sem ritaði öll embættisbrjef sín á íslenzku, og tók það upp hjá sjálfum sjer; í viðurkenningar skyni fyrir þetta var Trampe 14. ágúst 1850 gerður að heiðursfjelaga í hinu íslenzka Bókmenntafjelagi. Þetta var ekki þýðingarlítið, þegar litið er til þess, hve danskan þá var búin að ryðja sjer til rúms á Íslandi. Kennslan í barnaskólanum í Reykjavík fór þá fram mestmegnis á dönsku, skoðunargjörðir, málspróf og rjettarskýrslur voru víða að þarflausu ritaðar á dönsku; opinberar sættatilraunir fóru fram á sama máli, og bæjarstjórnin í Reykjavík ritaði gjörðir sínar og brjef á dönsku[2]). Þetta voru þó

---

1) Jón Guðmundsson skrifar Jóni Sigurðssyni 25. júlí 1850. »Skrítnar þykir mjer pólitiskar skoðanir Tr., hann vill ekki nema einn stjórnarann með ábyrgð, engan erlendis, það segir hann spilli; enga frjálsa verzlun að svo komnu, alla skatta directe etc. Maðurinn er ör á að segja frá plönum sínum og pólitiskum meiningum«. Trampe virðist því hafa viljað svipað stjórnarfyrirkomulag á Íslandi eins og komst á 1904, en það fyrirkomulag fannst Jóni Guðmundssyni skrítið.

2) Ný Félagsrit IX. 1849 bls. 82; XI. bls. 58. Hinn 3. marz 1848 ritar Jón Guðmundsson Jóni Sigurðssyni í Kaupmannahöfn: »Hjer urðu eljara-glettur nokkrar milli danskra kaupmanna og bæjarfógeta út af íslenzku. Bæjarfógeti ljet festa upp auglýsingu og birta með trumbuslætti: »íslenzk tunga á bezt við í íslenzkum kaupstað, hvað allir athugi«. Næturvörðurinn var látinn hrópa á íslenzku sama kvöldið, þetta kom fyrir amtið og mun

al-íslenzkir menn, sem svona fóru að ráði sínu. Það er mjög einkennilegt í þessu sambandi að lesa um mál milli Ditlev Thomsens kaupmanns í Keflavík og tveggja bænda 1837 út úr skipsleigu. Við rjettarhald í því máli krafðist Stefán Gunnlaugsson, sem þá var sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslu, að rjettarhaldið færi fram á dönsku, en Tvede, danskur bæjarfógeti, úrskurðaði, að það færi fram á íslenzku. »Hlutaðeigendur málsins, sem voru *danskir,* vildu láta flytja það á *íslenzku,* en aptur vildu hinir íslenzku fyrir hvern mun, að það færi fram á dönsku«[1]), Rosenörn stiptamtmaður, ljet sjer lynda, að innanlands málefni væru rituð á íslenzku, en Jörgen Trampe braut ísinn, svo algjörð breyting komst á. — Þó var venjan enn löngu síðar svo rík hjá sumum íslenzkum embættismönnum, að þeir ómögulega vildu missa dönskuna. Enn þá árið 1855 sendi Jörgen Pjetur Havstein amtmaður sýslumönnum öll skjöl á dönsku, og þeir urðu að svara á sama máli, umboðsskriptir nyrðra fóru fram á dönsku o. s. frv.[2]).

---

Rosenörn ekki hafa líkað aðferðin með öllu, en ljet þó allt standa, sem komið var«. Hinn 4. marz bætir Jón Guðmundsson við: »Í dag var hjer byggingarnefndarfundur, og var jeg í forföllum bæjarfógeta eins og fullmektugur hans á fundinum og ætlaði jeg að rita það, sem gjörðist á íslenzku (það hefir að vísu sjaldan verið gjört), en Tærgesen varð æfur og kvaðst fara, jeg sagði það mætti vera, en Justr. Kusi (Jón Thorsteinsen landfysikus) og Jónassen studdu hans mál, svo allir urðu á því að rita á dönsku; nú gengur Kusi að því búnu um allan bæinn og hælir sjer af þessu og þykist hafa unnið frægt verk. Við einn, sem mætti honum, sagði hann »að það væri höjst upassende að vilja brúka svona íslenzku, þar sem bæði væri danskir menn í stjórninni og allir skildu dönsku, fyrst við værum svo afhængige af hinni dönsku þjóð og upp á hana komnir, að það væri synd að vilja styggja svo þá dönsku innbúa staðarins«. Jónassen kvað allt af rita í gjörðabók fulltrúanna, hann er oddviti þeirra, á dönsku; við bæjarfógetinn ritum samt í gjörðabók bæjarstjórnarinnar á íslenzku; svo var áætlunin rituð og send amtmanni, en hann samþykkti hana með átciknun á íslenzku; hann ritar og á öll sakamál, sem ganga til og frá yfirrjetti á íslenzku. — Rosenörn kvað líka skopast að þeim íslenzku herrunum hjer, hvað þeim liggur ljett í rúmi með móðurmál sitt«.

1) Ný Fjelagsrit VII, 1847 bls. 228—230.

2) Þjóðóllur VIII, 1855—56 bls. 13.—14.

Allar ritgjörðir í Landstiðindunum um stjórnarmál eru hið fyrsta ár og mestallt annað árið í fullu samræmi við ályktanir Þingvallafundarins 1850; ritstjórinn hvetur alstaðar til hagsýni og stillingar en gengur jafnlangt í stjórnarbreytingum eins og þeir, sem lengst fara, enda höfðu Landstiðindin þegar á undan Þingvallafundinum haft hina sömu stefnu, og sjalfur hafði Dr. Pjetur haft eigi all-lítil áhrif á ályktanir fundarins. Ritstjórinn vill láta sjerstök mál Danmerkur og Íslands vera sem greinilegast aðskilin, en Þjóðólfur vill hafa allt sambandið, sem innilegast og nánast[1]), honum þykir fjárhagssamblandið ófært[2]) og mælir fastlega fram með frjálsri verzlun, sem hann telur, að landinu hljóti að verða til hinna mestu heilla. Á þeim dögum stóð all-mörgum stuggur af frjálsri verzlun við útlendinga, jafnvel þeim, sem í almennum stjórnmálum voru frjálslyndir; þeir hjeldu, að siglingin mundi verða stopul, svo skortur yrði á nauðsynjavöru[3]). Dr. Pjetur hvetur menn til að stofna verzlunarfjelög í sveitum, en lítið er honum um fjölgun kauptúna.

Ritstjóri Landstiðindanna lætur í ljósi skoðanir sínar um ýms atriði stjórnarskipunarinnar í blaðagreinum, sem hann kallar »Sundurlausar hugmyndir um stjórnarskipun hjer á landi eptirleiðis«. Þar tekur hann það meðal annars fram, að það sje aðal-kostur á hverri stjórnarskipun, að stjórnar-ábyrgðin sje skýlaus og það sje fyrir þjóðina auðgengið að því að gera ábyrgðina gildandi gegn þeim manni, sem fremur stjórnarathöfnina. Hann er þess vegna móthverfur því að hafa of mikla nefndastjórn eða fjelagsstjórn (kollegial-stjórn eins og áður var í Danmörku), sem ýmsir þá höfðu haldið fram, að innleiða skyldi á Íslandi, af því persónuleg ábyrgð þá truflast, »því þá verður einum ekki

1) Landstiðindin II, bls. 145.
2) S. st. I, bls. 38.
3) S. st. I, bls. 14, 16, 22.

kennt fremur en öðrum, þó út af beri, og leiðir þar af annað hvort, að ábyrgðin verður þýðingarlaus og ekki nema að nafninu til, eða að öllum nefndarmönnum verður að víkja frá í einu og er hvort tveggja slæmt«[1]). Ábyrgðarleysi telur höf. vissan og óumflýjanlegan förunaut slíkrar stjórnar hjer á landi; »en þar sem ábyrgðarleysið er, þar er hlutdrægninni ruddur vegur og það því heldur, þegar slík stjórn væri hjer innanlands og stjórnarnefndarmenn ættu jafnan einhverja vini og vandamenn, sem þeir vildu koma fram eða gjöra eitthvað fyrir; er þá vant að vera svo, að hver hliðrar til við annan til þess að fá það aptur endurgoldið á sama hátt. Eða mundi verða síður hætt við þessu hjer en annarstaðar, þar sem slík stjórnarsamvinna hefir átt heima? Það er að vísu satt, að meðan danska stjórnin var fjelagsstjórn og í gamla horfinu, mun henni þó sjaldan hafa verið brugðið um, að hún gjörði okkur vísvitandi rangt til; en þetta kom af því, að hana dróg ekkert til þess, og við vorum svo fjarstaddir henni; en við þessu yrðu ekki reistar skorður, ef ábyrgðarlaus fjelagsstjórn kæmist á í landinu sjálfu. Í fjelagsstjórn er það líka vant að fara svo, að þeir sem af náttúrunni eru latir, verða afskiptalausir og hliðra sjer hjá öllum störfum, svo allur þunginn leggst á einstaka menn«[2]).

Dr. Pjetur álítur það nauðsynlegt, að stofnuð sje skrifstofa til þess að endurskoða alla reikninga yfir tekjur og gjöld landsins áður en þeir eru lagðir fyrir þingið, hann vill bæta lögreglustjórnina og auka póstgöngur, svo allar sýslur geti staðið í stöðugu sambandi við aðalstjórnina í Reykjavík. Hvað kostnaðinn við hið nýja stjórnarfyrirkomulag snertir, þá vill hann annað hvort hrökkva eða stökkva. Ef það er einlægur þjóðarvilji að vilja fá innlenda stjórn, má sem minnst taka tillit til kostnaðarins: »því það liggur í augum uppi, að

1) Landstíðindi I, bls. 33.

2) Landstíðindi I, bls. 33.

ætti sú stjórn að verða landinu til þeirra heilla, sem til er ætlast, þá má ekki hlífast við að gjöra hana svo úr garði, að hún geti stjórnað vel, eða kynoka sjer við að fá henni þá hluti í hendur, sem hún þarf með til að geta framkvæmt það, sem þjóðin fær henni að starfa«[1]).

Eitt af hinu allra nauðsynlegasta telur ritstjórinn góð og frjálslynd kosningarlög til alþingis[2]), það þarf að gjöra þau svo úr garði: »að ekki geti hjá því farið, að bæði hinir menntuðustu og þjóðlegustu synir landsins geti jafnan átt þar setu. En vjer ætlum það vandaverk að koma alþingi svo fyrir, að menntan, frjálslyndi og föðurlandsást haldist þar ætíð í hendur, þó það sje auðvitað, að það er ekki sannarleg menntun, sem er mótfallin nokkru því frelsi, er staðist getur með almennum fjelagsheillum«[3]). Höf. stingur upp á, að alþing sje skipað 26 mönnum, sem sjeu valdir til 6 ára, að þinginu sje skipt í tvær deildir, 18 í annari, en 8 í hinni, þessir 8 áttu að vera embættismenn, 4 veraldlegrar stjettar og 4 andlegrar, er veljist í fyrsta sinn af þjóðfundinum, en síðan af hinum 18 seinasta árið, áður en nýjar alþingiskosningar fara fram; kosningarrjettur sje eins frjáls og tiltekið er í kosningarlögunum til þjóðfundarins, en þó að eins bundinn við 25 ára aldur. Ritstjórinn vill enn fremur, að af hinum 18 í neðri deild sjeu 5 útskrifaðir úr skóla eða æðri menntastofnunum, en þó eigi embættismenn, og átti að kjósa þá í fjölmennustu kjördæmunum[4]). Höf. vill auðsjáanlega mynda íslenzkt öldungaráð (senat), en vill ekki hafa neina konungkjörna þingmenn. Uppástunga þessi var síðar

1) Landstíðindi I, bls. 38.

2) Um kosningarlög var á þeim árum mikið rætt og ritað sbr. brjef Brynjólfs Pjeturssonar 14. sept. 1849 í Viðaukum. Meðan Dr. Pjetur var á Staðastað var hann 1845 að brjótast í því að fá undirskriptir bænda í Snæfellsnessýslu undir bænaskrá til alþingis um rýmkun kosningarlaga (Sbr. brjef til Jóns Pjeturssonar 25. júní 1845).

3) Landstíðindi I, bls. 49.

4) S. st. I, bls. 49—50.

allmikið rædd á þjóðfundinum. Síðast bætir höf. við, að þess vegna hafi hann stungið upp á, að 5 af hinum 18 hefðu tekið eitthvert lærdómspróf, af því hann »vildi hvetja alþýðumenn til að koma sonum sínum til menntunar, til þess þeir þannig með tímanum gætu fengið fulltrúa, sem væri menntaðir menn, en þó ekki í embættum, svo þeir væru engum háðir nema almennings heillum, og að almenningur því gæti borið fullt traust til þeirra«. Dr. Pjetri er mikið áhugamál, að beztu menn þjóðarinnar og menntuðustu rjeðu ráðum sínum um hag landsins, svo hyggni og forsjá stýrðu með stillingu almennum málum[1]). Menn höfðu um miðja 19. öld, þegar frelsishreyfingarnar voru mestar, almennt mikla tröllatrú á því í öllum löndum, að þingin, svo sem af sjálfu sjer, mundu skipast hinum beztu, skynsömustu og menntuðustu mönnum, sem þjóðirnar ættu, en þessi hugsjón hefir víða brugðist, sem margar aðrar[2]).

Frá allmörgum ríkjum bæði í Evrópu og Ameríku heyrast nú stöðugar kvartanir um, að flokksfylgið sje orðið svo ákaft og hið pólitiska siðferði á svo lágu stigi, að hinir betri menn þjóðanna þykjast misbjóða sóma sínum með því að taka á móti þingkosningum.

Eins og getið var hjer að framan voru frelsisvonirnar á einna hæstu stigi vorið 1850, æðri og lægri stjettir horfðu vonglaðar til framtíðarinnar og þeirrar

1) Í brjefi 30. okt. 1849 er dr. Pjetur, að hvetja Jón bróður sinn til að gefa kost á sjer til þingmennsku, og segir þar: »það álit jeg hvers manns skyldu, sem vill fósturjörð sinni vel, að stuðla til þess, að kosningarnar verði sem skynsamlegastar«.

2) Hugsjónin um ágæti alþýðu-kosninga var mjög rík hjá frelsishetjum Dana 1848. H. N. Clausen prófessor varð þó í því efni fyrir einna mestum vonbrigðum; hann hafði sagt í ræðu, að »den ædle danske Nation« allt af mundi velja sína beztu menn; en þegar litlu síðar átti að velja í ríkisþing það, sem semja skyldi grundvallarlögin, fjell hann sjálfur við kosningu í Præstö fyrir »tukthúskandidat«, vefara nokkrum, Hans Hansen að nafni, en litlu síðar sannaðist, að þessi maður hafði verið í tukthúsi fyrir glæp.

stjórnarbreytingar, er menn bjuggust við, menn þóttust vissir um, að Ísland fengi að minnsta kosti eins frjálslega stjórnarskrá eins og Danir, með sjerstöku tilliti til hinna sögulega landsrjettinda. Þá sló allt í einu í baksegl, horfurnar urðu allt aðrar, en í fyrstu munu engir aðrir en þeir Trampe greifi og Dr. Pjetur hafa fengið vitneskju um þá veðurbreytingu, sem orðin var í Danmörku. Þjóðernisflokkurinn, sem þá rjeði öllu, var búinn að sækja í sig veðrið og var fastráðinn í því, að reyra alla hluta ríkisins sem fastast saman, og var því eðlilega mótfallinn því, að gefa hinum fjarlægari ríkishlutum sjálfstæða stjórn. Dr. Pjetur hafði þegar um vorið 1850 í brjefum frá Brynjólfi bróður sínum fengið vitneskju um tregðu stjórnarinnar í sjálfstæðismálum Íslendinga, en hefir líklega hugsað, að þetta mundi lagast, og Brynjólfur, sem mátti sín svo mikils, mundi geta liðkað málin, en sjúkdómur Brynjólfs og dauði spilti öllum samningum, hann hefði annars eflaust með lipurð sinni getað einhverju áorkað.

Íslendingar misstu öflugan forvígismann, þar sem Brynjólfur Pjetursson var, á óhentugum tíma. Hann var í hinu mesta áliti fyrir dugnað, gáfur og lipurð og meðal leiðandi manna í Danmörku átti hann marga vini og kunningja. Í stjórnarráðinu hjelt hann fram sjálfstjórnarkröfum Íslendinga gagnvart Dönum, en mótspyrnan var þá mikil, og svo var honum kippt burtu einmitt á meðan að stóð á þessum mála-undirbúningi. Það stóð til, að Brynjólfur yrði konungsfulltrúi á þjóðfundinum[1]), sem átti að halda sumarið 1850; hann hafði samið frumvarp til stjórnarlaga fyrir Ísland, og hefir það eflaust verið frjálslynt og farið í sömu átt eins og stjórnmálakröfur þær, sem Íslendingar heima á

1) Í brjefi til Jóns bróður sins 8. nóv. 1849 segir dr. Pjetur: »Hver skyldi þá verða stiptamtmaður? Jeg vildi, að Br(ynjólfur) yrði það ekki, því það er slæmt embætti, einkum fyrir Íslending. Hver skyldi þá verða konungsfulltrúi? Jeg býst við, að Br. verði það, og er það víst heldur ekki tilhlökkunarefni«.

Íslandi þá gerðu. Stjórnin vildi þó ekki fallast á frumvarp hans, og neitaði hann þá að taka á móti fulltrúaumboðinu við þjóðfundinn. Rosenörn, sem þá var innanríkisráðherra og yfirmaður hans, vildi fá hann til þess, að taka við konungsfulltrúa-embætti, en við hann sagði Brynjólfur: »þar sem um Íslands velferð er að gjöra um aldur og æfi, get jeg samvizku minnar vegna ekki tekizt kommissarii-embættið á hendur nema stjórnin vilji fallast á uppástungur mínar«[1]). Brynjólfur var þá farinn að missa heilsuna, og um haustið 1850 varð hann veikur af sjúkdómi þeim, sem dró hann til dauða 18. október 1851. Þó hafði hann ferlivist veturinn 1850—51 og gegndi embætti sínu við og við, en þegar leið á veturinn varð hann ófær til allra starfa.

Fregnirnar um hinar örðugu stjórnmálahorfur bárust til háyfirvaldanna í Reykjavík með vorskipum 1851 og sáu hlutaðeigandi embættismenn þá, að ekkert viðlit var til fyrir Íslendinga, að svo komnu, að halda til streitu kröfum þeim, sem gerðar voru á Þingvallafundi 1850, það var ekki annað en berja höfðinu við steininn; þeim kom því saman um að bíða átekta og sjá, hvort ekki byrjaði betur, ef einhver breyting kæmist á stjórnina í Danmörku. Á hinni þáverandi stjórn var engan bilbug að finna, þjóðernisflokkurinn hjelt það beinan uppreisnaranda, ef Íslendingar hjeldu áfram kröfum sínum eins og þær höfðu komið fram á Þingvallafundi og sjerstaklega í ýmsum nefndaskrám, sem prentaðar voru í »Undirbúningsblaðinu«. »Menn sögðu þá, að sýslunefndirnar og álit þeirra hefðu skemmt mikið og hleypt fýtungi í stjórnina«[2]. Embættismönnum, sem til

1) Brjef frá Brynjólfi Pjeturssyni 11. apríl 1850, prentað í Viðaukum.

2) Ný Fjelagsrit XII. bls. 104. Ýmsar skröksögur hafa á þeim árum gengið í Kaupmannahöfn um uppreisnaranda Íslendinga. Hinn 27. okt. 1848 skrifar Dr. Pjetur Jóni bróður sínum: »Altalað var í Höfn, að Jón Guðmundsson hefði riðið upp á alþing í sumar og gjört upphlaup, hefði verið í ráði, að 1000 Cavalleristar eða riddarar kæmu frá Norðurlandi, en Infanteri (fótgöngulið) að sunnan, sem áttu að drepa alla danska embættismenn og alla »dansksindede« og sjálfsagt alla kaupmenn«.

þekktu, þótti auðsætt, að stjórnin mundi beita öllum meðulum, jafnvel hinum hörðustu, ef á þyrfti að halda, til þess að bæla niður æstar frelsishreyfingar, sem hún taldi hættulegar fyrir ríkið og sýndi alvarlegan ásetning sinn í því efni með því að senda flokk hermanna til Reykjavíkur. Það var því þjóðfundar-sumarið almenn skoðun hinna varfærnari embættismanna, að Íslendingar yrðu nú að vera varkárir, annars væri framtíðarkröfum þeirra hætta búin.

Dr. Pjetur Pjetursson hafði þessi ár stöðug brjefaskipti við M. Rosenörn, sem þá var innanríkis-ráðherra í Danmörku[1]); fjekk hann af brjefum hans og brjefum Brynjólfs bróður síns fulla vitneskju um ráðagerðir stjórnarinnar og skoðanir. Nokkru fyrir þjóðfundinn fjekk prófessor Pjetur brjef frá Rosenörn (dags. 9. júní 1851), sem tók af öll tvímæli í því efni. Af brjefum Brynjólfs hafði dr. Pjetur þegar um sumarið 1850 sjeð, hvað verða vildi, og hafði í brjefi til Rosenörns (3. marz 1851) getið þess, að þjóðfundurinn tilkomandi ekki mundi aðhyllast eða samþykkja frumvarp stjórnarinnar, en hann vonaðist eptir, að stjórnarfar Íslands yrði þá að minnsta kosti hið sama sem fyrr og »konungur einvaldur á Íslandi«. Á þetta vildi þó Rosenörn engan veginn fallast og er auðsjeð á brjefi hans[2]), að sú skoðun hafði þá þegar fest sjer djúpar rætur hjá þingmönnum Dana, að ríkisþingið eitt, vegna fjármálanna, hefði aðal-úrskurðarvald um stjórnarstöðu Íslands, en konungur eigi. — Rosenörn virðist því vera fullviss um, að stjórnarhagir Íslands verði verri en áður, ef þjóðfundur neitar að samþykkja stjórnarfrumvarpið, og meiri hluti ráðherra muni þá skoða Ísland sem ófrjálst skattland, sem fulltrúalaust, beinlínis heyri undir úrskurðarvald ríkisþingsins og ríkisráðsins, og þó landið hefði ráðgefandi þing,

---

1) Rosenörn varð ráðherra, þegar hann kom frá Íslandi 21. september 1849, og hjelt því embætti til 13. júlí 1851.

2) Brjef Rosenörns hefir þýðingu fyrir stjórnmálasögu Íslands og er því prentað í Viðaukum.

þá ætlaði stjórn og ríkisþing auðvitað ekki að taka aðrar tillögur til greina en þær, sem Dönum voru geðfelldar. Hjer var eigi að eins að ræða um innlimun, heldur fullkomið rjettleysi Íslendinga gagnvart Dönum. Er svo að sjá sem meiri hluti ríkisráðsins hafi haft þessar skoðanir, og Madvig og Rosenörn, sem mest hjeldu taum Íslendinga, hafi fengið embættisbræður sína til þess þó að gera þá tilhliðrun, að leggja stjórnarfrumvarpið fram fyrir þjóðfundinn. Þó Íslendingum þætti þetta frumvarp afar ófrjálslegt, þá var það samt of frjálslegt í augum ráðherranna flestra. Þar við bættist að hinir einu formælendur Íslands í ríkisráðinu þá voru á fallanda fæti, Rosenörn fór frá 13. júlí 1851, og Madvig 7. des s. á. Á þessu sjest, að hjer var þá mikil hætta á ferðum fyrir sjálfstæði Íslands, miklu meiri en þjóðfundurinn hafði nokkra hugmund um. Ráðaneytið danska notaði þó ekki vald sitt til að þröngva kosti Íslendinga algjörlega þegar til kom; stjórninni hefir þótt það viðurhlutamikið, enda var þá um margt annað að hugsa, sem meiri þýðingu hafði í þeirra augum, stöðug ráðherraskifti á þeim árum og svo hafði Trampe greifi beinlínis gjört Íslendingum greiða með því að hleypa upp þjóðfundinum. Það var því mjög eðlilegt, að svo hyggnum og gætnum manni eins og Dr. Pjetri þætti viðurhlutamikið og hættulegt fyrir Ísland að ganga í berhögg við stjórnina, þegar horfurnar voru slíkar, og nú var bróðir hans, sem svo mikil áhrif hafði haft á íslenzk mál og verið von og athvarf margra Íslendinga, orðinn dauðveikur og engin batavon.

Trampe stiptamtmaður gat líka undir þessum kringumstæðum ekki gert annað en hlýða yfirboðurum sínum og samkvæmt skipun stjórnarinnar gjört sitt til að bæla niður þá stjórnbótadrauma, sem hin síðustu ár höfðu hvarflað í hugum manna; hann hefir þó auðsjáanlega verið smeikur um, að þessi snöggu umskipti mundu verða orsök til oppþota og óeirða, úr því hann fór að biðja stjórnina um að senda hingað flokk hermanna; hins

vegar gat stjórninni ekki dottið í hug, að hann mundi hlaupa á sig sem raun varð á. Það er auðsjeð á framkomu Dr. Pjeturs sem ritsjóra Landstíðindanna á útmánuðunum 1851, að hann vissi meira um fyrirætlun stjórnarinnar en menn almennt. Frá því að vera vongóður um stjórnarbót er hann allt í einu orðinn vonlaus um nokkra verulega umbót að sinni, en jafnvel hinir fremstu þingmenn og stjórnmálamenn á Íslandi ætluðu aldrei að fást til að trúa því, að stjórnin mundi svo algjört bregðast vonum Íslendinga. Dr. Pjetur sá það fyrir, að frumvarp Þingvallafundarins 1850 aldrei mundi ná staðfestingu stjórnarinnar, eins og hugur hennar var þá, og væri því ekki til neins að halda því til streitu, hann lagði því á móti því, að nýr Þingvallafundur væri haldinn vorið 1851, af því hann áleit það til einskis gagns;[1]) embættismönnum sumum mun þá líka eins og á stóð hafa staðið stuggur af Þingvallafundi og hafa haldið, að af honum mundu hljótast æsingar og óspektir. Af þessum mótmælum gegn nýjum Þingvallafundi urðu margir afarreiðir og lögðu Dr. Pjetri það illa út, þar sem hann hafði verið einn af aðalmönnunum á Þingvallafundinum 1850 og brugðu honum jafnvel um hugleysi,[2]) en hann sat við sinn keip og hjelt sinni skoðun, þó hún væri lítt þokkuð af meiri hluta; hann hafði fullan hug til að synda á móti straumnum og álítur það »lítinn vanda að segja meiningu sína þegar maður fyrir fram veit, að hún er að allra skapi«.[3]) Það sýndi sig líka, að allt fór eins og Dr. Pjetur hafði ætlað; Þingvallafundurinn var fámennur og dró mjög úr hinum fyrri ákvörðunum og varð með öðrum orðum alveg þýðingarlaus.

Um sjálfan Þjóðfundinn þarf hjer ekki að fjölyrða, um hann hefir á seinni árum ýmislegt verið ritað.[4])

---

1) Landstíðindi II., bls. 193, 197—199.

2) Þjóðólfur III., bls. 265—266.

3) Landstíðindin II., bls. 194.

4) *Hannes Hafstein:* Um þjóðfund Íslendinga 1851 (And-

Fundurinn var settur 5. júlí 1851 og endaði sem kunnugt er mjög snubbótt hinn 9. ágúst. Þar voru að eins þrjú frumvörp rædd, stjórnarskrármálið og verzlunarmálið og frumvarp til laga um kosningar til alþingis. Öll þesi mál hafði Dr. Pjetur ítarlega rætt í Landstíðindunum, en nú horfði flest öðruvísi við en áður hafði verið, með því stjórnin gerðist svo andhverf öllum frelsishreyfingum Íslendinga. Það er skammt frá að segja, að stjórnlagafrumvarp ráðaneytisins danska var hið mesta afskræmi, bæði að efni og formi, og stefna þess fullkomin innlimun Íslands í Danmörku. Fyrsta greinin skipar fyrir að grundvallarlög Dana skuli óbreytt vera gild á Íslandi, en svo er sjálft frumvarpið, viðbót að því er snertir Ísland sjerstaklega, ógurlegur hrærigrautur. Við samningu þessa frumvarps »voru þrír Íslendingar, sem þó voru æðstir í stjórnardeildinni, ekki hafðir í neinum ráðum, en danskur maður, Leuning að nafni, sem var þar í deildinni nýkominn og ókunnugur öllum íslenzkum málum var í öllu hafður til ráðaneytis«.[1])

Enginn Íslendingur gat fallist á slíka stjórnarskrá, enda vildi meiri hluti kasta stjórnarfrumvarpinu algjörlega, og hinir konungkjörnu, sem voru í minnihluta, fjellust heldur ekki á það, en vildu miðla málum og reyna að vinna áheyrn stjórnarinnar með góðu, en fresta fullnaðarúrslitum; þeir vildu því láta í ljós álit sitt um hverja grein í frumvarpinu fyrir sig, án þess að kasta því orðalaust öllu. Í ágreiningsatriði minni hlutans segir Þórður Sveinbjörnsson: »Jeg ætla, að hvorki þingið nje nefnd sú, er þingið hefir sett í þessu máli, hafi köllun eða vald til að búa til nýtt frumvarp, sem byggt sje á

vari 27. ár, bls. 1—34). — *Klemens Jónsson*: Um þjóðfundinn 1851 (Andvari 31. ár, bls. 32—60 og 32. ár, bls. 146—160); enn fremur getur Jón Sigurðsson fundarins opt í Nýjum Fjelagsritum og í Andvara I., bls. 32—35. Tíðindi frá Þjóðfundi Íslendinga árið 1851, Reykjavík 1851, 8º 546 bls. — Um aðdraganda Þjóðfundarins væri þörf á að ítarlega væri skrifað, án þess er saga þeirra tíma óskiljanleg.

1) Andvari I., bls. 33.

undirstöðu og grundvallarskoðun gagnstæðri þeirri, sem frumvarpið er byggt á. Þó jeg á aðra hliðina ekki geti samþýðst þá aðferð, sem stjórnin hefir valið til að innleiða hjer í landi grundvallarlög Danmerkur, sem að öllu er ólík þeirri aðferð, er hingað til um langan aldur hefir verið viðhöfð um hina dönsku löggjöf, sem hjer hefir átt að lögleiðast, þá get jeg á hina hliðina og af áður greindum ástæðum ekki verið samþykkur þeirri aðferð samnefndarmanna minna að búa til nýtt frumvarp *nú þegar* og ætla sjer að koma því inn á þingið í stað stjórnarfrumvarpsins. Jeg verð að álíta þá aðferð eðlilegasta og samkvæmasta köllun og tilgangi þjóðfundarins, að taka stjórnarfrumvarpið fyrir og láta álit sitt í ljós um hinar einstöku greinar þess«.[1])

Rás viðburðanna hefir sýnt, að aðferð meiri hlutans var heppileg, að hafna gjörsamlega stjórnarfrumvarpinu, en bera fram nýtt frumvarp, stefnuskrá hinnar íslenzku þjóðar í stjórnbótakröfum, málamiðlun og breytingartillögur minnihlutans gátu varla orðið annað en kák, sem allir hefðu orðið óánægðir með. Þessu er hægt að spá á eptir, en á þeim tímum var það alls ekki svo augljóst frá sjónarmiði hygginna manna. Það var þvert á móti allt útlit til, að ákafi meiri hlutans mundi spilla sjálfstjórnarmáli Íslendinga algjörlega, stjórnin hefði annaðhvort lagt það fyrir og ekkert sinnt því eða þá með valdboði neytt Íslendinga til að taka við grundvallarlögum Dana ókörruðum. En þá gerði Trampe greifi Íslendingum hinn mesta greiða með því að hleypa upp þjóðfundinum áður en stjórnarskrármálið var rætt og sýndi þannig augljósa rangsleitni og loforðabrot stjórnarinnar.[2]) Það var stórkostlegt happ fyrir meiri hlutann að svona fór; öllum var augljóst, að ofbeldi var beitt við friðsama menn og stjórnarskráin fjekk þannig »ódýrt píslarvætti«, sem varð þeim málum beinlínis og óbein-

1) Tíðindi um þjóðfundinn bls. 517—518.
2) *H. Hafstein:* Um þjóðfundinn bls. 26—27.

línis síðar meir til mikils hagnaðar. Á Íslandi sköpuðust um þjóðfundinn ýmsar þjóðsögur og kynjasögur, sem fóru sveit úr sveit og gjörðu eigi lítið til að vekja þjóðarandann.

Á þjóðfundinum var töluverður hiti í mönnum eptir hin miklu vonbrigði, sem þeir höfðu orðið fyrir. Fór þá eins og vant er að vera, þegar tilfinningarnar eru æstar, að meiri hlutinn lagði fæð á minni hlutann, sem vildi miðla málum; undir þess konar kringumstæðum eru miðlunarmenn vanalega vargar í vjeum. Sjerstaklega gramdist sumum við Dr. Pjetur Pjetursson af því hann á Þingvallafundi 1850 og í Landstíðindum hafði verið einn af helztu forvígismönnum hinna nýju stjórnarhugmynda, en vildi nú slaka til og bíða átekta; hann varð því á fundinum fyrir dálitlum hnútum og hnippingum, en það er auðsjeð á ræðum hans, að hann bjóst við betri stjórnarhorfum síðar meir, en vildi ræða málið með gætni og stillingu og ekki brjóta brúna, hvað sem í húfi var. Þetta var alveg eðlilegt, eptir öllu skapferli og hugsunarhætti Dr. Pjeturs, hann vildi jafnan stilla til friðar, lægja ölduganginn og fremur vinna málin með lagi, heldur en með ákafa. Eptir fundinn skrifar Dr. Pjetur Pjetursson 29. ágúst 1851 Konráði Gíslasyni: »Illa fór fundurinn hjer í sumar. Jeg og nokkrir aðrir vildum reyna að þræða einhvern meðalveg, en Jón Sigurðsson og allur þorri þingmanna voru svo æstir, að við ekkert varð ráðið. Það er raun að vita til þess, hvernig allt er orðið hjer öfugt, eða þá jeg sjálfur er genginn af göflunum«. Dr. Pjetur vildi eins og fyrr var sagt slaka til í stjórnarskrármálinu, til þess þjóðin þá þegar fengi nokkura sjálfstjórn; hann segir á þjóðfundinum meðal annars: »Ef nú með tímanum einhver breyting yrði á í Danmörku, þá höldum vjer óskertum rjetti vorum til þess, að fara því fram, sem vjer þá álítum landinu haganlegast, og á meðan höfum vjer þá sjálfir undirbúið stjórnarlíf vort, með því að venjast við að hafa afskipti af málefnum vorum og fjárhag. Aptur

á hinn bóginn, ef vjer beinlínis setjum oss á móti sjónarmiði frumvarpsins, þá mundi afleiðingin verða sú, að vjer fjellum alveg undir stjórnarherrana og ríkisdaginn í Danmörku«[1]). Það er ekkert ófrjálslyndi, sem lýsir sjer í þessum orðum, en að eins varfærni og forsjálni, eins og þá stóð á; aptur á móti voru ályktanir meiri hlutans eptir kringumstæðum meir gjörðar af kappi en forsjá, þó þær væru góðar og rjettmætar í sjálfu sjer.

Spár minnihlutans rættust að mestu leyti; það var eins og þjóðfundurinn hefði slegið stjórnarskrármálinu rothögg, stjórnin vildi um langan tíma ekkert sinna sjálfstjórnarkröfum Íslendinga, og hefði þjóðin ekki átt annan eins mann búsettan í Kaupmannahöfn eins og Jón Sigurðsson, sívakandi og sístarfandi, er ekki að vita, hvernig hefði farið. Á næsta þingi eptir þjóðfundinn (1853) var enn sett nefnd í stjórnarbótarmálið og hlaut Dr. Pjetur Pjetursson meðal annara kosningu í nefndina; þá var samin löng bænaskrá til konungs, sem enga áheyrn fjekk, fremur en margar aðrar. — Þessi nefndarkosning sýndi, að Dr. Pjetur alls ekki hafði misst traust þingsins í þessu máli, þó hann væri í minni hluta á Þjóðfundinum, því hann var kosinn með jafnmörgum atkvæðum (12) eins og Hannes Stephensen prófastur[2]). Afdrif stjórnarbótarmálsins urðu þó til þess, að Dr. Pjetur hætti blaðamennsku og dró sig smátt og smátt í hlje frá hluttekningu í þeim málum, sem þá líka fyrirsjáanlega gáfu litla von um verulegan árangur, svo mun dauði Brynjólfs bróður hans, sem hann alla æfi tregaði mjög, líka hafa dregið úr áhuga hans á stjórnmálum. Aðrir voru betur fallnir til að standa í því stímabraki, Dr. Pjetur hafði önnur hlutverk að vinna, sem ekki voru þýðingarminni fyrir hina íslenzku þjóð. Alla æfi hjelt prófessor Pjetur trausti

1) Tíðindi frá Þjóðfundinum bls. 164. Þetta kom fram eptir þingið 1867, stöðulögin o. fl. Sbr. hið fyrrnefnda bréf frá Rosenörn.

2) Alþingistíðindi 1853 bls. 119.

og vinfengi foringjanna í stjórnbótamálinu; Jón Sigurðsson og Dr. Pjetur voru jafnan góðir kunningjar, þó þeir ekki allt af væru á sama máli, og stundum andvígir hver öðrum í stjórnmálum[1]). Hannes Stephensen prófastur var einn af beztu vinum Dr. Pjeturs. Þeir leiðtogar, sem íslenzka þjóðin þá átti, voru líka svo siðferðislega þroskaðir menn, að þeim datt ekki í hug að fjandskapast út úr skoðunamun í opinberum málum. Þegar Hannes prófastur var jarðsettur 21. október 1856 í Görðum á Akranesi, fóru að eins þrír menn úr Reykjavík til greptrunarinnar og var prófessor Pjetur einn þeirra. Þá var vont sjóveður, haust komið og allra veðra von, sjóleið alllöng og bátar litlir. Líkræða sú, sem Dr. Pjetur hjelt yfir Hannesi Stephensen, var þá talin ein af hinum fegurstu ræðum hans[2]) og var hún síðar prentuð[3]). Samkvæmt brjefi Jóns Guðmundssonar til Jóns Sigurðssonar (14. ágúst 1852) reyndi dr. Pjetur að koma á sættum milli Jóns Guðmundssonar og Trampe greifa, og alstaðar reyndi hann að miðla málum.

Vjer skulum ljúka þessum þætti með því, að setja hjer kafla úr ritgjörðarbroti einu eftir Dr. Pjetur Pjetursson, því þar sjest vel, hve hygginn maður hann var í stjórnmálum, skarpskygn og framsýnn[4]). Höf. talar

1) Þegar fjárkláðamálið stóð sem hæst var Jón Sigurðsson mjög illa þokkaður á Íslandi, alþýðuhylli er jafnan fallvaltur gripur. Þá hafði eitt sinn komið fregn um, að Jón Sigurðsson hefði fengið 5000 rd. hjá stjórninni til þess að koma fram lækningaráðstöfunum, og töluðu þeir saman um það, Dr. Pjetur og hátt settur embættismaður einn, sem skaut því fram, að Jón hefði ljeð stjórninni sannfæringu sína fyrir peningana. Þá mælti dr. Pjetur: »Það mátt þú ekki segja, það er auðsjeð, að Jón fer fram sinni eigin sannfæringu og ætlar að koma á fjárlækningum á Íslandi fyrir framtíðina«. Eptir sögn Eiríks Magnússonar meistara, sem var viðstaddur.

2) Þjóðólfur IX, bls. 1.

3) *P. Pjetursson:* Tækifærisræður. Reykjavik 1857, bls. 120—128.

4) Ritgjörð þessi er til í handriti og hefir verið skrifuð á undan þjóðfundi, líklega 1850, Dr. Pjetur hefir ætlað að setja

um stjórnarmálefni Íslands og hvernig þau horfi við í framtíðinni; hann lýsir þar meðal annars hinum pólitisku villigötum, sem menn geta ratað á í gagnstæðar áttir, af of miklu apturhaldi og of miklum ákafa og æsingu. Þar segir Dr. Pjetur. »Þegar um svo mikið er að tefla og ekki verður með óyggjandi vissu sagt fyrir, hverjar afleiðingar hvað eina muni hafa og hvernig sjerhver breyting muni gefast, þegar til lengdar lætur, af því það í sjálfu sjer er næsta erfitt að sjá allt það fyrir, sem upp kann að koma, þá er öll von á, að nokkur meiningamunur kunni að verða um það, hve yfirgripsmiklar breytingarnar megi vera, bæði í einstökum málefnum og stjórnarháttum landsins yfir höfuð. En það er auðsjeð, að tvær villigötur, hver annari gagnstæðar, blasa hjer beinlínis við. Aðra þeirra fara þeir, sem amast við öllum ný-breytingum, og halda, að af þeim leiði ekkert nema eintómur kostnaður. Getur þetta haft margar orsakir, annað hvort komið til af því stífsinni geðsmunanna, að vilja allt af halda sömu stefnu, og af einstrengingslegu gáfnalagi, sem allt af vill halda fast við fornar venjur, eða af því þeir eru svo andlega værukærir, að þeir nenna ekki að hugsa um almennings málefni, eða af eigingirni, þegar menn ekki láta sig annað varða en það, sem beinlínis snertir sjálfa þá, og hugsa ef til vill, að breytingin muni hafa skaðleg áhrif á hagsmuni sjálfra þeirra, eða það kemur til af hræðslu og ístöðuleysi, þeir menn þora ekki að ráðast í neitt og halda, að þá muni fara verr en áður, þeir vitna til málsháttarins, að sjaldan fari betur þegar breytt sje, og vilja sýna það af sögu sjálfra okkar, að flestar nýbreytingar hafi orðið okkur til einhverrar ógæfu«.

»Hina gagnstæðu villigötu fara þeir, sem vilja umturna öllu allt í einu og halda, að það sje allt ónýtt, sem er og hefur verið, og ekki þurfi annað, til að koma landinu upp, en umróta öllu og setja eitthvað nýtt í

hana í Landstíðindin, en hefir af einhverjum orsökum hætt við það.

staðinn. Þó það sje nú eðlilegt, að hinni eldri kynslóð kunni að vera hætt við að villast á þann bóginn, sem veit frá öllum breytingum, og sú síðartalda villigata sje eiginleg hinni yngri og upprennandi kynslóð, þá er þetta þó engan veginn undantekningarlaust, því margir kunna þeir að vera meðal hinni eldri embættismanna og eins leikmanna, sem hinn mikli byltingastraumur tímans hefir snortið, og sem unna skynsamlegum byltingum, eins og líka það, að hinu leytinu, er óyggjandi, að hjá mörgum hinna yngri Íslendinga er heitur áhugi á framförum fósturjarðarinnar samfara stillingu og skynsamlegri hugleiðing íslenzkra málefna«.

»Þeim mun hættara getur mönnum orðið að villast á aðra hvora þá villigötu, er áður var getið, sem þær báðar geta sprottið af góðri rót og mismunað einungis í því, hvað menn haldi að bezt eigi við hjer á landi. Sá, sem er ráðinn og roskinn og orðinn reyndur í veröldinni, heldur, að aldrei verði of varlega farið, landið sje svo fátækt, að það sje ekki fært um að ráðast í neitt, að það fái ekki staðist nje borið breytingarnar, ef þær takast óheppilega. Þeir eru um langan aldur orðnir vanir þessu, þeim þykir það fara nógu vel eða að minnsta kosti svoleiðis, að það sje ekki tilvinnandi að hagga því eða setja annað nýtt í stað þess, ef þetta kunni að mistakast. Þeir hafa nú nokkuð til síns máls, því sjerhver breyting verður að byggjast á forsjálni og fyrirhyggju og standa í eðlilegu sambandi við hinn yfirstandandi tíma. Sjerhver viðburður og eins hið ókomna verður að eiga sjer rót í hinu undanfarna, því taki nokkur hlutur undir sig það stökk, sem honum er of vaxið, þá fellur hann um sjálfan sig fyrr eða síðar og rífur ef til vill margt gott og gagnlegt um koll með sjer«.

»Fjörið hrífur æskumanninn, ástin á fósturjörðunni er heit og brennandi í hjarta hans, tilfinningar hans eru næmar, hugurinn gljúpur og drekkur í sig allt, sem er gott og fagurt í byltinganna straumi; hann ber Ísland í

brjósti sínu, en Ísland á bágt og brjóstið ætlar að springa; er það þá ekki eðlilegt, þó hann lagi Ísland eins og hann langar til, að það sje? Þó hann kunni að gleyma þeim erfiðleika, sem sjerhver breyting á við að stríða, þó hann geti ekki skoðað málefnin og allar kringumstæður með eins köldu blóði og hinir, sem vanir eru við að kryfja sjerhverja tilfinningu og sjerhverja hugsun. Þó þetta sje í sjálfu sjer ekki að eins eðlilegt, heldur einnig lofsvert og fagurt, þá getur þó þessi brennandi áhugi æskumannsins leitt af sjer mikið illt og haft sorglegar afleiðingar fyrir land og lýð, ef hann stjórnast ekki af skynsamlegri umhugsun og þekkingu og verður svo svæsinn, að hann vílar ekki fyrir sjer að fleygja út í almenning ástæðulausum frelsishugmyndum, sem geta flogið um allt eins og eldur í sinu og kveykt óánægju og vonir, sem aldrei rætast«.

»Með þesshátttar óðfluga hugmyndum verðum vjer að telja hugarburð þann, að bezt mundi fyrir Ísland að segja að öllu leyti skilið við samfjelag Danmerkur og yfirráð Danakonungs, en gefa sig annað hvort undir vernd Sambandsríkjanna í Vesturheimi, Englendinga, Norðmanna eða einhverra annara þjóða. Þó þesshátttar hugmyndir kunni að spretta af góðri rót og innilegri löngun eptir, að Íslandi megi vegna betur eptir en áður, hafa þær þó þann annmarka, að þær eru byggðar í lausu lopti og geta því ekki ræzt. Einmitt þess vegna miða þær til að vekja óánægju með fjelagsskap okkar við Dani, hvað frjálslegur, sem hann kynni að verða, af því mönnum hættir svo mjög við, að ímynda sjer það betra, sem þeir ekki fá, heldur en hitt, sem þeir hafa. Að minnsta kosti getur þetta komið til leiðar of mikilli heimtufrekju við Dani og gjört hvorutveggja óánægða með aðra«.

»Vegna þessara sinna afleiðinga eru þvílíkar hugmyndir hættulegar, en ekki hins vegna, að það sje að óttast, að þeim muni verða framgengt. Það væri líka eins ómögulegt og það nú er ástæðulaust fyrir okkur

Íslendinga, að vilja brjótast úr sambandi við Danmörku. Um ómögulegleikann á þessu mun enginn sá efast, sem þekkir hið allra minnsta til Íslands og krapta þess. Það skyldi þá einungis vera með því móti, að öðrum þjóðum þætti svo mikið í það varið, að fá okkur í samband við sig, að þær þess vegna vildu leggja talsvert í sölurnar og keppa um okkur við Dani. Við þessu mundi vart þurfa ráð að gjöra, nema með svo felldu móti, að þær ætluðu sjer að vinna upp aptur á landinu þann kostnað og þá fyrirhöfn, sem þær hefðu fyrir að ná því undan Danmörku í samfjelag við sig, því vart þyrfti að búast við, að þær gerðu það af eintómum mannkærleika og meðaumkun«.

Vjer þurfum ekki að setja hjer meira en þetta sýnishorn af ritgjörðinni. Höf. fer síðan að athuga, hvort það væri nokkur hagnaður fyrir Ísland, að komast í samband við aðrar þjóðir, þó svo ólíklega færi, að það gæti tekist, og kemst að þeirri niðurstöðu, að Ísland, ef það sameinast Englandi eða Bandaríkjum, yrði selstöð eða verstöð til fiskiveiða, Íslendingar mundu á skömmum tíma missa mál sitt og þjóðerni og verða þýðingarlaus verkmanna- og fiskimanna-lýður í þjónustu erlendra auðmanna. Noregur er aptur svo fátækt land og kraptalítið, að það er enginn hagnaður, að komast í samband við það, nema ef til vill einhvern tíma í framtíðinni, ef öll Norðurlönd yrðu Bandaríki. Höf. álítur allra hluta vegna sambandið við Danmörku happa-drjúgast, ef sambandsmálum er hentugar komið fyrir en áður, og álítur höf. ekkert því til fyrirstöðu, ef menn sýna Dönum traust og vináttu, en leggja niður hina íslenzku tortryggni. Seinasti hluti ritgjörðarinnar hugleiðir ýmislegt, er snertir stjórnmál Íslands, eins og þau lágu fyrir á undan þjóðfundi.

## VII. Dr. Pjetur Pjetursson á alþingi 1849—1885.

Meðan dr. Pjetur Pjetursson enn þá var prestur á Staðastað var hann hinn 18. september 1846 kosinn konungkjörinn varaþingmaður andlegrar stjettar[1]), en ekki tók hann sæti á þingi fyrr en 1849. Halldór prófastur Jónsson á Hofi, sem var annar konungkjörinn þingmaður hinnar andlegu stjettar, varð að fara af þingi sumarið 1849, og hinn 2. ágúst s. á. kvaddi konungsfulltrúi konunglegan varaþingmann, prófessor, dr. theol. Pjetur Pjetursson til þingsætis[2]). Á þjóðfundinum 1851 var hann líka konungkjörinn, og eptir það á öllum þingum til 1885, þá sagði hann af sjer 1886 fyrir aldurssakir. Á hinum ráðgefandi þingum var dr. Pjetur varaforseti 1859, 1861, 1867, 1869, 1871 og 1873. Á hinu fyrsta löggefandi þingi var Pjetur biskup kosinn forseti í efri deild og gegndi þeim starfa með alúð og samvizkusemi meðan hann sat á þingi (1875—1885).

Á hinum ráðgefandi þingum var prófessor Pjetur Pjetursson einn af hinum atkvæðamestu og starfsömustu þingmönnum, og dró sig aldrei í hlje frá neinni vinnu, sem gagnleg var og nauðsynleg fyrir þing og þjóð, en á slíka menn hrúgast vanalega flest þingmál og önnur

1) »Andleg varaskeifa« eins og hann sjálfur kallar það í brjefi til Jóns bróður síns 14. des. 1846.

2) Alþingistíðindi 1849, bls. 725.

störf í þágu þingsins. Þingsetningarræður hjelt hann á þingunum 1853 og 1859[1]), og í mörg ár var hann ritstjóri þingtíðindanna. Ritstjórn þjóðfundartíðindanna 1851 hafði hann á hendi með Jens Sigurðssyni og Gísla Magnússyni; ritstjóri alþingistíðindanna var dr. Pjetur 1853 með Jóni Guðmundssyni, 1855, 1857 og 1859 með Halldóri Friðrikssyni, 1861 með Páli Melsted, 1865 með Sveini Skúlasyni. Árið 1849 var dr. Pjetur kosinn í þriggja manna nefnd til þess, að sjá um alþingisbókasafnið ásamt Jóni Sigurðssyni og Þórði Sveinbjörnssyni, en Jón Sigurðsson, sem búsettur var í Kaupmannahöfn, var eðlilega að eins að nafninu til í nefndinni. Þeir gegndu þessum starfa til 1855, þá sögðu þeir Þórður og Pjetur honum af sjer[2]), en voru þá kosnir í nefnd til þess, að gjöra uppástungur um fyrirkomulag safnsins framvegis.

Það sást fljótt, að góður liðsmaður var kominn í hópinn, þegar dr. Pjetur Pjetursson kom á þing. Allir voru á eitt sáttir um það, að þar væri ágætur starfsmaður, afkastamikill og ósjerhlífinn, hygginn og ráðsettur, laginn í verkum og lipur til samvinnu. Dr. Pjetur tók mikinn þátt í öllum störfum hinna ráðgefandi þinga, var kosinn í allar hinar stærri og vandasömu nefndir og tók mikinn þátt í öllum umræðum. Á hinum fyrstu þingum talar dr. Pjetur mjög opt, nærri í hverju máli meira eða minna (1853 talar hann t. d. 91 sinni, 1855 143 sinnum), síðan sjaldnar, en tekur jafnan mikinn þátt í nefndastörfum og er opt kosinn til að semja álitsskjöl, konungsávörp og annað þess konar. Á þingunum 1853—1871 var dr. Pjetur Pjetursson kosinn í 57 nefndir[3]), eða að meðaltali nærri 6 á hverju

---

1) Alþingisræðan 1853 er prentuð í »Tækifærisræðum« dr. Pjeturs. Reykjavík 1857, bls. 11—20. Við þingsetningarræðuna 1853 var texti Kóloss. 3—17. v.; 1859 Filipp. 2, 1—4. v.

2) Alþingistíðindin 1855, bls. 352—353, 906—909.

3) Á þinginu 1873 gat hann sakir lasleika eigi verið í nefndum.

þingi, hann var framsögumaður í 17 af þessum nefndum og formaður í 25. Margar af nefndum þessum útheimtu mikinn starfa og sumar töluverða lagaþekkingu, sjerstaklega í kirkjumálum. Eptir að hann var orðinn forseti í efri deild var hann ekkert riðinn við nefndir eða umræður.

Aðalstörf dr. Pjeturs á þingi voru eðlilega innifalin í afskiptum hans af kirkjumálum og almennum fjelagsmálum er snertu siðgæði og reglu, sveitastjórn, hjúskaparmál og annað því líkt, en hann fjekkst einnig við öll önnur stærri mál, sem komu fram á þinginu. Í kirkjumálum kom hann jafnan fram sem hógvær verndari kirkjurjettinda og presta og var mjög frjálslyndur í öllum trúarbragða og kirkjumálum og það svo stundum, að sumum þótti nóg um. Á þingunum 1853, 1857 og 1859 tók dr. Pjetur mikinn þátt í umræðum um og nefndarstörfum í málefnum um sunnudaga og helgidagahald og var framsögumaður í því máli 1859. Þá má enn fremur nefna nokkrar nefndir er snerta kirkjumál, sem hann var formaður eða framsögumaður í á hinum ráðgefandi þingum: 1863 um skikkunarvald stiptsyfirvalda til fátækra prestakalla og um prestaeklu, 1865 um prestaköll,[1]) Hólakirkju, takmörkun á brauðasameiningu, 1867 kirkjuskoðanir prófasta o. s. frv. Auk þess lagði hann ýmislegt til í öðrum málum, sem að einhverju leyti snertu fjárforráð kirkna og prestastjettina.

Á þinginu 1863 vöktu tvö kirkjumál mikið kapp og skulum vjer geta þeirra, af því þau hafa dálitla sögulega þýðingu, það voru málin um skikkunarvald stiptsyfirvalda og um ráð til að afstýra prestaeklu. Á þeim árum fengust engir prestar í hin rýrari brauð og lærisveinar í lærða skólanum voru óvanalega fáir; út úr þessu spunnust allharðar deilur í blöðum og skólaskýrslum. Í þessum vandræðum tóku stiptsyfirvöldin það ráð, að skikka prestaskólakandidat Odd Gíslason til prests

1) Sbr. Tilskipun 15. des. 1865.

í Grímsey samkvæmt gömlum konungsbrjefum frá 1737 og 1791, en hann færðist undan með læknisvottorði. Til frekari fullvissu útveguðu stiptsyfirvöldin sjer konungsúrskurð 17. maí 1862 um að skikka mætti prestaskólakandídata (en ekki háskólakandídata) í hin fátækari brauð, og vakti sá úrskurður töluverða óánægju, svo bænarskrá kom til alþingis úr Múlasýslu um að fá honum breytt; var nefnd sett í málið og var prófessor Pjetur framsögumaður hennar og einnig framsögumaður í nefnd, sem átti að finna ráð gegn prestaeklu, sem sett var samkvæmt bænaskrá úr Vestur-Skaptafellssýslu.

Í málinu um skikkunarvald stiptsyfirvaldanna lagði dr. Pjetur eindregið á móti stiptsyfirvöldunum og nefndin komst að þeirri niðurstöðu, að skikkunarvaldið væri óhafandi, það væri gagnstætt öllu mannfrelsi og mundi spilla stórum fyrir prestaskólanum.[1]) Nefndarálitið fjekk byr hjá þinginu og var sent sem bænarskrá til konungs. Síðan hafa prestaskólakandídatar ekki verið skikkaðir til brauða.

Að því er snerti tillögur um að bæta úr prestaeklunni, þá gekk þeirri nefnd eigi eins vel að koma sjer við þingið, enda var nefndarálit meiri hlutans í þessari nefnd æði nýstárlegt, þó það væri í sjálfu sjer frjálslegt. Það var felt gjörsamlega af þinginu. Í nefndinni var prófessor Pjetur formaður og framsögumaður og honum fylgdu í meiri hluta Jón Guðmundsson og Björn Pjetursson, en í minni hluta voru Helgi biskup og síra Benedikt Þórðarson, sem sömdu sjerstök ágreiningsatriði. Nefndin segir, að prestaeklan sje orðin svo mikil, að ekki sje »annað sýnilegt, en að víða komi heiðni í stað kristindóms í hinum afskekktu útkjálkabrauðum.« Nefndin lagði þá til, að þingið útvegaði lagaheimild fyrir hin næstu 8—10 ár til þess að vígja megi á rýrustu útkjálkabrauð valinkunna, ólærða menn, þó þeir ekki hafi þá

1) Alþingistíðindi 1863 I. bls. 157—161, 226—231; II. bls. 334—335. Sbr. Norðanfari I. bls. 81—86.

bóklegu menntun, sem nú er heimtuð af prestum. Leggur nefndin til, að þeir sem girnast slík prestaköll sjeu eigi yngri en 30 ára, fái vitnisburð um siðferði og aðra hæfilegleika hjá sóknarpresti sínum og hjeraðsprófasti, »fari síðan til prófasts þess hjeraðs, þar sem sá söfnuður er, hvers prestar þeir óska að verða og fá hann til að halda fund með hinum beztu mönnum í söfnuðinum, og þannig útvega sjer reglulegt samþykki safnaðarins. Að því búnu ættu þeir að finna biskupinn, svo að hann, ef hann að öðru leyti álítur þá færa til prestsskapar, geti gefið þeim meðmælingarbrjef til kennara prestaskólans, sem þá mundu verða fúsir til að veita þessum mönnum ókeypis privat-tilsögn einn vetrartíma í útskýringu N. T., trúarfræði, prjedikunarlist og barnaspurning, og gefa þeim síðan testimonium til vígslu. En skilyrði fyrir að geta notið slíkrar kennslu yrði að vera það, að þeir að minsta kosti kynnu að skrifa og reikna og skildu dönsku.« Segir nefndarálitið, að »hjer á landi sjeu margir ágætir leikmenn, sem sjálfir hafi útvegað sjer talsverða menntun, einkum í trúarbragðaþekkingu, og svo að segja kunna ritninguna utanbókar.« Enn fremur stinga þeir upp á, að 5 manna milliþinganefnd af embættismönnum og alþingismönnum sje sett í Reykjavík, er meti brauðin að nýju, gjöri uppástungur um sameiningu brauða og um uppbót af hinum betri brauðum til hinna rýrari, einnig stingur nefndin upp á, að söfnuðirnir fái atkvæðisrjett um sameiningu og sundrungu brauða.[1])

Þegar dr. P. Pjetursson lagði fram nefndarálitið, sagði hann með kímni, að nefndin byggist við að fá þakkarávörp frá þingmönnum, en það varð nú ekki. Nefndarálitið fjekk þungan dóm á þinginu og mikla mótspyrnu og spunnust út úr því langar og allharðar umræður. Allir veittust að prófessor Pjetri, en hann varðist hraustlega, þó hann játaði, að uppástungan um vígslu leikmanna væri neyðarúrræði. — Síra Helgi Hálf-

1) Alþingistíðindi 1863, I. bls. 253—261.

dánarson sagði, að þetta gæti stofnað lútherskri kirkju og lútherskum trúarbrögðum á Íslandi í voða, mundi hæglega geta leitt til trúarvingls og trúarofsa, mundi eyðileggja prestaskólann sem vísindalega stofnun og spilla sálarheillum Hornstrendinga, og þó væri þeirra sálir eins dýrmætar og sálir Reykvíkinga[1]). Halldór Kr. Friðriksson var einnig ákafur á móti, sagði, að uppástunga þessi rýrði álit prestastjettarinnar, særði tilfinningar safnaðanna, eyðilegði prestaskólann og eyddi allri menntun landsins. Meðal annars segir Halldór: »Það særir tilfinningu safnaðanna, þegar ómenntaðir menn úr flokki þeirra eru settir yfir þá til að leiða þá í hinum helgustu sannindum og fræða þá um þeirra sáluhjálparefni. Það er alls eigi auðið, að söfnuðirnir geti borið sanna virðing fyrir þessum mönnum, sem eru þeirra jafningjar, og ekki eru fremri þeim í neinni menntun. Enn fremur er þetta til gjörsamlega að eyða prestaskólanum, og furðar mig það stórlega, að þessi uppástunga skuli vera komin frá forstöðumanni prestaskólans, jafnvitrum manni.« Álítur hann það ævarandi blett á þinginu, ef það aðhyllist þessa uppástungu.[2]) Arnljótur Ólafsson gerði skop að öðru niðurlagsatriði nefndarinnar um að setja milliþinganefnd í brauðamálið og láta sóknamenn hafa atkvæði um brauðasamsteypur, þetta áleit hann fráleitt af því það tæki fram fyrir hendur stiptsyfirvaldanna og rýrði vald þeirra[3]). Um mál þetta urðu allmiklar umræður[4]) og voru flestar á móti, en þó sumir með, t. d. Dr. Jón Hjaltalín, sem vitnaði til ólærðra klerka á Bretlandi. Að lokum var uppástungan felld með 16 atkv. gegn 7.

Af hinum löngu umræðum í þessu máli sjest glögglega, að þá þegar var farið töluvert að brydda á þeirri hreyfingu, er síðar kom á kirkjumál og leiddi til ýmsra

1) Alþingistíðindi 1863, II. bls. 659.
2) Alþingistíðindi 1863, II. bls. 661, 663.
3) Alþingistíðindi 1863, II. bls. 686.
4) Alþingistíðindi 1863, II. bls. 653—96, 719—758.

umbreytinga og umbóta, og að Dr. Pjetur Pjetursson var í flokki þeirra, sem vildu endurbæta og breyta, en stiptsyfirvöldunum (Þórði Jónassen og Helga Thordersen) þótti lítil þörf á því. Það yrði oflangt mál að fylgja afskiptum Dr. Pjeturs af ýmsum kirkjumálum, en þess má að eins geta, að hann er alstaðar framfaramaður, lipur og frjálslyndur, vill byggja kirkjuna á þjóðlegum grundvelli, heldur aldrei fast í kreddur, en vill hins vegar ekki, að of nærri sje gengið rjetti kirkju og presta. 1871 mælir Pjetur biskup móti því, að alþing hafi nokkuð úrskurðarvald um sölu kirkjujarða, og eins móti því, að prófastar sjeu útilokaðir úr sýslunefndum, en vill láta þá vera sjálfkjörna, hann leggur til að Englendingar er taka brennistein við Mývatn, sjeu skyldaðir til að borga sóknarpresti 180 kr. í offur[1]), og ef þörf væri mætti margt fleira til tína er sýnir, hve annt hann ljet sjer um prestastjettina í smáu sem stóru.

Á hinum ráðgefandi þingum var Dr. Pjetur riðinn við mörg almenn fjelagsmál og var framsögumaður í áríðandi nefndum, sem höfðu mikið að starfa og skulum vjer að eins nefna hinar helztu: 1853, 1855 og 1859 var Dr. Pjetur í nefnd um sveitastjórn og framsögumaður í þeirri nefnd tvö seinni árin; 1855 og 1865 var hann í nefndum um verzlunarmál og 1853 samdi hann með Jóni Sigurðssyni bænaskrá til konungs um verzlunarfrelsi[2]), og 1857 var hann í nefnd er ritaði konungi þakklætisávarp fyrir verzlunarfrelsið.

1) Alþingistíðindi 1871, I. bls. 306, 608; II. bls. 344. Alþt. 1869 I. bls. 323, 327.

2) Alþingistíðindi 1853, bls. 1054—1060. Á mörgum þingum var tíðrætt um löggilding verzlunarstaða og sjerstaklega var mikið karpað um kaupstað á Akranesi, voru margir á móti að setja þar verzlunarstað, því Akurnesingar voru í þá daga eigi álitnir miklir reglumenn. Eitt sinn er Dr. Pjetur kom heim af þingi kvað hann þessa gamanbögu við börn sín:

Kaupstaður á Skipaskaga
skötnum verður helzt til baga,
eptir sjer hann dilk mun draga,
drykkjurúta og letimaga.



Professor, dr. theol. Pjetur Pjetursson 1866.

Árið 1853 var prófessor Pjetur framsögumaður í nefnd um hússtjórnarlög, 1861, 1863 og 1865 í nefnd um vinnuhjúalög, það var mjög yfirgripsmikið mál og tók langan tíma; árið 1859 var hann framsögumaður í nefnd um hjúskapar og hjónabandslög og aptur 1861, í nefnd um öreigagiptingar 1869. Framsögumaður var hann í fjárkláðamálinu 1857 og í máli um brennivínstoll 1871, þá var hann í nefndum um spítalahluti 1867 og 1871, læknaskipun 1855 og 1861, póstmál 1871, um þúsund ára hátíð 1867, um Gyðinga 1855, um fiskiveiðar útlendinga 1857, 1859 og 1863 o. s. frv.

Dr. Pjetur Pjeturssson var eðlilega mjög riðinn við öll menntamál, sem komu til umræðu á þinginu. Hann vildi byggja skóla og kennslu á þjóðlegum grundvelli. Í Landstíðindum[1]) segir hann 1849: »Ég held að allir verði að játa, að sú kennsla er fullkomnust, sem er þjóðleg, sem veitir hinu almenna vísindalífi í þjóðlegan farveg, og hugsar og talar máli sinnar þjóðar og lætur hin algildu sannindi drekka í sig þann einkennilega lífsvökva, sem rennur um líkama hverrar þjóðar og gjörir hana að þjóð út af fyrir sig, eða með öðrum orðum, sem hefir nægilegt tillit til þjóðernisins og þjóðlífsins.« Árið 1861 voru almennar umræður um fyrirkomulag lærða skólans og óánægja með ýmislegt, er hann snerti. Þá voru sendar 5 bænaskrár til þingsins um lærða skólann og var kosin 5 manna nefnd í málið. Dr. Pjetur Pjetursson var formaður og framsögumaður í nefndinni og samdi ítarlegt nefndarálit, sem þótti óvanalega gott. Þjóðólfur segir svo frá þessu máli: »Vér ætlum, að nefndin, og einkum framsögumaður hafi leyst málið svo vandlega og vel af hendi, sem framast var kostur á, enda urðu umræðurnar um það á þingi bæði fastar og óflóknar, eins og vant er að vera þegar byggja er á vönduðu nefndaráliti með vel hugsuðum og skipulegum niður-

1) Landstíðindi I. bls. 23.



lagsatriðum; þau stóðu einnig óbreytt að mestu í atkvæðagreiðslunni og í öllu hinu verulega«.[1]) Norðri segir: »Nefndarálitið var eitthvert hið vandaðasta nefndarálit, sem samið var á þessu þingi og máske þó fleiri þing væri talin og mun prófessor Pjetur Pjetursson hafa átt mestan þátt í því«.[2]) Benedikt Sveinsson og Sveinn Skúlason segja[3]) í nefndaráliti 1863: »Við ætlum óhætt að fullyrða, að alþingi vort Íslendinga hafi varla frá byrjun vega sinna áunnið sjer meiri hylli og viðurkenningu þjóðarinnar fyrir meðferð neins einstaks málefnis, heldur en fyrir meðferð skólamálsins 1861. Vjer ætlum engin tvímæli á, að flestar uppástungur þingsins hafi þar verið alveg að skapi landsmanna, enda hafa þegar komið fram gleðilegar afleiðingar þessarar þjóðlegu viðurkenningar«, að margir bændur settu syni sína til menta þó árferði væri örðugt til lands og sjóar.

Stjórnin setti árið eptir 5 manna nefnd utanþings til þess að gjöra nánari uppástungur um reglugjörð skólans og kaus sjálf í hana rektor Bjarna Jónsson og prófessor Pjetur Pjetursson, en stiptsyfirvöldin kusu Dr. Jón Hjaltalín, síra Ólaf Pálsson og Jón Guðmundsson ritstjóra.[4]) Nefndin kaus Dr. Pjetur fyrir formann og síra Ólaf til skrifara. Bjarni rektor varð veikur meðan á nefndarstörfunum stóð og var Jens Sigurðsson kosinn í hans stað[5].) Álitsskjal skólanefndarinnar dags. 25. okt.

1) Þjóðólfur XIII. bls. 162.

2) Norðri IX. bls. 67.

3) Alþingistíðindi 1863, I, bls. 365.

4) Jón Guðmundsson hafði opt í blaði sínu ritað um skólann og fundið að mörgu við rektor og stipsyfirvöld, þess vegna eru í Íslendingi (III. bls. 54) Helga biskupi sendar ýmsar glósur fyrir að hann valdi J. G. í nefndina og svarar Jón því í Þjóðólfi (XIV. bls. 143, 155–156). Á þeim árum voru sífeldar deilur milli Þjóðólfs og Bjarna rektors og þá stóð í Þjóðólfi meðal annars (XV. bls. 82—83) varnargrein fyrir Bjarna Jónsson frá embættismönnum utanskóla og var Dr. Pjetur Pjetursson aðalfrumkvöðull hennar. Sbr. Skólaskýrsla 1863, bls, 20.

5) Alþingistíðindi 1863 I. bls. 363.

1862 var sent stjórninni og niðurlagsatriðin prentuð[1],) og þegar á næsta þingi kom bænaskrá úr Húnavatnssýslu um ýmsar breytingar á uppástungum nefndarinnar og varð úr því töluvert óþarfa þjark á þinginu 1863. Dr. Pjetur skýrði líka á því þingi málið á ýmsan hátt og var kosinn í nefnd er nánara skyldi athuga þessa bænarskrá. Þá var enn á ný sett nefnd í skólamálin 10. nóv. 1875 og var Pjetur biskup formaður hennar, aðrir nefndarmenn voru Jón Þorkelsson rektor, Dr. Grímur Thomsen, síra Þórarinn Böðvarsson, og Helgi E. Helgesen kennari. Þjóðólfur[2]) lét þá í ljósi kvíðboga fyrir því, að nefndin mundi haga skólunum eptir skólafyrirkomulagi í Danmörku og Matthías Jochumsson ritstjóri vildi fá inn í nefndina einhverja af »vorum ungu gáfu- og framfaramönnum«. Pjetur biskup svaraði strax[3]) og segir þar meðal annars: »Þó eg beri hina mestu virðingu fyrir þessum flokki landsmanna þegar talað er um áræði og atorku til að koma einhverju góðu til leiðar í alþjóðlegum málum, þá er það þó ný kenning fyrir mig, að æskan sé bezt löguð til að venja og bæta skólareglugjörðir, því eg hefi ímyndað mér að til þessa þurfi talsverða reynslu, samfara glöggu yfirliti og stillilegri yfirvegun og það vill svo vel til að samnefndarmenn mínir hafa þenna kost til að bera, jafnframt sem enginn mun geta neitað með rökum að þeir muni teljast í flokki framfaramanna«. Í sömu grein mælir Pjetur biskup mjög með því að Norðlingar fái skóla á Möðruvöllum, »sem sé sem þjóðlegastur og Norðlingum svo geðfeldur sem unnt er«. Þingið hafði veitt mjög lítið fje til nefndarinnar og því afsöluðu þeir Pjetur biskup og Jón rektor sjer allri borgun fyrir nefndarstörf.

Árið 1871 var Pjetur biskup í nefnd um læknaskólann og hafði löngu áður mælt með innlendri lækna-

1) Þjóðólfur XV. bls. 21—23.
2) Þjóðólfur 28. árg. 1875 bls. 17—18.
3) S. st. bls. 21.



kennslu, 1849 í Landstíðindunum, og eins er hann var formaður og framsögumaður í læknamálinu á alþingi 1855. Árið 1857 var hann framsögumaður í nefnd um ölmusur og húsaleigustyrk við prestaskólann; á sama þingi komu fram uppástungur um, að kenna skyldi lærisveinum prestaskólans grundvallaratriðin í læknisfræði og lagði Dr. Pjetur eindregið á móti því, að gera prestana að skottulæknum.[1]) Þá var hann í nefnd um kennslu heyrnar- og málleysingja 1871 og um kennaraembætti í sögu Íslands 1869 og 1871. Árið 1859 voru á þingi miklar umræður um barnaskólann í Reykjavík og tók Dr. Pjetur allmikinn þátt í þeim.[2]) Umræðurnar um það mál eru að mörgu einkennilegar og sýna skoðanir manna um skóla og mentun á þeim tímum. Arnljótur Ólafsson barðist þá með hnúum og hnefum móti skólanum og sjerstaklega móti allri skólaskyldu, sem hann taldi »þrældómsmerki«, og hann klökknar af því »að einkabarn móðurinnar sje tekið frá brjósti hennar og sett í þetta tukthús«. Barnaskólum í Kaupmannahöfn lýsir Arnljótur svo, að þeir sjeu »sannarlegt »malum necessarium« eða hið náttúrlega illa. Þar er búið við að börnin detti út í rennisteinana, eða troðist undir vagnhjólunum, ef þau eru eigi dregin í skóla; enda hefi jeg aldrei á æfi minni sjeð viltara stóð en börnin eru í þessum barnaskólum; en barnaskólann þarf varla hjer, til þess að börn geti ólátast í honum; því þau geta farið fram á mela eða upp á tún til þess«.[3]) Jón Sigurðsson svaraði Arnljóti og sagði þá um menntun Íslendinga þetta, sem jeg set hjer til athugunar: »Jeg hefi ætíð glaðzt yfir því að vita, að barnauppfræðingin væri hjer á landi í góðu lagi, og það er gleðilegt að heyra útlenda menn játa það, að menntun sje hjer almennari en annarsstaðar; en þegar vjer fáum þetta

1) Alþingistíðindi 1857 bls. 477—478.

2) Helgi Thordersen, síðar biskup, hélt fyrstur barnaskóla í Reykjavík 1819, sem síðan hefir við haldist.

3) Alþingistíðindi 1859 bls. 1025, 1048.

hól, þá megum vjer þó ekki misskilja það svo sem meiningin sje, að almúgi vor sje betur að sjer í öllu, en almúginn í öðrum löndum; því meiningin er sú, að almúgi sje hjer að vísu betur að sjer hvað bókfræði snertir, en aftur á móti ver að sjer í því, sem viðkemur hinu verklega í ýmsum atvinnuvegum. Í öllu því, sem viðkemur góðri reglusemi, hlýðni og samvinnu, stöndum vjer á baki annara. Þessi skortur kemur af því, að okkur vantar skóla. Þetta kemur bæði fram meðal alþýðu upp í sveitum, en mest þar sem þjettbýlt er, einkum í bæjum og sjóplássum; þar er eins sýnilegur skortur á bóklegri kennslu þar að auki. Það er sorglegt að sjá, hvernig börnin á þessum stöðum liggja eins og dýr upp við bæjarvegginn allan daginn, eða velta sér um bæjarhlaðið, og venjast á það sem börn að gjöra ekkert og læra ekkert; þetta er því miður of satt, og kemur líka fram á hinum fullorðnu; því eins og Íslendingum er hrósað fyrir bókfræði, eins er þeim almennt brugðið um óreglu, leti og óhlýðni . . . . Mjer þykir það merkilegt, að nokkur menntaður maður skuli segja, að barnaskóli sje þrældómsmerki á enni manna, jeg hefði ekki búist við, að nokkur mundi segja slíkt«.[1])

Dr. Pjetur hafði áhuga á öllum greinum menntamála, hann var því hlynntur stofnun kvennaskóla í Reykjavík, sem margir þá álitu óþarfa. Þegar frú Þóra Melsted 1870 var að brjótast í stofun kvennaskólans »færði hún það í tal við nokkra heldri menn íslenzka, en þeir gáfu því lítinn eða engan gaum nema Pjetur biskup Pjetursson; hann tók tali hennar vel og gaf henni skriflega meðmæling«. Síðar var Pjetur biskup ásamt Bergi Thorberg og Magnúsi Stephensen í nefnd er samdi tillögur um fyrirkomulag skólans[2]) (25. apr. 1874).

Á þingi 1869 mælti Pjetur biskup með stofnun sjó-

1) Alþingistíðindi 1859 bls. 1044—1045.
2) Kvennaskólinn í Reykjavík 1874—1906. Rvík 1907 bls. 5, 10.

mannaskóla og taldi það mál mjög áríðandi, 1857 mælir hann með að styrkja stiptsbókasafnið sem bezt og 1869 með forngripasafninu og hafði þá sent öllum prestum umburðarbrjef og beðið þá vandlega að gæta að fornum menjagripum kirknanna og ráðið til að senda þá á forngripasafnið ef þeir ekki væru í óhultri geymslu.[1]) Þá má enn fremur geta þess, að Dr. Pjetur var í nefndum um prentsmiðjurnar norðanlands og sunnan 1853 og 1867.

Vjer höfum áður getið um hluttöku Dr. Pjeturs Pjeturssonar í stjórnbótarmálum meðan hann var ritstjóri Landstíðinda, á Þingvallafundi 1850 og Þjóðfundi 1851, síðar dró hann sig nokkuð í hlje, en þó var hann allmikið riðinn við stjórnbótamálin á flestum hinum ráðgefandi þingum, þó talaði hann fremur sjaldan og þá optast til þess að reyna að miðla málum; þegar ákafi var mikill og hiti í ýmsum öðrum málum var hann líka alstaðar viðbúinn til þess að gjöra sáttatilraunir.[2]) Oss dettur ekki í hug að rekja sögu stjórn-

1) Alþingistíðindi 1869 I. bls. 128.

2) Þannig lagði Dr. Pjetur sig mjög fram til þess að koma sáttum á milli þeirra Jóns Sigurðssonar og Pjeturs Havsteins amtmanns á þinginu 1853. Þar lenti saman tveim mönnum geðríkum, sem ekki gjarnan vildu láta hluta sinn fyrir öðrum. Havstein amtmaður hafði bannað Jósepi lækni Skaptasyni þingreið, svo varaþingmaður R. M. Ólsen fór í hans stað, en kosning hans var gerð ógild vegna formgalla, svo Húnavatnssýsla varð þingmannslaus. P. H. vildi ekki gjöra þinginu neina grein fyrir gjörðum sínum og ávítti Jón Sigurðsson forseti það harðlega, urðu út úr því miklar orðahnippingar milli þeirra með fullri þykkju. (Sbr. Alþingistíðindi 1853, bls. 7—11, 574—591. Norðri I. bls. 61—62; II. bls. 59. Þjóðólfur V. bls. 112—113). Þann dag var þingveizla að vanda og er frá henni sögð alþekkt kraptasaga um Dr. Pjetur, sem jeg fyrst heyrði í skóla. Þegar leið á veizluna fjekk Havstein amtmaður eitt af sínum vanstillingarköstum og ætlaði að berja Jón Sigurðsson, öllum fjellust hendur nema Dr. Pjetri, sem nærri sat, hann greip utan um amtmann og hjelt honum, Pjetur Havstein var kraptamaður og brauzt um fast, en gat þó ekki losnað; eptir nokkra stund sagði Dr. Pjetur það, sem síðar var haft að orðtæki: »takið þið við honum piltar! jeg mæðist«. Pjetri Havstein og Dr. P. Pjeturssyni var jafnan vel til vina og á þingi 1871 heldur Pjetur biskup langa

bótamálsins á þingi, það á langt í land, að nokkur geti gjört það með fullkominni óhlutdrægni, svo sem frá sjónarhæð sögulegra vísinda, en vjer viljum að eins benda á fáeinar greinar og atriði um afstöðu Dr. Pjeturs til þessara mála.

Kafli af ræðu sem Dr. Pjetur hjelt á þingi 1849 sýnir skapferli hans og hina varfærnu stjórnmálastefnu, en lýsir um leið mikilli mannþekkingu: »Það er sannfæring mín, að maður eigi ekki að gjöra það að kappsmáli eða sýna ótilhlýðilega stífni þar sem um smámuni er að gjöra, eins og jeg opt hefi furðað mig á því, að þeir menn er ljetu allt liggja á valdi stjórnarinnar meðan hún var sem hörðust og allt var rígbundið hér á landi, rísa nú, þegar þó böndin eru farin að losna og stjórnin farin að sýna meiri sanngirni en áður, einatt upp á apturfótunum og beita ofmikilli stífni í ómerkilegum greinum . . . . . Ágreiningur við stjórnina í smámunum leiðir ef til vill af sjer ágreining við hana í stærri málum, sem heill landsins er undir komin, og þar sem þjóðinni ríður á að stjórnin sje sanngjörn og rjettlát. Mjer þykir meira varið í en það jeg geti frá sagt, að

---

ræðu til þess fastlega að mæla með eptirlaunum Havsteins) Alþingistiðindi 1871, I. bls. 340—342); segir hann þar, að allir verði að játa, að Havstein á sínum heilbrigðu dögum hafi verið einn af hinum »ötulustu, árvökrustu og stjórnsömustu embættismönnum hjer á landi«. Svo bætir hann við: »að vísu veit jeg, að þeir embættismenn komast opt bezt af og verða fyrir minnstu álasi, sem lítið láta til sín taka og ekkert gjöra nema það, sem ekki verður hjá komizt, sem láta allt draslast eins og það vill verkast og koma að eins einhverju nafni á hin lögboðnu embættisverk; en mundi það sæma þjóðþingi Íslendinga, að mæla tillögur sínar á slíkan kvarða? Og það er þó þinginu kunnugt, að amtmaður Havstein vildi vera embættismaður meira en að nafninu til, að hann lifði fyrir embætti sitt, unni amtsbúum sínum og vildi efla hag þeirra í öllu, og það stundum meir en sumum virtist góðu hófi gegna. Og um hvað er nú beðið fyrir þenna ágæta embættismann? að hann fái eptirlaun eptir hinum almennu eptirlaunalögum, sem hver slóði fær, ef hann er svo framtakslaus, að láta ekkert á sjer bera og nógu kjarklaus til að láta sig bera eptir straumnum í þvögu hinna aðgjörðalausu og ónýtu embættismanna«.

þingið gefi ekki stjórninni tilefni til þess að raunalausu að beita annari aðferð en þeirri, sem er frjálslunduð og góð«.[1] Á þingi 1867 segir Dr. Pjetur: »Jeg vil reyna að sætta og sameina skoðanir manna að því leyti sem mjer er unnt«.[2]) Professor Pjetur vildi jafnan fara varlega í sakirnar og mæltist það ekki alltaf vel fyrir hjá sumum, því varfærni er jafnan eitur í beinum ákafamanna; hann játaði, að hann væri hræddur við of snöggar breytingar, og rjettindaþras þótti honum ekki mikilsvirði ef það ekki leiddi til praktiskra framfara. Á þinginu 1869 voru stjórnmálin komin í bendu og bobba, mest fyrir ofmikla stífni næsta þings á undan (1867) einkum í fjárkröfum. Þá sagði Pjetur biskup þetta í ræðu um almenna afstöðu sína til málsins. »Jeg mun ekki hafa verið kallaður frjálslyndur maður, og þó jeg þykist hafa verið það í einstökum málum, að minnsta kosti í einu, sem jeg verð að álíta velferðarmál landsins, hlýt jeg þó að viðurkenna, að þetta er að nokkru leyti satt; ekki í þeim skilningi, að jeg unni ekki fósturjörðu minni alls hins bezta, nje heldur af því að jeg sjái ekki þá heill, sem þjóðfrelsið getur haft í för með sjer, þegar menn eru færir um að bera það, heldur af því, að jeg hefi haft beig af öllum stórkostlegum breytingum hjer á landi, einnig í stjórnarlegu tilliti, vegna þess að jeg hefi sjeð, að flest ný fyrirtæki hjer hafa misheppnast af efna- og kunnáttuleysi. Þennan kvíðboga minn hefi jeg optar en einu sinni látið í ljósi á undanförnum þingum, en bætt því við, að úr því bæði stjórn, þjóð og þing óskuðu þess að vér fengjum sjálfsforræði, og að fjárhagur Danmerkur og Íslands yrði aðskilinn, þá hlyti jeg sem hver einstakur maður að beygja mig fyrir hinum almenna vilja.[3]) En nú er

1) Alþingistíðindi 1849 bls. 798—799.

2) Alþingistíðindi 1867, I. bls. 821.

3) Dr. Pjetur gjörir hjer sjálfur allt of lítið úr öllum sínum mörgu og frjálslyndu tillögum stjórnarbót landsins í hag í Landstíðindum og víðar.

svo komið, að vjer hljótum að komast úr því ástandi, sem vjer erum í, það er ómögulegt að það geti staðist .... þótt jeg eigi álíti, að stjórnarfyrirkomulaginu sje einu um að kenna, þá er þó víst, að það á mikinn þátt í því .... Þegar stjórnarbót þessi einu sinni er komin á, þá getur þjóðin framfylgt henni betur og betur, þá koma dagar og þá koma ráð. Það er ekki svo að skilja að jeg hafi nokkuð á móti því, að rjettarhlið málsins komi til umræðu hjer á þinginu, þvert á móti held jeg það sje gagnlegt, að málið sje skoðað frá öllum hliðum, og jeg vil ekki álasa nefndinni fyrir, að hún hafi tekið skýrt fram þessa hlið málsins, þótt mjer þyki hún hafa gjört það mjög einstrengingslega, en fyrir hitt verð jeg að álasa nefndinni, að hún hefur lagt alla áherzluna á rjettarhliðina, en gleymt hinni praktisku hlið málsins, sem þó riður mest á, en ennþá er vegur opinn fyrir nefndina, ef hún eigi vill gjöra þetta velferðarmál landsins að kappsmáli og eintómu orðastríði, og hann er, að snúa athygli sinu að starfshlið þess til að koma sjer saman við aðra og beina málinu í rjett horf«. Ræðu sína endar hann með þessum orðum: »Enginn getur neitað því, að oss er mikið boðið, ef vjer nú þorum að stíga hið fyrsta stig, þá held jeg að hagur vor mundi batna, því menn hafa þau dæmi svo ljós fyrir sjer, að öllum þjóðum, er þær hafa tekið við sjálfsforræði, hefir aukist nýtt þor og þrek, kraptur og fjör til framfara. Öldungis eins vona jeg, að drottinn blessi þetta hjá oss, sem öðrum, ef vjer að eins þorum að stíga þetta fyrsta framfarastig.[1])

Dr. Pjetur Pjetursson var í nefndum í stjórnarbótarmálinu 1853, 1857, 1861 og 1863 og sýndi það jafnan, bæði fyrr og síðar, að hann var framfylgjandi því að Ísland fengi frjálslegt stjórnarfyrirkomulag,[2]) hann

1) Alþingistíðindin 1869 I. bls. 617—619.

2) Í Salmonsen's Lexicon (XIV. bls. 369) stendur um P. P. »han stod ikke paa Folkets Side i den af Jon Sigurdsson förte politiske Kamp« og er það hreinn misskilningur. Það er hið sí-

var jafnt i því máli sem öðrum hinn frjálslyndasti maður, en hann vildi í ýmsum atriðum fara samningaveg við stjórnina, en miðlunarmenn eru jafnan illa settir þegar ofsi, eða annað »skjadak« kemur í stjórnarmálin. Það er lítill vandi að vera í meiri hluta og láta sig bera af straumnum, en Dr. Pjetur sýndi það bæði í stjórnbótamálinu og öðrum málum, að hann vildi eigi vera jábróðir neins manns og var ekkert hræddur við að vera í minni hluta; hann var í einstöku atriðum á annari skoðun en Jón Sigurðsson og á hjer ekki við að rannsaka, hvor hafði rjettara fyrir sjer í hinu einstaka, en Jón Sigurðsson hafði, eins og kunnugt er, sínar sjerkreddur.

Á þinginu 1853 er aðalefnið í niðurlagsatriðum i bænaskrá til konungs um stjórnarbót,[1]) að alþing fái löggjafarvald, að sett verði á Íslandi þriggja manna nefnd (ráðaneyti) til yfirstjórnar á Íslandi, sem hafi sæti á þingi, að yfirdómur verði æðsti rjettur á Íslandi, að Íslendingar sendi fulltrúa, valda af alþingi, á ríkisdag Dana, sem hafi atkvæðisrjett í öllum sameiginlegum málum ríkisins, og ennfremur að einn maður (sjerstakur ráðgjafi) við hönd konungs ráði úrslitum íslenzkra mála. Á næsta þingi eptir þjóðfundinn koma meiri hluta menn og minni hluta menn sjer saman um þessi grundvallaratriði, sem sannarlega eru ekki svo ófrjálsleg. Í nefndinni voru Jón Guðmundsson, Pjetur Pjetursson, Hannes Stephensen, Þórður Sveinbjörnsson, Vilhjálmur Finsen, tveir þjóðkjörnir og þrír konungkjörnir. Sýnir þetta meðal annars hve skökk sú hugmynd er, að minni hlutinn á þjóðfundinum eins og hinir konungkjörnu síðar, hafi verið ófrjálslyndur og apturhaldssamur, en sú skoðun er orðin að þjóðsögu af því svo opt hefur verið á henni stagast. Stjórnin vildi

felda blaðaglamur um hina konungkjörnu, sem hefir vilt mörgum sjónir. Íslandi hefði verið vel borgið hefði það átt marga jafnfrjálslynda menn eins og Pjetur biskup.

1) Alþingistíðindi 1853 bls. 648—659, 1044—54.

ekkert sinna þessari bænaskrá og á þingi 1855 kom einn þingmaður fram með tillögu um að ítreka bænaskrána, en hún var felld,[1]) það þótti óþarfi að minna stjórnina á bænaskrána, hún mundi hafa hana í fersku minni. Árið 1857 var Dr. Pjetur aptur kosinn í nefnd í stjórnarbótarmálinu og fór hún hjer um bil alveg fram á hið sama sem bænarskráin 1853. Pjetur Pjetursson og Vilhjálmur Finsen gerðu þá ágreiningsatriði um að í þetta sinn væri aðeins lögð áherzla á að þingið fengi löggjafarvald, en öðru væri frestað.[2]) Árið 1895 sendir þingið enn á ný bænarskrá um stjórnarbót og biður »að konungur vilji taka til greina bænaskrár alþingis og þjóðfundarins í stjórnarskrármálinu og láta svo flýta fyrir þessu áríðandi máli að það geti orðið til lykta leitt svo fljótt sem mögulegt er«.[3])

Árið 1861 er Dr. Pjetur Pjetursson enn á ný kosinn í nefnd í stjórnbótarmálinu og samþykkir með öðrum nefndarmönnum að skora á stjórnina að kveðja til þjóðfundar á Íslandi eptir kosningarlögunum 28. sept. 1849 og leggja fyrir hann frumvarp til stjórnarbótar, en yrði þessu eigi viðkomið svo fljótt, þá gefa alþingi til bráðabirgðar vald til að leggja á landið, með konungs samþykki, alla nýja tolla og skatta, er rynni inn í einn sjóð til framkvæmdar nýjum fyrirtækjum, er til landsins heilla horfa, og nauðsynjar þess krefja o. s. frv.[4]) Á þinginu 1863 voru settar tvær nefndir í stjórnarbótarmálið og varð Dr. Pjetur formaður í annari; málið klofnaði þá og fór allt í mola og varð eigi annað úr en að menn skrifuðu ávarp til konungs og voru þrír menn kosnir til að semja það, fjekk Dr. Pjetur 18 atkvæði, Jón Guðmundsson 11 og Jón á Gautlöndum 10.[5])

1) Í Andvara (I. bls. 40) kennir Jón Sigurðsson hinum konungkjörnu um að uppástungan fjell, en þingtíðindin sýna að sá áburður er ástæðulaus.

2) Alþingistíðindi 1857, bls. 253.

3) Alþingistíðindi 1859, bls. 1814—1821.

4) Alþingistíðindi 1861, bls. 1447—1448.

5) Alþingistíðindi 1863, II. bls. 824.

Á þinginu 1865 var enn á ný ritað ávarp til konungs um stjórnarbót og var það hið fyrsta ávarp þingsins til Kristjáns konungs IX. Var kosin 5 manna nefnd til að semja ávarpið, í þeirri nefnd var Dr. Pjetur Pjetursson, ásamt Bergi Thorberg, Halldóri Friðrikssyni, Ásgeiri Einarssyni og Jóni frá Gautlöndum.[1]) Um þetta ávarp segir Jón Sigurðsson síðar,[2]) þar »voru greinilega og einarðlega tekin fram landsrjettindi vor og þjóðarrjettindi, sem og vandkvæði þau og annmarkar, sem menn fundu vera á stjórnarmálum Íslands að svo komnu«. Á þinginu 1867 lagði stjórnin fram »frumvarp til stjórnarskipunarlaga fyrir Ísland«, sem Hilmar Finsen átti mikinn þátt í. Dr. Pjetur, sem þá var orðinn biskup, var ekki í nefndinni, en tók allmikinn þátt í umræðunum um málið og mælti fram með stjórnarfrumvarpinu yfirleitt, sem hann segir, að gangi nærri eins langt eins og frumvarp meiri hlutans á þjóðfundinum 1851[3]) og á sama máli er Jón Sigurðsson, sem segir um frumvarpið: »Það er í mörgum greinum gott og sjálfsagt hið bezta tilboð, sem landið nokkurntíma hefir fengið áður í þessu máli; já! eg vil segja, að það gangi svo nærri uppástungum meiri hlutans á þjóðfundinum 1851, að þar munar varla hnifsbakkaþykkt, þegar búið er að ganga frá því.[4])« Voru þeir Jón og Pjetur þá í aðalatriðunum á sama máli, og Dr. Pjetur segir: »Frá mínu sjónarmiði get jeg ekki annað en þakkað hinum háttvirta forseta fyrir ræðu hans; því þó hann sæi nokkra agnúa á stjórnarfrumvarpinu, þá voru þeir þó ekki svo miklir, að hann áliti, að menn ættu ekki að sameina sína beztu krapta til að koma málinu í gegn hjer á þingi, jeg er honum því þakklátari sem enginn grunur leikur á hans föðurlandsást, og hann muni gefa þær einu tillögur í málinu, sem landi og lýð

1) Alþingistíðindi 1865, I. bls. 305; II, bls. 535—537.

2) Andvari I. bls. 57,

3) Alþingistíðindi 1867 I. bls. 820.

4) Alþingistíðindi 1867. I, bls. 843.

sjeu hagfeldastar«.[1]) Eins og kunnugt er urðu afdrif stjórnarbótarmálsins á þessu þingi eigi sem heppilegust, málið spiltist af óþörfum stirðleika og ofmiklum fjárkröfum og hafði það mjög slæm áhrif á stjórnmálahorfur Íslendinga.[2]) Stjórnarfrumvarpið 1869, sem ríkisdagurinn hafði fjallað um varð miklu verra en hið fyrra.

Á þinginu 1869 komu tvö frumvörp frá stjórninni, um hina stjórnarlegu stöðu Íslands í ríkinu og frumvarp til stjórnarskrár um hin sjerstöku málefni Íslands. Pjetur biskup tók mikinn þátt í umræðunum um þau og heldur þá sumar af sínum beztu þingræðum, það er í síðasta sinn sem hann nokkuð verulega er riðinn við stjórnbótarmálin. Í ræðum sínum tekur hann sjerstaklega fram, hve þýðingarmikið það sje að skoða slíkt mál frá praktisku sjónarmiði, en forðast að gjöra þau að kappsmálum og orðastriði, hann átelur það að blærinn á nefndarálitinu um stöðu Íslands í ríkinu »lýsir einhverjum biturleik og tortryggni, sem ekki getur annað en hamlað góðum og heilladrjúgum úrslitum þessa mikilsvarðandi máls«[3]) og segir, að nefndarálitið hafi fleiri ókosti en kosti til að bera, hefir víst eigi þótt það nógu lipurt til samkomulags. Síðar segir hann í sömu ræðu: »Vjer megum ekki í svo mikilvægu máli, sem þetta er, fara í neinar hártoganir, vjer megum ekki elta tómar theoríur, eða, svo jeg brúki þau orð, sem einn þingmaður hefir áður sagt hjer í salnum, »vjer megum eigi ríða fantareið á principum«. Í annari ræðu í sama máli segir Pjetur biskup: »Þor og þrek er dyggð, sem hefir sína afvegi til beggja handa, eins og hver önnur dyggð. Annars vegar er hugleysi og ragmennska, en hins vegar þrjózka og þrályndi. Og þá vil jeg segja, að það þarf þor og

1) Alþingistíðindi 1867 I. bls. 846, 888—89.

2) Það var víst þá í þinglok sem Dr. Jón Hjaltalín sagði við Jón Sigurðsson: »Nú hefir þú vakið upp þann draug, sem þú ert ekki fær um að ráða við, og sem þú ekki getur vitað nema kunni að ríða þjer að fullu, okkur öllum og landi voru á komandi tímum«.

3) Alþingistíðindi 1869 I. bls. 544—545.

þrek til þess að hafna því sjálfsforræði, sem oss er framboðið, eins og nefndin hefir gjört og taka á sig þá ábyrgð fyrir öldum og óbornum, sem því er samfara að hafna slíkum gæðum fyrir fósturjörð sína .... Einn heiðvirður þingmaður sagði, að rödd fósturjarðarinnar hljómaði fyrir eyrum sjer og hlyti að hljóma fyrir eyrum þingmannanna í þessu máli. Það er satt, að rödd þessi er fögur, en hún er þó eigi svo, að eigi geti hún misskilizt, en það er líka rödd skynsemi og rólegrar íhugunar, og hún vona jeg ryðji sjer til rúms, þegar hin afarmikla tilfinningarsuða er horfin frá eyrum manna, en sem nú virðist hafa hritið suma svo fjarskalega, að þeir eigi ráða sjer«.[1]) Á þinginu 1869 tókst Pjetri biskupi ekki að miðla málum eins og hann vildi og á þingunum 1871 og 1873 talaði hann mjög lítið í stjórnarskrármálinu, þó hjelt hann því sterklega fram 1871 að þingið áskildi sjer rjett til að koma á fastara og fullkomnara ábyrgðarfyrirkomulagi.[2]) Eptir þetta kom miklu meiri æsing í stjórnarbótarmálið en áður, sjerstaklega eptir að stöðulögin voru gefin út og ljetu ákafamenn í pólitík gremju sína við Dani mest bitna á hinum konungkjörnu og brugðu þeim um alla klæki.

Dr. Pjetur var fyrr og síðar riðinn við ýms önnur mál, sem nátengd voru breytingum á stjórnarfari. Árið 1855 var hann í nefnd um íslenzkupróf danskra manna, sem sækja um embætti á Íslandi, að vitnisburðir væri eigi teknir gildir nema þeir væru frá kennurunum í íslenzku við háskólann eða föstum íslenzkukennara við lærðaskólann í Reykjavík. Á þinginu 1857 hafði stjórnin stungið uppá útboði ungra Íslendinga til þjónustu á herskipaflota Dana og voru ýmsir því meðmæltir, en dr. Pjetur var eindregið á móti því,[3]) en 1859 mælir hann með því að Íslendingar hjálpi til að vernda sínar eigin

1) Alþingistíðindi 1869, I. bls. 785—786.

2) Alþingistíðindi 1871, I. bls. 741—743.

3) Alþingistíðindi 1857 bls. 606.

strendur móti ágangi útlendra fiskimanna.[1]) Árið 1859 var Dr. Pjetur formaður og framsögumaður í nefnd er sett var til að þakka konungi fyrir undirskript hans undir hinn íslenzka texta laganna. Á fyrsta þingi 1845 hafði því verið hreyft að stofna lagaskóla á Íslandi og á þinginu 1855 flutti Dr. Pjetur bænaskrá sama efnis frá Jóni Sigurðssyni í Kaupmannahöfn (sem þá var ekki á þingi) og 17 stúdentum í Höfn.[2]) Var sett nefnd í málið og varð prófessor Pjetur formaðnr í henni, mælti hann vel fyrir skólastofnun þessari og segist hafa »þá trú, að stofnanir í landinu sjálfu sjeu hverju landi hollastar, og það þó þær sjeu ófullkomnar í fyrstu«, hann tekur það fram að fullkomin þörf sje á, að kennd sjeu íslenzk lög annaðhvort við háskólann eða á íslenzkum lagaskóla og að það sje skylda stjórnarinnar að sjá um það.[3]) Eins og kunnugt er vildi stjórnin ekki sinna þessu máli, Dr. Pjetur var því meðmæltur síðar, en þótti það þó ekki svo þýðingarmikið að hann vildi halda því til streytu, og að hann sætti sig við, að mál þetta, sem hann fyrstur hafði framborið, var lagt til hliðar, það lögðu sumir honum illa út.

Á árunum 1871—73 voru miklar æsingar í íslenzkri politik, þá rigndi skömmunum yfir hina konungkjörnu þingmenn, af því að þeir vildu miðla málum og fór Pjetur biskup heldur ekki varhluta af því góðgæti. Hann ljet það þó ekki á sjer festa og skipti sjer ekki af slíkum greinum. Þó bar hann eitt sinn hönd fyrir höfuð sjer og minni hlutann þegar hroðaleg skammargrein, óbilgjörn og ungggæðisleg, var prentuð í hinu norska blaði »Bergens Tidende« (1872, nr. 101). Þá ljet hann höfða mál á móti ritstjóranum, *Olaf Lofthus*, og varð hann að láta úti 20 spesíur og borga málskostnað. Ritstjórinn reyndi að fara undan í flæmingi og viðhafði ýmsar vífi-

1) Alþingistíðindi 1859 bls. 565, 582.

2) Dr. Pjetur hafði þegar 1849 mælt með íslenzkri laga kennslu í Landstíðindum I. bls. 23—24.

3) Alþingistíðindi 1855, bls. 336—338, 399—402.

lengjur, kom meðal annars fram með brjef, sem átti að hafa verið skrifað í Reykjavík, frá höfundinum þar, en brjefið var falsbrjef undirskrifað með mannsnafni, sem ekki var til, en ekki lánaðist hlutaðeiganda að smokka sjer undan ábyrgð með því. Hinn sanni höfundur greinarinnar þorði aldrei að nafngreina sig opinberlega, en þó vissu flestir, hver hann var.[1]) Sektirnar borgaði stúdentafjelag eitt íslenzkt í Kaupmannahöfn.

Grein þessi kom út á íslenzku í Norðanfara[2]) og reit Pjetur biskup þá á móti henni í Þjóðólfi, þó það væri eigi vani hans að svara pólitiskum ærslagreinum; þar segir hann meðal annars: »Alstaðar þar sem prentfrelsi á sjer stað eins og hjá oss, þykir það hjá öllum mentuðum þjóðum hin mesta varmennska, að skamma landa sína í útlendum blöðum og nafngreina vissa menn, án þess að þora sjálfir að segja til nafns síns«. Þá segir hann enn fremur: »Hvað hafa þá hinir konungkjörnu þingmenn unnið til saka, að þeir skuli vera ásakaðir jafnvel um föðurlandssvik? Að mínu áliti ekki annað en það, að þeir yfir höfuð að tala hafa verið gætnari og varkárari í tillögum sínum, en margir hinna þjóðkjörnu manna. Hitt er annað mál, hvort nokkur konungkjörinn maður ætti að eiga setu á alþingi. Mjer þykir rjettast, að allir þingmenn væru þjóðkjörnir,[3]) einkum ef þingið skiptist í tvær málstofur, eins og stungið hefir verið upp á, því þessi skipti gefa nokkra tryggingu fyrir því, að það gæti hófs og stillingar«. Um sjálfan sig segir hann: »Jeg mun fylgja sannfæringu minni, eins og jeg hef gjört, hver sem í hlut á, og ekki hræðast ómilda dóma. Enginn óskar þess innilegar en

1) Undir greininni í »Bergens Tidende« stóðu stafirnir S. J. Það var Sigurður Jónsson uppeldissonur Jóns Sigurðssonar, síðar sýslumaður í Snæfellsnessýslu. Sigurður var á yngri árum svo æstur í stjórnmálum, að hann mátti varla heita einhamur.

2) Norðanfari XI. bls. 113—115. Sbr. XII. bls. 10. Þjóðólfur XXV. bls. 63—64. Sbr. Göngu-Hrólfur bls. 58—62.

3) Því hafði Dr. Pjetur þegar haldið fram í Landstíðindunum.

jeg, að bæði þjóðkjörnir og konungkjörnir þingmenn geti unnið saman í eindrægni og bróðurlegum anda, og jeg er mjer þess meðvitandi, að jeg jafnan eptir veikum mætti hefi reynt til að stuðla til þessa«.[1])

Árið 1873 voru miklar æsingar og nokkrar óspektir í Reykjavík; þó tóku ekki aðrir þátt í þeim en stúdentar, skólapiltar og aðrir unglingar milli vita. Voru óspektir þessar helzt gjörðar gegn Hilmari Finsen, sem þá var nýlega orðinn landshöfðingi og kom það mjög ómaklega niður, þar sem hann meira en nokkur annar embættismaður íslenzkur hafði stuðlað að því, að Íslendingar fengi stjórnarbót. Þetta hafa Íslendingar síðan sjeð, en sáu það ekki þá. Ættjarðarástin er opt blind eins og aðrar ástir. Minni hlutinn á þingi fjekk þá líka að finna til þessara æsinga á ýmsan hátt. Þá var eitt kvöld skotið tveim byssuskotum innum glugga hjá Pjetri biskupi á skrifstofu hans, þar sem hann var vanur að sitja við skriftir, en ekkert slys varð þó af því. Pjetur biskup var ekki inni í herberginu í svipinn og dóttir hans var af tilviljun nýgengin úr sæti sínu við borðið

1) Á þeim árum voru opt gerðar ákafar árásir á hina konungkjörnu í Norðanfara, en enginn þeirra svaraði nema Dr. Hjaltalín (Norðanfari XII. bls. 10); hann segir þar meðal annars: »Allir þeir sem satt vilja segja, verða að játa, að okkar núverandi stjórnarástand er að kenna meiri hlutanum á alþingi og engum öðrum, og þó ónafngreindir rithöfundar í blöðunum vilji klína afleiðingunum af aðferð sinni á aðra, þá liggur það opið fyrir öllum, sem sannleikann vilja sjá, að þetta er gjört af mannvonzku og illgirni einni, og til þess að menn skuli gleyma því, hverjum það í raun og veru sje að kenna, að staða vor er orðin sem nú er hún. 1867 sagði jeg skýrt og ljóst á alþingi, að meiri hlutinn væri nú búinn að fara með stjórnarmál vort; það gat hver heilvita maður sjeð, enda er það nú fram komið. Beri þeir nú skuldina, sem hana eiga, og láti vera að klína henni á aðra, sem saklausir eru . . . . Leiðarar meiri hlutans otuðu því nógu lengi fram, að stjórnin mundi aldrei octroyera stjórnarskipun uppá Íslendinga gegn vilja landsmanna, nú geta þeir rekið nefið í nóttina með það«, (Stöðulögin). Á þeim árum var Jón Hjaltalín sífellt skammaður, og lagður í einelti í Norðanfara. Það er varla hægt að hugsa sjer meiri fjarstæðu heldur en að bregða Dr. Hjaltalín um vöntun á ættjarðarást!

fyrir innan gluggann; glugghlífar (persienner) voru fyrir glugganum, svo að eigi sá inn um þá, og drógu þær úr afli skotanna, þó göt kæmi á þær. Bogi sonur biskups hljóp út, sakadólgurinn flýði, en var sjeður og þektist. Það var stúdent, alþekkt svolamenni og var víst drukkinn. Pjetur biskup fyrirgaf honum, vildi ekkert láta rannsaka þetta mál og erfði það ekki við hann.

Sjerhver óhlutdrægur maður verður að kannast við, að Pjetur biskup var frjálslyndur í stjórnmálum eins og öðru, þó hann á hinum síðustu ráðgefandi þingum eigi gæti fellt sig við allar skoðanir og framferði meiri hlutans. Það hefir all-lengi verið tízka á Íslandi að telja þá eina frjálslynda, sem eru á móti stjórninni í stjórnarskrármálum hvað miklir apturhaldsgoggar, sem þeir eru í öðrum greinum, en alþýðu er í því efni vorkun, þó hún hafi látið dáleiðast af hinu stöðuga stjórnmálaþrasi í hálfa öld og skoðanir í því efni munu varla breytast fyrr en eðlileg flokkaskipting er komin á í landinu. Hver sem fylgir framkomu Dr. Pjeturs í stjórnbótarmálinu á hinum ráðgefandi þingum mun sjá, að hann, þó konungkjörinn sje, aldrei lætur finna bilbug á sjer í neinni grein, sem hafði verulega þýðingu fyrir sjálfstæði og frelsi hinnar íslenzku þjóðar, en hann var samningamaður, vildi helzt líta á þá hlið málsins, sem hafði praktiska þýðingu fyrir þjóðina; honum var illa við hártoganir, smásmygli, tortryggni og lögfræðislegar krókaleiðir. Pjetur biskup hafði sömu skoðun eins og Englendingar, að pólitík ætti fyrst og fremst að fást við það, sem framkvæmanlegt væri með almennri og heilbrigðri skynsemi og hægt væri að sniða eptir kringumstæðunum. »Jeg álit« segir hann 1867 »ekki ætíð hið mesta frelsi bezt, heldur það sem bezt á við hvers lands ásigkomulag og mest gagn veitir bæði landi og lýð«.[1]) Það var í hans augum hið praktiska gagn, sem átti að vera mark og mið stjórnmálanna, þras um pólitiskar »theoríur« og forgamlar rjettarkröfur þótti honum eigi

1) Alþingistíðindi 1867. I. bls. 820.

mikils virði, hann vildi ekki fylgjast með í neinni »fantareið á principum« út í himinbláma skáldlegra hugsjóna. Pjetur biskup fann enga köllun hjá sjer til þess að leggja alla krapta sína í stjórnbótamálið, til þess vissi hann að aðrir voru betur færir. Bardagamaður var hann heldur enginn, þó hann gæti verið fylginn sér þegar honum þótti það einhverju skipta, en hann kunni fullkomlega að meta harðfengi annara í stjórnmáladeilunni, og sjest það meðal annars af hinni ágætu ræðu er hann hjelt við jarðarför Jóns Sigurðssonar í Reykjavík. Þar segir hann meðal annars um Jón Sigurðsson:[1]) »Hvernig sem tímarnir breyttust og hversu óhentugir og óvinveittir sem þeir sýndust vera, hjelt hann kenningunni þó jafnt og stöðugt áfram með hinum sama brennandi áhuga, með hinu sama ósigrandi sálarþreki, og það er einmitt þetta, sem gjörði hann að sannkallaðri og frábærri frelsishetju, og sem að minni hyggju einkennir alla starfsemi hans í stjórnarmálum. Þótt aðrir gugnuðu, ljet hann ekki hugfallast; þó aðrir hörfuðu undan, stóð hann fast fyrir; þó aðrir væri hræddir um, að hann hjeldi kenningunni áfram í ótíma, ljet hann það ekki fá á sig, og reynslan sýndi, að fyrir þreklyndi hans varð hinn óhentugi tími einatt til að hrinda málunum áfram og beina þeim í fullkomnara horf og þannig undirbúa hentuga tíma. Sumir hafa sagt, að í stjórnarmálum ættu menn að taka hverri ívilnun, sem þeim væri boðin, en færa sig smám saman upp á skaptið. En þetta var ekki skoðun hins framliðna; hann vildi annaðhvort fá allt eða ekkert; og verzlunarmál vort og stjórnarbót sýna, að þetta heppnaðist vonum fremur, og að hann í því efni rataði rétta leið«.[2])

1) Biskup leggur út af 2. Tím. 4, 2.

2) Útför Jóns Sigurðssonar og Ingibjargar Einarsdóttur. Reykjavík 1880 bls. 49. Sbr. Norðlingur V. 1880 bls. 49—51.

## VIII. Dr. Pjetur Pjetursson biskup yfir Íslandi 1866—1889.

Hin seinni ár þjáðist Helgi biskup Thordersen mjög af langvinnum og kvalafullum sjúkdómi (steinsótt), sem allt af ágerðist, svo hann neyddist til að segja af sjer 1865 um veturinn, enda hafði hann þá um nokkur ár fyrir lasleika sakir átt mjög örðugt með að þjóna bisupsembættinu. Herra Helgi fjekk lausn frá embætti 1866 og ferðaðist næsta sumar til Skotlands til þess að leita sjer heilsubótar, en það varð árangurslaust, hann sneri þá sem skjótast heim aptur og dó í Reykjavík 4. desember 1867. Síra Ólafur Pálsson söng hann til moldar og Pjetur biskup hjelt einnig ræðu við jarðarförina.[1])

Veturinn 1865—66 aðstoðaði prófessor Pjetur Helga biskup í embættisfærslu hans, unz herra Helgi fjekk lausn 23. febrúar 1866 og Dr. Pjetri Pjeturssyni var veitt embættið sama dag. Þess hefir áður verið getið að Dr. Pjetur Pjetursson þjónaði biskupsembættinu veturinn 1855—56 meðan Helgi biskup var erlendis og

1) Ræða Pjeturs biskups er prentuð í ritlingi er heitir: Minning sál. biskups Helga G. Thordersens. Gefin út af bróður hans S. B. Sivertsen, Kmh. 1875. bls. 16—21. Þjóðólfur tekur það fram (XX, bls. 25) að biskup hafi talað blaðalaust.

framdi opt fyrr og síðar ýms embættisverk, prestsvígslur o. fl. í forföllum biskups. Þá var engin sá á Íslandi, sem jafnmaklegur væri til þess embættis eða jafnfær um að takast það á hendur eins og Dr. Pjetur Pjetursson, bæði sökum lærdóms, álits og mannkosta. Þar fór saman víðtæk þekking á kirkjumálum og kirkjulegum vísindum, ágætir kennimanns-hæfilegleikar, prúðmennska og höfðingleg framganga. Það gat því ekki komið til neinna mála að taka annan mann fram yfir Dr. Pjetur, enda var hann talinn sjálfkjörinn eptirmaður Helga biskups bæði af stjórnarvöldunum, klerkum og alþýðu; þar var því ekki um neitt að villast eða um neinn keppinaut að tala.[1])

Kaþólska kirkjan heldur því fast fram, að biskupsembættið sje beinlínis stofnsett af guði, og að frelsarinn hafi með blessun og handálegging fengið postulunum biskupsvald með sjerstakri guðdómlegri náð og að þeir hafi aptur afhent valdið öðrum á sama hátt, mann fram af manni; biskupsvígslan er því afhending hins guðdómlega náðarvalds gegnum allar kynslóðir frá tímum postulanna; í þeirra augum er því enginn biskup rjettvígður nema hann hafi móttekið þessa helgu bless-

1) Dr. *Grímur Thomsen* var í Kaupmannahöfn veturinn 1865—66 þegar biskupsembættið var veitt; hann þekkti marga menn í ráðaneytunum dönsku og hafði verið þar lengi embættismaður. Grímur gjörði þá miklar tilraunir til þess að koma mági sínum síra Ásmundi Jónssyni í Odda í biskupsembættið, en þær mistókust sem eðlilegt var. Í brjefi til Jóns Sigurðssonar dags. 20. marz 1866 ritar Pjetur biskup: »Heyrt hefi jeg að viss maður hafi gengið milli góðbúanna og viljað koma öðrum að biskupsembættinu og notað þetta enska mál (sem brátt mun getið) til að bola mig frá; en jeg er óviss um, að hann hefði gjört vini sínum mikla velgjörð þó það hefði tekizt«. Grímur gat aldrei gleymt þessu, einkum sökum þess, að af því leiddu nokkur önnur vonbrigði fyrir sjálfan hann. Þetta sjest glögglega á æfisöguómynd þeirri, er Grímur skrifaði í 18. árg. Andvara. Í æfiágripi þessu kemur fram undarlega illviljaður skilningur á eðli og lífsstarfi Pjeturs biskups, og svo er það auk þess óáreiðanlegt í hinu einstaka, ártöl skökk o. fl. Sameiningunni (VIII. bls. 125—126) þótti þessi æfisaga eðlilega ágæt og prentar upp úr henni allar verstu vitleysurnar.

un af biskupi, sem áður hafði fengið hana á sama hátt framan úr öldum *(Successio apostolica)*. Þessi vígslukeðja biskupanna slitnaði í öllum löndum mótmælenda, nema á Englandi hjá biskupakirkjunni, og er þar enn í heiðri höfð, sænska kirkjan álítur sig einnig hafa haldið hinu sama valdi. Þegar Dr. Pjetur Pjetursson tók við biskupsembætti kom það til orða, að íslenzka kirkjan samtengdist biskupakirkjunni ensku með þessu sama andlega bandi, þannig, að Dr. Pjetur vígðist enskri biskupsvígslu; vildu enskir klerkar þannig stofna til nánari fjelagsskapar milli hinnar ensku og hinnar norrænu kirkju.[1]) Fyrirætlun þessi strandaði á mótspyrnu Martensens Sjálandsbiskups,[2]) en Kristján konungur IX. hafði verið hugmyndinni hlynntur. Samningar um þessa ensku vígslu höfðu verið í ráði á seinustu árum Helga biskups, og þegar hann vorið 1867 dvaldi sjer til lækninga í Skotlandi, þökkuðu enskir klerkar honum fyrir hluttöku hans í málinu. Í Þjóðólfi[3]) er prentuð skýrsla um ávarp þeirra, tekin úr blaðinu The Scotsman 12. júní 1867, »og jafnframt var Pjetri biskupi, eptirmanni Helga biskups, þakkað fyrir vinsamlegt hugarþel, er hann með allsherjar kristilegu örlyndi hefði látið í ljósi við hina ensku kirkju, með órækum vottum«.

Hinn 9. maí 1866 sigldi Dr. Pjetur Pjetursson til Kaupmannahafnar til vígslu með frú sinni og báðum dætrum og kom aptur til Íslands um sumarið 30. júlí.

---

1) Um þetta mál urðu töluverðar umræður og brjefaskriptir og eru ýms skjöl því viðvíkjandi enn til. Um þessar sameiningartilraunir er prentuð ritgjörð: »Intercommunion with the Scandinavian Church« í »The Colonial Church Chronicle. Missionary journal and foreign ecclesiastical reporter. 1. August 1866. Rivingtons. Bls. 305—312, 332—334«.

2) Þegar H. Martensen sjálfur var vígður til biskups kom líka til orða, að hann af sömu ástæðum, væri vígður í Lundi í Svíaríki; Grundtvig gamli hjelt því þá fast fram að slikt væri nauðsyn, en ekkert varð úr því. *H. Martensen:* Af mit Levned III, 1883, bls. 6—7.

3) Þjóðólfur XIX, bls. 141.

Dr. Pjetur Pjetursson var vígður til biskups í Frúarkirkju í Kaupmannahöfn af Dr. Martensen Sjálandsbiskupi 1. sunnudag eptir Trinitatis, 3. júní 1866. Martensen biskup tók sjer til vígslutexta Ephesus 4. 11—16 og Pjetur biskup hafði valið sjer hinn sama ræðutexta.[1]) Þeim Pjetri biskupi var einstaklega vel tekið af mörgu stórmenni í Kaupmannahöfn. Martensen biskup og fólk hans sýndi þeim mikla vinsemd og gestrisni og voru þau biskupshjón einnig nokkrum árum síðar mjög vinsamleg við yngri dóttur biskups, er hún dvaldi í Kaupmannahöfn. Þá var Pjetur biskup í boði hjá konungi og hjá Karolínu Amalíu ekkjudrottningu, sem var honum mjög alúðleg og gaf honum mynd af sjer. Í Höfn hitti hann ýmsa íslenzka fornvini t. d. Oddgeir Stephensen, Jón Sigurðsson,[2]) Skúla Thorlacius, Konráð Gíslason, kaupmennina Clausen og Sandholt o. fl., hann heimsókti líka N. Madvig prófessor, Worsaa, Carl Andersen og ýmsa aðra, er hann þekkti frá námsárunum. Þau biskupshjónin og dætur þeirra ferðuðust þá suður til Fjóns og sóktu heim síra Benedikt Scheving í Nörre-Lyndelse, náfrænda Sigríðar biskupsfrúr.[3]) Hinn 27. júní hjeldu Íslendingar í Kaupmannahöfn Pjetri biskupi skilnaðarsamsæti og höfðu þeir Gísli Brynjólfsson og

1) Ræða Martensens biskups er prentuð í H. Martensens Leilighedstaler. Kbhavn 1884 bls. 267—276.

2) Hinn 20. marz 1866 skrifar Pjetur biskup Jóni Sigurðssyni (áður en hann sigldi): »Jeg þakka þjer líka fyrir lukkuóskir þínar með biskupsembættið, því að jeg veit að þú meinar það einlæglega og þjer er ekki illa til mín, þó okkar pólitisku skoðunum beri ekki ætíð saman; að því er mig snertir hefi jeg ætíð í öllu öðru tilliti virt þig og elskað. Jeg geng með nokkrum kvíða út í þessa nýju stöðu, því þótt jeg treysti Drottni, veit jeg þó að kraptaverkanna tímar eru liðnir og til þess þyrfti þó næstum því kraptaverkagáfu að geta komið hjer öllu í gott lag meðal hinnar andlegu stjettar. Þó vona jeg með guðs hjálp að geta kippt einhverju í lag og komið einhverju góðu til leiðar og hugga mig svo við það »ultra posse nemo obligatur«.

3) Þau voru systkinabörn. Síra Benedikt var bróðir frú Herdísar Benedictsen í Flatey.

Steingrímur Thorsteinsson ort fyrir minni heiðursgestsins; Jón Sigurðsson mælti langt erindi og snjallt fyrir skál hans, en Magnús Eiríksson mælti fyrir minni biskupsfrúar. Þar að auki voru sungin kvæði fyrir Íslands minni eptir Steingrím og fyrir Danmerkur minni eptir Gísla.[1])

Þegar Pjetur biskup kom út frá vígslu sendi hann umburðarbrjef til allra presta og prófasta á Íslandi dags. 7. ágúst 1866. Það hljóðar þannig:

»Eptir að jeg nú fyrir guðs náð heill á hófi er kominn heim úr utanferð minni og búinn að taka aptur við biskupsembættinu, þykir mjer það eiga vel við að heilsa yður, kærir bræður, og senda yður vinsamlegt ávarp mitt«.

»Jeg veit, að yður muni vera það eins ljóst og mjer, og að þjer munið eigi síður finna til þess en jeg, að drottinn hefir kallað oss til þess að efla og útbreiða sitt ríki meðal bræðra vorra hjer á landi, og að hann ætlast til þess og heimtar það af oss, að vjer verjum kröptum vorum í hans þjónustu, að vjer af alefli leitumst við að viðhalda hinu kristilega trúarlífi hjá oss, glæða það þar sem það er dauft, vekja það, þar sem það sefur, og það er sú gleðilegasta tilhugsun fyrir mig að vita, að svo margir meðal yðar eru gagnteknir af skyldurækt, og hafa allan hug á því að gegna trúlega þessari háleitu köllun sinni«.

»En jeg veit líka, kærir bræður, að vort tímanlega líf hefir sínar kröfur, sem drottinn einnig ætlast til, að vjer að nokkru leyti fullnægjum, en þó þannig, að vjer ekki þar fyrir missum sjónar á vorri eiginlegu köllun eða vanrækjum hana; en þetta er því vandasamara, því örðugri sem hinar ytri kringumstæður eru, því að þá er svo hætt við, að trúarlífið deprist og deyi í sorgum og áhyggjum þessa lífs; og er því bæn og árvekni einnig

1) Þjóðólfur XVIII, bls. 117, 141. Norðanfari V. 1866, bls. 37, 40, 41. Þar eru kvæðin prentuð.

i þessu tilliti nauðsynleg, eins og líka hitt, að þjer hafið bróðurleg samtök við stjettarbræður yðar til að styrkja yður sjálfa, glæða áhuga yðvarn og viðhalda kristilegum fjelagsanda, því þegar hinir góðu kraptar sameinast, þá kemst bæði meiri samhljóðun á hina andlegu starfsemi vora, sem er þeim mun nauðsynlegra, sem land vort er svo strjálbyggt og samgöngur svo erfiðar, og þá verða líka hinir góðu kraptar miklu áhrifameiri heldur en þegar þeir vinna á sundrung og sinn í hverju lagi«.

»Að vísu hefi jeg í hyggju, gefi guð mjer líf og heilsu, að visitera svo opt sem jeg get því við komið og á visitaziuferðum mínum að halda fundi með yður um kirkjuleg málefni; en þjer vitið sjálfir, kærir bræður, hve stórt, hve örðugt og ógreitt land vort er yfirferðar, svo mjer mun naumast vinnast aldur til að fara svo víða sem jeg vildi, en því meiri þörf er á því, að prófastarnir sjeu vandlátir í tilsjónarmannsembætti sinu, að vjer sjeum allir sammála og samhentir, og vinnum allir í einum anda, í sannleikans, kraptarins og kærleikans anda, og mun jeg jafnan vera reiðubúinn til að veita yður alla þá leiðbeiningu, sem jeg get, eptir því sem jeg hefi bezt vit á«.

»Það er óþarfi fyrir mig að taka fram hin einstöku skylduverk yðar eða brýna þau fyrir yður, því þar sem skylduræknin er fyrir, þar býr líka áhugi á því að leysa hin einstöku skylduverk sem bezt af hendi«.

»Í engu landi getur hin andlega stjett komið meiru góðu til leiðar en hjer á landi, því hin andlega mentun safnaðanna er að miklu eða öllu leyti lögð í hennar hendur, og þegar prestarnir standa vel í stöðu sinni, eru þeir sannir feður, ráðgjafar og leiðtogar safnaða sinna; en því meiri er ábyrgðin og því meira illt getur leitt af hirðuleysi, óreglu og illu eptirdæmi presta. Jeg hefi áður, kærir bræður, í öðru brjefi mínu bent á, hversu áríðandi reglulegar húsvitjanir eru; hjer vil jeg að eins minnast á barnauppfræðinguna og eptirlit með

henni. Menntun hinnar yngri kynslóðar er undirstaða hins kristilega trúarlífs á hinum ókomna tíma, og yður er falið á hendur að leggja þessa undirstöðu og líta eptir því, að hún sje vel lögð, svo þjer í þessu tilliti berið ábyrgð, ekki einungis hins yfirstandanda, heldur og hins ókomna tíma. Leggið því alla stund á uppfræðingu unglinganna og skoðið hana jafnan sem eitthvert hið þýðingarmesta skylduverk yðar. Leggjum allir stund á að glæða hið kristilega trúarlíf og biðjum guð að gefa oss náð til þess, að koma sem mestu góðu til leiðar, hver í sínum verkahring; hans náð og blessun sje með oss öllum«.[1])

Eitt af ætlunarverkum biskupa hefir jafnan verið talið að vísitera kirkjur, en síðan biskupsstólarnir voru sameinaðir hefir hver biskup að eins getað vísiterað lítinn hluta landsins, enda hafa fáir komist í þá stöðu fyrr en þeir voru hnignir að aldri og áttu því örðugt með langferðir, vosbúð og tjaldlegur á fjallvegum. Nú er orðin svo mikil breyting á þessu, að ekki er samanberandi, síðan stöðugar gufuskipaferðir allt sumarið geta flutt biskupinn eins og aðra ferðamenn inn í hvern fjörð eða vík. Hinir fyrri biskupar urðu að fara langar landvegsferðir vikum saman og um heiðar og öræfi í hin fjarlægari prófastsdæmi og var það opt ógjörningur fyrir gamla menn; eru þess mörg dæmi um hina fyrri biskupa, að þeir urðu veikir á ferðum og sumir tóku helsótt sína á fjallvegum, eins og t. d. Jón biskup Vídalín, sem andaðist í tjaldi sínu við Hallbjarnarvörður. Um þýðinga slíkra biskupsyfirreiða hafa verið mjög misskiptar skoðanir.

Pjetur biskup var orðinn nærri sextugur, er hann byrjaði vísitaziur sínar. Sumarið 1868 hóf biskup yfirreið sína hinn 3. júlí og fór norður Grímstungnaheiði; það sumar vísiteraði hann Eyjafjarðarsýslu og hafði fundi með prestum í Skagafjarðar- og Húnavatnssýslum, en kom heim aptur 15. ágúst. Með honum var á þeirri

1) Þjóðólfur XVIII, 1866, bls. 150—151.

ferð Bogi sonur hans, Þóra dóttir hans og biskupsskrifari síra Eiríkur Briem. Þá hafði enginn biskup komið í Norðlendingafjórðung í 40 ár; Steingrímur biskup vísiteraði Skagafjörð 1826 og Þingeyjarsýslu 1828, en Eyjafjarðarsýslu hafði Sigurður biskup Stefánsson á Hólum síðastur vísiterað að nokkru leyti fyrir 77 árum. Pjetur biskup byrjaði vísitazíu sína á Saurbæ í Eyjafirði 13. júlí og endaði hana á Hvanneyri í Siglufirði 2. ágúst; í Siglufjörð hafði þá enginn biskup komið í 111 ár; Gísli Magnússon biskup kom þangað síðastur 1757. Vísitazíu Pjeturs biskups í Eyjafirði er lýst þannig:

»Allir þeir, sem hafa verið viðstaddir þessa vísitazíu herra biskupsins, ljúka upp sama munni um, að hann hafi leyst þetta embættisverk sitt, sem öll önnur, svo ljúfmannlega og vandlega af hendi, að honum var unnt. Hann ljet prestana prjedika, síðan spyrja ungdóminn 13—18 ára í áheyrn safnaðarins; síðan tók hann við af þeim og ljet hvert barn og ungmenni lesa þessa eða hina greinina og spurði svo út úr innihaldi hennar, þannig, að hver, sem kunni vel og hafði veitt innihaldinu eptirtekt, gat svarað rjett upp á spurningar hans. Hann ljet líka alla þá, sem spurðir voru, lesa á bók; síðan flutti hann stutta ræðu til ungdómsins og safnaðarins«. Að því loknu lagði hann allmargar spurningar fyrir sóknarmenn (22) og prest (18). »Eptir messu skoðaði biskup kirkjurnar og reikninga þeirra m. fl. og ljet jafnframt í ljósi álit sitt um byggingarlegt ásigkomulag kirknanna, efni og fjárhald þeirra, er allt bar ljósan vott þess, að honum er einkar annt um og vandlátur að því, að allt sje eins og vera ber, svo vel af sinni, prófastanna, prestanna, sem safnaðanna og annara hlutaðeigenda hálfu, er allt var bókað og að lyktum ljet hann alla, er viðstaddir voru af hlutaðeigendum, á hverjum stað fyrir sig, ásamt sjer, undirskrifa vísitazíurnar«.[1])

1) Norðanfari VII, 1868, bls. 37. Þar eru spurningarnar til sóknarmanna og presta líka prentaðar.

Pjetri biskupi gaf vel á þessari ferð, veður var altaf gott enda gaf hann sjer enga hvíld og var sífellt starfandi og á ferðinni, nema þrjá daga, sem hann stóð við hjá systur sinni á Sjávarborg; vegir voru þó hvergi nærri góðir alstaðar og yfir Siglufjarðarskarð varð biskup að fara fótgangandi. »Í Eyjafjarðarprófastsdæmi prjedikuðu 10 prestar fyrir biskupi, en sá 11. komst hjá því sem nýkominn að brauðinu; þrír prestarnir prjedikuðu á messudögum, en hinir sjö á rúmhelgum dögum. Allir prestarnir, sem prjedikuðu, máttu sjálfir velja sjer texta. Engin prjedikun var flutt nema í aðalkirkjunni, nema í Miklagarðskirkju í Eyjafirði. Það er sagt, að flestar ræður presta hafi verið góðar og nokkrar afbragðs góðar. Yfir höfuð var sagt, að ungdómurinn hafi verið vel að sjer, víðast hvar. Til einnar kirkju höfðu eigi komið til yfirheyrslu nema eitthvað af drengjum, en engin stúlka«. Prestafundi hjelt biskup á Miklabæ í Skagafirði 5. ágúst og á Auðkúlu 12. ágúst. »Þrettán spursmál lagði biskup fyrir prestana á hverjum þessara funda, sem flest höfðu verið líks innihalds og spurningar þær, er hann spurði þar er hann vísiteraði. Að þessu loknu skoraði biskup á prestana að bera upp þau málefni, er þeim þætti mest nauðsyn til. Eigi að síður varð þar þó fátt til tíðinda, nema uppástunga um að prestar væri losaðir við heimting á tekjum kirknanna og reikninga þeirra«.[1]) Síðan fór Pjetur biskup suður Kúluheiði. Á Norðurlandi var biskupi alstaðar vel fagnað á þessari ferð og hafði hann þar mikla alþýðuhylli. Hinn háaldraði prestur síra Einar Thorlacius í Saurbæ hafði veturinn áður ort lofkvæði á latínu um Pjetur biskup, en Jón Ingjaldsson prestur á Húsavík þýddi það á íslenzku og var hvorutveggja prentað í Norðanfara;[2]) þegar Pjetur biskup kom frá vígslu var honum einnig fagnað með kvæði í sama

1) Norðanfari VII, bls. 56. Sbr. Þjóðólfur XX, bls. 133, 157.

2) Norðanfari VI, 1867, bls. 71; VII, 1868, viðaukabl. nr. 3—4.

blaði[1]) og á nýári 1867 var líka prentað kvæði til hans í Þjóðólfi.[2]) Meðan Pjetur biskup var á ferðalagi um sýslurnar dvaldi Þóra dóttir hans í góðu yfirlæti á Sjávarborg hjá föðursystir sinni. Fjórum árum áður (1864) hafði Dr. Pjetur farið kynnisferð norður í Skagafjörð með konu og dætrum, til þess að hitta systur sína, sem hann unni mjög, hún var þá á Mælifelli, en flutti eptir að hún var orðin ekkja 1866 á eignarjörð sína Sjávarborg og dó þar 1886.

Hjer hefi jeg nokkuð ítarlega getið hinnar fyrstu vísitaziuferðar Pjeturs biskups og þarf því ekki að fjölyrða um hinar síðari. Sumarið 1869 vísiteraði hann Borgarfjarðarsýslu, fór þangað 14. júlí og kom aptur 24. s. m., vísiteraði hann fyrst í Saurbæ, þá í Görðum á Akranesi, síðan Leirá, Mela, Hvanneyri, Bæ, Reykholt, Stóraás, Lund og Fitjar og fór þaðan suður Botnsheiði. Sumarið 1870 ferðaðist biskup um Dalasýslu, hóf ferð sína frá Reykjavík 16. júlí og kom aptur 6. ágúst. Á þeirri ferð hjelt hann einnig prestastefnu á Stað á Reykjanesi með prestum úr Barðastrandarsýslu, þá voru með honum á ferðinni kona hans og yngri dóttir og á heimleið frú Sigþrúður kona Jóns yfirdómara, mágkona hans. 1872 vísiteraði biskup Rangárvallasýslu fór á stað 10. júlí og kom aptur 29. s. m. Árið 1873 vísiteraði Pjetur biskup Mýrasýslu, fór á stað 6. ágúst og kom aptur 20. s. m. Þá fór hann fyrst að Þingvöllum, fyrir Ok í Reykholtsdal, svo upp að Gilsbakka og svo vestur alla Mýrasýslu og hina neðri vegi til baka. Á 15 dögum vísiteraði biskup þá 10 kirkjur, án þess að taka sjer nokkurn hvíldardag og var hann þá nærri 65 ára að aldri.[3])

Eins og fyrr hefir verið getið kemur töluverð

---

1) Norðanfari VI, bls. 24,

2) Þjóðólfur XIX, bls. 50.

3) Þjóðólfur XX, bls. 146, 157; XXII, bls. 149, 157; XXIV, bls. 146, 157. Víkverji I, 1873, bls. 72, 91, 99—100.

framkvæmd og hreyfing á ýms kirkjumál eptir að Dr. Pjetur Pjetursson kom til Reykjavíkur; hann var þá í fullu ungdómsfjöri og að eins tæplega fertugur. Hefði hann einmitt þá verið mjög vel til fallinn að verða biskup; Helgi biskup var reyndar ekki mjög gamall, en heilsan bilaði snemma; þó hann væri sómamaður í alla staði og ágætur ræðumaður, þá var hann enginn nýunga- eða framkvæmdamaður. Nú fór það svo, að Dr. Pjetur Pjetursson varð að bíða í nærri 20 ár þangað til hann komst í biskupssætið og þá var hann eðlilega farinn að lýjast og þreytast nokkuð. Á sjötugsaldri er breytinga- og nýungagirnin farin af flestum, reynslan er vanalega búin að kenna þeim, hve miklir örðugleikar eru á því að þröngva mönnum til endurbóta, og búin að sýna að snöggar byltingar eru sjaldan til bóta, þeir eru orðnir þreyttir af að bjástra við alls konar mótspyrnu, og því er það eðlilegt að menn verði íhaldssamari með aldrinum. Hinum unga ákafamanni virðist allt framkvæmanlegt og laufljett, og sje hann duglegur og berjist fyrir hugsjónum sínum fram eptir æfinni, finnur hann, þegar hann er orðinn gamall og þreyttur á sálu og líkama, hve örlítlu honum hefir tekist að koma í verk af því sem hann hugsaði sjer í öndverðu.

Þegar Dr. Pjetur Pjetursson varð biskup var hann búinn með aðallífsstarf sitt, hann hafði gefið út prjedikanir sínar og hugvekjur, smásögurnar fyrstu og mörg önnur rit og var orðinn einn hinn alþýðlegasti rithöfundur á Íslandi; hann hafði barist fyrir því að bæta kjör presta og fyrir bindindismálinu, hafði verið aðalhvatamaður til stofnunar prestaskólans, komið honum á fastan fót og verið forstöðumaður hans í 19 ár, hann hafði endurreist biblíufjelagið, endurskoðað ritninguna og komið henni inn á hvert heimili fyrir tilstyrk enska biblíufjelagsins; hann hafði stofnað tvö kirkjuleg tímarit, haft mikil áhrif á endurbót sálmabókarinnar, hann hafði barist fyrir stofnun reglulegs kirkjuþings og fyrir



því að klerkastjett og söfnuðir fengi í hendur stjórn kirkjumála, hann hafði gefið út merkileg vísindaleg rit, verið blaðstjóri og þingmaður og hinn ósjerhlífnasti og starfsamasti í öllum greinum, sem að gagni máttu verða. Hann hafði þannig starfað meir og komið meiru til leiðar en flestir eða allir jafnaldrar hans íslenzkir. Eptir þetta mikla æfistarf mundu flestir hafa þurft hvildar við komnir á sjötugs aldur, en um það leyti tekur hann við örðugu og vandasömu embætti, gegnir því með heiðri og sóma í 23 ár og er auk þess sístarfandi, síritandi og leiðbeinandi fyrir landa sína.

Biskupstið Pjeturs biskups var að mörgu leyti örðug fyrir gamlan mann, mörg umbrot voru þá í þjóðfjelaginu. Dr. Pjetur hafði sjálfur á unga aldri, eins og fyrr var getið, reynt að ýta við löndum sínum og vekja þá úr doða og drunga, nú voru þeir farnir að vakna og nýtt og gamalt var að berjast. Þá þurfti stundum mikla lipurð, varfærni og málamiðlun til þess að firra vandræðum og var þá mikil nauðsyn á að eiga frjálslyndan íhaldsmann í biskupssæti og var Pjetur biskup þannig einmitt skapaður til þess að vera höfuð kirkjunnar á þessum breytingatíma. Hann unni öllum sönnum framförum, en vildi ekki hrapa að neinu, heldur láta málefnin þróast til fullkomnunar og taka sanngjarnt tillit til allra málsparta.

Í biskupstið Pjeturs Pjeturssonar kom skrið á mörg mál, er kirkjuna snerti; urðu þá meiri umræður um kirkjumál og framkvæmdir í því efni en orðið höfðu áður í hundrað ár. Fyrstu árin eptir að Pjetur biskup hafði tekið við embætti vandaði hann í umburðarbrjefum til prófasta og presta um, að kirkjulögunum væri hlýtt betur en gjört hafði verið, um visitazíur prófasta, um kirkjurækni, húsvitjanir, um meðhjálpara o. m. fl. Í Norðanfara er Pjetri biskupi þá gefinn þessi vitnisburður: »Það vantar ekki að biskup okkar vill lagfæra allt sem þarf og embætti hans nær til, þetta



hefir hann sýnt hvervetna«.[1]) Á þingi 1867 komu kirkjuskoðanir prófasta til umræðu; hafði þá meðal annars komið bænaskrá úr Mýrasýslu að dregið væri úr visitazium prófasta, þeim væri fækkað, þannig að þær færi fram þriðja hvert ár, þessu mótmælti Pjetur biskup eindregið, hann segir meðal annars: »Mjer sýnist að vjer í kirkjulegum málefnum eigum að gjöra allt til að herða eptirlitið, en ekki rýmka um það, því það er nauðsynlegt, að embættismennirnir hafi aðhald og að minnsta kosti ætti löggjöfin ekki að gefa tilefni til, að menn vanræktu skyldu sína«.[2]) Hinn 17. júlí s. á. hafði hann sent prófföstum umburðarbrjef um, að þeir nákvæmlega gæti allra skyldna sinna við visitaziur.[3])

Meðan Helgi biskup sat í embætti varð engin veruleg breyting á kirkjustjórn eða kirkjulöggjöf, flest hjelzt þá í gamla horfinu, en þó var þá töluverður undirbúningur undir þær breytingar, sem seinna urðu, og var Dr. Pjetur við það allt riðinn og optast hvatamaður. Vjer höfum áður getið þess, að Pjetur prófastur hafði á yngri árum í ræðu og riti og með uppástungum til stjórnarinnar vakið máls á því, hve mikil nauðsyn væri á því að bæta kjör presta. Hið fyrsta þing 1845 tók mál þetta að nokkru leyti til meðferðar, en hvorki var Dr. Pjetur nje aðrir ánægðir með úrslit málsins á þingi.[4]) Eptir tillögum alþingis, þó með nokkrum breytingum, var gefin út Tilskipun um tekjur presta og kirkna 27. janúar 1847; þá kom líka Tilskipun um fardaga presta 6. janúar 1847 og hafði frumvarp til þeirrar tilskipunar líka verið rætt á þinginu 1845. Eptir bænaskrá frá alþingi 1849 var einnig gefið út opið brjef 18. marz 1853, er nákvæmar ákveður tíundargjald til prests og kirkju. Á prestastefnunni 1852 var rætt um kjör

1) Norðanfari VIII, 1869, bls. 49.

2) Alþingistíðindi 1867, I, bls. 268.

3) Brjefið er prentað í Alþingistíðindum 1867, I, bls. 423—424.

4) Ársrit presta í Þórnesþingi I, 1846, bls. 44—48.

presta og stungið úpp á, hvort ekki mundi tiltækilegt að setja alla presta á föst laun og láta þá að eins hafa grasnyt fyrir nokkrar skepnur. Í þetta mál var kosin þriggja manna nefnd (Árni Helgason, Pjetur Pjetursson, Ásmundur Jónsson) áttu þeir að skrifa öllum prófóstum umburðarbrjef um málið. Nefndin gjörði þetta og skoraði á prófasta og presta að segja álit sitt um, hvort ekki mundi rjettast 1, að hverju prestakalli væri útlögð hæg og lítil bújörð fyrir prestssetur. 2, að prestum væri goldin laun úr opinberum sjóði. 3, hvort ekki væri ráðlegt að selja allar kirkjujarðir. 4, hvort ekki mundi bezt að fela söfnuðunum á hendur kirkjurnar til viðhalds og umsjónar.[1]) Sýnir þetta, að mönnum þá þegar hafa ekki vaxið í augum allstórar byltingar.

Árið 1854 var að tilhlutun stiptsyfirvaldanna af prófóstum, prestum og öðrum samin álitsskjöl um nýtt brauðamat og nýja sóknarskipun á Íslandi, því máli hafði upprunalega verið hreyft á synodus 1853 og á alþingi 1855 kom það líka til tals. Á synodus 1855 var sett þriggja manna nefnd til þess að rannsaka hið nýja brauðamat og uppástungur úr hjeruðum um sameiningu brauða; í þeirri nefnd voru stiptsprófastur Árni Helgason, prófessor Pjetur Pjetursson og dómkirkjuprestur Ólafur Pálsson.[2])

Á þinginu 1865 var, eins og fyrr hefir verið getið, ýmislegt er snerti kirkjuna til umræðu og var Dr. Pjetur í þeim nefndum, sem þá voru settar. Aðalmálið var konunglegt frumvarp til tilskipunar, er nákvæmar ákveður ýmislegt viðvíkjandi prestaköllum á Íslandi, og hinn 15. desember 1865 kom út tilskipun um prestaköll á Íslandi. Þá var einnig á ýmsum þingum rætt um sunnudaga og helgidagahald o. fl., sem fyrr hefir verið getið, en fátt um kirkjustjórnina og prestana.

---

1) Ný tíðindi I, 1852, bls. 67—68. Mál þetta var vel og ítarlega rætt í Þjóðólfi V, bls. 3—6, 13—16, 21—23.

2) Alþingistíðindi 1855, bls. 74—77. Þjóðólfur VII, bls. 49, 122, 124.

Það var varla að búast við að veruleg umbreyting kæmist á skipun kirkjumála meðan hið gamla stjórnarfyrirkomulag var, en eptir að stjórnarbótin var fengin 1874 lifnaði mjög áhugi manna á þessum málum. Vjer höfum áður getið þess, að prestafjelagið í Þórnesþingi, sem Pjetur prófastur á Staðastað var lífið og sálin í, sendi alþingi 1847 bænaskrár, er að ýmsu leyti snertu breytingar á kirkjulöggjöfinni. Bæði þessar bænaskrár og Ársrit presta í Þórsnesþingi sýndu vaknandi áhuga á kirkjumálum og viðleitni til umbóta; uppástungur þær, sem þá komu fram, voru þó flestar enn óljósar og óákveðnar, málin höfðu ekki verið rædd og rannsökuð nógu mikið. Allt þetta sýnir þó áhuga Dr. Pjeturs og framfarahug á ungum aldri. Frá því hann kom til Reykjavíknr 1847 og þangað til hann varð biskup 1866 var Dr. Pjetur, eins og fyrr var getið, meira og minna riðinn við öll kirkjumál, og var kosinn í því nær allar nefndir, bæði á þingi og utanþings, sem eitthvað áttu að fást við þess konar málefni, hann hafði þegar hið mesta álit hjá prestasjettinni og var eptir dómi allra samtíðarmanna ósjerhlífinn starfsmaður, lipur í samvinnu og tillögugóður. Stöðugt starf Pjeturs biskups í meir en 40 ár í þágu hinnar íslenzku kirkjulegu löggjafar hlýtur að hafa borið mikinn ávöxt, þó nú sje eigi hægt í hinu einstaka að greina verk hans frá verkum annara. Umræðurnar um kirkjumál á alþingi, á prestastefnunni og í nefndum og blöðum vöktu smátt og smátt áhuga þjóðarinnar og undirbjuggu að ýmsu leyti þær breytingar, sem urðu í biskupstíð Pjeturs Pjeturssonar. Þá fullkomnuðust (eptir 30—40 ár) eflaust sumar af hugsjónum hans frá ungdómsárunum, líklega þó optast í öðru formi. Víst er það, að á embættisárum Pjeturs biskups hófst nýtt tímabil í íslenzki kirkjulöggjöf og hann var þá samkvæmt embættisstöðu sinni meira og minna riðinn við allar breytingar.

Á árunum 1875—80 voru kirkjumál almennt á dagskrá bæði í blöðunum og á alþingi. Á þinginu

1875 kom til umræðu frumvarp til laga um viðhald á eignum kirkna og prestakalla, sem fjekk konunglega staðfestingu 17. desember 1875. Á alþingi 1877 var fjöldi kirkjumála til umræðu, meðal annars frumvörp um leysing á sóknarbandi, skipun prestakalla, laun og eptirlaun presta, umsjón og viðhald kirkna, um kirkjur og tekjur þeirra, um að afnema dagsverk til prests, um afnám aukalambseldu o. fl. Öll þessi umfangsmiklu mál gátu eðlilega ekki orðið útkljáð á þingi, og var þá gjörð sú ályktun, að alþingi skoraði á landshöfðingja að koma til leiðar, að stipsyfirvöldin fyrirskipi aukamat á öllum brauðum landsins, að þau beri tillögur sínar um breytingar á kirkjulögunum undir fundi í hverju prófastsdæmi og að konungur skipi 5 manna nefnd til að semja frumvarp til laga um nýja brauðaskipun og um breyting á gjöldum til prests og kirkju.[1])

Samkvæmt þessari ályktun alþingis fór fram nýtt brauðamat á öllu landinu, og þegar því var lokið sömdu stiptsyfirvöldin tillögur sínar um þær breytingar, sem helzt kynni að vera ástæða til að gjöra, eða að minnsta kosti íhuga, hvort ekki mætti gjöra á brauðaskipun og kirknaskipun í landinu, og lögðu síðan fyrir prófastana í brjefum, dagsettum 14. maí 1878, að bera tillögur þessar undir fundi, er halda skyldi í júnímánuði næst á eptir í hverju prófastsdæmi, og allir prestar prófastsdæmisins skyldu sækja til, og einn maður kjörinn úr hverri sókn í prófastsdæminu. Var pröföstum boðið, að skora á fundi þessa, að segja álit sitt bæði um skipun brauða og kirkna og um gjöld til prests og kirkju. Eptir konungsúrskurði 5. nóv. 1877 kvaddi landshöfðingi 5 menn í nefnd til þess að semja lagafrumvörp um þau kirkjumál, sem fyrr var getið; nefndarmenn voru: Pjetur biskup Pjetursson, Bergur Thorberg amtmaður, Dr. Grímur Thomsen, Þórarinn Böðvarsson prófastur og alþingismaður Einar Ásmundsson í Nesi. Nefndin tók til starfa 1. ágúst 1878 og átti iðulega fundi með sjer

1) Alþingistíðindi 1877, II, bls. 591.

til að ræða málið og semja um það uppástungur sínar, til 4. september; þá þurfti Einar Ásmundsson að fara norður, enda hafði nefndin þá og lokið störfum sínum, var búin að koma sjer saman um og semja þau frumvörp, er hún áleit sjer skylt að koma fram með. Hin ítarlegu frumvörp og álitsskjöl nefndarinnar voru ásamt brauðamatinu prentuð sama haust.[1]) Út frá þessum nefndarálitum spretta svo flest þau lög um kirkjumál, sem samþykkt eru á nokkrum hinum næstu þingum á eptir.

Hjer getum vjer ekki nánar talað um þessa löggjöf, vjer skulum að eins minna á hin allra helztu lög frá þeim árum. Árið *1880* komu út 9. janúar lög um uppfræðing barna í skript og reikningi; 27. febrúar s. á. lög um skipun prestakalla, lög um eptirlaun presta og lög um stjórn safnaðarmála og skipun sóknarnefnda og hjeraðsnefnda. *1882* 12. maí lög um leysing á sóknarbandi og lög um umsjón og fjárhald kirkna. *1884* 3. október lög um eptirlaun prestsekkna og s. d. endurskoðað brauðamat. 15. október auglýsing um rýmkun á því valdi til að veita brauð, er landshöfðingjanum yfir Íslandi hefir verið veitt með konungsúrskurði 20. febrúar 1875. *1886* 8. janúar lög um hluttöku safnaða í veitingu brauða og 19. febrúar s. á. lög um utanþjóðkirkjumenn. Auk þessa var á sama tímabili gefinn út fjöldi smærri lagaboða snertandi kirkju- og kennslumál. Af þessu sjest, hve óvanalega frjósöm embættistið Pjeturs biskups er, að því er snertir breytingar og endurbætur á kirkjumálum og kirkjustjórn.

Af hinum almenna áhuga á kirkjumálum leiddi, að menn tóku á þesu tímabili að gjöra meiri kröfur til lífernis og eptirdæmis presta, þá eykst nokkuð trúaráhugi sumstaðar og vantrú og árásir á kirkjuna annarsstaðar, það fer að brydda á fríkirkjuhreyfingum, nokkrum sjerkreddum í trúarefnum o. s. frv. Af þessu leiddi á seinni árum Pjeturs biskups nokkurt stímabrak

1) Kirkjutíðindi I, 1878, bls. 4—102.

og blaðadeilur og vantaði þá heldur ekki aðfinnslur við kirkjustjórnina og árásir á höfuð kirkjunnar. Þó Pjetur biskup væri þá kominn hátt á áttræðisaldur og jafnvel yfir áttrætt, svaraði hann í blöðunum flestum aðfinnslum, er nokkru varðaði, með mikilli hógværð og með fullum rökum, en persónuleg illyrði og áreitni leiddi hann alveg hjá sjer. Pjetur biskup talaði opt máli prestastjettarinnar í blöðunnm þegar á hana var ráðist. Sem dæmi má geta þess að hann í Víkverja 1874 svaraði grein um trassaskap presta við embættisfærslu[1]) og grein í Norðanfara 1881 um húsvitjanir presta, en í bæði skipti færðust ritstjórar undan í flæmingi og þorðu eigi að standa við orð sín. Í Fjallkonunni 1886 var það borið fram, að merkisprestur hefði skrifað blaðinu óvirðuleg orð um uppfræðing barna í kristindómi og skoraði biskup þá á ritstjóra að segja, hver prestur þessi væri; það gjörði ritstjórinn ekki, en dró úr ummælum blaðsins um kirkjuna og játaði, að þau væru »rituð rjett af handahófi án þess að nokkur ástæða væri færð fyrir þeim«.[2])

Á árunum 1881—85 var nokkurt fríkirkjubrask á Austurlandi, fríkirkjuhreyfing er varla hægt að kalla það, því það var upprunalega mest persónleg óánægja einstakra manna út úr brauðaveitingum, sem olli óróanum,[3]) hreyfingin virtist ekki borin fram af almennings

1) Víkverji II, 1874, bls. 165—166. Svar Pjeturs biskups s. st., bls. 168—169. Norðanfari XX, bls. 37, 42—43.

2) Fjallkonan III, 1886, bls. 90—91, 93. IV, bls. 62. Sbr. Sameiningin II. bls. 13—15, 93—96. Um þetta segir síra Jón Bjarnason: »Það getur fullkomlega sameinast sönnum drengskap að rísa öndverður upp á móti kirkju og kristindómi, en þá verða menn að koma opinberlega fram á vígvöllinn og hafa hug til að framfylgja sinni sannfæringu, það gjörir enginn nú á Íslandi . . . . . Að gefa kristindóminum öðru hverju olnbogaskot en skjótast svo jafnharðan í felur, það er allt sem menn nú hafa þor til«. (Sam. II, bls. 15).

3) »Það virðist auðsætt, að rótin (til fríkirkjumálsins) hafi í upphafi verið mestmegnis gremja og kergja út af því, að fá eigi prest þann, er þeir höfðu ákosið« segir E. Ó. Brim í Norðanfara

þörf og sannfæringu í trúarefnum, og þó að einstakir menn væru að bjástrast við að byggja, þá hrundi það að mestu leyti aptur eptir skamma stund og áhuginn minnkaði er frá leið.[1]) Í sjálfu sjer var Pjetur biskup alls ekki mótlhverfur fríkirkjuhugmyndinni, skoðanir þær á sjálfstjórn kirkjunnar, er hann hafði látið í ljósi, hlutu að benda í þá átt í framtíðinni, en hann sá sem aðrir, að kirkjulífið á Íslandi var ekki nærri nógu þroskað til þess að taka á móti svo stórri breytingu, tilraunir í þá stefnu af hendi einstakra manna hlutu að hjaðna niður og þessutan var hann formaður ríkiskirkjunnar og varð að líta eptir að lögunum væri fylgt. Óróinn í kirkjumálum á Austurlandi bakaði honum áhyggju og í ýmsa örðugleika, honum mislíkaði aðferð hinna svokölluðu fríkirkjumanna og gramdist meðferð Reyðfirðinga á öðrum eins heiðurspresti og sómamanni eins og síra Daníel Halldórssyni á Hólmum. Biskup gjörði allt er hann gat til þess að koma sáttum á, ritaði meðal annars sjerstakt umburðarbrjef[2]) til safnaðarins í Hólmabrauði 15. apríl 1882, en allar tilraunir voru árangurslausar. Þá var biskupi það líka mjög ógeðfelt, er síra Lárus Halldórsson sagði af sjer og fór frá Valþjófsstað af því hann komst í ágreining við sóknarmenn sína suma út úr ýmsum sjerkreddum með kirkjusiði og varð síðan fríkirkjuprestur í Reyðarfirði. Lárus prófastur hafði verið biskupsskrifari og Dr. Pjetur hafði álit á honum, þótti illt að missa svo góðan kennimann út á grýttar og brattar sniðgötur, sem hlutu að leiða hann lengra og lengra frá því hlutverki í þjónustu þjóðkirkjunnar, sem honum hafði verið á hendur falið. Út

---

24. árg. bls. 45. Sbr. Sameiningin XV, 1900, bls. 156—157 og Verði Ljós VI, bls. 47—48.

1) Sögu fríkirkjumálsins hefir síra Eggert Ó. Brím ritað í Norðanfara XXIV. 1885, bls. 45—47, 49—51. Sbr. bls. 86. Þjóðviljinn III, bls. 92.

2) Brjefið er prentað í Norðanfara XXII, 1883, bls. 47—48 og í Þjóðólfi 36. árg. 1884, bls. 70—71.

úr fríkirkjumálunum við Reyðarfjörð, kirkjusiðaágreiningi í Fljótsdal og embættisskipun á Hofi í Vopnafirði spunnust allmiklar deilur, þras, klögumál og brjefaskriptir; fjöldi blaðagreina frá þeim tíma ber vitni um allan þann moðreik, sem stóð af því sundurlyndi og yrði það bæði langt mál og leiðinlegt að fara nánar út í það hjer, svo vjer sleppum því, en vísum til blaðanna. Á þeim árum var mikið ritað í blöðin um kirkjumál og þó margar greinir sjeu lítilsvirði, þá er þó í sumum þeirra ýmislegur fróðleikur. Var þá einmitt um það leyti vaknaður allmikill áhugi á ýmsum endurbótum á kirkjulöggjöfinni og ýtti hann mjög undir framkvæmdir í þá átt á næstu þingum, eins og fyrr var getið.

Pjetur biskup tók svo sem engan þátt í ritdeilum um trúbrögð og trúbragðaflokka. Þó bar það við að hann skrifaði dálítið í blöðin þar að lútandi. Árið 1861 skoraði bóndamaður einn fastlega á þá Helga biskup og prófessor Pjetur, að þeir gegn hinum kaþólsku prestum »haldi kröptuglega uppi svörum fyrir kenningu þá, sem þeir af guði og konunginum eru kallaðir til bæði að kenna og vaka yfir að við haldist í landinu ómenguð af öllum villulærdómum og mannlegum afbökunum«.[1]) Tilefnið til þessarar áskorunar voru greinar frá Boudoin presti, sem staðið höfðu í Þjóðólfi[2]) og hafði meðal annars verið haldið þar fram einlífi presta sem stofnsettu af postulunum og sagt, að Lútherstrúarmenn tæki það að eins af biblíunni sem þeim líkaði, en kaþólskir menn tækju allt. Dr. Pjetur varð við áskorun þessari og ritaði skýra grein og skorinorða um skoðanir Lútherstrúarmanna í þessum efnum.[3]) Að lokum segir hann: »Að öðru leyti verð jeg að láta það álit mitt í ljósi, að mjer þykir það eiga illa við og fremur leiða

1) Íslendingur II, bls. 22—23.

2) Þjóðólfur XIII, 1861, bls. 81—83.

3) Íslendingur II, 1861, bls. 27.

til ills en góðs, að hefja kappræður um kristilega trú í dagblöðum, og að jeg því ekki optar mun taka til máls í þessu efni, með því jeg líka treysti því, að hin evangelisk-kristilega trú sje svo djúpt gróðursett í hjörtum Íslendinga, að hún ekki þurfi minnar varnar við, og að blaðamenn vorir muni ekki ljá blöð sin til að lastleggja hana, þó þess yrði farið á leit, sem jeg vona að menntun og kurteisi þeirra frakknesku presta, sem hjer nú dvelja, muni banna«. Löngu seinna (1887) skrifaði Pjetur biskup greinarstúf móti ritdómi um vantrúarbók í Fjallkonunni,[1]) sem kölluð var »Trúarjátning framtíðarinnar« og talar Pjetur biskup helzt um tvö atriði, ljóst og skilmerkilega, eins og hann var vanur, um kraptaverkin og Kristi friðþægjandi dauða.[2])

Pjetur biskup ljet sjer mjög annt um að vernda alþýðu gegn villukenningum Mormóna, ritaði hlutaðeigandi prestum og hvatti þá til mótstöðu gegn trúboði þessu, svo síra Skúli Gíslason á Breiðabólsstað hjelt ræðu[3]) móti Mormónum 1875 og eins síra Brynjólfur Jónsson í Vestmannaeyjum 1879 og 1882; hann ljet ennfremur prenta grein í Ísafold um Mormónavilluna.[4]) Í Reykjavík varð Mormónum einnig nokkuð ágengt og biskup reyndi þá til að útvega dómkirkjupresti aðstoð í baráttunni gegn þessum ófögnuði. Brjef biskups til dómkirkjuprestsins[5]) dags. 30. marz 1880 set jeg hjer til fróðleiks af því það er gott sýnishorn af ritlhæti Dr. Pjeturs og sýnir um leið, hve annt hann ljet sjer um sálarheill safnaðarins og hafði vakandi auga á öllu er fram fór.

1) Fjallkonan IV, 1887, bls. 119.

2) Ísafold XIV, 1887, bls. 190—191.

3) Ræða flutt af Skúla Gíslasyni presti að Breiðabólsstað við vísitazíu hans í Vestmannaeyjum 1875. Með eptirmála um kreddur Mormóna. Reykjavík 1875, 16 bls. 8vo.

4) Ísafold IX. bls. 37.

5) Eiginhandarrit Dr. Pjeturs af brjefi þessu er í skjölum hans, með ýmsum öðrum brjefum, er snerta trúboð Mormóna.

»Eins og þjer vitið, elskulegi herra, dvelja tveir Mormónar hjer í bænum, sem eru að reyna til að útbreiða trú sína meðal bæjarbúa. Að sönnu mun þeim hafa verið bannað að prjedika hjer opinberlega, en hitt er ekki hættuminna, heldur öllu verra, að slíkir menn ganga átölulaust úr einum bæ í annan, prjedika þar villukenningar sínar fyrir heimilisfólkinu og öðrum, sem vilja hlýða á þær og þar eru staddir, og leitast þannig við að veiða fáráðar sálir. Eptir því sem sagt er hefir þeim þegar tekist að fá þrjár konur, sem sje ekkjuna Sigríði Bjarnadóttur, Sigríði Jónsdóttur, konu Þorsteins lögregluþjóns og Sesselju í Runólfsbæ til að afneita trú sinni og láta skírast til mormónatrúar«.

»Mjer er svo kunnungt um alúð og árvekni yðar í embættinu og þá umhyggju, sem þjer berið fyrir sálarheill hvers einstaks í söfnuði yðar, að jeg veit, hve sárt yður muni taka það, að nokkur sje þannig leiddur afvega. En hvorki er hægt að afstýra slíku fyrirfram í fjölmennum söfnuði sem hjer er og líka hafið þjer svo margvíslegum embættisstörfum að gegna, að þjer fáið, ef til vill, ekki tíma til að beita kröptum yðar í þessa einu stefnu, einkum vegna uppáfallins lasleika yðar. Mjer hefir því hugkvæmst að vekja máls á því við yður, hvort þjer vilduð ekki fá einhverja aðstoð í því að tala við ofangreindar konur og leitast við að snúa þeim frá villu síns vegar, eins og líka öðrum hjer, sem hljóðbært verður um, að þessum Mormónum hafi tekizt að veiða í net sitt. Þeir menn, sem jeg í þessu efni helzt hefi augastað á, eru prestarnir síra H. Hálfdánarson, síra M. Jochumsson, skrifari minn kandídat M. Andrésson og yfirkennari H. Helgesen. Mjer er að sönnu ókunnugt um, hvað þjer, elskulegi herra, hafið gjört í þessu efni, en hitt er mjer fullljóst, að það er skylda vor andlegrarstjettarmanna, sem hjer erum, að leggjast allir á eitt með að frelsa hina frávilltu sauði frá þeim andlegu óförum, sem þeim eru búnar af villukenningu Mormóna, og því er jeg viss um, að enginn þeirra heið-

ursmanna, sem jeg hefi nefnt, muni synja yður um liðsinni sitt í þessu efni, ef þjer finnið ástæðu til að fara þess á leit við þá«.

Á hinum seinustu embættisárum Pjeturs biskups hófu *Vesturheimsprestar* mikinn glumragang og ákafar árásir á hina íslenzku prestastjett, íslenzka kirkjustjórn og biskupinn sjálfan. Árásir þessar byrjuðu með miklu uppgangsveðri, svo auðsjeð var, að mikið stóð til, en svo hjaðnaði þetta niður eins fljótt aptur eptir stuttan tíma. Það var sjálfsagt, að margt þurfti að umbæta í kirkjulífi og kirkjustjórn á Íslandi og margt hefir lagast síðan, sem ver fór, og var þá þegar farið að lagast og komið á framsóknarbraut. Kirkjan er á Íslandi svo nátengd öllu þjóðlífinu, að hún er alveg sömu örlögum undirorpin eins og þjóðin sjálf, og hagur og framferði prestastjettarinnar í heild sinni hefir jafnan á Íslandi staðið í rjettu hlutfalli við kjör og ástand alþýðunnar; það er varla við öðru að búast en að gallar þjóðarinnar líka komi fram hjá prestastjettinni og engin stjett getur hafið sig yfir öld sína og tíðaranda. Almennar framfarir þjóðarinnar hafa líka flutt með sjer framfarir í kirkjumálum, slíkt kemur ekki allt í einu, en verður að vaxa smátt og smátt á sögulegum og þjóðlegum grunni, eins og vjer vildum hafa sýnt í ýmsum atriðum í þessu riti.

Ádeilugreinar Vesturheimspresta hafa að öllum líkindum verið sprottnar af vandlætingasemi og góðum vilja, en þær voru mjög svo byggðar í lausu lopti, voru allt of ofsafengnar, órökstuddar, kaldlyndar og kærleikslausar, og í flestum þeirra lýsir sjer merkilegt þroskaleysi og skilningsleysi á kjörum hinnar íslenzku kirkju, á íslenzku þjóðerni og öllum sögulegum grundvelli. Úr öllu uppþotinu varð því eðlilega ekki annað en þýðingarlaust orðagjálfur. Með ýkjum og öfgum, sleggjudómum og fúkyrðum er ekki hægt að siðbæta heilar þjóðir, stjettir eða einstaka menn; menn vonast heldur eptir að þeim sje rjett hjálparhönd, ekki sízt at

þeim, sem hafa gjört það að lífsstarfi sínu að boða evangelíið. Ef kirkjan íslenzka hefði verið í því aumlega ástandi, sem Vesturheimsklerkar sögðu, hefði þeim verið nær að koma til Íslands, hefjast handa og reyna að kippa einhverju í lag, heldur en að senda tóninn þvers yfir Atlanzhafið til að óvirða stjettarbræður sína, fjölda marga heiðvirða menn, sem eiga við bág kjör að búa og marga örðugleika.

Til þess að sýna ritsniðið og braginn á skrifum þeirra Vesturheimspresta í þann mund (kringum 1888—89) viljum vjer að eins taka eptirfylgjandi dæmi.

*Friðrik Bergmann* segir í Sameiningunni,[1]) að það geti engum dulizt, að kirkjan á Íslandi sje nú sem stendur í meiri niðurlægingu en í nokkru öðru prótestantisku landi og að þessi niðurlæging sje einmitt sjálfri prestastjettinni að kenna; hann segir að »Kirkjutíðindin« sjeu »talandi vottur um hið andlega volæði hinnar íslenzku prestastjettar«. »Yfir kirkju og kristindómsmálum þjóðar vorrar«, segir hann, »hvílir hið voðalegasta myrkur. Andleysið og sinnuleysið ríður þar við einteyming með stóð af hneykslum og afglöpum á eptir sjer. Það er hryggileg sjón«. En það kastar fyrst tólfunum í ræðu þeirri, er hinn sami höfundur kallar »Vor kirkjulegi arfur«.[2]) Þar lýsir höf. því, hvernig á allan hátt sje búið að draga hina íslenzku kirkju ofan í skarnið og gjöra hana fyrirlitlega í augum þjóðarinnar (bls. 30). Um prestaskólann segir hann: »Eins og alkunnugt er, ganga fáir aðrir á prestaskólann en þeir, sem eru annhvort of fátækir eða of miklir andlegir aumingjar til þess að geta komizt nokkurn veginn öðru vísi áfram; en dyrnar galopnar fyrir öllu, sem nýta vill inngöngu, hvað ljelegt og hæfilegleikalaust, sem það er« (36). Áður hefir höf. sagt, að prestaskólamenn sjeu »sekir um einhverja hina mestu óreglu, er átt hefir sjer

1) Sameiningin IV, 1889. bls. 38—39.

2) Fyrirlestrar haldnir á 5. ársþingi hins ev. lút. kirkjufjelags Íslendinga í Vesturheimi. Winnipeg 1889, bls. 27—49.

stað í landinu« (35). »Þeir, sem hafa hegðað sjer lakast á latínuskólanum, hafa vanalega verið sjálfsögð prestaefni«. Þá getur hann þess að á prestaskóla læri menn ekki neitt sem gagn sje í og skilji ekki einu sinni þýzku og bætir svo við: »Hin eðlilega afleiðing af öllu þessu þekkingarleysi er sú, að íslenzkir guðfræðingar standa uppi tómhentir og ráðalausir andspænis vantrúnni og villutrúnni, sem hvervetna er nú farin að stinga höfðinu upp kringum þá. Vopn þau og verjur, sem þekkingin gefur, skortir þá gersamlega«. Þá er kirkjustjórnin að skoðun höf. ekki betri; eptir að hann hefir úthelt skálum reiði sinnar yfir höfuð biskupsins með óteljandi stóryrðum, staðhæfingum og ósannindum segir hann: »Það er ómögulegt annað en að vakni djúp fyrirlitning hjá miklum hluta fólksins fyrir þeirri kirkjustjórn, sem þannig fer að ráði sínu. Þegar fólkið sjer, að sá, sem settur er til yfirhirðis í kirkjunni, lætur sig þannig engu skipta, hvernig allt gengur, stingur dýsætri dúsu jafnvel upp í afneitunina og hylur afglöp, óreglu og hneyxlanir með helgilíni kirkjunnar, þá er sannarlega ekki við öðru að búast, en að menn snúi sjer frá þessari viðurstyggð eyðileggingarinnar á háum stöðum með hrylling og viðbjóði« (42). Þá talar höf. um drykkjuskap presta á Íslandi og lýsir honum hroðalega, talar um presta, sem sjeu verstu »svín« og liggi dag og nótt við toddy-glasið og »veltist svo sífullir fyrir hunda og manna fótum«, tal þeirra sje »viðbjóðslegt« og þeir sjeu »öllum til athlægis og fyrirlitningar«. Ennfremur segir hann, að *flestir* prestar á Íslandi komi fram sem »góðir sollbræður, en sjaldnar sem prestar«. »Flestir rembast við að vera ófullir rjett á meðan þeir eru að embætta. Það er sagt hinum og þessum til hróss, að hann gæti sín með að vera ekki um of slumpaður á stólnum. En eins og alkunnugt er, kemur það ekki svo sjaldan fyrir um marga« (44). »Drykkjuskapurinn og óreglan er sjálfsagt öflugasti hlekkurinn í þeirri fyrirlitningar-keðju, sem hangir um háls íslenzkra klerka«

(45).[1]) »Andleysi íslenzku prestanna hefir lengi verið viðbrugðið. Þeir hafa fengið þetta andleysis-óorð á sig fyrir áhugaleysi sitt í andlegum málum.[2]) Þeir lesa ekkert, fylgja ekkert með hugmyndastraumum heimsins« (46). Þó segir hann að sumir sjeu fornfræðingar, aðrir lifi í sífeldu málastappi fyrir sjálfa sig og aðra, sumir sjeu framúrskarandi reiðmenn og margir góðir búmenn, sem láta allt vitið í búskapinn, en um kristindóm og kirkjumál stendur þeim á sama.

Þessu næst fræðir höf. lesendurnar á því, að fyrir skömmu hafi »svona rjett til málamynda verið stungið upp á því að endurskoða íslenzku bibliuútlegginguna, einkum gamla testamentið; en þeir íslenzku guðfræðingar, sem samþykktu þá uppástungu á synodus, hafa hlotið að gera það í skopsskyni við sjálfa sig, þar sem þeir vissu, að enginn Íslendingur var fær til þess«[3] (47). »Lengi hefir farið orð af því að prestar á Íslandi komist fremur ljett út af að semja ræður sínar, margir hverjir. Gömlum ræðum virðast þeir að minnsta kosti hafa miklar mætur á. Þegar prestur deyr, er hann opt búinn að gera samning um það áður, hver af embættisbræðrum hans skuli hreppa ræður hans. Og sje hann ekki búinn að gera þenna samning áður en hann deyr, eru margar prestlegar hendur á lopti til að ná í ræð-

1) Á öðrum stað (í Sameiningu IV, 1889, bls. 149) segir höf. »Klerkar kirkju vorrar eru bæði komnir í fyrirlitningu fyrir þulur sínar í kirkjunum hvern drottins dag eptir annan og fyrir breytni sína hina sex daga vikunnar utan kirkju«. Þó hafa Vesturheims-söfnuðirnir látið sjer lynda að taka við ýmsum gallagripum úr hinni íslenzku prestastjett og það þá suma hverja, er óhafandi þóttu á Íslandi.

2) Fr. Bergmann er víða í greinum sínum í Sameiningu og Aldamótum að staglast á andleysi hjá íslenzkum prestum, hinu íslenzka bókmenntafélagi, íslenzkum vísindamönnum og rithöfundum, hann ætlast þá líklega til, að menn finni þess meira andríki í Aldamótum og Sameiningu? Hjálpi oss sá sem vanur er!

3) Þá voru þó á lífi menn eins og Helgi Hálfdánarson, Pjetur biskup og margir fleiri háskólagengnir guðfræðingar.

urnar hjá erfingjunum« (47). Hjer látum vjer staðar numið, svona rekur hver endileysan aðra.

Það er eins og sira *Blefkenius* sællar minningar sje risinn upp úr gröf sinni, öfgarnar og ýkjurnar eru svo miklar, »að þær taka upp úr veðrum« eins og Edda segir um Babelsturn. Og það er óþroskað ungmenni, nýskroppinn út úr skóla, sem leyfir sjer að gefa hinni íslenzku prestastjett þenna vitnisburð; slíkur gorgeir getur varla þroskast annarsstaðar en á útkjálkum Ameríku. Úr því höf. jós slíkum órökstuddum óþverra yfir hina íslenzku prestastjett í heild sinni, var varla við því að búast að Pjetur biskup færi varhluta af góðgætinu, enda dæmir hann Dr. Pjetur að öllu óhæfan til biskupsembættis og dróttar því að honum með mörgum ósæmilegum orðum, að hann hafi steypt hinni íslenzku kirkju í glötun; höf. sýnist ekki hafa minnstu hugmynd um hið göfuga æfistarf Dr. Pjeturs, það er eins og hann sje kominn úr hólum, veit ekkert og skilur ekkert, hann kennir Pjetri biskupi um allan vesaldóm og apturför hinnar íslenzku kirkju. Þessi árás á hinn ágæta áttræða öldung er eitt hið unggæðislegasta frumhlaup, sem sjest hefir á íslenzku enda segir sira Þorkell Bjarnason um þetta:[1]) »Það er hægt fyrir ungan gapa, að kasta steini á aldurhnigið mikilmenni; til þess þarf ekki mikinn mann, en sá steinn, sem kastað er á Pjetur biskup fyrir sýslan hans í þjónustu kirkjunnar, mun hitta aptur þann sem kastar«. Mitt í öllu skamma-bullinu um Pjetur biskup rankar höf. þó við sjer og fer að furða sig á því, að »nokkur hluti þjóðar vorrar skuli bera undarlega mikinn kærleik í hjarta sjer til þessa manns«, gáandi ekki að því, að öll ósköpin eru höfundarins eigin uppáfinding og hugartildur, hann hefir verið að ráfa ringlaður innan um sínar eigin skýjaborgir. Ritgjörð þessi hefir eflaust verið rituð af vandlætingarsemi og í góðri meiningu, en ber, eins og sira Þorkell segir,

1) Fjallkonan VII, 1890, bls. 129.

vott um »vanþekkingu, framhleypni og gapaskap«.[1]) Einhverjar þvaðursögur hafa hleypt fýtungi í höf., svo hann þýtur upp til handa og fóta til þess að rita um það, sem hann ber ekki nægilega skynbragð á; þar við bætist svo fullkomin vanþekking á íslenzkum staðháttum og íslenzkri sögu. Það var því varla við öðru að búast en að ritsmíðin yrði eins ósanngjörn og unggæðisleg eins og raun varð á.[2])

Margt fleira ósanngjarnt var á þeim árum skrifað vestan-hafs um íslenzka presta og íslenzka kirkjustjórn og þýðir ekki að telja það hjer úr því vjer þegar höfum gefið lesendunum lítinn smekk af rithættinum. Þá var og margt prentað til að óvirða hina íslenzku þjóð og landið sjálft, ekki þarf annað en minna á hin alþekktu ritsmíði síra Jóns Bjarnasonar: »Ísland að blása upp«, »Íslenzkur nihilismus«, »Um vatnsveitingar« o. fl., sem öll eru full af öfgum og fjarstæðum, þó það geti, þrátt fyrir alla tilgerðina, verið nógu skrítið og skemmtilegt að lesa þesskonar ritgjörðir eins og aðrar tröllasögur.[3]) Hinn eini prestur í Ameríku, sem þá skrifaði

1) Ísafold XVIII, 1891, bls. 267.

2) Sem betur fer hefir höf. orðið stiltari og varkárari með aldrinum, og má því telja þessa ritgjörð og ýmislegt fleira, er hann ritaði á þeim árum með bernskubrekum hans. Annars virðast skoðanir þessa höf. í mörgum greinum mjög á reiki, gott er þó að hinar mestu öfgar hans og ofstæki virðast vera hjaðnaðar niður, en mælgin og vaðallinn er allt af eins. Í prjedikun einni, sem sira Friðrik kallar »Grjótkast« (Vafurlogar. Winnipeg 1906) segir hann bls. 127. »Ó maður, reyndu eins fljótt og þjer er unt að komast út úr grjóthríðinni og hræfuglasönginum. Reyndu að öðlast jafnvægið guðlega í sálu þína, sem veitir þjer vald yfir sjálfum þjer og kennir þjer að forðast öfgarnar, æsingarnar, ólguna, sem sogar niður í botnlausan hyl svo óumræðilega mikið af göfugustu kröptum mannanna. Reyndu að komast þangað, sem þú með ró og gætni getur dæmt um mál mannanna, án þess nokkur æsingur sje í blóði þínu, svo þú getir verið rjettláttur og sanngjarn, greint satt frá ósönnu, verið óheillaður af öfgum og ofstæki, — og farir eigi ávallt of langt í öllu«. Þetta virðist benda á iðrun og apturhvarf.

3) Því verður ekki neitað, að það er mikið spunnið í sum rit síra Jóns þrátt fyrir allt ofstækið, en það mætti segja um

með sannsýni um hina íslenzku kirkju var Hafsteinn Pjetursson; hann segir meðal annars: »Ástand kirkjunnar á Íslandi hefir aldrei verið skoðað í ljósi sögunnar. Þess vegna hafa dómar manna um það efni opt fallið af handahófi og orðið ósamhljóða sögulegum sanni. Auðvitað eru dómar þessir ekki sprottnir af ósanngirni, heldur af misskilningi. Ef vjer prestar vestanhafs værum dæmdir eptir sama mælikvarða og embættisbræður vorir á Íslandi, þá mætti með sanni segja, að allt þetta væri oss prestunum einum að kenna; þá mætti með sama rjetti segja, að allt sem miður fer í kirkjumálum Vestur-Íslendinga sje oss prestunum einum að kenna, það mundi oss finnast ósanngjarnur dómur, og hið sama gildir prestana á Íslandi«.[1])

Fáir íslenzkir prestar andmæltu öfgum Vesturheimsklerka, enda var þess í rauninni lítil þörf, því slíkar fjarstæður fella sig sjálfar.[2]) Sá, sem röksamlegast tók svari hinnar íslenzku prestastjettar, var síra *Þorkell Bjarnason* á Reynivöllum; hinar ágætu greinar hans voru þó mest um sögulegt aukaatriði.. Friðrik Berg-

hann eins og sagt var um Halldór gamla Friðriksson, að »hann var ekki fæddur í þenna heim til þess að láta sannfærast«. Það er líka margt mergjað og vel sagt og vel orðað í hinum fyrrgreindu ritgjörðum, þó útflúrið og tilgerðar-andríkið geri þær nokkuð strembnar. Enginn íslenzkur rithöfundur talar jafnmikið í líkingum eins og síra Jón, nema Bólu-Hjálmar.

1) *Hafsteinn Pjetursson:* Kirkjan á Íslandi (Aldamót I, 1891, bls. 117—144).

2) Síra Jón Bjarnason hefir opt í ritum sínum verið æði tannhvass, enda virðist honum það áskapað að eiga örðugt með að skilja röksemdir annara, en hann hefir líka opt fengið margar ókroppaðar hnútur frá íslenzkum blaðamönnum; síra Friðrik hefir aptur sloppið betur, enda hefir hann á seinni árum, síðan hið fyrsta frumhlaup var afstaðið, optast reynt að sigla milli skers og báru. Það lítur þó út fyrir að sumir íslenzkir klerkar geti haft fullkomlega verzlegt tungutak, því síra Jón getur þess sjálfur í Sameiningu XVIII, 1903, bls. 81, að Haraldur Níelsson (í júníblaði af Verði Ljós 1903) bregði sjer um »lævísi, kærleiksleysi, skort á umburðarlyndi, þekkingarleysi, leti, þrályndi, drottnunargirni, ófrjálslyndi og ofurkapp«.

mann hafði haldið því fram, að kirkjulíf 17. aldar á Íslandi væri fyrirmynd, þá hefði verið gullöld hinnar íslenzku kirkju, en síra Þorkell sýndi með ljósum rökum að slíkt væri fjarstæða sprottin af vanþekkingu á sögu Íslands.[1]) Ameríku prestar spiltu mjög áliti sínu á Íslandi með þessum ritofsa og hafa ekki náð því aptur síðan, þrátt fyrir dugnað og mikil ritstörf, sem reyndar eru nú mjög skiptar skoðanir um. Áhrifin á íslenzk kirkjumál vestan um haf hafa verið hverfandi lítil; þær hinar nýju hreyfingar, sem á seinni árum eru komnar á kristniboð og kirkjumál á Íslandi, hafa allar rót sína að rekja til Danmerkur og annara Norðurlanda.[2])

Snemma í biskupstíð Dr. Pjeturs varð gagngerð breyting á stjórnarfari Íslands, landshöfðingjadæmið var stofnað og stjórnarskráin samþykkt. Þessar breytingar höfðu í för með sjer nokkra *rýrnun á biskupsvaldinu* og hefir Pjetri biskupi verið borið á brýn, að hann hafi ekki nógu fastlega staðið á móti þeim breytingum, sem þá urðu.[3]) En þegar nánar er athugað er það ósann-

1) Deilugreinarnar um þessi efni eru í Fjallkonunni VII, 1890, bls. 129—30 og í Ísafold XVIII, 1891, bls. 149—150, 158; 266—267; 377—378; XIX, 1892, bls. 110.

2) Í brjefi til Pjeturs biskups dags. 7. marz 1891 segir síra *Arnljótur Ólafsson* um árásir Ameríku presta á Pjetur biskup og íslenzku kirkjuna meðal annars: »Jeg get ekki varizt að láta í ljósi gremju mína yfir þeirri ósvífni og þeim barnaskap, er lýsir sjer í aðkasti þeirra til yðar« .... »Hvað hafa þessir menn gert fyrir sína kirkju vestra í samanburði við lög þau og allar þær ráðstafanir, er gjörðar hafa verið á yðar tímum og með yðar tilstilli og tilstyrk í orði og verki fyrir kirkju vora? Hvar er sjóður þeirra handa prestsekkjum, hvar þeirra sálmabók, hvar þeirra prestaskóli? Þeir hafa eingöngu rætt um kennsluskóla til að sýna fullkomið vanmætti sitt; í augum þeirra er allt andleg auðn og tóm, líklegast eingöngu andlegur útsláttur frá þeirra innra manni. Elskulegi biskup, það mun sannast og sagt verða þegar þjer eruð látinn, að á dögum yðar biskupsdóms hefir íslenzka kirkjan tekið mestum framförum«.

3) Í embættistíð Pjeturs biskups var aldrei nein útsjón til að stjórnin vildi rýmka um biskupsvaldið eða auka það; en þegar Monrad var ráðherra átti Helgi biskup kost á töluvert meira valdi í kirkju- og skólamálum, en hann beiddist undan því, þótti

gjarnt, að kenna Pjetri biskupi breytingar, sem hann með engu móti hefði getað haft nein veruleg áhrif á, hversu mikill skörungur sem hann hefði verið í framkvæmdum, enda var hann áður búinn að reka sig á, að slíkt var ekki í lófa lagt. Í lútherskum sið hefir stefna stjórnarmanna í öllum löndum þeirrar trúar, einbeitt og stöðugt gengið í þá átt að rýra biskupsvald og kirkjuvald. Það eru söguleg sannindi, þó ófögur sjeu, að ílöngun valdhafa í reitur kaþólsku kirkjunnar hafði í öndverðu fult eins mikil áhrif á útbreiðslu hins nýja siðs eins og trúarvandlætingin, og þar sem kirkjan varð þjóðkirkja hafa valdhafar jafnan síðan, hvort sem þeir hafa verið einvaldir konungar, alþýðuráðgjafar eða meiri hluta þinga, reynt að rýra biskupsvaldið og dregið undir sig eignir og tekjur kirkna. Hinir voldugustu og gáfuðustu prelátar hafa ekki getað stöðvað þessa stjórnarstefnu, þar sem kirkjan er háð ríkinu. Í Danmörku hefir biskupsvaldið alt af verið að rýrna og biskuparnir eru nú lítið annað en ljelega launaðir umboðsmenn þess flokks, sem völdin hefir. Að hugsa sjer að einn maður geti haft veruleg áhrif á stöðvun þessarar stefnu er fjarstæða, til þess þyrfti gagngjörða breyting á hugsunarhætti almennings, sem í flestum lútherskum löndum hefir mestöll völdin. Þess var því ekki von á Íslandi að Pjetur biskup, sem kominn var hátt á sjötugsaldur færi að brjótast í að berjast móti ofurefli, þar sem ósigurinn var viss fyrir fram, það hefði ekki getað samræmst við hin vanalegu hyggindi hans, reynslan hafði líka á yngri árum kennt honum, að í þessu efni var árangurslaust að berjast móti straumnum. Rýrnunin á biskupsvaldinu, sem hjer kemur til greina, var nú heldur ekki svo mikil, sem orð var á gert, valdið var sannarlega ekki svo mikið þegar Pjetur biskup tók við því,

---

ábyrgðarminna að láta stiptamtmann hafa veg og vanda af brauðaveitingum og öðru þvíliku. Um þetta getur Dr. Pjetur í brjefi til Jóns bróður síns dags. 27. okt. 1848. Monrad vildi láta biskup einn veita öll brauð.

það var fyrir löngu búið að taka mestöll völd af biskupnum. Klerkastjettin á Íslandi hafði um margar aldir þegjandi látið rýja sig, alveg eins og alþýðan þegjandi ljet svipta sig öllum áhrifum á stjórnmálin. Breyting sú, sem nú varð, var mest innifalin í því, að fullnaðarúrskurður á veitingu hinna smærri brauða komst í hendur landshöfðingja og biskup hafði nú ekki lengur beinan aðgang að ráðherranum í Höfn; svo komu síðar lögin um hluttöku safnaða í veitingu brauða 8. jan. 1886 og rýrðu þau auðvitað líka vald biskups (og landshöfðingja), en til hvers hefði verið að reyna að sporna við því, að þau kæmust á.

Málefnið um verksvið biskups í hinu nýja stjórnarfyrirkomulagi var aldrei borið undir Pjetur biskup af stjórnarráðinu, það þóttist víst geta gert slíkar ákvarðanir upp á eigin eindæmi. Því má heldur eigi neita, að í þann mund höfðu margir leikmenn á Íslandi, og ekki fáir prestar, allan hug á að rýra biskupsvaldið einkum hvað snerti brauðaveitingar,[1]) margir prestar voru t. d. óánægðir með hina gömlu hefð, að biskupsskrifarar höfðu forgangsrjett til góðra brauða. Kvartanir um rýrnun biskupsvaldsins komu fyrst í ljós löngu síðar og það hjá sumum þeim, sem höfðu hjálpað til að rýra það. Sumir voru í blöðum háværir um það, að biskupsvaldið væri allt of mikið. Greinarhöfundur einn í Norðanfara[2]) ber jafnvel Pjetri biskup á brýn valdafíkn, segir að hann oti því fram, að hann einn geti dæmt um andlegar þarfir safnaðanna á Íslandi, hann vilji vera ofurlítill, óbrigðull, íslenzkur páfi o. s. frv. Allt þetta sökum þess, að hann í umburðarbrjefi til prófasta skorar á þá að láta innleiða sálmabókina 1871 í söfnuðina og var það þó að eins bein skylda biskups. Illt er að vera svo öllum líki, ekki sízt á Íslandi.

---

1) Sbr. Þjóðólfur VIII, 1856, bls. 40.

2) Norðanfari XII, 1873, bls. 73.

Þegar verið var að undirbúa stofnun landshöfðingjaembættisins, bað þáverandi stiptamtmaður Pjetur biskup að skýra sjer frá, hvernig hann hugsaði sjer, að verksvið og vald biskups ætti að vera eptirleiðis, og svaraði biskup því með eptirfylgjandi brjefi, sem hann löngu síðar ljet prenta í Ísafold. Tillögum hans var þó ekki sinnt og honum gafst aldrei kostur á að hafa frekari afskipti af því máli.

Brjefið hljóðar þannig:

»Mjer þykir það mjög mikill vandi að segja nokkuð ákveðið um embættisstöðu biskupsins eptirleiðis, og einkum um sambandið milli hans og stiptamtmannsins, meðan jeg ekki veit, hvort stiptamtmaðurinn á sem landstjóri að fá stjórnarherravald í þeim málum, sem hafa verið sameiginleg. Jeg skal þó leyfa mjer að gjöra nokkrar athugasemdir um verksvið biskupsins, en þær verða á víð og dreif, og eiga, ef til vill, ekki allar við í hinu fyrirhugaða fyrirkomulagi. 1. Biskupinn heldur því verksviði og embættisvaldi, sem ákveðið er í erindisbrjefi biskupsins frá 1. júlí 1746. 2. Biskupinn gerir með synodus út um öll mál, sem snerta kirkjusiði og tiðagjörð, og sjer um, að þeim ákvörðunum, sem teknar eru, verði framgengt. Hvernig synodus verði breytt og samband hennar við biskup, skal ákveða með konungsúrskurði. 3. Biskupinn er æðsti umsjónarmaður kristilegrar barnauppfræðingar hjer á landi. Hann sendir stjórnarráðinu hinar venjulegu skýrslur eins og að undanförnu. Þó virðist ekki þörf á að senda skýrslur um ástand og fjárhag kirkna. 4. Biskupinn setur verðlagsskrá með amtmanni og þó ömtin verði lögð niður, heldur hann samt því starfi áfram. 5. Veiting brauða fer fram á sama hátt og nú. Eða: biskup mælir fram með einhverjum sækjanda um hin beztu brauð, sem konungur veitir. Meðalbrauð veitir landstjóri með ráði biskups. Hin lakari brauð veitir biskup, en landstjóri samþykkir veitinguna. 6. Synodus útbýtir árgjöldum af brauðum og vöxtum nokkurra sjóða milli uppgjafapresta

og fátækra prestsekkna. Öllum öðrum fjárveitingum úthluta stiptsyfirvöldin eða landstjórinn með aðstoð biskups, án samþykkis stjórnarráðsins. 7. Stiptsyfirvöldin, eða landstjóri og biskup, hafa umsjón kirkjueigna hjer á landi, og eiga að gæta þess, að þeim sje tilhlýðilega viðhaldið. Líka ber þeim að verja rjettindi og embættisvald hinna lægri andlegu stjettar manna. 8. Þau (eða þeir) hafa líka umsjón allra menntastofnana hjer á landi og landsbókasafnsins, samt úthluta ölmusum eptir uppástungum forstöðumanna. 9. Yfir höfuð að tala ættu stipsyfirvöldin að geta lagt fullnaðarúrskurð á öll skólamál hjer á landi. 10. Jeg býst við, að sum kirkjuleg mál verði látin heyra undir konungsúrskurð, t. d. aldursleyfi til að taka prestsvígslu, uppreist fyrir legorðssekan prest eða kandidat, sala kirkjujarða, sameining brauða, niðurlagning kirkna o. s. frv. Um öll slík mál þarf að leita álits biskups, og er vonandi, að tillögur hans verði jafnan teknar til greina«.

Sumir hafa haldið því fram, að Pjetur biskup hefði einmitt við stjórnbreytinguna átt að auka biskupsvaldið og ná í afl og metorð hinna fornu biskupa, en þar hefði verið við ramman reip að draga, þó örlyndari og ákafari biskup en Pjetur hefði setið við stýri og viljað berjast til meiri valda. Stjórn og stiptamtmaður, meiri hluti þings, margir leikmenn og prestar, mundu eflaust hafa orðið móthverfir auknu biskupsvaldi, ekki sízt af því, að jafnaðarhugmyndir íslenzkar þola sjaldan, að innlendur maður sje of hátt yfir aðra settur. Það sjest á mörgu, að Dr. Pjetur hafði á yngri árum mikinn hug á því að efla sjálfstjórn kirkjunnar og útvega henni þannig meiri völd í mannfjelaginu; að því lutu meðal annars tilraunir hans að koma á fjelagsskap meðal presta, sem vjer fyrr höfum getið, en samtaksleysið og deyfðin var svo mikil, að tilraunir Dr. Pjeturs urðu árangurslausar. Þá barðist hann einnig fyrir því, að synodus fengi meiri völd, yrði reglulegt kirkjuþing með nokkrum áhrifum á kirkjulega löggjöf.

En það varð líka til einskis, stjórn og þjóð lögðust á móti og blaðamenn ætluðu að ærast yfir slíku ódæði.

Þegar Dr. Pjetur Pjetursson kom til Reykjavíkur var *prestastefnan* (synodus), sem á fyrri öldum hafði haft töluverða þýðingu, komin á fallandi fót, var að veslast upp. Þrem prestum úr þrem næstu sýslum var gert að skyldu að sækja synodus, þar að auki áttu þrír prestar úr Rangárvalla- og Mýrasýslum að skiptast til að koma á prestafundinn annaðhvert sumar. Á synodus áttu þannig að vera 12 prestar, auk biskups og stiptamtmanns, og störfuðu þeir ekki annað en að telja sundur nokkra styrkpeninga. Það var því hin mesta nauðsyn á, að einhver breyting yrði, og var þá gerð tilraun í þá átt, og mun Dr. Pjetur hafa vakið máls á þessu við stipsyfirvöldin. Á synodus 1848 báru stiptsyfirvöldin það upp, hvort ekki væri nauðsyn á, að endurbæta tilhögun á synodus; var þá nefnd sett í það mál og var Dr. Pjetur Pjetursson einn af nefndarmönnum, en Hannes prófastur Stephensen annar. Aðalkjarninn í nefndarálitinu varð sá, að synodus yrði *kirkjuþing* með að minnsta kosti 20 fulltrúum andlegrar stjettar, sem valdir væri af prestum í öllum prófastsdæmum, en stiptamtmaður, biskup, forstöðumaður prestaskólans og dómkirkjuprestur væri sjálfkjörnir. Störf kirkjuþingsins áttu fyrst og fremst að vera hin sömu eins og að undanförnu,[1]) en svo átti synodus að öðlast það vald (§ 6): »að ekkert kirkjulegt málefni yrði útkljáð á alþingi, fyrr en það áður hefði verið borið undir synodus, og ef ágreiningur yrði milli alþingis og synodi, þá skæri konungur úr, eptir tillögum kirkjustjórnarráðsins«. Nefndarálitið sendi Helgi biskup með umburðarbrjefi til prófasta og ljet prenta það í »Árriti prestaskólans«. Þar er líka lagt til »að kirkjulegri stjórnarhögun sje komið á í hverju prestakalli, sem aptur gæti staðið í sambandi við prestastefnur í hverju prófastsdæmi, þannig að með

1) Sbr. Kirkjurjettur Jóns Pjeturssonar 2. útg. bls. 169—171.

prestum yrðu tilteknir guðrækilegir og heiðarlegir sóknarmenn til að hafa gætur á góðum kirkjusiðum, barnauppfræðingu, uppeldi» o. s. frv. Allt er þetta í nánu samræmi við þær skoðanir, sem Dr. Pjetur hafði látið í ljósi nokkrum árum áður í ritgjörðum þeim, sem hann skrifaði í Árrit presta í Þórnesþingi, svo það eru öll líkindi til að hann hafi átt mikinn þátt í þessum uppástungum. Af þessu sjest, að foringjar prestastjettarinnar ljetu engan veginn hjá líða, að gjöra tilraun til að gæta rjettar síns þegar gjöra átti gagngjörðar breytingar á stjórnarfari landsins, og var Dr. Pjetur þar fremstur í flokki. En stjórn og þjóð tóku ekki vel í þetta mál og margir hneiksluðust sjerstaklega á því, að þeim fannst hjer gjörð tilraun til þess að brjótast undan alveldi alþingis. Þessar tilraunir til frjálsrar kirkjustjórnar köfnuðu því í fæðingunni.[1])

Uppástungur nefndarinnar voru sendar stjórninni, sem ekkert sinnti þeim og svaraði þeim ekki einu sinni. Hin 6. grein í nefndarálitinu um afstöðu þirkjuþingsins til alþingis í kirkjulegum málum vakti, eins og nú gátum vjer, mikla mótspyrnu. Þjóðólfur, sem Sveinbjörn Hallgrímsson þá gaf út, tók mjög illa í þetta mál og í fyrstu með lítilli stillingu; blaðið segir (1. júlí 1850), að það sje auðsjeð að nefndarmenn vilji innleiða klerkavald miðaldanna, lauma því inn smásaman og þá ef til vill líka páfatrú »því það sjá þeir þó líklega, að klerkavaldið getur eigi komist í fullan blóma eða orðið eins og til forna, nema klerkarnir megi setja menn í bann«. Tekur höf. svo djúpt í árina, að hann álítur þjóðinni hættu búna, ef slíkt fær framgang, alþingi verði þýðingarlaust og íslenzku klerkarnir vilji neyða Danakonung

---

1) Um sama leyti gerðu þeir Clausen, Grundtvig og Martensen tilraunir til þess að koma á löggefandi kirkjuþingi í Danmörku, en það lánaðist ekki; grundvallarlögin (§ 80) lofuðu þó, að kirkjan síðar skyldi fá stjórnarskrá, en þetta loforð hefir aldrei verið efnt. Á þingi 1857—58 gjörði Clausen nýja tilraun í sömu átt, en það varð líka árangurslaust.

til að halda einveldi sínu á Íslandi o. s. frv. Þetta eru auðsjáanlega útúrsnúningar og hártoganir. Í greininni er beinst að Dr. Pjetri, sem frumkvöðli þessarar uppástungu um völd kirkjuþingsins.[1]) Síðar ritar annar maður í sama blaði langt mál um þetta efni,[2]) hann er líka algjörlega mótfallinn því, að prestar fái nokkur bein áhrif á kirkjulöggjöfina og allra sízt úrskurðarvald í þeim málum, hyggur hann það mundi spilla öllu stjórnarfari landsins. Niðurstaða umræðnanna verður, að höf. telur uppástunguna um kirkjuþing: »jafn háskalega sem hún er fráleit allri eðlilegri skoðun á þeirri stjórnarbreytingu og stjórnarlögun, sem hjer hlýtur að komast á«; kreddufesta og tortryggni varð til þess, að menn litu óhýrum augum á þetta fyrirhugaða kirkjuþing, sem sannarlega ekki hefði þurft að gjöra landinu mein, eða innleiða fornt kúgunarvald, sem óhugsanlegt er á vorum tímum.

Í Landstíðindunum og í sjerstökum ritlingi varði Pjetur biskup aðgjörðir og uppástungur nefndarinnar. Skýrir Dr. Pjetur þar frá því, hvernig hann hefir hugsað sjer þessa nýju tilhögun á kirkjumálum, og hefir vakað fyrir honum að haga kirkjustjórninni eptir því sniði, sem er í löndum endurbættrar trúar. Hann segir:[3]) »það er alkunnugt að reformeraða kirkjan hefir þjóðveldislögun á stjórn sinni allri, bæði æðri og lægri, allt frá stjórn hvers einstaks safnaðar, sem allir hafa sóknarráð (presbyteria), uppað hinu æðsta kirkjuþingi allrar landskirkjunnar (General synodus). Allir vita nú, sem hafa nokkra þekkingu á sögunni, að hvergi er eðlilegri kirkjustjórnin eða þjóðlegri heldur en í reformertu kirkjunni, þar sem þessi kirkjuþinga stjórn er, og henni er vel fyrir komið, og hvergi er síður hætt við klerkastjórn, eins og nærri má geta, og þó segir höf., jafnt

1) Þjóðólfur II, 1850, bls. 142—143.

2) Þjóðólfur II, bls. 159—160.

3) Svar uppá aðsenda grein í Þjóðólfi. Rvík 1850. 4°.

blindaður af vanþekkingu sem sjálfbyrgingsskap, að tilraun til að koma á kirkjuþingi sje til þess að koma á klerkavaldi miðaldanna eða kirkjulegri harðstjórn«. Í Landstiðindum[1]) sýnir Dr. Pjetur fram á, að það sje alveg að ófyrirsynju og ástæðulaust, að menn eru hræddir við, að synodus fái atkvæðisrjett í kirkjumálum, að svo miklu leyti sem það getur samrýmst við stjórnarbót þá, sem menn vonuðust eptir og skýrir hann það mál rækilega. Margir spyrja, því ekki megi ræða öll kirkjumál á alþingi og ráða þeim þar til lykta. Því svarar Dr. Pjetur: þó andleg og veraldleg mál sjeu ekki gagnstæðs eðlis og þó kirkjan sje í þjóðfjelaginu, þá sje það enganveginn fullnægjandi fyrir kirkjuna að láta ræða kirkjumál eingöngu á alþingi, sem hefir svo mikið að starfa, og auk þess sjeu pólitísk þing ekki þess eðlis, að þau þurfi að skoða slík mál frá kirkjulegu sjónarmiði. Uppástunguna um að konungur ætti að skera úr þegar ágreiningur væri milli synodusar og alþingis skýrir hann svo, að meiningin hafi verið, að konungur legði nýtt frumvarp fyrir alþingi samkvæmt tillögum synodusar ef þær að skoðun hans væru rjettar; höf. segir að hann búist ekki við, að stjórnin í Danmörku, frekar en verkast vill, muni fallast á þessar uppástungur nefndarinnar, einmitt af því þær hafi þjóðstjórnarblæ. Dr. Pjetur endar grein sína svo: »En hvernig svo sem fer um þetta mál, þá verðum vjer þó að telja það mjög áríðandi, ekki einungis fyrir andlegu stjettina, heldur og fyrir þjóðina yfir höfuð, að synodus geti orðið þýðingarmeiri eptirleiðis en að undanförnu, og vjer sjáum engan betri veg til að vekja hjer kirkjulegan fjelagsanda, glæða ást til mennta og vísinda og efla samtök og eindrægni í að starfa að kristilegri uppfræðingu almennings og þannig gjöra andlegu stjettina enn þá virðingarverðari í augum þjóðarinnar. . . . . Vjer teljum því endurbót synodusar eitthvert hið þarf-

1) Landstíðindi II, bls. 101—103.

legasta fyrirtæki, sem um langan tíma hefir verið haft hjer fyrir stafni í kirkjulegum málefnum, og hvort sem því verður mikið eða lítið ágengt í bráð, höldum vjer þó, að hvorki þurfi biskupinn nje nefndin að bera kinnroða fyrir tillögur sínar í því efni«.

Þó nú margir legðust á móti þessum uppástungum um kirkjuþing, þá má þó geta þess, að ýms álit sýslunefnda fyrir Þjóðfundinn eru því meðmælt, að prestastjettin hafi sjerstakt þing til leiðbeiningar í kirkjumálum og úrskurðar í sumum.[1]) Þessi tilraun prestastjettarinnar að fá í hendur nokkurt vald í sjerstökum málum, eins og áður hafði verið, fórst fyrir, og mótspyrnan var svo mikil að það var ekki von, að Dr. Pjetur vildi optar ráðast í tilraunir í þá átt. Synodus hefir síðan að eins verið valdalaus prestafundur, þar sem rædd hafa verið smærri mál og útbýtt styrktarfje til fátækra presta og prestsekkna; þó hefir hann ýmsu góðu til leiðar komið og lifnaði talsvert yfir honum eptir miðja öldina, en þá var þessi stofnun að veslast upp.[2]) Pjetur bisk-

1) Undirbúningsblaðið bls. 10, 38.

2) Um synodus 1856 segir Þjóðólfur (VIII, bls. 133—134): »Það má ekki láta þess ógetið, að þetta mun hafa verið *fyrsta* prestastefnan, er hafði á sjer nokkurnveginn sómasamlegt *ytra snið* síðan Steingrímur biskup fjell frá, að því leyti, að nú sáu menn á ný þess gætt, sem æfinlega var siður við prestastefnurnarnar á hans dögum og Geirs biskups, að allir prestarnir, sem stefnuna sóttu, söfnuðust fyrir messuna, flestallir í hempum og með prestakraga eður spaða, á einn stað, og gengu svo þaðan í embættisskrúðanum til kirkjunnar, allir í einum flokki, en biskup og stiptamtmaður í broddi fylkingar. Þessu hefir nú verið varið á allan annan hátt hingað til síðan 1845; »amanuensis« hefir mátt standa á skæklunum, hvern 11. júlí, kominn að niðurfalli, að hlaupa uppi prestana hjer og hvar um bæinn og upp um kot, eða að smala þeim frá búðarborðunum, þar sem þeir hafa verið að verzla, en þeir hafa þá einatt verið óviðbúnir að bregða við strax, og hafa prestarnir þannig verið að smátinast á harðahlaupum til kirkjunnar, sinn úr hverri áttinni, flestallir hempulausir og sumir ekki náð til stefnunnar fyrr en upp á stól hefir verið komið, og hefir að öllu þessu verið sannarlegt athlægi«.

up getur þess 1884 í grein í Ísafold,[1]) að eptir uppástungu síra Þórarins Böðvarssonar hafi verið sett nefnd, þá fyrir nokkrum árum, til þess ásamt stiptsyfirvöldunum að íhuga, hvernig verksvið og vald synodus yrði aukið. Eptir að nefndin hafði rætt þetta mál á fundum og borið það undir álit flestra prófasta og annara merkisspresta, varð niðurstaðan sú, að meðan synodus hefði ekkert meira fje til umráða nje gæti borið alkirkjuleg mál beinlínis undir konung eða lagt á þau fullnaðarúrskurð, mundi ekki vera hægt að auka vald og verksvið hennar að sinni, og nú virðast lög um hjeraðsfundi og sóknarnefndir, sem gefa þeim kost á að hafa mikil afskipti af kirkjulegum málum, gera þetta síður nauðsynlegt«[2]). Af því, sem hjer hefir verið skráð, er það augljóst að Dr. Pjetur hefir í öndverðu alls ekki legið á liði sínu með að reyna að útvega prestastjettinni og söfnuðunum áhrif á þeirra eigin mál, en tíðarandinn, pólitísk tízka og misskildar frelsiskreddur voru öllum slíkum fyrirtækjum til fyrirstöðu. Fulla tilfinningu hafði Pjetur biskup fyrir því, að nærri honum var gengið með völdin, en hann skoðaði það sem óviðráðanleg örlög, sem eigi væri til neins að fást um. Hann áleit það happadrjúgast til frambúðar fyrir hina íslenzku kirkju að losað væri um hin verzlegu bönd á henni, biskupsvaldið aukið og um leið sjálfstjórn safnaða undir úrskurðarvaldi biskups og kirkjuþings, en sem von var treysti hann sjer ekki á gamalsaldri til að hefja nýja baráttu gegn hinum ráðandi stjórnarkreddum og var heldur ekki af náttúru neinn bardagamaður, það átti

1) Ísafold XI, bls. 115.

2) Það sýndi sig á þessum nefndarfundi að skoðanir manna voru mjög sundurleitar, sumir vildu, að synodus fengi löggjafarvald í kirkjulegum málum, aðrir fóru því á flot að aftaka synodus með öllu, sumir vildu láta alla prófasta vera skylduga að koma á synodus, vildu sumir, að veitt væri fje til ferða þeirra úr landssjóði, en aðrir að þeir færu kauplaust, sumir vildu láta hjeraðsfundi kjósa fulltrúa á synodus o. s. frv.

bezt við hann að fást við það, sem unnist gat með lipurð og lægni.

Um miðja 19. öld var *drykkjuskapur* því miður mjög algengur á Íslandi, en síðan Templarahreyfingin óx og þróaðist hefir afarmikil breyting orðið til batnaðar í því efni. Hugsunarhátturinn er nú orðinn allt annar og yngri menn geta varla gert sjer í hugarlund, hvernig ástandið var fyrrum. Þó nú Íslendingar í þá daga að öllum líkindum hafi ekki drukkið meira en sumar aðrar þjóðir, þá bar þó meira á því. Til sveita var drykkjuskapurinn aldrei mikill af því menn náðu ekki í ölföng, en þess meir var drukkið í kaupstaðarferðum og það þótti lítil vansæmd í því að láta sjá sig drukkinn á mannamótum, í veizlum, á fundum, við rjettir og annarsstaðar þar sem mannkvæmt var. Ungir menn töldu það allopt í sinn hóp karlmennskumerki að drekka fast og þola mikið. Á drykkjuskapnum bar þá enn meira af því menn drukku nærri eingöngu brennivín og urðu því fljótt drukknir og illa drukknir. Meðal útlendinga komst þá mikið drykkjuskaparorð á Íslendinga af því helzt var drukkið í kauptið, verstöðum og strandferðum, eptir að þær komust á; bar þá stundum við, að þingmenn og embættismenn voru blekaðir á strandskipunum og jók það eigi lítið orðróminn. Brennivín var þá ótollað og ódýrt og þegar vel fiskaðist og fiskurinn var í háum pris var drukkið ómælt í verstöðum. Það er í frásögur fært, að útvegsbóndi einn sýndi mikilmennsku sína á þann hátt, að hann hafði brennivínstunnur í salthúsi og komu þær upp úr saltinu því meir sem af því eyddist og var þá drukkið því fastara sem meir fiskaðist; annar hafði brennivín á netaduflum, svo hásetar gætu fengið sjer sopa í róðrunum o. s. frv. Á árunum 1860—70 var víðast fyrst boðið brennivínsstaup þegar menn komu á bæi og fylgdu því optast sykurmolar á undirskál. Í þá daga fluttist mikið brennivín til landsins sjerstaklega í fiskihafnir; þess er t. d. getið, að 1863 voru frá 12. apríl til hvítasunnu í

einni verzlun — Knútzons-verzlun í Keflavík — 30 tunnur af brennivíni settar á stokka.[1]) Árið 1862 drukku Íslendingar nærri 7 potta af brennivíni á mann, 1863 nærri 8 potta, 1865 9 potta og á árunum 1866—70 að meðaltali 6,1 pott á nef hvert,[2]) en nú koma 3 pottar á mann (1904) eða þó líklega töluvert minna, því nú drekka útlendingar allmikið af því brennivíni, sem til landsins flyzt. Þegar 6—7 pottar af brennivíni hafa á árunum 1860—70 verið drukknir fyrir hverja hræðu á landinu, má hugsa sjer hver óhemja hefir verið drukkin í kaupstöðum og fiskiverum, því óhætt mun að segja, að $^3/_4$ hlutar alls þessa brennivíns eða meira hefir aldrei komið í sveit.

Þegar tíðarandinn er slíkur og hugsunarhátturinn gallaður, er varla að búast við að nein stjett fullkomlega fari varhluta af þjóðarósómanum og á þeim tímum voru því miður alt of margir prestar hneigðir til ofdrykku; prestar eru breyzkir sem aðrir menn og háðir lögmáli tíðarandans eins og aðrir. Þó hin íslenzka prestastjett í heild sinni væri þá eins heiðarleg og þörf landinu eins og hún jafnan hefir verið, þá voru hinir einstöku svörtu sauðir henni til hneisu. Þó var drykkjuskapur presta á 19. öld aldrei neitt svipaður því, sem var á 17. öld; allir þekkja breyskleika Jóns biskups Vídalíns í því efni, enda var drykkjuskapur í þá daga ekki talinn neinn ósómi, það var eins og kunnugt er sagt um föður Brynjólfs biskups, síra Svein prófast Símonarson í Holti í Önundarfirði, hinn mesta sómamann, að hann »yfirgekk flesta menn í hegðan og skikkan, svo vel drukkinn sem ódrukkinn«.[3])

Pjetur biskup átti í biskupstíð sinni, bæði leynt og ljóst, í töluverðu stríði út úr drykkjuskapar-breyskleika

---

1) Þjóðólfur XVI, bls. 105.

2) Verzlunarskýrslur 1904, bls. 12. Sbr. Skýrslur um landshagi hinar eldri 3. og 4. bindi.

3) Annálar Björns á Skarðsá bls. 289.

nokkurra presta og gerði sjer mikið far um að bæta og áminna,[1]) en þó voru ýmsir, sem þótti hann vera of mildur í þessu efni, en engu minni kvartanir heyrðust í tíð Helga biskups og var honum líka borið á brýn, að hann sýndi eigi nóga rögg í því að uppræta þetta illgresi. En það er hægra um að tala en í að komast, grundvöllurinn, hugsunarháttur almennings, verður að breytast áður en slíkir hlutir verða fullkomlega lagfærðir; þó áminnt sje og hegnt sækir fljótt í sama horfið, þegar íhaldið vantar hjá alþýðunni.

Árið 1854 er talað um það í Þjóðólfi, að nauðsyn sje á því, að synodus hafi ásamt biskupi »eptirlit með og uppljóstri því ískyggilega og guðsorða þjenurum öldungis ósamboðna ölteitis-framferði, sem nú þykir stundum nærri því sómi að, en alls ekki verulegur vansi«. Segir þar að eptirlitið sje ekkert, en hjá almenningi miskun mikil og umburðarlyndi, sem segir: »ójæja! en hann var ekki algáðar blessaður sauðurinn«.[2]) Árið 1856 stendur í sama blaði þessi einkennilega auglýsing og »uppástunga til hinna hávelbornu stiptsyfirvalda« frá nokkrum Reykvíkingum: »Af því menn vita ekki betur en að lagaákvarðanirnar um drykkjuskap presta, og hvað við honum liggi, sjeu enn í fullu gildi og af því menn vona, að framför í menntun og siðgæðum hafi og það í för með sjer, að ekki eigi nje megi taka linar nú á drykkjuskap og drabbi presta heldur en löggjöfinni þótti nauðsynlegt fyrir 100—200 árum liðnum, en mönnum sýnist þó á hinn bóginn, að drykkjuskapur og drabb fari ekki síður í vöxt meðal prestanna, og máske einkum meðal sumra hinna yngri þeirra, heldur en meðal sjálfs almúgans, hvar til þó eru, því miður of

---

1) Fjallkonan (VIII, 1891 bls. 78) segir í æfiágripi Pjeturs biskups: »hann vandaði jafnan hógværlega um óreglu og ósiðsemi alla, er hann varð var við, og varð honum með því móti meira ágengt en þeim verður, sem beita hörku og blindum ákafa, enda tók líferni presta miklum bótum í hans biskupstíð«.

2) Þjóðólfur VII, bls. 2.

augljós dæmi, — og af því prestar sjást of opt svona ástigs hjer á strætunum, — og sama frjettist úr fleiri kaupstöðum, — einungis í viðskiptasnuddi sínu búð úr búð, — því enginn tekur til, þó þeir eða aðrir verði hýrir eða góðglaðir í veizlum eða samsætum; — sem sagt, af því prestar, og það ekki hvað sízt sumir hinir yngri þeirra, þykja sjást bæði hjer og í öðrum kaupstöðum landsins helzt til of opt töluvert blekaðir sjer og stjett sinni til óvirðu bæði í augum útlendra og innlendra, þá leyfum vjer oss að stinga upp á því við hin hávelbornu stiptsyfirvöld, að þau feli bæði lögreglustjóranum hjer og þeim í hinum kaupstöðunum, að hafa vakandi auga á, þegar drukkinn prestur sjest á strætum, og að gefa það tafarlaust stiptsyfirvöldunum til kynna og nafngreina prestinn, en þau »nóteri« hann síðan hjá sjer«.[1])

Árið 1860 kærðu sóknarmenn síra Jón Benediktsson að Setbergi út af því, að hann hefði »einu sinni eða tvisvar verið ógáður til lýta eða hneykslis í embættisverkum og sýnt af sjer hroðalega eða óprestlega hegðan og orðbragð utan embættis optar en í eitt skipti«. Helgi biskup hlutaðist þá tafarlaust til að rjettarprófun var haldin og þingsvitni og sannaðist þá, að klögunin var í öllu verulegu á rökum byggð. Stiptsyfirvöldin úrskurðuðu þá, að málshöfðun skyldi niðurfalla, ef prestur borgaði kostnað við rjettarprófin og 2 (tvo) rd. í prestsekknasjóðinn.[2]) Þegar hinn enski mannvinur Isaac Sharp ferðaðist hjer á landi 1863 ljet hann prenta umburðarbrjef til Íslendinga, einkum móti óhreinlæti og drykkjuskap, þar segir meðal annars: »Það hefir vakið mjer djúpa sorg, að sjá sálir og líkama yðar lagða í hinn auðvirðilega læðing ofdrykkjunnar; en sú hefir þó verið sárust harmasjón mín, að

1) Þjóðólfur VIII, 1856 bls. 72. Orðalag Jóns Guðmundssonar ritstjóra er auðþekkt á þessari auglýsingu.

2) Þjóðólfur XIII, bls. 13—14.

sjá *presta* safnaðanna fallna flata fyrir freistingu þessari«.[1]) Mörg fleiri dæmi um ástand og hugsunarhátt mætti til telja á dögum Helga biskups, ef þörf gerðist.

Ástandið breyttist náttúrlega ekki mjög fljótt fyrst framan af biskupstíð Dr. Pjeturs Pjeturssonar, hugsunarháttur almennings var nokkuð svipaður fram yfir 1880. Þó komu við og við kærur um nokkra presta, en mjög voru þær flestar örðugar viðfangs fyrir yfirvöldin, því þegar einhverjir bændur höfðu kært og farið var að rannsaka málin, mæltu jafnan enn fleiri sóknarbænda á móti kærunum eða kærendur sjálfir gengu frá undirskriptum sínum og átu allt ofan í sig aptur. Þetta hið sama kom þráfaldlega fyrir á visitazíum Pjeturs biskups, að menn vildu ekki standa við kærur sínar þegar á átti að herða og stundum voru þær sprottnar af persónulegum óvildarhug einstakra manna, eða sveitaþrasi, sem í sjálfu sjer var óviðkomandi málefninu. Það var því nærri ómögulegt að festa hönd á drykkjuafbrotum presta eða öðrum afglöpum, því þegar kom til rannsókna þóttist enginn hafa sjeð eða heyrt neitt, sem var aðfinnsluvert. Til þessa mætti færa ýms dæmi ef þyrfti; jeg skal að eins minna á kærurnar gegn síra Einari Vernharðssyni[2]) í Grunnavík 1868 og gegn síra Þorvarði Jónssyni[3]) á Kirkjubæjarklaustri 1869, sem alveg fjellu niður þegar á átti að herða. Svipuð afdrif hafði klögun úr Lóni 1878 gegn síra Páli Pálssyni; þegar til kom sýndi það sig að sóknarmenn voru ágætlega ánægðir með þenna prest.[4]) Þegar síðar

1) Þjóðólfur XV, bls. 189.

2) Þjóðólfur XX, bls. 147; XXI, bls. 91.

3) Þjóðólfur XXII, bls. 23, 32, 41.

4) Um síra Pál Pálsson gengu sem kunnugt er margar sögur sannar og ósannar, en hann var jafnan svo vinsæll hjá sóknarmönnum sínum, enda mjög gáfaður maður og ísmeygilegur, að allar kærur gegn honum fjellu niður. Þegar hann kom að Stafafelli var eitthvert þras milli hans og uppgjafaprestsins, síra Bjarna Sveinssonar, og nokkrir sóknarmanna sendu klögun yfir síra Páli til stiptsyfirvalda Út úr því ritaði síra

var leitað vitnisburðar um drykkjuskap síra Sigurgeirs á Grund og um aðra háttsemi hans, voru sumir alþýðumenn mjög óánægðir með þær rannsóknir og kom það fram í blöðunum.[1]) Í »Skuld« var 1882 getið um hneykslanlegt drykkjuskapar-athæfi prests eins; Pjetur biskup ljet þá rannsaka málið og fannst þá, að sagan var að miklu leyti á rökum byggð; prestur fjekk þá alvarlega áminningu, en fjekk að halda embætti fyrir beiðni safnaðarins, því hann var mjög vinsæll þó breyzkur væri.[2]) Annars var gjört miklu meira úr drykkjuskapar-breyskleika presta á embættisárum Pjeturs biskups en ástæða var til; það sanna var, að óreglupreslum fór í hans tíð sífellt fækkandi eptir því sem aldarandinn breyttist. Í þessu efni er ekkert að marka öfgar þær, sem Vesturheims prestar breiddu út um almennan drykkjuskap hinnar íslenzku prestastjettar. Þó stöku prestar væri óreglumenn, þá var drykkjuskapur presta yfirleitt miklu minni en nokkurntíma áður. Síra Þorkell Bjarnason segir 1890.[3]) »Jeg held, að hver maður, sem til þekkti fyrir 30—40 árum, og satt vill segja, hljóti að játa, að drykkjuskapur sje miklu minni meðal presta

---

Jón Bjarnason (Sveinssonar) svæsnar og hranalegar greinar í Norðanfara (XVII, 1878, bls. 45—46 og XVIII, 1879, bls. 19) um síra Pál, um íslenzka presta og íslenzka kirkjustjórn, án þess þó að gera nokkra tilraun til þess að sanna áburð sinn. Pjetur biskup svaraði stillilega í Norðanfara (XVII, bls. 57—58) og sjálfur svaraði síra Páll í sama blaði (XVIII, 1879, bls. 71—72) og getur þess þar, að sóknarmenn hafi ritað klögunina, áður en hann kom í sóknina, en eptir að hann kom þangað voru sóknarmenn honum »góðir, alúðlegir og greiðviknir«, ljetu enga óánægju í ljósi og »breyttu þannig við mig« segir síra Páll »í orði og verki, að þeim er til sóma og mjer til sannrar gleði og ánægju«. Þess má geta, að þeir Jón Bjarnason og Páll Pálsson fengu jafna einkunn, hina hæstu, við embættispróf á prestaskólanum, 52 stig, vantaði eitt stig í ágætiseinkunn (Sbr. Verði ljós II, bls. 157).

1) Norðanfari XIX, 1880, bls. 49—50.

2) Skuld V. árg., bls. 106, 124.

3) Fjallkonan VII, 1890, bls. 129. Sbr. Ísafold XVIII, bls. 266 og XIX, bls. 110.

nú en þá. . . . . . Drykkjuskapurinn er alstaðar að minnka á landinu meðal æðri og lægri, og vonandi, að hann hverfi, svo til vansa sje meðal lærðra manna áður mjög langt líður. Það er ljótt af prestum að drekka, en það er líka ljótt að úthrópa þá stjett eina fyrir það, sem hún er ekki sekari af en aðrar stjettir, eins og hún ein hefði þann ljóta löst. Jeg er viss um, og gæti nafngreint það í þeim sýslnm, sem jeg þekkti til í uppvextinum, að ofdrykkjuprestar voru stórum fleiri á landi hjer þegar Pjetur tók biskupsdóm, en þegar hann ljet af honum. Hvernig átti hann og að komast hjá að vígja þá, sem höfðu lögskipaða hæfilegleika? Var víst að sannaður yrði orðasveimur um drykkjuskap, þó verið hefði, en söfnuðir víða prestlausir, sem heimtuðu presta«.

Á árunum 1860—70 var drykkjuskaparóregla eins og kunnugt er enn þá allmikil í lærða skólanum, og á hinum æðri skólum í Reykjavík, og ljet Dr. Pjetur ekki hjáliða að áminna lærisveina sína um reglusemi og góða siðu og eins prestana eptir að hann var orðinn biskup. Einn af lærisveinum hans, síra Oddur Gíslason, gaf biskupi eptirfylgjandi vitnisburð í ræðu, er hann flutti við gröf hans: »Hann vildi ekki brjóta hinn brákaða reyr, ekki slökkva hinn lítt logandi hörkveyk; hann fylgdi því, að guð vill ekki syndugs manns dauða, heldur að hann snúi sjer og lifi. Eitur tímans, víndrykkjan, sem var á háu stigi á þjónustuárum hans sem biskups, var honum viðbjóður, og hann neytti allra krapta andans og kærleikans til að leiða hina brotlegu og breysku presta á rjettan veg, bæði með föðurlegum áminningum og alvarlegu aðhaldi, með því að sýna þeim fram á óhæfilegleik þeirra til að þjóna drottni. Með kærleika, ljúfmennsku og kristilegri alvöru frelsaði hann marga af hinum vonda vegi, og tel jeg mig einn meðal þeirra, sem hann átti mikinn þátt í að snúa frá ofdrykkjunni og leiða til Jesú — guð almáttugur blessi hann fyrir það — því sá, sem snýr syndaranum frá

villu síns vegar, frelsar sál frá dauða og hylur fjölda synda. Jeg er þess lifandi vitni og jeg veit, að þeir eru fleiri lífs á landi voru, sem hann sama sýndi — allt í þeirri von, að heilagur andi mundi á sínum tíma verka það, sem til ávaxtarins útheimtist, sá sannleiksandi, sem á að leiða alla Jesú lærisveina í allan sannleika«.[1])

Eptir að Pjetur biskup var dáinn hefir einn rithöfundur borið honum á brýn, að hann hafi »hleypt inn á prestaskólann alþekktum óreglustúdentum, sem jafnvel höfðu orðið að yfirgefa aðrar menntastofnanir vegna svalls og drykkjuskapar og það enda þvert ofan í hörðustu mótmæli bæði forstöðumanns og kennara skólans«.[2]) Þetta hlýtur að vera ósatt, enda reynir höf. ekki hið minnsta að rökstyðja þenna áburð og mótmælir hvað eptir annað í sömu greininni sjálfum sjer, því hann tekur það opt fram, að Dr. Pjetur hafi látið sjer mjög annt um hag og heiður prestaskólans og að hann hafi verið hinn fastasti fyrir og ógjarnan látið undan í neinu því, sem hann hugði mundi rýra álit og sóma skólans.[3]) Það er svo fjarri öllu eðli Pjeturs biskups sem hugsast getur, að hann hafi í þessu efni metið einskis »hin hörðustu mótmæli bæði forstöðumanns og kennara skólans«. Dr. Pjetur bar svo mikla virðingu fyrir síra Helga og var svo mikill vinur Sigurðar Melsted, að það er næsta ótrúlegt, að hann hefði ekki farið að orðum þeirra. Pjetur biskup tók til greina hverja klögun, sem var á rökum byggð, en yfirvald í hans stöðu gat eðlilega ekki hlaupið eptir söguburði og bæjaþvaðri. Hafi óreglumenn slæðst inn á prestaskólann eptir að Dr. Pjetur var orðinn biskup, þá er það miklu fremur ódugnaði eða meinleysi forstöðumannanna að kenna en honum. En þeim til afsökunar verður hver

---

1) Ræður fluttar við jarðarför Pjeturs Pjeturssonar biskups. Reykjavík 1891, bls. 32.

2) Verði ljós II, 1897, bls. 158.

3) S. st. bls. 157.

nútíðarmaður að hafa það hugfast, að tíðarandinn var þá, eins og vjer fyrr höfum lýst, allt annar en nú, og minnast þess, að sum ár mætti segja, að helmingur stúdenta úr lærða skólanum eða meir, væru óreglumenn, eptir þeim mælikvarða, sem nú er brúkaður.

Pjetur biskup lagði mikinn áhuga á að efla sjóði þá, sem gátu orðið kirkju og kennidómi til styrktar og nota; stýrði hann þeim með hinni mestu hagsýni, svo þeir jukust mjög undir stjórn hans. Vjer höfum áður getið þess, að prestaskólinn átti honum tvo sjóði að þakka, en eptir að Dr. Pjetur varð biskup ljet hann sjer einkum annt um *prestsekknasjóðinn*, svo hann ferfaldaðist á embættisárum hans og hafði þó liðsinnt fjölda mörgum fátækum ekkjum. Upphaf og stofnun þessa sjóðs er einkennileg og eptirtektaverð. Það var umkomulaus stúlka af bændastjett, sem lagði grundvöll prestsekknasjóðsins eða rjettara sagt kom því til leiðar að hann var stofnaður. Stúlka þessi hjet *Ingveldur Guðmundsdóttir;* hún hafði verið vinnukona á Bessastöðum hjá Þorgrími gullsmið Tómássyni og síðan hjá dætrum hans í Holti undir Eyjafjöllum og í Odda; hún gaf með erfðaskrá 26. apríl 1856 aleigu sína 200 rd., sem hún hafði sparað saman af kaupi sínu, »til sjóðs sem ætlaður væri fátækum prestsekkjum til aðstoðar«, og var þess óskað í stofnunarbrjefinu, að biskup landsins vildi hafa umsjón með sjóðnum, að hann væri óhultur og ávaxtaðist.[1]) Fje þetta varð þó prestsekkjunum aldrei að notum eins og til var ætlast, því gjöfinni varð að skila aptur samkvæmt dómi, eptir margra ára málarekstur, vegna formgalla á testamentinu.[2]) Helgi Thordersen biskup las upp gjafabrjef Ingveldar á synodus 1857, og »hreyfði því að nauðsyn bæri til, að stofna sjóð fyrir fátækar prestsekkjur hjer á landi; en til þess þótti nú vart vera hentugur tími«.[3]) Menn voru þá

1) Þjóðólfur IX, 1857, bls. 89.
2) Ísafold XVI, 1889, bls. 50.
3) Þjóðólfur X, bls. 30.

nefnilega áhyggjufullir út af fjárkláðanum. Um haustið ritaði þó Helgi biskup (í september 1857) prestum og próföstum umburðarbrjef og hvatti til samskota, að styrkja þetta nauðsynlega fyrirtæki. Gengu samskotin tregt í fyrstu, þó safnaðist nokkuð í Reykjavík sjerstaklega fyrir tilstilli Jóns Guðmundssonar ritstjóra og svo var ágóðanum af gleðileikjum, sem haldnir voru í Reykjavík 1859 og 1860 skipt að jöfnu milli bræðrasjóðs, prestaskólasjóðs og prestsekknasjóðs. Svo fóru nokkrir prestar að greiða árleg tillög og safna í sóknum sínum, ekki sízt í Múlasýslum fyrir hvatir síra Ólafs Indriðasonar á Kolfreyjustað, sem hvatti menn í kvæði til að gefa.[1]) Árið 1861 var sjóðurinn orðinn 1400 rd. og 1866 þegar Pjetur biskup tók við 2429 rd. Það leit þó út fyrir, að þess mundi verða langt að bíða, að prestsekkjurnar gæti farið að njóta góðs af vöxtum sjóðsins, en þá gengust dætur Pjeturs biskups fyrir því með aðstoð 10 annara kvenna í Reykjavík sumarið 1869 að haldin var tombóla og bazar til ágóða fyrir prestsekknasjóðinn,[2]) og bárust bazarnum miklar gjafir frá Íslandi, Danmörku og Englandi. Ágóðinn varð á árinu 1869 1393 rd. 48 sk. og síðar bættust við fyrir selda muni 2—300 rd. Prestsekknasjóðurinn komst við árslok 1869 upp í 4364 rd. 48 sk. og var eptir það á næsta synodus (1870) byrjað að úthýta fje af vöxtunum til fátækra prestsekkna. Þau hjón Eiríkur Magnússon og kona hans í Cambridge studdu sjóðinn mjög vel á þessum árum, bæði með því að safna munum til bazarsins og svo gaf frú Sigríður hókina »Blómsturkarfan«, sem seld var til ágóða fyrir sjóðinn, og komu inn fyrir hana yfir 500 kr. Auk þeirra, sem taldir hafa verið, voru og

1) Þjóðólfur XIII, bls. 15. Jón Guðmundsson gaf hina fyrstu 5 rd. í prestsekknasjóðinn og styrkti hann á margan hátt, auglýsti ókeypis o. s. frv.

2) Auglýsing um bazarinn í Þjóðólfi XXI. árg. bls. 67—68. S. st. bls. 141 er prentað kvæði eptir M. Hákonarson um bazarinn.

góðir styrktarmenn sjóðsins síra Halldór Björnsson á Sauðanesi, síra Jón Ingjaldsson á Húsavík og Skúli læknir Thorarensen.[1]) Á árunum 1866 til 1876 gafst sjóðnum allmikið fje, þá lögðu og margir prestar og nokkrir leikmenn sjóðnum árstillög og óx hann þá drjúgum, en síðan hættu menn að gefa og tillögin gengu mjög til þurðar, svo að 1888 var það að eins einn prestur á öllu landinu (síra Daníel á Hólmum), sem greiddi sjóðnum árstillag. Þegar prestsekknasjóðurinn komst undir umsjón Pjeturs biskups var upphæð sjóðsins 4858 kr., sem fyrr var getið, en þegar biskup skilaði honum af sjer 1889 var eign sjóðsins orðin 18553 kr., og hafði þó í hans tíð verið veittur 5500 kr. styrkur fátækum ekkjum af sjóðnum. Á þeim 23 árum, sem Pjetur biskup stýrði sjóðnum, jókst hann um 13695 kr. Í árslok 1905 var sjóðurinn orðinn 25155 kr., svo hann hefir tiltölulega lítið aukist síðan Pjetur biskup fjell frá. Prestsekknasjóðinn munaði drjúgum um tillög Pjeturs biskups sjálfs, hann galt sjóðnum stöðugt 20 kr. árstillag og styrkti sjóðinn við og við á annan hátt, alls mun hann hafa gefið sjóðnum 1500—2000 kr. Sjóðurinn fjekk ágóða af smásögum, er biskupinn gaf út, og af nýjum kristilegum smáritum og af hugvekjum presta. Ágóðann af hinu seinasta riti, sem fjell í prestsekknasjóðinn, má telja gjöf Pjeturs biskups. Út úr hugvekjum þessum spannst töluvert þras. Prentunarkostnaðurinn á svo þykkri bók var eðlilega töluverður, svo Pjetur biskup sótti um og fjekk 600 kr. styrk af fje því, er landshöfðingi hafði til umráða til að styrkja bókmenntir. Þetta var nú ekki eins hyggilega ráðið af Pjetri biskupi eins og annars var vani hans, því úr því bókin kom út á tilkostnað hans, þó væntanlegur ágóði ætti að ganga til prestsekknasjóðsins, þá mátti búast við að það yrði matur fyrir blöðin, enda varð svo, að út úr því spannst

1) Englendingurinn Watts, sem fór yfir Vatnajökul, gaf 1874 sjóðnum 90 krónur.

töluverð blaðadeila. Svo fór að hugvekjurnar, þrátt fyrir styrkinn, borguðu ekki kostnaðinn, en af því Pjetur biskup hafði ánafnað prestsekknasjóðnum ágóðann af bókinni, þá lagði hann samt í því skyni 300 kr. úr eigin vasa í sjóðinn og bar auk þess skaðann af útgáfunni. Eitt sinn missti prestsekknasjóðurinn, fyrir svik einstaks manns, veðskuld að upphæð 216 kr. Það borgaði Dr. Pjetur sjóðnum úr sínum eigin vasa, þó hann hefði enga skyldu á því.)[1] Af því, sem hjer hefir verið skráð, sjest, að vöxtur og viðgangur prestsekknasjóðsins var að mjög miklu leyti Pjetri biskupi að þakka. Eitt af hinum seinustu biskupsverkum hans var að senda út umburðarbrjef (18. febrúar 1889) til allra prófasta að styrkja sjóðinn.[2])

Pjetur biskup ljet sjer mjög annt um að útbreiða *heilaga ritningu* meðal alþýðu á Íslandi, og varð honum eflaust meira ágengt í því efni en nokkrum íslenzkum biskup öðrum síðan Guðbrandur biskup leið. Árið 1854 reit Dr. Pjetur Pjetursson sögu hins *íslenzka biblíufjelags,*[3]) og getum vjer vísað til þeirrar skýrslu þeim, er nánar vilja kynnast aðgjörðum fjelagsins. Vjer skulum að eins drepa á fáein atriði. Fjelagið var stofnað 1815 fyrir tilstilli E. Hendersons Englendings, sem var í þjónustu hins brezka biblíufjelags og þá ferðaðist á Íslandi,[4]) hann var einnig frumkvöðull að stofnun hins íslenzka evangeliska smábókafjelags. Á prestasamkomu 10. júlí 1815 hjelt síra Árni Helgason ræðu í kirkjunni í Reykjavík og gerði sjer að aðalumtalsefni nauðsyn og

---

1) Ísafold XVI, bls. 46—47, 49—50, 97, 105—106.

2) Prentað í Ísafold XVI, bls. 106.

3) *P. Pjetursson:* Skýrsla um gjörðir og fjárhag hins íslenzka biblíufjelags. Reykjavík 1854, 39 bls. 8vo (á íslenzku og dönsku). Sunnanpóstur II, bls. 153—154. Þjóðólfur VI, bls. 223—25, 229—30, 231—33. Þar er átalið afskiptaleysi Helga biskups af fjelaginu og skýrsluleysi og aðgjörðaleysi þess hin seinni ár. Eptir það voru fjelagsreikningarnir árlega prentaðir í Þjóðólfi.

4) Frá stofnun fjelagsins er ítarlega sagt í bók *E. Henderson's,* Iceland. Edinburgh 1818, II, bls. 170—178.

nytsemi bibliufjelaga, benti sjerstaklega á aðgjörðir hins enska bibliufjelags og hinn mikla árangur af starfi þess og hvatti presta til þess að taka höndum saman til að stofna islenzkt bibliufjelag. Höfðu nokkrir embættismenn sama dag fund með sjer, stofnuðu fjelagið og ljetu ganga út áskorun til samskota, en árið eptir voru lög fjelagsins samin. Árið 1817 höfðu fjelaginu gefist á Íslandi 2340 kr., en mest dró um gjöf hins brezka bibliufjelags sem þegar í upphafi gaf 4800 kr. Um 1825 var sjóður fjelagsins orðinn nálega 10,000 krónur, en þá misstist sjóðurinn nokkru síðar nærri allur við það að fjehirðir fjelagsins Sigurður landfógeti Thorgrímsen varð gjaldþrota og nokkuð misstist líka í búi Geirs biskups Vídalíns, sem líka var þrotabú. Smátt og smátt fór þó fjelagið að safna í nýjan sjóð af tillögum presta og annara og svo gaf konungur árlega 60 rd. Á seinni árum Steingríms biskups og fyrri árum Helga biskups var mikil deyfð komin í fjelagið; þá voru flestir fjelagsmenn dánir eða gengnir úr, einir 5 voru eptir »og kom þeim saman um að gjalda eigi tillög til fjelagsins fyrst um sinn«. Engir fjelagsfundir voru haldnir 1845, 1847—1851, en af því fjehirðir (Sveinbjörn Egilsson) dó 17. ágúst 1852 varð Helgi biskup að skjóta á fundi 4. október 1852; þá voru tveir nýir fjelagar teknir inn, sem »orðulimir« eins og þá var kallað, það voru þeir Þórður Sveinbjörnsson háyfirdómari og Pjetur Pjetursson prófessor, var hinn fyrri kosinn fjehirðir, hinn síðari skrifari, og höfðu þeir eptir þetta alla framkvæmd á hendi. Þórður Sveinbjörnsson dó 1856 og þá tók Jón Pjetursson yfirdómari við fjehirðisstörfum. Nú fór aptur að færast líf í fjelagið og efnahagur þess að batna og mun það ekki sízt hafa verið Dr. Pjetri að þakka. Árið 1852 var sjóður fjelagsins 7602 kr. og 1854 8210 kr. Þá fór fjelagið að gefa út biblíu þá, sem kom út í Reykjavík 1859, og hafði við það mikinn kostnað, svo sjóðurinn minnkaði aptur, þó honum bærust nokkrar gjafir. Framkvæmdir fjelagsins í heild sinni voru eptir

kringumstæðum alls ekki svo litlar, færustu guðfræðingar og málfræðingar Íslands endurskoðuðu þýðingu mestallrar bibliunnar, Viðeyjar-útgáfan 1841 var prentuð með styrk fjelagsins, Nýja Testamentið, Bibliukjarni, Herslebs bibliusögur o. fl. Frá störfum fjelagsins og efnahag á árunum 1815—1854 er ítarlega skýrt í skýrslu Dr. Pjeturs Pjeturssonar. Þegar Dr. Pjetur varð biskup 1866 átti fjelagið í sjóði 5795 kr., en svo urðu aptur útgjöldin minni, er enska bibliufjelagið hljóp undir bagga og tók að sjer útgáfu ritningarinnar, vextir lögðust þá við höfuðstól, svo sjóður fjelagsins var orðinn þegar Pjetur biskup fór frá yfir 18000 krónur.

Árið 1861 veitti stjórnin hinu íslenzka biblíufjelagi 200 rd. styrk í eitt skipti til þess að fjelagið gæti gengist fyrir að laga og endurbæta hina íslenzku útleggingu á Nýja Nestamentinu, og á fundi 13. apríl 1861 var þeim Dr. Pjetri Pjeturssyni og Sigurði Melsted falið á hendur að framkvæma þetta verk.[1]) Sama sumar kom Englendingurinn *Isaac Sharp* til Íslands og gerði hann fyrir hönd hins brezka bibliufjelags tilboð hinu íslenzka bibliufjelagi að það fengi styrk til að gefa út Nýja Testamentið, svo hægt væri að selja það innbundið með vægu verði og var því boði tekið með þökkum. Hinn 15. júlí s. á. sendi Biblíufjelagið út umburðarbrjef til allra prófasta um að þeir frá prestum útveguðu áreiðanlegar skýrslur um, hve margar Biblíur og Nýja Testamenti væri til í sóknum þeirra og hve mörg heimili enn þá vanti annaðhvort eða hvorutveggja og hve mörg eintök Nýja Testamentisins muni þurfa í hvert prófastsdæmi ef þau bundin í skinnbandi fengjust fyrir 64 sk. hvert. Þeir Dr. Pjetur og Sigurður Melsted sátu þessi ár stöðugt við endurskoðun Nýja Testamentisins hvern virkan dag heima hjá prófessor Pjetri frá kl. 4—7 e. h. og endurskoðuðu síðan dálítið af Gamla Testamentinu, Davíðssálma og fáeina af spámönnunum; tími

1) Íslendingur II, bls. 43—44.

var eigi til að gjöra meira. Það varð úr að Biblíufjelagið enska tók algjörlega að sjer að kosta útgáfu Nýja Testamentisins og 23. júnímán. 1862 sigldi kand. *Eiríkur Magnússon* til London til þess að sjá um útgáfuna og lesa prófarkir. Nýja Testamentið með Davíðssálmum kom út í Oxford 1863, og 12. júlí s. á. sendir stjórn hins íslenzka Biblíufjelags umburðarbrjef um það til allra prófasta; fjelagið sendi líka 21. sept. 1863 þakkarávarp til hins brezka Biblíufjelags.[1]) Sending Nýja Testamentisins út um landið drógst að miklu leyti til næsta árs sökum hinna afaróhentugu samgangna, sem þá voru. Bæði þá og síðar hafði Pjetur biskup mikla fyrirhöfn fyrir útsendingu bókanna, en hann taldi það eigi eptir þó hann jafnan hefði ærinn annan starfa; hann útvegaði líka menn til þess að ferðast um sveitir með Testamenti og biblíur, og gekk þetta svo ötullega að seld voru og útbýtt á rúmum tveim árum 10 þúsund eintökum af Nýja Testamentinu og það varð að prenta það aptur.[2]) Þrem árum síðar gaf enska biblíufjelagið út alla ritninguna á íslenzku og var hún fullprentuð í London 1866 og send út um Ísland árið eptir. Hinn 16. júlí 1866 gerði brezka biblíufjelagið Pjetur biskup að heiðursforseta í þakklætis og viðurkenningarskyni fyrir störf hans við endurskoðun ritningarinnar, og öll afskipti hans af útgáfu biblíunnar og hefir enginn hlotið þann heiður í hinu danska ríki fyrr nje síðar. Hið enska biblíufjelag sýndi með þessum útgáfum sínum Íslandi hið mesta veglyndi, tvær útgáfur Nýja Testamentisins og ein útgáfa allrar biblíunnar kostaði fjelagið 72 (sjötíu og tvær) þúsund krónur. Hvorutveggja var sem kunnugt er selt með gjafvirði (Biblían á 2 rd. Nýja Testamentið á 64 sk.) svo verðið var

1) Þakkarávarp þetta er prentað í Report of the British and Foreign Bible Society 1864 bls. 75—76.

2) Report of the British and Foreign Bible Society 1866 bls. 78.

naumast fyrir bandinu.[1]) Auk þess gaf fjelagið fátæklingum mörg hundruð eintök og seldi líka þurfamönnum ritningar fyrir hálfvirði. Samt var einhver náungi í Norðanfara að telja það eptir, hve mikið fje færi út úr landinu fyrir þessar nýprentuðu ritningar, hann segir »að sjer sárni sá peninga-austur út úr landinu, sem þetta fyrirtæki hlýtur að hafa í för með sjer«.[2]) Þessu svaraði Pjetur biskup þegar í Norðanfara og sýndi fram á, að þessi nýja biblía kostaði, sakir veglyndis hins brezka biblíufjelags, landið miklu minna, en þó hún hefði verið prentuð hjer. Fyrir bandið eitt á eldri Biblíunni, sem prentuð var í Reykjavík fóru 2 rd. út úr landinu, fyrir hvert eintak, bókbindarar í Reykjavík treystu sjer ekki til að gjöra það fyrir minna en 2 rd. 64 sk., svo bókin var bundin í Kaupmannahöfn fyrir 2 rd. Auk þess bættist svo ofan á allur pappír frá útlöndum og annar erlendur tilkostnaður.[3]) Pjetur biskup hafði einnig á hendi fyrir hið enska biblíufjelag útbýting á frönskum biblíum meðal franskra sjómanna.

Pjetur biskup var eðlilega mjög þakklátur hinu brezka biblíufjelagi fyrir veglyndi þess við Íslendinga og bjóst líka við, að aðrir landar hans hefðu sömu tilfinningu; sjálfur hafði hann varið kröptum sínum og tíma í mörg ár til þess að fyrirtæki þessu yrði ráðið vel til lykta. Það var því eðlilegt, að honum gremdist þegar *Guðbrandur Vigfússon* ótilkvaddur og ástæðulítið fór að sletta sjer fram í þetta mál og reyndi að gjöra biblíuendurskoðunina tortryggilega í augum hins enska biblíufjelags sem eðlilega ekki hafði nein tök á því að greina rjett frá röngu í þessu máli. Hvað Guðbrandi upprunalega hefir gengið til þeirrar áreitni, látum vjer ó-

1) Þjóðólfur XX, bls. 97—98.

2) Norðanfari VI, 1867, bls. 62.

3) Norðanfari VII, 1868, bls. 1. Árið 1877 hafði Pjetur biskup sent enska Biblíufjelaginu 21,867 kr. fyrir seld N. T. og biblíur og talsvert fje síðar. Report of the British and Foreign Bible Society 1878, bls. 78.

sagt, enda kemur það ekki þessu máli við og snertir ekki Pjetur biskup, en víst er það, að orsökin var ekki eingöngu heilög vandlætingasemi. Þó nú Guðbrandur hefði haft nokkuð til síns máls, sem ekki var, þá var frumhlaup hans eptir kringumstæðum klaufalegt og gat ekki gert neitt gagn, heldur að eins vakið tortryggni hjá mönnum, sem ekki kunnu íslenzku. Þegar enska biblíufjelagið hafði gefið út aðra útgáfu af Nýja Testamentinu í Oxford 1866 sendi Guðbrandur fjelaginu útásetningar við hina íslenzku þýðingu, einkum fyrstu 3 guðspjöllin og sagði þar, að bæði væri þýðingin ónákvæm og málið of nýtt, taldi hann gallana svo marga og mikla að útleggingin væri öldungis óhafandi. Fjelagið sendi Pjetri biskupi útásetningar Guðbrands og spurði um álit hans, en aðfinnslurnar lutu nálega allar að því, sem þeir Dr. Pjetur og Sigurður Melsted höfðu látið óbreytt í hinni eldri útleggingu, sendi Pjetur biskup fjelaginu svar upp á þær og leiddi rök að því, að þær væru sumpart ástæðulausar og sumpart alveg ómerkilegar; hann sýndi líka fram á að Guðbrandur var alveg ókunnugur rjettum vísindareglum fyrir biblíuþýðing og þekkti ekkert til hins gríska frumtexta, en lagði ensku biblíuna til grundvallar fyrir útásetningum sinum. Þá fjekk Dr. Pjetur einnig vitnisburð frá *Konráði Gíslasyni* um málið á Nýja Testamentinu og segist hann (K. G.) hafa »lesið hina endurskoðuðu útleggingu með mikilli ánægju, málið sje gott og tilgerðarlaust og hafi á sjer biblíulegan blæ«.[1]) Tilraunir Guðbrands að spilla fyrir útleggingunni hjá biblíufjelaginu urðu því árangurslausar; hann var samt ekki af baki dottinn og ljet prenta nokkra staði úr 3 fyrstu guðspjöllunum til þess að bera saman ensku útlegginguna við íslenzku útleggingarnar frá 1813 og 1866, en sleppti útgáfum þar

1) Dr. Pjetur ljet prenta sjerstakt brjef til Guðbrands á ensku: A Letter from the Right Rev. P. Pjetursson. Dr. Theol. Bishop of Iceland, to G. Vigfusson Esq., dated Reykjavík June 19, 1869 8° (2 bls.).

á milli.[1]) Guðbrandur hafði af einhverri undarlegri sjervizku tekið miklu ástfóstri við »Grútarbiblíuna« svokölluðu (1813), honum þótti viðkunnanlegra og betra málið á hinum eldri biblíum þó það væri dönskuskotið og afskræmt á ýmsan hátt, heldur en á hinum nýrri, og þetta barði hann blákalt áfram meðan honum entist aldur til. Þó þetta virðist kynlegt hjá svo merkum málfræðingi sem Guðbrandur var, þá má þó skilja það eptir lundareinkennum hans. Guðbrandur Vigfússon var ákaflega vanafastur, íhaldssamur og forneskjulegur í skoðunum og einræni hans og einþykkni jókst mjög með aldrinum, svo fornvinir hans t. d. Konráð Maurer kvörtuðu mjög undan því, og hin síðustu ár mátti heita að hann hefði slitið sambandi við alla fornkunningja sína í öðrum löndum. Þó Guðbrandur hefði sjermenntun mikla í fornum fræðum og lifði mestan hluta æfi sinnar í útlöndum, þá var hann þó svo sokkinn niður í starf sitt, að hann í andlegum skilningi komst aldrei út úr afdalnum sem hann var fæddur í. Nú hefir Guðbrandur eflaust verið alinn upp við Grútarbiblíuna og aðrar gamlar guðsorðabækur og hefir þá orðið svo elskur að máli þeirra og setningaskipun að honum fannst öll breyting ódæði.

Svo lá mál þetta í þagnargildi um stund unz Guðbrandur fór enn á ný að hreyfa því í Þjóðólfi 1870, talaði hann þá mjög borginmannlega og sagði Ísland biblíulaust í 60 ár með ýmsum öðrum fjarstæðum og staðhæfingum.[1]) Umræðurnar um þetta mál

1) A few parallel speçimens from the first three gospels. Oxford May 17, 1869 — 4 bls. 4º. Um þetta ritkorn og fleira er snerti biblíumálið kom út grein í Baldri (II, 1869 bls. 54—55, 58—59, 81) eptir 9. 2 (Jón Bjarnason) þar eru röksamlega hraktar fjarstæður Guðbrandar og er höf. allharðorður í hans garð. Ritgjörðin kemst að þeirri niðurstöðu: »að þær aðfinnslur, er komið hafa frá hendi Guðbrands, eru með öllu ástæðulausar, með því þær bera vott um allt annað en sanngirni og heilbrigða skynsemi« (bls. 81).

2) Þjóðólfur XXII, 1870, bls. 106—107.

fluttust þannig til Íslands. Þá skrifaði Pjetur biskup umburðarbrjef dags. 12. maí 1870, sem prentað var sjerstakt og líka í Þjóðólfi.[1]) Grein þessi er eins eðlilegt var mjög stillilega skrifuð, en sýnir ljóslega fjarstæður Guðbrands. Þá skrifar Guðbrandur aptur brjef í Þjóðólfi[2]) og tekur enn svo gífurlega til orða, að hann segir um Nýja Testamentið: »Allt hvað jeg eptir beztu samvizku get sagt, er að útgáfan 1866 jafnt og sú frá 1841 eru báðar hver um sig óhæfar til að hafast í guðsþjónustu nokkurs lands, og að þær eiga sjer engan líka á nokkru máli«.[3]) Um leið sneri Guðbrandur út frá aðalmálinu og fór nú að ráðast á Eirík Magnússon. Pjetur svaraði þessari grein með fáum orðum í sama blaði,[4]) og er þar harðorðari en hann er vanur að vera, þó eigi um of, því öll ástæða var til að banda á móti slíkri heimsku. Það er fullkomlega satt, sem Pjetur biskup þar segir, að hin fyrrnefndu ummæli Guðbrandar um þýðingu N. T. sjeu »tóm gífuryrði«, »ástæðulausar og ósannar öfgar« og »ósvífið last«. Dr. Pjetur neitar því engan veginn að gallar sjeu á verkinu, eins og á öllum bókum, prentvillur nokkrar o. s. frv., enda hefir aldrei heyrzt síðan að biblíuútgáfa þeirra Dr. Pjeturs og Sigurðar Melsted væri óhafandi, en allt stendur til bóta.

Sama ár skrifaði Eiríkur Magnússon rækilegar greinar og hægorðar um það mál í Norðanfara, Þjóðólfur vildi ekki taka þær, hjelt taum Guðbrands af því hann var frjettaritari blaðsins. Um þýðingarnar 1826

---

1) Til Íslendinga. Svar til Guðbrands Vigfússonar um þýðing á Nýja Testamentinu. Rvík 1870, 4 bls. 4°. Þjóðólfur XXII, 1870, bls. 114—115, 117—118.

2) Þjóðólfur XXIII, bls. 14.

3) Í privatbrjefi til Pjeturs biskups, dags. Oxford 26. júlí 1872, segir Guðbrandur: »Kæmi jeg nú til Íslands, þá get jeg hvorki farið í kirkju, nje setið við húslestur, upp á þann nýja texta, því mjer er það hrylling og viðurstyggð«.

4) Þjóðólfur XXIII, bls. 22.

og 1866 farast honum þannig orð: »Aðalókosturinn á þessari þýðingu Nýja Testamentisins (1826), hið of íslenzkulega eða hversdagslega orðfæri og ónákvæmni þá, er á var þýðingunni, hafa nú hinir síðustu þýðendur svo að kalla alveg afnumið, nema hvað þeir hafa farið linlega með hinn fyrri gallann í fáeinum hinum smávægustu og óverulegustu atriðum hans. Hafa þeir gjört við eitthvað milli fjögur og fimm þúsund vers í N. T. og hvervetna breytt til batnaðar. Það, sem enn stendur til bóta, hefir enga aðra en smekklega eða málfegurðarlega þýðingu. Þar sem hin nýja útgáfa sleppir úr textanum hjer og hvar orði og málsgrein — á sárfáum stöðum — sem haldið er í ensku biblíunni, þá ber þess að gæta að það er ekki úrfellt af hirðuleysi, eins og enska biblíufjelagið hefir verið frætt um, heldur af því, að fylgt hefir verið hinum nýjustu og vönduðustu þýzku útgáfum frumtextans, er sleppa þeim orðum og málsgreinum, og fylgja í því sumum hinum elztu og beztu handritum N. T. Þýðing N. T. frá 1866 er að öllu samantöldu hin nákvæmasta þýðing þess er Ísland hefir átt«. »Álít jeg að hin síðasta biblíuþýðing vor sje stórt stig áfram til fullkominnar þýðingar, það er að segja, að svo miklu leyti sem þýðingar geta orðið það. Og gegnir það allri furðu hve vel tveir einir önnum kafnir menn hafa leyst verkið af hendi á hinum stutta tíma, er þeim var settur til þess. Í stað þess að vera þjóðarhörmung (public calamity) eins og útlendingar hafa verið fræddir um að biblíuþýðingin frá 1866 sje, er hún í augum guðs og manna þjóðarblessun þegar á allt er litið«.[1]) Jeg ímynda mjer, að allir óhlutdrægir menn geti fallist á þess ályktun, enda hefir enginn annar en Guðbrandur gert slíkar árásir á þýðinguna.

Guðbrandur Vigfússon var svo hrifinn af hinu gamla guðsorðamáli að hann í hinni íslenzku lesbók sinni,[2]) gaf út kafla til fyrirmyndar úr N. T. Odds lög-

1) Norðanfari IX, 1870, bls. 71.
2) An Icelandic Prose Reader. Oxford 1879.

manns Gottskálkssonar, sem prentuð var í Hróarskeldu 1540, og er það eins fráleitt eins og aðrar uppástungur Guðbrands í því efni, að slíkt mál sje nýtilegt á alþýðlegum guðsorðabókum á vorum dögum. Um þetta ritaði Eiríkur Magnússon rækilega.[1])

Vjer höfum fyrr getið þess, að Dr. Pjetur hafði í »Árriti presta í Þórnesþingi« 1847 sýnt fram á að *Sálmabókin* frá aldamótunum, er Magnús Stephensen hafði gefið út, var nú orðin óhafandi, og skoraði hann á biskup að efna til nýrrar sálmabókar, er betur samsvaraði þörfum tímans og kirkjunnar. Áskorun þessi hafði þó í fyrstu engan árangur, Helgi biskup ljet það bíða í 8 ár að gjöra tilraun til endurbóta í þessu efni. Árið 1855 ljet Helgi biskup ganga út umburðarbrjef og skoraði í því efni á hin helztu sálmaskáld að senda sjer nýja sálma til þess að auðga með því sálmabókina. Árangurinn varð sá, að um haustið 1856 höfðu ýmsir prestar og leikmenn sent biskupi 100 sálma. Helgi biskup fól þeim síra Ólafi Pálssyni og síra Stefáni Thorarensen á hendur, að yfirfara og endurskoða þetta safn, en að því verki loknu var sett 5 manna nefnd til nýrrar endurskoðunar á þessu safni og til þess að segja álit sitt um athugasemdir hinna fyrrgreindu presta. Í þessari nefnd voru auk biskups Björn Gunnlaugsson, Pjetur Guðjohnsen, Sigurður Melsted og Dr. Pjetur Pjetursson. Auk þess var síra Stefáni Thorarensen falið á hendur að yfirfara allar hinar eldri sálmabækur og grallarann og velja úr þeim það sem hentugt þætti. Upp úr öllu þessu átti svo að smíða nýjan viðbæti við sálmabókina;[2]) fyrsti viðbætir hafði komið út 1819. Þá

---

1) *Eiríkur Magnússon:* Dr. Guðbrand Vigfusson's Ideal of an Icelandic New Testament Translation or the Gospel of St. Matthew by Lawman Odd Gottskálksson. Cambridge 1879. 44 bls. 8°.
*Eiríkur Magnússon:* Nokkur orð um þýðingu Odds lögmanns Gottskálkssonar á Matteusar guðspjalli o. s. frv. Rvík 1879 — 56 bls. 8°.

2) Þjóðólfur IX, 1857, bls. 92.

komu strax fram raddir, sem töldu það vera ófært á þenna hátt að »prjóna neðan við« hina gömlu bók og óskuðu að þjóðin fengi nýja sálmabók.[1]) Árið 1861 var svo gefinn út »Nýr viðbætir« við sálmabókina, sem aptur var prentaður 1866, en ekki fjell mönnum hann vel í geð og fundu menn margt að honum.[2])

Eptir að Dr. Pjetur var orðinn biskup fór hann þegar að reyna að koma í verk nýjum og nauðsýnlegum breytingum í þessari grein, enda hafði endurbót sálmabókarinnar allt af verið honum mikið áhugamál. Árið 1867 ritaði biskup öllum prófföstum umburðarbrjef um »að leitast við að safna góðum frumkveðnum sálmum og versum«[3]) og senda sjer það og hafði það nokkurn árangur. En með því að samsteypa sálmabókanna, úrval og niðurröðun sálma og fleira sem að því laut þurfti talsverðan undirbúning, kvaddi hann (31. janúar 1867) sjer til aðstoðar við það verk prestana síra Ólaf Pálsson og Stefán Thorarensen, en Pjetur Guðjohnsen leit eptir sálmalögunum og setti nótur við allmarga sálma. Þegar þeir höfðu lokið starfi sínu var gefin út »Sálmabókin 1871« og var það raunar hin gamla sálmabók endurskoðuð, bætt og aukin; þetta var engin ný bók, enda kallar Pjetur biskup hana sjálfur í formálanum hina »endurskoðuðu sálmabók«.[4]) Út úr sálmabók þessari spunnust miklar ritdeilur, fyrst á milli nefndarmanna sjálfra. Síra Stefán Thorarensen átaldi það mjög, að Pjetur Guðjohnsen hefði áður en bókin var prentuð og meðan handritið var í hans vörzlum heimildarlaust breytt fyrsta versinu í mörgum sálmum til þess þau færu betur við lagið og þannig spillt bókinni

1) Þjóðólfur IX, bls. 127; X, bls. 33.

2) Aðfinnslurnar helztu eru teknar fram í Þjóðólfi XIV bls. 62 og þeim svarað s, st. bls. 77—78, 84—85.

3) Sbr. Norðanfari VII, bls. 33 og 37. Þjóðólfur XXI, bls. 79.

4) Sálmabók til að hafa við guðsþjónustugjörð í kirkjum og heimahúsum. 1. útgáfa. Reykjavík 1871, XVI + 495 bls. 8°. Formálinn eptir Pjetur biskup dags. 21. júlí 1871 er 4 bls.

og lýtt hana stórkostlega.[1]) Tóku þá fleiri í sama strenginn og fundu bókinni allt til foráttu, töldu hana gallaða og brenglaða og of dýra, sumir sáu eptir gömlu sálmunum sem sleppt hafði verið og aðrir heimtuðu jafnvel að allt upplagið væri eyðilagt og ný bók prentuð.[2]) Út úr þessu varð mikil rimma og var þá margt sagt fremur af æsingi og ákafa en skynsamlegu viti, eins og opt vill verða í íslenzkum blaðadeilum. Þó höfðu sumar aðfinnslur við rök að styðjast. Af nafngreindum mönnum, sem fundu að bókinni, má helzt nefna síra Stefán Thorarensen, síra Gunnar Gunnarsson og síra Björn Halldórsson í Laufási,[3]) en flestir hinir rithöfundarnir voru nafnlausir ómerkingar. Aðalgallinn var eðlilega sá, að bókin var bækluð saman af fornu og nýju, og var í heild sinni að efni og búningi ósamkynja, og svo var margt hið eldra að forminu til ósamræmanlegt við skáldskaparsmekk nútímans, og með úreltu sniði, jafnvel þó hinu lakasta hefði verið rýmt á braut. Pjetri biskupi hafði þótt það of viðurhlutamikið að byggja allt frá nýjum grunni og vildi styðjast við hið gamla, var hann í því efni ef til vill of varfærinn. Menn verða líka að gæta þess, að þegar stofnað var til endurskoðunarinnar 1867 var engin vissa fyrir því, að Ísland ætti eins ágæt sálmaskáld eins og raun varð á síðar; síra *Valdimar Briem*, sem mest hefir prýtt hina nýju sálmabók, var þá enn skólapiltur og önnur góð sálmaskáld höfðu þá látið lítið á sjer bera. Það hefði því getað orðið hættulegt að gjöra of snöggva og gagngjörða breytingu, en nú urðu langar umræður um málið og margt glöggvaðist fyrir mönnum, almenningur gat gjört sjer grein fyrir sínum eigin óljósu hugmyndum í þessu

---

1) *Stefán Thorarensen*: Nokkur orð um sálmabók. Rvík 1871 (Þjóðólfur XXIII, bls. 175—177, 182—184).

2) Þjóðólfur XXIV, bls. 34—37, 59—62, 71, 90—92. Norðanfari XI. bls. 27—28, 38—39, 69, 87—89; XII, 67—68, 73—74, 83.

3) Norðanfari XIII, bls. 9—10.

efni, og lærðir og leikir komust til meðvitundar um þörf og kröfur nútímans.

Þrátt fyrir allar aðfinnslur seldist sálmabókin vel, »hún rann út svo viðstöðulaust, að bóksalar höfðu eigi við að ná að sjer bókum og bókbindarar að binda þær«.[1]) Pjetur biskup hafði viljað vanda til þessarar sálmabókar og haft mikið fyrir henni, en fjekk engin laun önnur en vanþökk, óbilgjarnar útásetningar og útúrsnúninga. Menn gleymdu því algjörlega, að bókin var miklu betri en hinar eldri sálmabækur og því mikil framför, þó hún ekki fullnægði hugsjónum manna. Það var von að Dr. Pjetri sárnaði þetta. Hann skrifaði þá áskorun um sálmabókina í Þjóðólf og hvetur menn til að hagnýta sjer hana í kirkjum og heimahúsum. Þar segir hann meðal annars: »Mjer kemur ekki til hugar að fara í orðakast við þá menn, sem í blöðunum hafa lagt misjafnan dóm á hina nýju sálmabók vora, með því jeg treysti því, að guðrækileg tilfinning manna verði í því efni án minnar varnar hinn nærgætnasti og rjettlátasti dómari, jafnvel í brjósti þeirra lesenda, sem þó annars eiga bágt með að greina áheyrilegt orðagjálfur frá rjettum rökum. Þetta er nú samt ekki svo að skilja, að jeg álíti það *allt* ástæðulaust, sem fundið hefir verið að þessari bók í blöðunum, heldur játa jeg, að hún kann að hafa nokkra smágalla og að hún eins og hvert annað mannaverk er ekki í öllu tilliti svo fullkomin eins og bezt mætti verða. En um leið verð jeg að taka það fram, að þessir gallar eru að mínu áliti svo óverulegir, að þeir geta eigi spilt og eiga ekki að spilla fyrir bókinni yfir höfuð að tala, með því líka flestir þeirra munu loða við flestar sálmabækur í flestum löndum, þar sem menn þó í þessu tilliti standa langtum betur að vígi en vjer Íslendingar. En það, sem jeg með línum þessum sjerílagi vildi vekja athygli almennings á, er þetta: að þessi

1) Þjóðólfur XXIV, 1872, bls. 91.

nýja sálmabók er langtum auðugri að góðum sálmum og fullnægir betur andlegum þörfum safnaðanna en hinar fyrri sálmabækur vorar«.[1]) Biskup skrifaði einnig prófföstum umburðarbrjef um sama efni.[2])

Allur þessi gauragangur í blöðunum gegn hinni nýju sálmabók hafði þó góðan árangur að lokum, því hann ýtti undir frekari endurbót, sem annars hefði líklega beðið nokkuð lengur. Árið 1878 var eptir uppástungu Pjeturs biskups sett sjö manna nefnd, sjö skálda nefnd, sem kölluð var, til þess að setja á stofn nýja sálmabók, sem samsvaraði kröfum tímans eins vel og hægt var. Þetta var alveg í samræmi við aðrar atgjörðir Pjeturs biskups í þessu máli; hann hafði frá byrjun látið sjer mjög annt um endurbót sálmabókanna, en enginn skynsamur maður gat búist við, að algjör sálmabók skapaðist þegar í byrjun af sjálfu sjer, framþróun þarf í öllum efnum.[3]) Í þessari nefnd voru síra Björn Halldórsson í Laufási, síra Helgi Hálfdánarson, síra Matthías Jochumsson, síra Páll Jónsson í Viðvík, síra Stefán Thorarensen, Steingrímur Thorsteinsson og síra Valdimar Briem. Pjetur biskup var ekkert við nefndina riðinn beinlínis, en það er homnm til mikils heiðurs, að hann valdi hina langfærustu menn á landinu til þessa starfa og ljet eingöngu leiðast af sönnum heillum safnaðanna án nokkurrar hliðsjónar til hinnar fyrri útgáfu, sem hann hafði haft mikla fyrirhöfn fyrir.

Þannig varð hin ágæta sálmabók til, sem kom út

1) Þjóðólfur XXIV, 1872, bls. 111—112.

2) Norðanfari XII, bls. 73.

3) Í grein í Þjóðólfi XXX, 1878, bls. 41 segist Pjetur biskup aldrei hafa skoðað sálmabókina 1871 nema sem bráðabirgðar-endurbót, sakir þess hafi hann í vetur haft í ráði að fá nefnd til að endurskoða sálmabókina á ný, og telur svo upp, hverjir nefndarmenn eru. Ritstjóri blaðsins (Matthías Jochumsson) bætir við: »Þessar skjótu og skörulegu undirtektir herra biskupsins mæla sjálfar með sjer, og erum vjer fullvissir um, að allir landsmenn gjöri að þeim hinn bezta róm. Einnig finnst oss tilhögun sú, er hann bendir á, vera hin heppilegasta«.

1886 og er hún landinu til sóma. Þessi bók fjekk þó í fyrstu hvergi nærri góðar viðtökur alstaðar, á hana voru einnig gjörðar ástæðulausar árásir, sumpart af hótfyndni og sjervizku geðstirðra illhryssinga, sumpart af atvinnu-rig meðal bóksala, aðfinnslurnar voru þó á litlum eða engum rökum byggðar og brátt náði sálmabókin almennri alþýðuhylli.[1]) Þó voru af óviðkomandi orsökum allmiklar æsingar gegn bókinni í Reykjavík, svo safnaðarfundur 25. okt. 1886 neitaði að taka við henni til guðsþjónustugjörða og varð út úr því mikið stapp og rekistefna.[2]) Þegar þessi sálmabók var komin út, var fyrst komin framkvæmd á þær hugsjónir og uppástungur, er Dr. Pjetur hafði borið fram 1847 og jafnan síðan stutt eptir megni; endurbótin stóð yfir í 40 ár og eptir kringumstæðum mátti varla búast við styttri tíma.[3])

Hvað almenna *embættisstjórn* snerti, þá var hún í bezta lagi hjá Pjetri biskupi, regla á öllu og nákvæm

---

1) »Styrbjörn í Höfn« ritaði í Norðanfara (XVII, bls. 121—122, XVIII, bls. 85) ákaflega óbilgjarna og heimskulega grein »Til sálmabókanefndarinnar« helzt um sálmabókina 1871; er greinin auðsjáanlega mest rituð til þess að níða Pjetur biskup og síðar bætir höf. gráu ofan á svart í s. bl. XVIII, bls. 85. Þessari grein var rækilega svarað úr öllum áttum, svo höfundurinu fjekk maklega ráðningu. Sbr. Norðanfari XVIII, 1879, bls. 21—22. (Styrkár á Mýrum), s. st. bls. 50, 85. Þjóðólfur 31. ár 4. og 9. blað. Ísafold VI, bls. 19. Löng ritgjörð um sálmabókina er ennfremur í Þjóðviljanum I, bls. 19—20, 22—23, 27—28, 31. Þegar sálmabókin kom út 1886 kom um hana níðrandi ritdómur í Austra III, bls. 94—95 eptir hinn sama Styrbjörn, mjög villandi og ósanngjarn og var honum rækilega svarað í sama blaði III, bls. 117—118. Greinir út úr sölunni á sálmabókinni standa í Suðra 1886, IV, bls. 110, 114—115, 123—124 og í Þjóðólfi XXXVIII, 1886 bls. 62—63, 171. Viðaukabl. 27. nóv. s. á. Sameiningin I, bls. 105—107, 115—120, 135—142.

2) Suðri IV, bls. 114—115; Fjallkonan III, 1886, bls. 79—80, 83.

3) Í hinni alræmdu ritgjörð »vor kirkjulegi arfur« hellir Fr. Bergmann skálum reiði sinnar yfir Pjetur biskup fyrir afskipti hans af sálmabókarmálinu, en ummæli hans sanna eigi annað en hið frámunalega þekkingarleysi höfundarins sjálfs á íslenzkum kirkjumálum og kirkjusögu á 19. öld.

umsjón með þeim sjóðum, sem heyra undir biskup og stipsyfirvöld, og ljet hann sjer snemma mjög annt um að auglýsa reikninga þeirra. Embættisfærsla Pjeturs biskups var jafnan mjög vel metin af stjórnarvöldunum.[1]) Í skólamál blandaði biskup sjer aldrei beinlínis, en vildi láta hvern skóla sjá fyrir sínum eigin högum hvað hina innri stjórn snerti, vjek hann ekki frá því þó á hann væri leitað og sumir allopt kæmi með ýms klögumál og frjettaburð og vildu láta biskup skerast í leik og hlutast til um smærri mál og ýmsan ágreining, er snerti hina innri stjórn latínuskólans,[2]) öðru máli var að gegna með yfirumsjón alla og stærri mál. Pjetur biskup var opt fyrr og síðar prófdómandi í latínuskólanum, var opt við hátíðahöld skólans, gaf bræðrasjóðnum góðar gjafir og sýndi skólanum velvild sína á ýmsan annan hátt.

Við mörg hátíðleg tækifæri varð Pjetur biskup, samkvæmt embættisskyldu sinni, að koma fram og halda ræður, og hann var jafnan boðinn og búinn að halda uppi sóma stjettar sinnar með því að sýna risnu

1) Árið 1872 hafði Pjetur biskup verið veikur, þá skrifar Oddgeir Stephensen honum (7. nóv. 1872) um leið og hann óskar honum til hamingju með batann: »Pín má sízt við missa af öllum vorum íslenzku embættismönnum. Það finnst þegar fram líða stundir, hve örðugt það verður að fá hæfilegt biskupsefni, en jeg hugga mig við það, að það sje mjer óviðkomandi«.

2) Enginn var þó eins þreytandi í þessu efni eins og Halldór Friðriksson, hann var allt af sínuddandi um skólann, sjerstaklega eptir að Dr. Jón Þorkelsson var orðinn rektor. Stundum neyddist Dr. Pjetur þó til að skera úr smásmuglegum þrætum. Sjerstaklega man jeg eptir einni sögu, sem hann opt brosti að, er hann minntist á hana. Vinnukonur Jóns Þorkelssonar rektors notuðu hið stóra framlopt skólans til þess að þurka þvott og þurftu þá að hafa loptsúg og opinn þakglugga. Halldór Friðriksson, sem hafði umsjón yfir skólahúsinu, fann upp á að láta lóða fastan þakgluggann, svo ekki var hægt að opna hann; Jón rektor klagaði fyrir biskupi og út úr þessu varð mikið þras og rekistefna. Loks úrskurðaði Pjetur biskup, að Halldór yrði að láta setja eina rúðu í glugganum á hjörur, svo hana mætti opna. Þannig var farinn meðalvegur, vinnukonur rektors fengu súg á þvottinn, Halldór þurfti ekki að opna gluggann.

gegn útlendum höfðingjum, er til landsins komu. Tignarlegri mann í framgöngu og prúðmannlegri hefir Ísland varla átt á seinni tímum og útlendingar báru allir mikla virðingu fyrir honum. Á þjóðhátíðinni prjedikaði Pjetur biskup fyrir konungi í dómkirkjunni,[1]) og hafði hann verið mjög riðinn við undirbúning þjóðhátíðarinnar. Á alþingi 1867 var Pjetur biskup kosinn í þriggja manna nefnd, er gefa átti tillögur um væntanlega þjóðhátíð 1874 og var hann formaður í nefndinni.[2]) Síðar var hann í 5 manna nefnd þeirri, er átti að undirbúa þjóðhátíðina og safna fje til hennar, til þinghúsbyggingar, myndastyttu Ingólfs Arnarsonar o. fl., en fjársafn þetta gekk mjög tregt, svo ekkert viðlit var til að það kæmi að neinu verulegu gagni.[3])



Skjaldmerki Pjeturs biskups.

Pjetri biskupi voru eðlilega veitt þau heiðursmerki af stjórninni sem vandi er til fyrir langa og dygga embættisþjónustu. Hann varð riddari af dannebrog 6. okt. 1852, dannebrogsmaður 28. júlí 1869, kommandör af öðrum flokki 2. ágúst 1874, af fyrsta flokki 7. apríl 1883, og stórkross af dannebrog varð hann 16. apríl 1889, er hann sagði af sjer biskupsembættinu. Pjetur

1) Prjedikun flutt á Íslands þúsund-ára-hátíð 2. ág. 1874 í Reykjavíkur dómkirkju. Kmhöfn 1874, (á íslenzku og dönsku) 15 bls. 8vo.

2) Alþingistíðindin 1867. Þjóðólfur XIX, bls. 163—164.

3) Þjóðólfur XXII, bls. 71—73; XXIV, bls. 104—105.

biskup var hinn fyrsti Íslendingur, sem hlaut það heiðursmerki, og varð hann þá að láta mála skjaldmerki sitt og einkunnarorð í hallarkirkjuna í Friðreksborg eins og tízka er. Dr. Pjetur valdi sjer það skjaldmerki, er ættmenn hans áður höfðu notað á innsiglum, fálka með útbreiddum vængjum, en þar fyrir ofan er biskupsmítur og tveir krosslagðir biskupsstafir bak við. Hinn 8. maí 1876 var biskupi veitt leyfi til að bera kommandörkross af öðru stigi hinnar norsku Ólafsorðu, sem Oscar II. konungur hafði veitt honum 21. janúar s. á. Árið 1866, 16. júlí, var Dr. Pjetur kjörinn heiðursforseti í hinu enska bibliufjelagi (Honorary Life Governor of the Society).

Biskupsskrifarar (amanuenses) í tíð Pjeturs biskups voru þeir sem nú skal greina: *Jón Árnason* bókavörður frá embættisbyrjun Dr. Pjeturs til hausts 1867, Jón hafði áður verið skrifari hjá herra Helga; en hinn 1. október s. á. tók *Eiríkur Briem* að sjer þann starfa og var hann langlengst skrifari Pjeturs biskups, til 30. apríl 1874. Þá tók við *Lárus Halldórsson* til 31. maí 1877, en svo var *Einar Jónsson* skrifari um sumartímann það ár, en í september 1877 gerðist *Magnús Andrjesson* biskupsskrifari og hjelt þeim starfa til hausts 1881, þá kom *Jóhann Þorsteinsson* frá september 1881 til hausts 1886, en eptir það var síra *Þórhallur Bjarnarson* aðstoðarmaður biskups á skrifstofunni og *Richard Torfason* og *Magnús Blöndal* skrifarar.

Hinn 17. júlí 1886 voru 50 ár liðin síðan Dr. Pjetur var vígður til prests, þá komu flestir embættismenn Reykjavíkur, bæjarstjórnin og nokkrir utanbæjarprestar saman á heimili hans og fluttu honum hamingjuóskir, og þá var flaggað á hverri stöng í bænum. Fyrst las Þórarinn prófastur Böðvarsson upp ávarp frá prestum og afhenti biskupi, þá flutti Helgi Hálfdánarson munnlega kveðju frá prestaskólanum, sömuleiðis ávarpaði formaður bæjarstjórnarinnar, landritari Jón Jensson, hann nokkrum orðum og því næst rektor lærða skól-

ans Dr. Jón Þorkelsson og loks af hendi læknaskólans dósent Tómas Hallgrímsson. Biskup þakkaði allar þessar ræður með fáum orðum.[1]) Sira Matthías Jochumsson orti við það tækifæri fagurt kvæði. Hjeraðsfundur Árnesinga sendi biskupi síðar (14. sept. 1886) ávarp og hamingjuóskir. Ávarp presta, sem sira Þórarinn flutti var svo hljóðandi:

»Háæruverðugi herra biskup!
Hálf öld er nú liðin síðan þjer voruð vígður til kennimannlegs embættis í kirkjunni; í hálfa öld hafið þjer unnið sem trúr og mikilhæfur verkmaður í víngarði drottins, kirkju og kristindómi til eflingar á meðal vor. Í meira en 20 ár hafið þjer setið með sæmd á biskupsstóli lands vors, og annálar kirkju vorrar munu geyma nafn yðar meðal hinna mörgu ágætismanna, sem verið hafa fyrirrennarar yðar í þessari stöðu, og getið sjer ódauðlegan orðstír sem beztu menn þjóðarinnar. En áður en þjer tókust á hendur hið ábyrgðarmikla yfirhirðisstarf, höfðuð þjer unnið þýðingarmikið verk í þjónustu kirkjunnar, þar sem þjer, sem fyrsti forstöðumaður prestaskóla lands vors, komuð þessari harla þörfu menntastofnun á fastan fót og stýrðuð henni í 19 ár«.

»Ásigkomulag lands vors veldur því, að einungis fáir af hinum mörgu, sem þess mundu óska, eiga kost á að ávarpa yður við þetta hátíðlega tækifæri. Þótt vjer sjeum ekki sjerstaklega til þess kvaddir, leyfum vjer oss þó að bera fram fyrir yður þakklætisorð og blessunaróskir á þessum degi, ekki einungis í nafni sjálfra vor, heldur og í nafni kennidómsins á landi voru, já í nafni allrar þjóðarinnar, því að vjer erum þess fullvissir, að allur landslýður muni taka undir með oss«.

---

1) Ísafold XIII, bls. 117, 125. Þjóðólfur 38. árg. bls. 119. Suðri IV, bls. 75, 81. Fróði VII, bls. 215—217.

»Þegar vjer í dag heilsum yður, háæruverðugi herra biskup, sem jubílkennara í kirkju vorri, þá þökkum vjer fyrst og fremst með yður gjafaranum allra gæða, sem hefir leitt yður og styrkt á langri liðinni æfi, og gefið yður náð til að vinna mikið og gott verk. Vjer þökkum yður því næst fyrir hið marga og mikla, sem þjer hafið unnið til heiðurs og heilla kirkjunni og ættjörðinni. Vjer þökkum yður í nafni hinna mörgu kennimanna, sem þjer hafið menntað og vígt til hins háleita starfs, er þeir gegna. Vjer þökkum yður í nafni safnaðarins fyrir hinar mörgu góðu og uppbyggilegu guðsorðabækur, sem þjer hafið auðgað með hina íslenzku kirkju og með fögnuði hafa verið meðteknar og viðhafðar á flestum heimilum landsins, og vakið og glætt guðrækilegar hugleiðingar í hjörtum svo margra«.

»Vjer biðjum algóðan guð að halda náðarsamlega styrkri verndarhendi sinni yfir yður og ástvinum yðar á öllum ókomnum æfidögum; vjer biðjum hann að gefa yður fagurt og friðsælt æfikvöld og láta verk yðar bera blessunarríkan ávöxt á ókomnum tíma, sínu ríki til eflingar og ættjörðu vorri til varanlegra heilla«.

Reykjavík 17. júlí 1886.

| | |
|---|---|
| Þórarinn Böðvarsson, | Hallgrímur Sveinsson, |
| Magnús Andrjesson, | Helgi Hálfdánarson, |
| Eiríkur Briem, | Jens Pálsson. |

Árið 1888 varð Pjetur biskup áttræður og var enn furðu ern, gætti hann embættisstarfa sinna eins og áður með aðstoð síra Þórhalls Bjarnarsonar, sem þá var biskupsritari. Hann hafði á þeim árum allopt hugsað um að segja af sjer embætti og hafði liggjandi í skrifborðsskúfu sinni lausnarbeiðni til stjórnarinnar, en hann fann ekki á sjer, að líkams eða sálarkraptar þverruðu að mun, honum var ánægja að því að annast embættið og skrifstofuna þar sem hann líka hafði svo ágætan aðstoðarmann sem síra Þórhallur var. Hinn 30. septem-

ber 1888 vígði Pjetur biskup 9 presta í einu og var ekki á honum að sjá, að hann hefði tekið of nærri sjer, það var því varla ástæða til að leggja niður embætti sem hann að flestu var fullfær að gegna. Hinn 5. maí 1889 framkvæmdi Pjetur biskup hina síðustu prestsvígslu, vígði einn prest, kand. Ólaf Petersen til Svalbarðs í Þistilfirði.[1]) Alls vígði Dr. Pjetur 142 presta, jafnmarga eins og prestaköllin þá voru (1889); þar af vígði hann 12 í tíð Helga biskups; 1889 voru að eins 23 prestar á landinu, sem hann hafði ekki vígt. Finnur biskup vígði flesta presta næst Pjetri biskupi, þó eigi nema 121. Eitt var það, sem Pjetur biskup eðlilega, fyrir aldurssakir, eigi gat fengist við, það voru vísitazíuferðir, enda hefir aldrei verið gengið eptir því að háaldraðir biskupar legðu í ferðir um svo víðáttumikið og hrjóstrugt land. Dr. Pjetur hafði farið vísitazíuferðir þangað til hann var hálf sjötugur og munu ekki margir biskupar hafa farið slíkar landvegsferðir á hærra aldri með þeim samgöngufærum, sem þá voru; þeir biskupar, sem eldri hafa orðið, hafa annaðhvort hætt vísitazíum eða látið aðstoðarmenn sína framkvæma þær, eins og t. d. Guðbrandur Þorláksson og Finnur Jónsson.

Þegar háaldraðir menn gegna embættum, ber það eigi sjaldan við, að öðrum fer að leiðast. Hin síðustu embættisár Pjeturs biskups var ekki laust við að það bryddi á nokkrum kurr einstakra manna um það, að biskup sæti of lengi, hann þyrfti að þoka burtu fyrir yngra manni. Tóku þá í einu blaði að aukast aðfinnslur um sitt hvað er snerti biskupsembættið og var sjerstaklega talað um vísitazíur, hvað þær væru bráðnauðsynlegar, en ekki hafði það blað nje önnur hreyft nauðsyn þess máls þá í 15 ár. Dr. Pjetur svaraði með dálítilli grein og sýndi fram á, hve miklu minni þörf væri á biskupsvísitazíum nú en fyrr, þar sem flest vísitazíuverk nú væri falin á hendur prófföstum og auk þess

1) Ísafold 1889, bls. 147.

væri með lögum 27. febrúar 1880 stjórn safnaðarmála að miklu leyti komin í hendur sóknarnefnda og hjeraðsnefnda: »Ef allir hlutaðeigendur gjöra skyldu sína,« segir Pjetur biskup, »virðist kirkjunum vel borgið, og þar eð samþykktir hjeraðsfundanna sendast biskupi, verður hann kunnugur hinu kirkjulega ástandi um allt land, já, kunnugri, en þó hann hefði visiterað eitt eða tvö prófastsdæmi. En þessi og önnur samkynja lög, t. d. um prestakosningar, hafa aukið svo mjög skrifstofustörf biskupsins á seinni tímum, að hann á ekki heimangengt nema hann fengi annan til að þjóna embættinu í fjarveru sinni. Þó jeg nú af framansögðum ástæðum ekki geti álitið brýna nauðsyn bera til þess, að biskup taki visitaziuferðir á hendur, eins og hin kirkjulegu mál nú eru tryggð með lögum, vil jeg þó engan veginn bera á móti því, að ungur og ötull biskup kynni á visitaziuferðum að geta, að minnsta kosti í bráð, með persónulegri nálægð kippt einhverju í lag, sem aflaga færi; en jeg er hræddur um, og þykist hafa reynzlu fyrir því, að þegar frá líður og áhrifin fara að dofna, mundi alt sækja í sama horfið.«[1])

Vorið 1889 sagði Dr. Pjetur af sjer biskupsembætti og fjekk lausn frá 25. maí s. á. og s. d. var *Hallgrímur Sveinsson* dómkirkjuprestur skipaður biskup yfir Íslandi. Pjetur biskup dró enga dul á það, að hann hefði helzt kosið síra *Helga Hálfdánarson* til biskups eptir sig, hann áleit síra Helga hæfastan, færastan og maklegastan allra Íslendinga, sem þá voru uppi, og mælti fastlega fram með honum; síra Helgi vildi og sjálfur gjarnan verða biskup og sótti, líklega meðfram fyrir hvatir Pjeturs biskups, um embættið, sem þó annars ekki hefir verið tízka.[2]) En þetta kom fyrir ekki,

1) Hálfyrði um biskupsvisitaziur (Ísafold XV. 1888, bls. 187).

2) Umsóknarbrjefið dags 25. marz 1889 er geymt í skjalasafni stjórnarráðsins í Reykjavík.

Pjetur biskup hafði engin ráð yfir embættinu og stjórnarvöldunum sýndist annað. Meðan síra Hallgrímur Sveinsson var ytra til vígslu gegndi Dr. Pjetur biskupsembættinu fyrir hann.[1])

---

1) Út úr biskupsskipuninni varð nokkurt blaðaþras. Sbr. Sameiningin IV, bls. 62—64. Kirkjublaðið IV, bls. 94—95. Ísafold XVI, bls. 289, 325—26. Fjallkonan VI, bls. 108, 113, 115, 117. Þjóðviljinn III, bls. 79; IV, bls. 94 og víðar.

## IX. Guðfræðisbækur og alþýðurit Pjeturs biskups Pjeturssonar.

Pjetur biskup hefir sett einkenni sitt á kristnikenningar 19. aldar á Íslandi, með honum hefst nýtt tímabil i sögu hinnar alþýðlegu kristindómsfræðslu hjer á landi. Pjetur biskup er hinn afkastamesti og einn hinn alþýðlegasti prjedikari og fræðari lýðsins, sem ritað hefir á íslenzka tungu. Það eru bækur hans, sem hrekja burtu skynsemistrúarkenningarnar svo kölluðu, sem voru yfirgnæfandi i kirkjuritum þeim, sem út komu um aldamótin. Messusöngsbók Magnúsar Stephensens var ímynd þeirrar hreyfingar, sem þá barst hingað frá útlöndum og ýms fleiri guðfræðisrit voru þá gefin út i þeim anda. Áhrifin náðu þó yfirleitt að eins til nokkurs hluta af lærðu stjettinni, en lítið til alþýðu, sem hjelt fast við hinar gömlu guðsorðabækur 17. og 18. aldar; þó margar þeirra væri úreltar, þá báru Vídalins postilla og Passiusálmarnir af öllu, þar var snildin hafin yfir tilbreytingar og tízku aldanna. *Árna Helgasyni* stiptsprófasti var eigi vel við skynsemistrúar- og vantrúaröldu þá, sem til Íslands rann um aldamótin, eptir því sem hann sjálfur segir,[1]) og telur hann trúarástand i

1) Ræður við jarðarför Ísleifs Einarssonar. Kmh. 1837 bls. 14.

kaupstöðum og sjóplássum ófært, en hinn enski trúboði Ebenezer Henderson, sem ferðaðist um Ísland 1814—1815 hrósar íslenzkum sveitamönnum fyrir guðrækni þeirra og fyrir einfalt og sannkristilegt trúarlíf. Árni Helgason bar þó sjálfur keim af aldarandanum, sem þá var ráðandi hjá guðfræðingum háskólans og því var Árnapostilla sem út kom 1822—23 allmikið snortin af skynsemistrúar anda, og gat íslenzk alþýða aldrei vel felt sig við hana.[1])

Hin svo kallaða skynsemistrú, sem útbreiddist frá Þýzkalandi til Norðurlanda seint á 18. öld, vildi gera trúna að eintómum nytsemiskenningum og láta skynsemina eina dæma um trúarmál, hún gerði trúartilfinningarnar útlægar, allt átti að skorða niður með hversdagslegu nasviti, trúbrögðin voru að eins siðfræðakerfi hentugt til að uppala þegnana og gera þá að góðum, nytsömum og hlýðnum borgurum, öllum næmari tilfinningum hjartans og öllum dulhliðum tilverunnar var rýmt á braut. Hin mannlegu fyrirbrigði eru á sífeldri rás og öldugangi og þessi trúarstefna var eðlilegt apturkast gegn bókstafstrúnni og oftrúnni, sem áður drottnuðu. Svo kom aptur ný alda, nýjar hugmyndir og nýjar kenningar snemma á 19. öld. Rómantiska stefnan varð ráðandi í skáldskap og listum og hafði jafnvel áhrif á vísindin, tilfinningalífið var nú aptur sett í hásæti, og trúarbragðakenningarnar beindust í sömu átt, hneigðust meira og meira að gleðiboðskapnum og hinni innri trúartilfinningu mannsins, nálgaðist guð kærleikans, en fjarlægðist kenningarnar um endurgjald, reiði og hegningu. Hinir þýzku spekingar, einkum *Schleiermacher* höfðu mikil áhrif á guðfræðinga, og smátt og smátt breyttist tíðarandinn, kenningaraðferðin og krist-

1) Af bréfi til Jóns Pjeturssonar, dags. Helgafelli 3. ágúst 1837, sjest, að síra Pjetur hefir samið ritdóm um Árnapostillu og sent þeim Fjölnismönnum, en þeir vildu eigi taka hann í Fjölni, segist síra Pjetur ekki ætla sjer framvegis að mæða sig á því að rita fyrir þá, því margt hafi þeir prentað lakara; rjettritun Fjölnis þykir honum óhafandi.

indómsboðunin. *Henrik Nikolai Clausen* var einn af þeim, sem í Danmörku var boðberi hinna nýju hugmynda, hann hafði hlustað á fyrirlestra Schleiermachers og var mjög hrifinn af kenningum hans; Clausen hafði mikil áhrif á guðfræðisnemendur við háskólann, og Pjetur Pjetursson var einn af lærisveinum hans.

Pjetur biskup var einn hinn fyrsti íslenzkur guðfræðingur, sem fullkomlega samrýmdist þessum nýja frelsisanda, sem þá fór að gagntaka kirkjulífið og fjelagslífið í Danmörku, og útbreiddi hann á Íslandi með hinum mörgu guðsorðabókum sínum. Dr. Pjetur fjekk þegar vald yfir sálum klerka og leikmanna, öll alþýða tók fegins hendi við ritum hans, menn höfðu aldrei getað sætt sig við skynsemistrúna, en hinar eldri guðsorðabækur voru að máli og að ytra búningi orðnar úreltar og óþjálar aflestrar. Í bókum Dr. Pjeturs fengu menn í fyrsta sinn með kristilegri hógværð og mildi útlistað kjarna kristindómsins: kærleikann, umburðarlyndið og vonina. Hinir eldri kennendur höfðu stöðugt bent á endurgjald og refsing, á hina eigingjörnu hlið manneðlisins, en höfðu allt of lítið skeytt því að benda á hina óhlutdrægu og ósjerplægnu ást til frelsarans, ímynd hinnar siðferðislegu fullkomnunar. Þessi friðarboðskapur kærleikans hefir um 19 aldir gert meira til að auka mannúðina, endurfæða sálirnar og blíðka harðneskju-tilhneigingar mannkynsins í hinni stöðugu baráttu við umheiminn, heldur en allar upphvatningar, ávítur og hótanir hinna hörðustu siðameistara. Kærleikurinn hefir verið hin tæra uppsprettulind, sem vökvað hefir og frjóvgað hinn hrjóstrugasta jarðveg, og þrátt fyrir allar syndir og breyskleika, þrátt fyrir ofstæki og ofsóknir, umburðarleysi og klerkakreddur, sem hafa afmyndað kristnina á ýmsum öldum, þá hefir það þó allt af verið fyrirmynd frelsarans og kærleikakenning guðspjallanna, sem hefir verið stöðug undirstaða nýrrar endurlífgunar og viðreisnar.

Prjedikanir Dr. Pjeturs Pjeturssonar komu fyrst

út 1856 og hafa síðan komið út í 2 útgáfum.[1]) Þær hlutu þegar svo mikla alþýðuhylli, að það er eins dæmi á seinni öldum, engin postilla hefir fengið slíka útbreiðslu nema Vídalíns postilla. Prjedikununum var ágætlega tekið þegar frá byrjun bæði af lærðum og leikum, og bera ritdómar frá fyrri árum þess vott, að menn fögnuðu yfir kenningum Dr. Pjeturs og skildu hann og það var fyrst löngu seinna, tuttugu til þrjátíu árum eptir að bókin kom fyrst út, að nokkrir menn fóru að setja út á Pjeturs postillu til muna, þó ekki með rökum, heldur með óbilgjörnum aðfinnslum og skilningslausum hártogunum. Sumar af þessum árásum voru eflaust af persónulegum rótum runnar, en aðrar komu frá þeim mönnum, sem aptur voru farnir að hneigjast að hinu forna kristniboði með harðari kenningum. Vjer skulum hjer setja dæmi af umsögnum manna um guðsorðabækur Dr. Pjeturs, svo þar sjáist, hvernig tíðin hefir skoðað þær og skilið.

Í Norðra 1854 hafði verið minnst á það, að þá væri verið að snúa prjedikunum Wallins á íslenzku og þessa þýðingu ætti bráðum að prenta í prentsmiðju Norðurlands. Þá getur Þjóðólfur þess[2]), að heyrst hafi, að Dr. Pjetur Pjetursson »hafi haft í hyggju og verið jafnvel í undirbúningi með að yfirfara eldri prjedikanir sínar og semja nýjar til að gefa út á prent til húslestra á öllum sunnu- og helgidögum ársins. Vjer getum sjálfsagt ekki ábyrgst, að þetta sje óræklega satt, því síður, að verkinu hafi verið haldið áfram eða sje komið nokkuð á veg; en vjer óskum að þetta væri allt satt, því vjer erum fulltrúa um, að postilla eptir jafnágætan prjedikara sem herra P. Pjetursson, er að allra rómi mundi fá hinar beztu viðtökur hjá vorri guðhræddu alþýðu«. Wallins postilla kom aldrei út sem kunnugt er.

1) Prjedikanir ætlaðar til helgidagalestra í heimahúsum. Kmhöfn 1856, IV, + 640 bls. 8°. Önnur útgáfa Kmhöfn 1864, X + 574 bls. 8°. Þriðja útgáfa Rvík 1885, IV + 440 bls. 8°.

2) Þjóðólfur VII, 1854, bls. 23.

Dr. Pjetur getur þess í formála fyrir prjedikunum sínum, að hann hafi látið prenta þar ræður þær, er hann hjelt í dómkirkjunni 1854, lagaðar eptir tilgangi bókarinnar og svo eldri ræður sínar með breytingum, ennfremur bætir hann við: »hefi jeg mjer til ljettis sumstaðar haft útlendar ræður mjer til stuðnings og hliðsjónar«. Dr. Pjetur segist mest hafa hugsað um að hafa ræðurnar »einfaldar og kristilegar, því á þessu þykir mjer mest ríða«.

Þegar Pjeturspostilla var komin út 1856 getur Þjóðólfur hennar á þenna hátt: »Í engri vísindagrein er eins auðugt hjá oss af bókum, eins og af guðfræðisbókum til húslestra í heimahúsum. . . . Ekki þarf að minna á Passíusálmana; Vídalínspostilla er og verður snildarverk, frá þeim tíma sem hún er, og mun enn um langan aldur verða vísindum vorum til sóma og hið sama er óneitanlega að segja um Árnapostillu, enda þótt hún hafi ekki getað náð eins mikilli útbreiðslu og áliti meðal almennings eins og hin. Þar sem nú tvö í sjálfu sjer jafnágæt verk voru fyrir, þá mátti vera auðsætt, að ekki mundi vera formandi að bjóða fram hið þriðja af sama tagi, nema hinum gæti staðið jafnfætis að öllu; og mátti því máske virðast töluvert áræði, bæði fyrir höfund og útgefanda, að láta útganga þetta þriðja verkið. En vjer ætlum, að það megi fullyrða um þessar prjedikanir Dr. P. Pjeturssonar, að bæði sjeu þær í vísindalegu tilliti prýðilega samdar, innihaldi hreinar og klárar kristilegar kenningar, og sjeu svo lagaðar að öllu, að þær verði bæði geðfeldar og uppbyggilegar fyrir alþýðu, engu síður en hinar tvær húspostillurnar; því þær eru auðveldar að skilja, hjartnæmar að heyra og að öllu orðfæri ljósar og liprar, og falla vel og auðvelt til lesturs fyrir alla, sem nokkurn veginn eru lesandi«.[1])

Nokkru síðar er postillunnar aptur getið í sama

1) Þjóðólfur VIII, bls. 88.

blaði,[1]) þar segir svo: »Einn hinn nafnkunnasti kennimaður og merkasti meðal hinna eldri presta vorra ritaði óskorað ábm. Þjóðólfs í brjefi 22. sept. þ. á. (1856) álit sitt um tjeðar prjedikanir á þessa leið: Mikið hefi jeg í sumar glatt mig við að lesa þá ágætu bók Dr. Pjeturs. Trúarkenningin finnst mjer aðdáanlega ljós og grunduð á því rjetta hellubjargi — sönnum kristindómi; andlegt fjör og mælska er ekki sjerlegt, enda finnst mjer það aldrei eiga rjett vel við, að minnsta kosti ekki fyrir mig. Það munu ekki margir svo færir sem Dr. Pjetur að leiða lesendurnar gegnum hið sanna samhengi kristindómsins lærdóma, og mjer finnst honum takast að gjöra það öllu betur og ljósar en Mynster sál.«

Útgáfa Pjeturspostillu mun hafa komið í veg fyrir prentun Wallins-prjedikana og Norðri gat því ekki á sjer setið að hnýta svolítið í guðsorðabækur Dr. Pjeturs, þó með stillingu,[2]) finnur helzt að rithætti og svo þykir ritdómaranum Dr. Pjetur hafa farið of mikið eptir útlendum bókum, segir þó, að Prjedikanirnar hafi náð á sig miklu lofsorði og sumir hafi jafnvel spáð, »að þær muni innan skamms byggja út Vídalín gamla hjá alþýðu vorri«; en því vill höf. varla trúa. Tveim árum síðar er í sama blaði, í brjefi frá Austurlandi, talað um guðsorðabækur Dr. Pjeturs á þenna hátt: »Þá er nú það, sem mjer þykir nú ekki minnst í varið, að guðsorðabækur Pjeturs prófessors breiðast út um landið og allur fjöldi manna tekur þeim með fögnuði; því þær eru ritaðar í hinum eldra trúaranda, sem talar svo vel til hjartnanna og almenningi fellur miklu betur, en að öðru leyti svo vel samdar og jafnar að gæðum, að jeg ætla, að engar guðsorðabækur, sem jeg þekki, hafi verið svo vel ritaðar hjer á landi, og með jafnfagurri mælsku og styrkri, sem þær, nema Jóns biskups Vídalíns. . . . . Jeg vona einnig, að ungu prestarnir taki

1) Þjóðólfur IX, bls. 20.

2) Norðri VI, 1858 bls. 81—82.

upp kenningarhátt prófessorsins, sem okkur fellur svo vel«.[1])

Dr. Pjetur Pjetursson svaraði hinum fyrra ritdómi í Norðra nokkru síðar í Þjóðólfi og kallar svarið »Skýringargrein«[2]). Þar minnist hann fyrst á hina smáu ritgalla er Norðri hafi talað um og segir svo: »Að öðru leyti er þessi dómur um bækurnar mjer svo velviljaður og vægur, að jeg fyrir mitt leyti get ekki annað en látið mjer hann vel líka. Það eru einungis fáein smáatriði í honum, sem jeg vildi leyfa mjer að hreyfa. Höf. byrjar með því að segja, að Predikanirnar hafi náð á sig miklu lofsorði, svo sumir hafi jafnvel um þær spáð, að þær muni innan skamms byggja Vídalín út hjá alþýðu vorri, en að hann geti laust trúað þessu. Jeg á líka bágt með að trúa því, og vona að sú spá ekki rætist, að nokkur prjedikunarbók byggi Vídalín út hjá almenningi hjer á landi, því hans postilla er sjerlegt snildarverk, ekki einungis sinna tíma, heldur og allra tíma, sem vottur um frábæra andagipt og mælsku. En þó get jeg ímyndað mjer, að menn við hliðina á Vídalín geti lesið margar prjedikanir sjer til verulegrar og enda jafnmikillar uppbyggingar, því að ýms orðatiltæki í honum kunna að vera miður löguð fyrir vora tíma, eins og líka sjerhver tími hefir sinn einkennilega blæ. Í formálanum fyrir Pjedikunum mínum hefi jeg ekki dregið dul yfir það, að jeg víða hafi haft útlendar ræður mjer til stuðnings og hliðsjónar; en allt fyrir það á jeg bágt með að trúa því, að ræðurnar ekki sje sjálfum sjer líkar, því jeg hefi notað það eina úr útlendum ræðum, sem vel átti við mig. Í Vídalínspostillu mundi vera hægt að sýna margt aðfengið og útlagt úr heiðnum spekingum og kristnum kirkjufeðrum, og jafnvel hjá Wallin finnast ræður, sem eru að kalla orðrjett útlagðar, og þó tekur enginn til þessa, heldur eru þessar

1) Norðri VIII, 1860, bls. 13.

2) Þjóðólfur XI, 1858, bls. 2—3.

bækur, eins og má, álitnar snildarverk, af því höfundarnir hafa gjört hið aðfengna að sinni eign og samþýtt það sínum hugsunarhætti«.

Árið 1872 stóð ítarlegur ritdómur í Norðanfara[1] um Vorhugvekjur Pjeturs biskups eptir »Eyfirðing«, og er þar vel samin lýsing á kennimennsku þeirra Pjeturs Pjeturssonar og Jóns Vídalíns. Þar segir svo: »Hugvekjur þessar líkjast öðrum guðsorðabókum biskupsins, er vjer allir þekkjum svo vel. Málið er hreint og viðhafnarlaust, orðfærið ljóst og liðugt, fagurt og látlaust. Ef nokkuð er, þá finnst mjer höfundurinn vera í þessum hugvekjum sínum alvörufyllri, eður rjettara sagt siðavandari og strangari en víðast í öðrum guðsorðabókum sínum, og því get jeg ímyndað mjer, að hinum eldri mönnum falli þessar hugvekjur hans enn betur í geð en hinar fyrri, þótt eigi þurfi á það að bæta. En þó finnum vjer hjer enn hið sama einkennilega ræðusnið; hjer talar enn hinn sami alvörufulli og siðavandi kennifaðir, sem að vísu grípur eigi hegningarsvipu lögmálsins til að afhýða syndarann frammi fyrir dómstóli hins stranga Ísraelsguðs, er refsar mönnum í reiði og bræði, en sem þó óaflátanlega aðvarar með djúpri alvöru gegn girndum og ástríðum, kaldsinni og hugsunarleysi, gegn freistingum og tælingum heimsins, tómlæti og þrekleysi í dyggð og guðsótta, sem ætíð áminnir syndarann með helgri vandlætingasemi um að iðrast einlæglega, snúa sjer og trúa, svo syndir hans verði afmáðar, en sem ætíð jafnframt ávarpar hann með kristilegri hógværð og mildi, bendir honum til himins og leiðir hann með kærleikans hendi til náðarstólsins. Verið getur, því skal jeg ekki neita, að herra Dr. Pjetur sje ástundum eigi svo hrífandi, einkum þá er menn lesa hann í fyrsta sinni, sem vor ódauðlegi mælskumaður, meistari Jón. En jafnframt því er skynsemi vor undrast mælsku meistarans, dáist að hinum jötun-

1) Norðanfari XI bls. 62.

sterku snillyrðum hans, fellur í stafi yfir hinum óviðjafnanlega stiganda krapti í sönnunum hans og röksemdaleiðslu, og vjer liggjum flatir í duptinu lostnir af þrumuródd hans frá Sinai, þá finnur hjarta vort optlega hjá honum litla eða enga hvíld. Þá minnumst vjer þess, að enda á dögum reiðinnar bjó guð eigi í stormviðrinu, heldur í vindblænum. Vjer förum því frá meistaranum til doktorsins, því vjer höfum andlega þörf á eigi að eins að komið sje við kaun vor, heldur og að þau sjeu grædd, skilningur vor þarf eigi að eins að hrífast, heldur þarf og hjarta vort að gleðjast af voninni, styrkjast af trúnni og finna fullnægju í kærleikanum. Oss nægir eigi eingöngu að heyra guð á Sinaifjalli bjóða: Þú skalt, heldur þörfnumst vjer að heyra frelsarann á fjallinu prjedika um sælu. Fyrir því förum vjer æ meir og meir frá meistara Jóni til doktors Pjeturs, því að hann einn fullnægir jafnt hjarta voru sem huga«.

Önnur útgáfa af Pjeturspostillu var prentuð í Kaupmannahöfn 1864, en svo óhappalega vildi til, að prófarkalestur á henni varð slæmur og var mjög fundið að því fyrr og síðar.[1]) Árið 1875 ritaði síra Pjetur Guðmundsson í Grímsey hógværa ritgjörð[2]) um prentvillur í ýmsum guðsorðabókum t. d. í 2. útgáfu af Pjeturspostillu, sálmabók, biblíu o. fl. Af þessu tók síra Arnljótur Ólafsson á Bægisá sjer tilefni til þess að skrifa langar greinar í Norðling,[3]) sem hjetu »Um ritvillur og fleiri villur«, og eru greinar þessar auðsjáanlega eingöngu stílaðar móti Pjetri biskupi og bæði fundið að

1) Þjóðólfur XX, 1868, bls. 69—70. Norðlingur II. bls. 137—138; s. st., III. bls. 55 svarar Egill Jónsson. Þar segir hann um hinn ónafngreinda höfund meðal annars, að hann sverji sig í ætt við, »þessa almennu moð-muggumenn, sem gjöra ekkert sjer til frcmdar og frama, en peðra úr sjer einhverjum óþverra, hvað litið, sem þeim verður á, er eitthvað gjöra, eða eitthvað vilja gjöra, það er til almennra framkvæmda horfir«. Þesskonar menn eru ekki óalgengir enn þá.

2) Norðanfari XIV, 1875, bls. 98—99, 102—103.

3) Norðlingur I, 1876, bls. 145—147, 171—173, 180—183.

prjedikununum, biblíuþýðingunni o. fl. Er auðfundið að höf. er að reyna að finna sjer eitthvað til, sem Pjetri biskupi geti verið óvirðing í, en tilgangurinn misheppnaðist algjörlega.[1]) Í þeim greinum eru ýmsar hnútur og olnbogaskot til Pjeturspostillu, sem höf. þó ekki segist lesa heldur meistara Jón, fer hann um það mjög óprestlegum orðum[2]) og segir líka, að postilla Pjeturs sje öll hálfvegis þýdd úr útlendum ræðusöfnum, án þess að færa nokkur rök fyrir máli sínu.[3])

1) Orsökin til þessarar árásar var sú, að síra Arnljótur sótti um Miklabæ, en fjekk ekki, kenndi hann þetta Pjetri biskupi, sem einmitt mælti með honum til brauðsins, en Bergur Thorberg var veitingunni mótfallinn. Hefði Arnljótur vitað þetta, hefði hann eflaust skrifað eitthvað um Berg, en látið Dr. Pjetur hlutlausan. Arnljótur taldi sjer brauðið víst; og var mælt, að hann hefði verið búinn að flytja sig að nokkru leyti þegar þessi vonbrigði komu, og jafnvel búinn að láta marka kvígildisærnar á Miklabæ. Engu var Arnljóti síðar eins mikið stríð í eins og þegar hann var mintur á kvígildisærnar á Miklabæ. Áður hafði þeim verið vel til vina Pjetri biskupi og Arnljóti, enda voru þeir skyldir nokkuð. Fáum árum eftir þessar Norðlingsgreinar friðmæltist Arnljótur við Pjetur biskup og aldrei sló út í fyrir honum úr því; í brjefum sínum er hann síðar orðinn allt annarar skoðanar um ritverk dr. Pjeturs og lofar þau. Pjetur biskup erfði ekki þetta áhlaup við Arnljót og var honum jafnan hliðhollur á ýmsan hátt, mælti með honum að verða konungkjörinn þingmaður, að fá Sauðanes o. s. frv.

2) Þó orð síra Arnljóts sjeu varla eftir hafandi þá set jeg þau hjer sem einkennilegt dæmi upp á rithátt hans og hugsunarhátt. A. Ó. segir. »Allur þorri manna er nú hættur að lesa meistara Jón, einmitt af því hann er meistari, eintómur meistari, en enginn doktor: engin tállituð töfrasmyrsli lífsins, engvir dýsætir svefndropar samvizkunnar, engvir gljásmurðir silkiplástrar siðferðisins, engin mýkjandi hægðalyf sáluhjálparinnar; engin þvættitugga tímans, ekki gull hans nje japl; aldrei hálft um hálft nje hringlandi til og frá, sláandi úr og í; aldrei beggja blands nje á báðum áttum; flaðrið og daðrið og dandhalaskapinn þekkir hann eigi. Hann er enginn doktor, það er satt; en meistari er hann og verður hann allra kennimanna þessa lands«. Norðlingur I, bls. 151.

3) Í brjefi 7. marz 1891 til Pjeturs biskups segir Arnljótur: »enginn biskup landsins hefir *samið* eins margar guðsorðabækar sem þér, eður bæði prjedikanir á öllum helgidögum og hugvekjur alt árið um kring auk tækifærisræðna og smárita. Guðbrandur

Tveim árum síðar varð Pjetur biskup aptur fyrir árásum, sem voru enn þá óbilgjarnari og glannalegri og var það líka prestur, sem þeim áhlaupum stýrði, síra Þorvaldur Bjarnarson á Melstað, en hann ritaði vanalega undir dularnafni og kallaði sig Styrbjörn á Nesi og Styrbjörn í Höfn. Hann reit fyrst í Ísafold 1877 um smásögur Pjeturs biskups, bænakver, hugvekjur og fleira[1]) fremur illkvitnislega og síðan í Norðanfara 1878[2]) um sálmabækurnar, þýðingarlitlar og óbilgjarnar aðfinnslur, en dreifði þar innanum ýmsum hnútum til Pjeturs biskups, segir meðal annars að hann sje á rangri hillu í guðfræðinni! að húslestrarbækur hans sjeu útlagðar, að hann sje engan veginn fær um að gefa sig við mörgu og ýmislegt fleira af sama tagi.[3]) Þegar höfundinum síðar var bent á, að Pjetur biskup sjálfur hefði getið þess, að hann hefði að nokkru leyti stuðst við útlendar bækur eins og aðrir guðfræðishöfundar íslenzkir og nefnt það í formála postillunnar, var Styrbjörn svo óskammfeilinn að segja: »Formálann fyrir bók biskups hefi jeg ekki lesið, og fer líklega ekki til þess að svo stöddu, því að skilvísir menn hafa sagt mjer, að á honum væri ekki mikið að græða.«[4]) Það er æði glannalegt að leggja þungan dóm á það, sem maður sjálfur játar að hafa ekki lesið. Og aptur staglast hann á hinum sama þýðingar-þvættingi. Síðar

biskup hefir látið prenta meira, það veit jeg, en eigi samið jafnmikið og er enn óvíst hve mikið hann á sjálfur í þýðingu þeirrar biflíu er honum er eignuð«. A. Ó. leggur auðsjáanlega áherzlu á orðið samið til þess að sýna, að hann nú sje horfinn frá að kalla bækur dr. Pjeturs eintómar þýðingar eins og hann hafði áður gert.

1) Ísafold IV, bls. 5—6, 10. Pjetur biskup svaraði í Þjóðólfi 29. árg. bls. 38.

2) Norðanfari XVII, bls. 121.

3) Höf. bregður Pjetri biskupi meðal annars um að hann sje auðugur (Norðanfari XVIII, bls. 85) og eins gerir Fr. Bergmann (Fyrirlestrar á 5ta kirkjuþingi bls. 40).

4) Norðanfari XVIII, bls. 85.

(1886) skrifaði hinn sami Styrbjörn í Austra hrottalega grein um nýju Sálmabókina með árásum á síra Helga Hálfdánarson o. fl., segir höf. þar meðal annars um Nýju Sálmabókina (1886): »Lúalegt er það að hitta í einni sálmabók merglaust hrasl, er vera kann að sje vel sniðið að utan og liðugt í hálsliðunum . . . en þar sem sakna má mest alls kjarna og andríkis.«[1]) Þessum greinum Styrbjarnar prests var rækilega svarað í ýmsum blöðum og öfgar hans og fjarstæður reknar ofan í hann aptur og hafði Styrbjörn lítinn veg af þeim viðskiptum. Það lítur út fyrir að síra Þorvaldi hafi verið mjög í nöp við Pjetur biskup,[2]) því löngu eptir dauða Dr. Pjeturs gat hann enn ekki setið á sjer að ráðast á hann með mikilli heipt[3]) og bregða honum um hjegómagirni, gjörræði og pukursandal[4]) Aðalefnið

1) Austri III. bls. 95.

2) Pjetur biskup hafði hvað eftir annað, sakir embættisstöðu sinnar, neyðst til þess í kyrrþey að veita síra Þorvaldi þungar áminningar bæði fyrir ofsóknir hans og ósæmilegan ritlhátt gegn Þórarni prófasti Böðvarssyni og svo fyrir ýmislegt óprestslegt framferði hans. Sbr. Norðanfari XIV, bls. 7.

3) Verði Ljós III, 1898 bls. 6.

4) Síra Arnljótur og síra Þorvaldur voru báðir vel gáfaðir, orðhvatir og ritfærir, en óbilgjarnir við andstæðinga; þrátt fyrir alla hæfilegleika hefðu þeir aldrei átt að vera prestar, því þeir voru óprestlegir mjög að öllu æði og eðli. Arnljótur var miklu merkari maður og hafði á ýmsan hátt mikla þýðingu í þjóðmálum vorum, þó hann öðru hvoru gæti verið nokkuð laus á kostunum, hann var maður vel lærður í ýmsum greinum, skemtilegur í viðtali, gestrisinn og fjörugur. Þorvaldur Bjarnason hafði upprunalega mjög góða hæfilegleika til málfræðisnáms og var víst á yngri árum allvel lærður í þeirri grein, hefði líklega getað orðið vísindamaður hefði eigi skapferli hans og framganga, sjervizka og þrekleysi alveg stöðvað framfarir hans á þeirri braut. Síra Þorvaldur var skemtilegur í tali og fróður um margt, góður drengur í raun og veru, en eins og óheflaður staur í framgöngu, ófyrirleitinn var hann, harðleikinn og heiptúðugur þegar því var að skipta, og hann átti mjög örðugt með að semja sig að siðum annara manna; hið fornislenska víkingseðli rjeði mestu um skapferli hans. Síra Þorvaldur var mjög siðavandur og aðfinslugjarn við aðra rithöfunda og þess merkilegra er það, að frágangurinn á

í öllum aðfinnslugreinum síra Þorvaldar er þó það, að Pjetur biskup hafi þýtt of mikið og stælt í prjedikunum sínum og hugvekjum og í sama streng tekur síra Arnljótur,[1]) en þetta er auðsjáanlega hótfyndni, sumpart gegn betri vitund, því það munu allir fróðir menn vita, að engin postilla eða prjedikunarbók hefir nokkurntíma komið út á íslenzku, sem að öllu leyti er frumsamin og mun leitun að slíkum bókum þó í önnur lönd sje farið; það liggur í hlutarins eðli að svo hlýtur að vera, og auk þess hafði Dr. Pjetur áður nákvæmlega gjört grein fyrir þessu bæði í formála postillunnar og í blöðunum, en þeir ljetu sem þeir vissu það ekki.[2]) Prjedikarar hafa allir eða flestir vitandi og óvitandi, öld fram af öld þýtt og stælt hver annan, en þeir steypa hugmyndir og kenningar í sínu eigin móti og hvernig það tekst er komið undir gáfnalagi, kringumstæðum og aldaranda.

Af hinum mörgu greinum, sem ritaðar voru á móti síra Þorvaldi, tökum vjer eina, sem oss þykir einna bezt, hún kom í Ísafold 1879 og hljóðar þannig:

»Í Norðanfara hefir Styrbjörn nokkur frætt landa sína um, að biskupinn sje ekki góður guðfræðingur. Þótt dómurinn sje eins og hæstarjettardómar forðum, kveðinn upp án þess að greina ástæður, þá mun hann þó hafa eina góða og gilda ástæðu við að styðjast, sem

---

hinni einu vísindabók, er hann sjálfur gaf út: Leifar fornra fræða o. s. frv. þótti lýsa mikilli hroðvirkni og sama má segja um nokkrar aðrar bækur, er hann sá um prentun á.

1) Arnljótur bar síðar mikið lof á Helgapostillu og kvað þó í henni vera enn fleiri þýðingar og stælingar en hjá Pjetri, en þeim er að eins lakar fyrirkomið.

2) Í samningi við Egil Jónsson 13. jan. (1855) um útgáfurjett á postillunni (ári áður en hún kom út) kemst dr. Pjetur svo að orði, að hann lofi að afhenda Egli, »einn árgang prjedikana, sem að mestu leyti verða frumritaðar eftir sjálfan mig, þó jeg í stöku ræðum hafi hliðsjón af prjedikunum eftir útlenda höfunda«. Dr. Pjetur fór sannarlega ekki í launkofa með það að hann studdist nokkuð við útlend rit.

sje þá, að Styrbjörn hefir aldrei lesið neina guðsorðabók eptir biskupinn«.

»Vjer eigum eins og allir vita þrjár postillur, sína með hverju móti, en allar mjög útbreiddar í landinu, allar vinsælar og víða lesnar. Nú getur verið meiningamunur um það, hver postillan sje bezt, og fer það mjög eptir smekk manna og jafnvel lundarlagi, hver honum fellur bezt í geð. Sumum líkar betur að heyra Drottinn tala í reiðarþrumunni, eins og hann talar fyrir munn Jóns meistara Vídalíns, aðrir vilja heldur heyra rödd guðs í hæga blænum, eins og hann talar hjá Árna biskupi og Dr. Pjetri. Þótt hinn síðast nefndi að tímanum sje hinn síðasti, þá stendur hann í mörgu falli mitt á milli meistara Jóns og Árna Helgasonar. Árni talar þessara þriggja mest til skilningsins, Jón Vídalín mest til tilfinninganna, Pjetur biskup fer meðalveg, eða rjettara báða vegu, og þó að kenning hans að öllum jafnaði sje lygn og tær, þá heyrist þó á stundum í henni niður lögmálsins, eins og t. d. í ræðunni á annan í hvítasunnu, þar sem því er lýst, hvernig fari, »þegar sálin sje skilin við guð og hjartað frá honum horfið«. Sama ræða lýsir afbragðs vel því »hulda lífi« í guði, sem því miður er of mörgum hulið. Ennfremur skulum vjer leiða athygli Styrbjarnar að ræðunni á 3. sunnudag eptir páska um skilnaðarstundir ástvina í dauðanum, að ræðunni á sunnudaginn milli nýárs og þrettánda um þá rjettu vizku, ræðunni á sunnudaginn í föstuinngang um sæluna, sem í því er fólgin að vera guðs barn, ræðunni á 4. sunnudag eptir trínit. um umburðarlyndi o. fl., en sjer í lagi vildum vjer ráða Styrbyrni til að lesa ræðuna á trínitatishátíð um endurfæðinguna. Þar segir meðal annars: »Eins og barnið ekki getur fæðst án sárra verkja og harmkvæla móðurinnar, eins getur heldur ekki hinn nýi maður fæðst án mikillar angistar og þjáninga hins gamla manns, sem hinn nýi sprettur af«. Þetta er fagurt sannmæli. Það mun Styrbjörn sanna á sínum tíma. Hann mun hafa heyrt, að Dr.

Pjetur, eins og aðrir kennimenn, hafi á stundum þýtt eða tekið kafla úr ræðum útlendra kennimanna enda segir biskupinn frómlega í formálanum fyrir postillu sinni, að svo sje, og má kannast við einstaka kafla úr ræðum Wallins í ræðum biskupsins, t. d. í ræðunni á 16. sunnudag eptir trínit., en einnig finnast þýðingar úr Blair hjá Árna Helgasyni og hugsanir úr Lactantius og Seneca hjá meistara Jóni, t. d. reiðiprjedikunin á sunnudaginn eptir nýár. Oss er til efs, að nokkur sá góður kennimaður hafi verið, sje eða verði, sem ekki hendi gullkorn, þar sem hann finnur þau, nema þeir einir, sem annaðhvort, eins og Árni biskup segir; »vita það með vissu, að það er allt bezt og rjettast, sem *þeim* dettur í hug«, eða þá þeir, sem ekki vita einu sinni, hvar gullkorn er að finna. Væri Styrbjörn gamall og góður prestur, myndi hann hafa reynt, að það er örðugt að finna ávallt nýjar útleggingar af gömlum texta (difficile proprie communia dicere). En af því hann mun vera í tölu hinna ungu klerka, sem oss er skrifað, að ekki lesi húslestur á heimilum sínum, þá erum vjer svo djarfir, að ráða honum til að lesa postillu og hugvekjur Pjeturs biskups í heimahúsum, og fást minna um það, hvort allt í þeim er frumhugsað, heldur en um hitt, hvort allt er þar vel hugsað, vandað bæði að efni og orðfæri og kristilegt. Meira að segja sóknarmenn hans munu varla kæra hann þó honum yrði það á, að taka annaðhvort heilar ræður, eða kafla úr ræðum Pjeturs biskups traustataki, þegar hann stígur í stólinn«.[1]

Á seinustu árum varð Pjetur biskup og guðsorðabækur hans fyrir óbilgjörnum árásum af hendi Vesturheims-klerka og var það reyndar ekki nema eðlilegt, þar sem þeir voru honum svo gagnólíkir að skapferli og hugsunarhætti. Pjetur biskup var að hinu innsta eðli frelsis- og framfaramaður, aptur er það sterkur apt-

1) Ísafold VI, 1879 bls. 19.

urhaldsandi, sem lýsir sjer í flestu sem þeir síra Jón og síra Friðrik þá skrifuðu. Kærleikur og umburðarlyndi voru aðaleinkennin á ritstörfum Dr. Pjeturs, en Vesturheimsprestar þessir hafa fremur snúist að hinu forna og harða kristniboði 17. aldar; flestöll rit þeirra og prjedikanir frá þeim árum voru einn samanhangandi »reiðilestur«. Þetta er þó skiljanlegt og fyrirgefanlegt, þar sem þessir menn með miklum dugnaði sífellt hafa orðið að berjast gegn margskonar mótspyrnu og hafa orðið fyrir áhrifum af kirkjulífi Vesturheims, þar sem hinir frjálsu sjerflokkar allt af standa í sífelldri baráttu og tilverustríði, bæði innbyrðis og gagnvart umheiminum. Það var því eðlilegt, að Þangbrandsnáttúran vaknaði hjá hinum tápmeiri klerkum hins herskáa íslenzka þjóðflokks, en óneitanlega hefði það verið eðlilegra og viðkunnanlegra hefðu þeir notað alla krapta sína til þess að lagfæra það, sem í ólagi var í þeirra eigin kirkjufjelagi, heldur en að ávíta sjettarbræður sína á Íslandi, sjerstaklega þegar þeim ekki gat hugkvæmst neitt ráð eða tillaga til endurbóta. Eins og vjer fyrr höfum getið, var það þó einkum á árunum 1888 og 1889, að ófriður var hafinn gegn prestastjett Íslands, biskupinum og bókum hans.[1])

Árið 1889 minntist síra Friðrik Bergmann á guðsorðabækur Pjeturs biskups í Sameiningunni[2]) með þessum orðum: »Það hefir lengi vakað fyrir mjer sem einn af stórgöllunum á þeim kristindómsboðskap, er þjóð vor hefir dregið af sitt andlega líf nú á seinni tímum, að talað hefir verið í svo almennum orðatiltækjum að enginn hefir eiginlega fundið sig snortinn af því, er sagt hefir verið. Í hinum nýrri guðsorðabókum eru viðhöfð standandi orðatiltæki um allt mögulegt, svo hugmyndirnar, er þessi orðatiltæki hafa upprunalega táknað, eru fyrir löngu orðin að steingjörfingum. Mál það,

1) Um orsakir árása þessara getur síra Hafsteinn Pjetursson í Tjaldbúðinni VI. bis. 4.

2) Sameiningin IV. 1889—90, bls. 2—3.

er sá guðfræðingur Íslands, sem mest liggur nú eptir, ritar, er svo fullt af þessum steingjörfingum að undrum sætir.[1]) Afleiðingin er eðlilega sú, að endalaus ruglingur hefir komist á hugmyndir manna og að hin yngri kynslóð hefir fengið óbeit á þessum steingjörfings kristindómi«. Hvað þetta raus höfundarins eiginlega hefir að þýða, er ekki gott að skilja. Höf. elskar sjálfur mjög »standandi orðatiltæki«, hann er t. d. allt af að staglast á steingjörfingum, án þess þó nokkursstaðar að gera grein fyrir, hvað hann meinar með því orðatiltæki. Á öðrum stað segir hann. »Lúterska kirkjan á Íslandi er orðin eins og steingjörður skógur, eða stórmikið af því, sem sprottið hefir upp úr hinum kirkjulega jarðvegi Íslands, eru trjenaðir njólar eða steingjörð trje. . . . . Andlaus, aðgjörðalaus og áhrifalaus vanakristindómur ríkjandi í kirkjunni gjörir kirkjuna ávallt að steingjörfingi, og að því hefir hann greinilega gert nútíðarkirkju Íslands«.[2]) Í ádeilugreinum Fr. Bergmanns um kirkju og prestastjett Íslands er hvergi bent á nein ráð til að bæta andleg mein og andlegan hag kirkjunnar á Íslandi, það er bara orðagjálfur og sleggjudómar, sem bylja í hinni tómu tunnu.

Mörgum mönnum grömdust þessir ógrunduðu dómar, sem lagðir voru á guðsorðabækur Pjeturs biskups, og leikmaður einn í Vesturheimi, *Guðmundur Einarsson* að nafni, andmælti þessum sleggjudómum röksamlega í blaðinu Heimskringlu.[3]) Þar segir hann meðal annars: »Þegar hinn ungi guðfræðingur, síra Fr. J. Bergmann, fræðir mig á því, að allur kristindómsboð-

1) Þá ritaði Pjetur biskup þessa bögu í brjefi til kunningja sins:

> Þegar hrynja háreistir
> hrokaveggir þínir,
> standa munu stöðugir
> steingjörfingar mínir.

2) Sameiningin IV, bls. 51.

3) Heimskringla 3. árg. nr. 19. 9. maí 1889. Greinin dags. Sayreville, Middlesex County 25. april 1889.

skapur, allt guðfræðisverk Dr. Pjeturs biskups sje standandi steingjörfings orð og hugsanir, sem valda því að endalaus ruglingur sje kominn á hugsun þeirra manna, sem hafa aðhyllst kenningar hans, þá hefir honum tekist að leiða hitasteypu gegnum sálu mína. Því jeg skal ekki fyrirverða mig að viðurkenna fyrir hinum nýja guðfræðingi, að jeg er einn af þeim ekki fáu, sem hafa fundið guðrækilega unun og hugsvölun móti andstreymi lífsins í því að lesa guðsorðabækur Dr. Pjeturs. Jeg þori að segja, að ef einhver ómenntaður maður, hefði kveðið þenna dóm upp, þá hefði hann verið álitinn aumkvunarverður kristindómsfrávillingur. En af því hann er kveðinn upp af guðfræðingi, sem hefir tekið að sjer að vera andlegur leiðtogi Íslendinga í þessu landi, þá getur hann ekki verið annað en særandi og hrellandi fyrir alla þá, sem hafa fundið guðrækilega unun í því að lesa og hugleiða guðsorðabækur Dr. Pjeturs og allt það orð, sem þær útlista og eru byggðar á«.

Höf. getur þess meðal annars, að það sje auðsjáanlega ætlun síra Friðriks að umbæta kristindómsboðskapinn og til þess að geta »framkvæmt þetta endurbótarverk sitt, hefir honum fundist bezt að niðurþrykkja og lítilsvirða allt guðfræðisverk Dr. Pjeturs Pjeturssonar, það hefði hann ekki gert, ef hann hefði ekki fundið sig færan til að bæta um það og endurskapa. Geri hann því svo vel og taki þá allra umfangsmimnstu guðsorðabók Dr. Pjeturs, Bænakverið, endurbæti hann það með því að gefa út annað fullkomnara, sem allir sannkristnir geti fundið, að hafi betri og hjartnæmari bænarorð fram að bera. Meðan hann gerir það ekki, finnst mjer hann vera sá hirðir, sem slær, en græðir ekki«.

»Þeir sundurdreifðu safnaðarlimir, er hafa tekið sjer bústað langt úti á landi og eru því fyrst um sinn útilokaðir frá að njóta nokkurrar prestsþjónustu, hafa aðallegast guðsorðabækur Dr. Pjeturs til lesturs í heimahúsum og svo sumir jafnframt Helga biskups og Jóns

biskups guðsorðabækur. Allir þessir guðfræðingar hafa einn og sama anda, byggja allir á sama grundvelli og hafa allir sama tilgang með að leiða tilheyrendurna að einu og sama sáluhjálplega marki. Þó einn þeirra brúki meira af blíðum og laðandi orðum en hinn, eða þó einn fari meira út í daglega lífið en annar, eða þó einn frekar en annar brúki harðorðari hegningarræðu innanum og saman við, munu þó flestir, sem lesa með alúð bækur eptir þessa menn, hljóta að finna, að þeir hafa allir góð sálar tilþrif, sem hafa krapt til að snerta hjarta tilheyrendanna. Enginn þeirra hefir fundið hjá sjer hvöt til að niðurþrykkja eða lýta verk hins, eða fyrirrennara sinna«.

»Það er sannarlega tilfinnanlegt að heyra þenna steingjörfingsdóm kveðinn upp yfir hinu sáluhjálplega húslestrar guðsorði. Það er hægra að rífa niður en að byggja upp aptur. Jeg spái hinum heiðraða guðfræðingi því, að hann þurfi meir en að slá um sig með málsnilli Heródesar til að uppbyggja rækilegra andans musteri en guðfræðisverk Dr. Pjeturs hefir gjört«.

Fr. Bergmann svaraði þessari grein í Lögbergi[1]), en svarið er nokkuð dauft og fer undan í flæmingi, þar leggur síra Friðrik dóm á Pjeturspostillu þó með miklu hógværari orðum en hann áður hefir brúkað þegar hann talaði um bækur Dr. Pjeturs í almennum orðatiltækjum. Þar segir hann: »Það er sannfæring mín að þegar eru samanbornar hinar þrjár postillur (Helga, Jóns og Pjeturs) þá þurfi hvorki mikinn smekk nje glöggvan til að finna, að Pjeturs, sem í rauninni er sú yngsta, vantar mjög mikið af þeirri andagipt og því sannfærandi afli, sem báðar hinar eru svo auðugar af. Jeg veit ekki betur, en að það sje almennt viðurkennt, að þau orð, sem Vídalíns postilla flytur, sje töluvert áhrifameiri en Pjeturs. Hið sama er að segja um Helgapostillu, sem hefir það fram yfir Vídalín, að hún er

1) Lögberg 29. mai 1889.

sniðin eptir smekk nútíðarinnar, hvað hinum ytra búningi hugsananna viðvíkur, mælskan og andagiptin er þar naumast eins mikil eins og hjá Vídalín, en ólíkt meiri en hjá Pjetri. Báðar hinar fyrrtöldu sýna miklu meiri þekkingu á mannlífinu en Pjetur biskup, þeir lýsa miklu betur efasemdunum og hinum siðferðislegu umbrotum í hjörtum tilheyrenda sinna. Þess vegna eiga þeir líka hægra með að beita sannleikanum þannig, að hann verði skilinn og meðtekinn«. Löngu seinna játar Fr. Bergmann að málið á Pjeturs postillu sje gott: »Biskuparnir Pjetur og Helgi eiga báðir þýtt og lipurt tungutak, óbrotinn stíl og blátt áfram, sem vel sæmir hinu göfuga umtalsefni. Hvorugur hefir þó auðgað tungu vora sjerlega mikið . . . þótt báðir hafi sjálfsagt haft göfgandi áhrif á málið á íslenzkum prjedikunum«.[1])

Árið 1883 kom út Helgapostilla, en 1885 þriðja útgáfa af Pjeturspostillu, voru þá sumir, sem ætluðu að hin nýja postilla mundi útrýma prjedikunum Pjeturs biskups, en það varð eigi; Helgapostilla náði aldrei verulegri alþýðu hylli. Í ritdómi um Helgapostillu er í Þjóðólfi 1884 sagt um hinar eldri postillur: »Pjetur mun vera mest lesinn, meistari Jón mest lofaður, en Árna kunna fáir að meta rjettilega«.[2]) Í Fjallkonu 1885 er talað um hina nýju útgáfu af Pjeturspostillu og hún borin saman við Helgapostillu. Þar segir meðal annars: »Vídalínspostilla þótti lengi og þykir enn að verðleikum hið mesta meistaraverk kennimannlegrar mælsku og trúarafls, og andlegt ágæti hennar mun aldrei fyrnast, en hún hefir þó varla um sína daga náð jafn almennri hylli sem Pjeturspostilla, því að fram á þessa öld höfðu allmargir Gíslapostillu til húslestra og Árnapostillu lásu margir um nokkur ár eptir að hún kom út; jeg man þetta úr ungdæmi mínu,

1) Aldamót X, 1900, bls. 139.

2) Þjóðólfur XXXVI, 1884, bls. 1. Síðar hefir síra Jón Bjarnason gefið út prjedikanabók, en hún þykir eigi vera við alþýðuhæfi og hefir fengið litla útbreiðslu.

og sama hafa gamlir menn sagt mjer. En þegar Dr. Pjetur kom með postillu sína, lögðu flestar hinar eldri postillur upp á hilluna, eigi fyrir þá sök að þær þættu eigi góðar, hver á sinn hátt, heldur af því, að Pjeturspostilla átti betur við inn nýja tíma, var samkvæmari röddum lífsins, snart viðkvæmara strengi hjartnanna en ræður hinna fyrri kennimanna-öldunga, meistara Vídalíns og Árna biskups. Vjer lifum á allt öðrum tíma en Vídalín, og aldarandinn er einnig annar nú en um aldamótin síðustu eða framan af öld þessari, er Árni biskup var á bezta aldursskeiði og reit postillu sína. Er því ekki að undra, þótt ýmislegt það sje í ræðum þessara manna, er oss falli eigi í geð eða óljóst verði fyrir oss, eða hrífi eigi vorar tilfinningar. Þá er og málið á Vídalíns postillu og Árna postillu engan veginn hreint; og alþýða getur aldrei þýðst þesshátttar orðfæri, jafnvel sem óblandað alþýðumál, hversu gott sem guðsorðið er í sjálfu sjer á slíkum bókum. Málið á Pjeturspostillu er hreint og lipurt, eins og á öllu því, sem Pjetur biskup skrifar. Það sýnir bezt ágæti og alþýðuhylli Pjeturs postillu, að margt gamalt fólk kann utan að nær heilar prjedikanir úr henni. Alþýða hefir sjeð í blöðunum, að fyrir skömmu er út komin prjedikanabók eptir Helga biskup Thordersen, er hefir fengið íburðarmikið hól í sumum blöðunum, og án þess jeg vilji hniðra þeirri bók, ætla jeg að slíkt hjegóma-skjall sje jafnan óþarft, ef bókin er ágæt í sjálfu sjer; hún talar þá bezt sjálf máli sínu. . . . . Jeg hefi eigi lesið svo mikið í Helgapostillu, að jeg geti dæmt um hana til hlítar, en eigi þarf meira en að líta í hana til að sjá, að málið á henni er mjög óvandað, eins og þeir hafa einnig hlotið að játa, er lokið hafa mestu lofsorði á hana. Í Helgapostillu er fjöldi af leiðinlegustu málvillum og smekkleysum, og er slíkt orðfæri mjög svo ólíkt því hinu hreina og þýða máli, sem er á Pjeturspostillu. Kenningin í Helgapostillu er og allvíða óljós eða vafasöm, og þó sumstaðar bregði fyrir mælskublæ,

þá gætir þess síður af því hugsunin er á reiki. Og þó mörgum þætti allmikið kveða að ræðum Helga biskups, er hann flutti þær sjálfur, mun það hafa verið miklu meira að þakka hans snjalla framburði, er allir dáðust að, en ágæti kenningar hans. Bók Helga biskups er að minu áliti alls eigi ígildi Pjeturspostillu. Pjeturs postilla er einnig yngri og á betur við vora tíma«.[1])

Þegar Pjetur biskup dó var í ýmsum blöðum minnst á guðsorðabækur hans, þó víðast í almennum orðatiltækjum, sem hjer þarf ekki að hafa eptir. Vjer skulum að eins nefna eptirfylgjandi dæmi. Í æfiágripi í Sameiningunni[2]) stendur þessi klausa um kenningu Dr. Pjeturs: »Með stofnun prestaskólans og guðsorðabókum sínum kom hann nýju sniði á kenningarmátann á Íslandi, stefnan breyttist í evangeliska átt; hann hjelt sjer yfir höfuð fast við trúarjátningu vora«. »Í kristindómslegu tilliti hlaut þessi stefnubreyting að vera mikill gróði fyrir kirkjuna, en gróðinn hefði orðið meiri, hefði jafnframt hinum almennu objektivu kristindómssannindum, meira af persónulegum, subjektivum kristindómsanda verið látið koma fram í prjedikuninni. Á þeim tíma þegar Pjetur biskup var andlega að mótast rjeð idealismusinn í heimi skáldskaparins að minnsta kosti á Norðurlöndum og Þýzkalandi. En sú stefna í skáldskapnum hafði áhrif á prjedikunarmátann í kirkjunni. Þeir tóku prjedikararnir þá, t. d. Wallin, of lítið tillit til virkilegleika mannlífsins, voru of litlir realistar, of miklir idealistar, skygndust of lítið inn í eða tóku of lítið tillit til margbreytilegleikans í manneðlinu og ástæðum einstaklinganna, hjeldu sjer of mikið við hin almennu trúarsannindi og gengu yfir höfuð út frá því, að allir tilheyrendurnir væri í rauninni trúaðir kristnir menn. Afleiðingin af þessu varð, að kristindómsboðskapur þessara manna vildi verða fyrir ofan og utan

1) Fjallkonan II, 1885, bls. 37.

2) Sameiningin VI, bls. 95—96. Höfundur þessarar greinar er eigi nefndur, en síra Jón Bjarnason var þá veikur.

tilheyrendurna. Hann gat naumast vakið menn í andlegu tilliti, en hafði hins vegar ýmislegt það við sig, sem skapaði honum almennar vinsældir. Hann var mildur, þýður og þægilegur. Það er þessi stefna sem ruddi sjer til rúms í íslenzku kirkjunni með Pjetri Pjeturssyni«.[1]) Um Pjetur biskup segir Hafsteinn Pjetursson: »Pjetur biskup varð aðalmaðurinn í bardaganum gegn skynsemistrúnni. . . . Hann er lærðasti og afkastamesti allra íslenzkra guðfræðinga á þessari öld. Húslestrarbækur hans hafa haft mjög mikil áhrif. Þegar Pjeturs prjedikanir komu út, þá munu nálega allir þeir, sem lásu Árnapostillu hafa hætt við hana. Smátt og smátt hvarf Árnapostilla alveg úr sögunni, Pjeturspostilla kom í hennar stað og varð ávallt vinsælli og vinsælli eptir því sem lengur leið«.[2])

Um hinar aðrar guðsorðabækur Pjeturs biskups þarf hjer ekki að fjölyrða, enda verður þeirra siðar getið, þeim var öllum vel tekið af alþýðu og hugvekjurnar voru lestnar því nær á hverju heimili. Á þeim er svipað snið eins og á prjedikununum og hið þýða og lipra orðfæri fjell mönnum vel í geð.[3]) Þá fjekk Bænakverið einnig mikla útbreiðslu og ekki sízt Smásögur

---

1) Svipaðar skoðanir koma fram hjá sira Jóni Helgasyni í æfiágripi Pjeturs biskups í »Biografisk Lexicon«. Þar segir enn fremur um guðsorðabækur hans: »I hans religiöse Skrifter saavel hans Prædikener som hans Betragtninger, der alle præges af et fuldt ud evangelisk Syn paa Kristendommen, möder Læseren en varmtfölende kristelig Personlighed, det samme milde og humane Sindelag, som kjendetegner Forfatterens Færd i det hele taget. Der er ingen Rigdom paa store originale Tanker eller gribende Billeder men en jævn, klar og enfoldig Fremstilling af Troens Indhold, dens Forjættelser og Krav«.

2) Aldamót I, 1891, bls. 123—124.

3) Í »Ugeblad for den danske Folkekirke udg. af H. Scharling«, var 31. marz 1865 nr. 14, mjög hrósandi ritdómur um hugvekjur dr. Pjeturs, sem útkomu 1858 og 1859 og var hann þýddur í Þjóðólfi XVIII, 1866, bls. 36—37. Þá var einnig hrósandi ritdómur um kvöldhugvekjurnar sem útkomu í Kmhöfn 1871 í Theologisk Tidskrift, er Chr. H. Kalkar gaf út. Aarg. 1872, bls. 231—232.

Dr. Pjeturs; þær hafa breiðst um allt land í mörgum útgáfum og hafa eflaust haft mikil áhrif, enda eru þær prýðilega valdar og vel orðaðar; þær þykja enn hentugar til þess að sýna unglingum gott eptirdæmi og benda þeim á veg góðra siða og kristilegs lifernis. Um Smásögurnar segir höfundur einn í Norðanfara 1877: »Jeg hefi orðið var við, að sögur þessar hafa vakið marga lesendur sína til guðrækni, starfsemi, reglusemi og hóflegrar glaðværðar. . . . Almenningur hefir fundið í guðfræðisritum Dr. Pjeturs hugsvölun fyrir sig og gagn og skemtun af sögum hans«.[1]) Í líkum anda voru hinar mörgu greinar, er hann skrifaði í »Kristileg smárit«. Eptir uppástungu kand. O. V. Gíslasonar 25. okt. 1864 var stofnað hið »íslenzka kristilega smáritafjelag« og var prófessor Pjetur Pjetursson forseti þess.[2]) Oddur Gíslason þýddi þá líka »Krossgönguna« eptir John Bunyan og var ágóðanum af sölunni skipt milli smáritafjelagsins og sjúkrahússins í Reykjavík.[3]) »Kristileg Smárit«, sem komu út á árunum 1866—1869 fengu nokkra útbreiðslu, en þó eigi eins mikla eins og við hefði mátt búast. »Ný kristileg smárit« gaf Pjetur biskup sjálfur út 1874 og ritaði þau nærri öll sjálfur, ágóðann gaf hann prestsekknasjóði.[4]) Með Sigurði Melsted gaf Dr. Pjetur út »Skýringar yfir nokkra staði í Nýja-Testamentinu« 1861—1863,[5]) þýddi 1863 »Stuttan leiðarvísi til að lesa biblíuna« eptir R. Möller og þótti sú þýðing snildarlega samin.[6]) Árið 1878 gaf Pjetur biskup út »Leiðarvísir til að spyrja börn«[7]) og 1869 endurskoðaði hann »Handbók fyrir presta«. Eitt af

1) Norðanfari XVI, bls. 150.
2) Þjóðólfur XVII, 1865, bls. 45.
3) Þjóðólfur XVIII, 1866, bls. 31, 39.
4) Grein eftir Dr. Pjetur Pjetursson sprottin af ritdómi í Þjóðólfi um Ný kristileg smárit stendur í Víkverja 1874, bls. 99.
5) Sbr. Þjóðólfur XII, bls. 153; XIV, bls. 19. Íslendingur II, bls. 112.
6) Þjóðólfur XIV, bls. 123. Norðanfari I, 1862, bls. 61—62.
7) Sbr. Kirkjutíðindi II, bls. 14.

hinum fyrstu verkum Dr. Pjeturs, eptir að hann var orðinn biskup, var að sækja um leyfi stjórnarráðsins til að mega endurskoða og laga »Handbók presta«[1]) og fjekk hann það leyfi með brjefi kirkjustjórnarráðsins 19. janúar 1867. Hin endurskoðaða Handbók kom út 1869 og er ekki annað að sjá, en að öllum hafi líkað hún vel. Um breytingar þær, sem gjörðar voru, segir Þjóðólfur að þær »virðist bæði nauðsynlegar og til verulegra bóta og virðast bera vott um nákvæma yfirvegun, vandvirkni og varúð, sem þessleiðis breytingar þurfa æfinlega sjer til leiðrjettingar«.[2]) Þar er þess getið að biskup segist hafa haft til stuðnings »Udkast til en Alterbog« af Mynster. Kbhavn 1840. Langur ritdómur um Handbókina eptir síra Benedikt Scheving kom í dönsku tímariti[3]) og var hann þýddur á íslenzku, endurskoðuninni er hrósað mjög og höf. kemst að þeirri niðurstöðu, að kirkjunni á Íslandi hafi »komið stórvægilegur ávinningur þar sem er þessi nýja útgáfa af Handbókinni«. Pjetur biskup var sannfærður um, að endurskoðun þessi væri nauðsynleg og vann að henni alveg kauplaust, það var öllum kunnugt, að endurskoðunin stóð til, því það hafði verið auglýst í blöðunum tveim árum áður, svo vill Dr. Pjetur samt ekki neyða handbókinni upp á neinn mann, en vill láta endurbótina smátt og smátt ryðja sjer til rúms. Fyrir ómakið fjekk hann hinar vanalegu íslenzku trakteringar, óbilgjarnar aðfinnslur og hnútur. Enginn mótmælti þó þessari aðferð hans nema síra Þorvaldur Bjarnarson, hann ritaði aðfinnslur í Þjóðólfi og segir þar, að biskup hefði fyrst átt »að leita leyfis safnaða og kennimanna um að mega beiðast leyfis til breytinga«.[4] Ekki er nú biskupsvaldinu gjört hátt undir höfði eða framtakssemin

1) Þjóðólfur XIX, 1866, bls. 9.

2) Þjóðólfur XXII, bls. 14.

3) Dansk Ugeskrift for Kirke og Folkeliv, Literatur og Kunst 1870 3. hepti. Þjóðólfur XXII. 1870 bls. 110.

4) Þjóðólfur XXII. 1870, bls. 176—177.

örvuð. 28 árum síðar minntist síra Þorvaldur aptur á þetta mál með vanalegri óbilgirni og gapaskap og bregður Pjetri biskupi um gjörræði og pukursanda við endurskoðun þessa. Það er undarlegt að kalla það pukur, að endurskoðunin var auglýst tveim árum áður en hún var framkvæmd.[1]) Í þeirri grein er höf. mjög margorður um oflof það, sem hann segir að síra Benedikt Scheving hafi borið á bókina með mörgum lítt sæmandi orðum um Pjetur biskup.[2])

Í »Luthersk Ugeskrift« sem kemur út í Kristíaníu[3]) reit Pjetur biskup eptir áskorun ritstjóranna 1880 allítarlega ritgjörð um íslenzka kirkjusögu og hið kirkjulega ástand á Íslandi, ritgjörð þessari er skipt í 7 kafla eða greinir og er þetta aðalinntak efnisins: Kristnitaka, setning biskupsstóla, klerkavaldið vex, siðabót o. s. frv. Þá skýrir höf. frá ástandi og stjórn kirkjunnar nú á dögum talar um biskup, prófasta og presta, um prestaskólann og synodus, um uppfræðslu ungdómsins, um hluttöku safnaða í kirkjumálum o. fl. Að lokum talar hann um trúboð kaþólskra manna og um Mormóna, um húslestra, sálmabók, handbók presta, kverið og um hið íslenzka biblíufjelag.

Nokkur ár, frá því 1882 fram á sumarið 1887, skrifaði Pjetur biskup ýmsar frjettagreinir og aðrar greinir í »Nationaltidende« í Kaupmannahöfn, en aðrir Íslendingar skrifuðu líka í það blað, svo Pjetri biskupi

1) Það mætti miklu fremur kalla það pukursanda hjá síra Þorvaldi eða eitthvað verra, að hann, meðan Pjetur biskup lifði, aldrei skrifaði nafn sitt undir skammagreinarnar, heldur einhver dularnöfn, en eftir lát hans kannaðist hann við nafn sitt.

2) *Þorv. Bjarnarson:* Nokkur orð um handbókarfrumvarpið nýja (Verði ljós III, 1898 bls. 5—11). Ýmsar aðfinnslur eru líka í Aldamótum VIII, bls. 112.

3) Luthersk Ugeskrift 8. Halvaar 1880, bls. 337—343, 386—392. Frá útgefandanna hálfu er mjög trassalega gengið frá ritgjörð þessari, þeir hafa t. d. týnt eða gleymt löngum kafla úr miðri ritgjörðinni, svo þar vantar nærri allan 3. kapítulann og helming af hinum 4., í registrinu er skakkt vísað á blaðsíður og allur frágangur eftir þessu.

voru stundum eignaðar greinar, sem hann ekkert var riðinn við, hann mun og stundum á fyrri árum hafa skrifað eitthvað í önnur dönsk blöð, en það er nú ómögulegt að finna. Brynjólfur Pjetursson reit líka margar nafnlausar greinar um danska pólitík, sem enginn veit nú hvar eru niður komnar.

Einn hinn merkasti prestur á Íslandi hefir gert mjer þann greiða, að segja álit sitt um ritstörf Pjeturs biskups, og þó nokkuð ítarlegar sje talað um sum ritin annarstaðar í bók þessari, læt jeg prenta ritgjörðina hjer á eptir í heilu lagi til fróðleiks og samanburðar.

## Um kirkjuleg ritstörf Pjeturs biskups og guðræknisbækur hans.

Síðan Guðbrandur biskup Þorláksson var á dögum hefir enginn unnið eins mikið að útbreiðslu guðræknisrita á Íslandi og Pjetur biskup Pjetursson, og kippir honum því í kynið til þessa forföður síns. En að því leyti stendur Pjetur biskup framar að hann frumsamdi miklu meira en Guðbrandur gerði.

Þó að Pjetur væri vel lærður guðfræðingur á sinni tíð virðist hann þó tiltölulega lítið hafa átt við vísindalega guðfræði, fyrir utan fyrirlestra þá, er hann samdi í námsgreinum þeim, er hann kenndi við prestaskólann. En fátt af því tagi hefir komið fyrir almennings sjónir.

Fyrsta rit hans sem gefið var út, var »*Stutt ræðusnið* eða fáeinar hugvekjur ætlaðar prjedikurum« 1839. Það er einn þáttur kennimannlegrar guðfræði, vel samið rit, ljóst og skipulegt, þó að Pjetur væri þá tiltölulega ungur prestur, er hann gaf það út, gat hann djarft úr flokki talað um þetta efni eins og síðar varð raun á.

Frá yngri árum hans eru til 2 vísindalegar ritgjörðir báðar ritaðar á latínu. Önnur ritgjörðin er *um Rúfínus prest* í Aquileja († 410), er talinn er meðal kirkjufeðra vesturlanda (Symbolæ ad fidem et studia Tyrannii Rufini presbyteri Aquileiensis illustranda) 1840. Hin ritgjörðin er *um kirkjulög á Íslandi* fyrir og eftir siðaskiftin (Commentatio de jure ecclesiarum in Islandia ante et post reformationem) 1844. Fyrir fyrnefnda

ritið fjekk hann licentiat-nafnbót, en doctors-nafnbót fyrir hið siðarnefnda.

Merkasta rit Pjeturs frá þessum árum er þó *kirkjusaga Íslands* (Historia ecclesiastica Islandiæ), er hann gaf út 1841. Rit þetta nær yfir 100 ár, frá 1740 til 1840, og er það áframhald af kirkjusögu Finns biskups Jónssonar, enda með sama sniði og hún. Það er þó öllu fremur drög til kirkjusögu og jafnframt til skólasögu og bókmentasögu á sama tíma en eiginleg kirkjusaga. Hún er enn órituð. Eigi að siður er þetta mjög merkilegt rit í sinni röð og hefir mjög mikinn fróðleik að geyma um kirkju og skólamál, svo og um bókmentir á þessu tímabili og það því fremur, sem þar eru einnig tekin upp í viðaukum kirkjuleg lagaákvæði frá þeirri tíð og önnur skjöl, er lúta að kirkju- og skólamálum; eru þau prentuð á frummálinu, sem mestmegnis er danska; en meginmál sögunnar er ritað á latínu. Er rit þetta ásamt kirkjusögu Finns ómissandi fyrir hvern þann, er vill kynna sjer þessi mál rækilega. — Tvær merkilegar ritgjörðir hefir hann og ritað aðrar, er mjög koma við kirkjusögu Íslands; en það eru æfisögur 2 kirkjulegra atkvæðamanna: *Guðbrands Þorlákssonar* Hólabiskups (í Ársriti prestaskólans 1850) og *Brynjólfs Sveinssonar* Skálholtsbiskups (í Tímariti bókmentafjelagsins 1884). — Enn fremur mætti nefna í þessu sambandi Æfiminningu föður hans *Pjeturs* prófasts *Pjeturssonar* (1881).

Það er þó eigi vísindaleg starfsemi Dr. Pjeturs, er einkum hefir gjört hann þjóðkunnan og kæran löndum sínum, heldur sjerstaklega guðræknisrit hans sem öll eru rituð á íslenzku og í alþýðulegum búningi.

Má þar til fyrst telja *Helgidaga-prjedikanir* hans. (Prjedikanir til helgidagalestra í heimahúsum), er í fyrsta sinni voru gefnar út 1856, en siðar oftar. Prjedikanir þessar komu á hentugum tíma og fjellu í góða jörð. Menn áttu að vísu áður til tvennar helgidagaprjedikanir, er notaðar voru til helgidagalestra. Önnur var Vídalíns-postilla eða Jónsbók, sem svo var og oft nefnd; en hin var Árna-postilla. Hvorug þeirra fullnægði þó til hlítar þörfum almennings eins og nú var komið. Hinar snjöllu og áhrifamiklu prjedikanir Jóns biskups Vídalíns, sem lengi höfðu að maklegleikum verið í miklu gildi hjá þjóðinni, þóttu

nú að sumu leyti vera farnar að úreldast einkum að orðfæri og ytra búningi, sem ekki var óeðlilegt þegar tekið var tillit til þess hve langt var síðan þær voru samdar. Þó að þesskonar rit haldi áfram sínu »klassiska« gildi, þá leiðir ekki af því að þau sjeu ætíð hentug til almennings nota. Í annan stað voru prjedikanir Árna Helgasonar, þær höfðu fallið allvel í geð mörgum samtíðamönnum hans, en nú var mönnum farið að sýnast svo sem þær bæru nokkurn keim af svokallaðri skynsemistrú síðari hluta 18. aldar; og auk þess var málfæri á þeim eigi svo vandað, sem nú var ætlast til. En nú komu prjedikanir, sem ekki báru á sjer einkenni liðins tíma, en áttu nákvæmlega við þann tíma sem þær komu fram á, og voru jafnframt með ljósu og lipru máli. Þetta greiddi þeim veg að flestum heimilum, og seldist 1. útgáfa þeirra á fáum árum. Það var eigi nein ný kenning, sem ruddi sjer hjer til rúms, og efnismeðferðin var að sumu leyti hin sama sem í hinum eldri prjedikunum; niðurskipun var lík og áður hafði tíðkast; inngangur, umtalsefni, oft stutt og gagnort og síðan aðalræðan sjálf aftast, með þesskonar skiftingum, sem tíðkast hafa í prjedikunum fram á vora daga og enn tíðkast allvíða. Að þessu leyti var því ekki um neina nýung að ræða. En það var eins og nýr andi hvíldi yfir hinum nýju prjedikunum, nýr mannúðarblær, sem átti vel við hina nýju tíma. Hjer voru engvar harðar refsiræður. Sú aðferð að ógna mönnum með reiði guðs og refsidómum var þá alment búin að missa þau áhrif, er hún að líkindum hafði haft á marga í fyrri daga. Dr. Pjetur var og eigi á þeirri skoðun, að kraftur og kjarni kristindómsins sje fólgin í stóryrðum og ógnunum, og á fyrirdæmingarlærdóm kirkjunnar lagði hannn tiltölulega litla áherzlu, þá sjaldan að hann slær eitthvað lítilsháttar á þá strengi farnast honum það miður; svo var honum það óeiginlegt. Hins vegar voru hjer hvorki þungar heimsspekilegar hugleiðingar nje þurrar og strembnar fræðikerfisgreinir, og auðvitað eigi andlausar skynsemis-skýringar á leyndardómum trúarinnar. Í formálanum fyrir 1. útgáfu postillu þessarar getur höfundurinn þess, að sjer hafi verið mest um það hugað að hafa prjedikanirnar einfaldar og kristilegar; og þetta hafði honum tekist ákjósanlega, enda virðist þannig löguð kristindóms-

boðun hafa verið honum eiginlegust. Hjer var eingin hrífandi mælska, engin framúrskarandi orðsnild nje andagift, yfir höfuð ekkert sjerstaklega frumlegt eða einkennilegt; en hjer var aftur í ríkum mæli kristileg einfeldni eða einfaldur kristindómur í fögrum en látlausum búningi. Það var þetta, sem menn einkum gengust fyrir í kristindómsboðskap hans, og slík kristindómsboðun verður jafnan drýgst til sannra nota og affarasælust þegar til lengdar lætur. Síðan prjedikanir þessar komu fyrst út er nú liðin hálf öld. Margt hefir síðan tekið ýmsum breytingum, og hugsunarháttur manna er að mörgu leyti orðinn breyttur frá því sem þá var. En Pjeturs-bók heldur að miklu leyti enn sínu fyrra gildi. Síðan hún kom út hafa ýms önnur prjedikunarsöfn verið gefin út, er hafa margt til síns ágætis; en ekki hafa prjedikanir Pjeturs þurft að þoka fyrir þeim, og eru notaðar í dag engu síður en þau.

Þegar dr. Pjetur sá hvað prjedikunum hans var vel tekið fjekk hann djörfung til að gefa einnig út fleiri guðræknisrit handa alþýðu manna; og þá virtist liggja einna næst að gefa henni kristilegar *hugvekjur*. Sá góði siður að lesa húslestra daglega allan veturinn og jafnvel lengur mun þá hafa tíðkast nálega um alt land, þó að hann sje nú að sögn allvíða lagður niður; — en um það vantar skýrslur eins og um flest önnur kirkjuleg atriði. — Húslestrarbók, sú sem alment var notuð í þessu skyni voru Sturms-hugvekjur, allgóð bók á sinni tíð, en var nú farin að úreldast; var hún og mjög óvönduð að máli. Hugvekjur Vigfúsar prests Jónssonar í Stöð út af Passíusálmum Hallgríms Pjeturssonar voru og sumstaðar notaðar um föstutímann; en þær höfðu áþekka galla. Nýlega hafði og Sveinbjörn Hallgrímsson, prestur í Glæsibæ, gefið út nýjar hugvekjur bæði til fyrrihluta vetrarins og föstunnar; þær voru að vísu með betra máli en hinar, en fjellu mönnum þó ekki allskostar í skap. Enn voru sumstaðar lesnar við húslestra Hugleiðingar Mynsters biskups, ágætt rit í sinni röð og í ágætri þýðingu með einkar vönduðu máli. En bók þessi var þó ekki að öllu leyti við alþýðu hæfi; svo þótti hugleiðingarnar í lengra lagi til húslestra, en hins vegar of fáar, en vont að skifta þeim í fleiri en einn lestur. Dr. Pjetur rjeðist þó í að semja hugvekjur til lestra

í heimahúsum. Fyrst komu *Vetrarhugvekjur* (Hugvekjur til kvöldlestra frá veturnóttum til langaföstu) 1858; þá *Föstuhugvekjur* (Fimmtíu hugvekjur út af pínu og dauða drottins vors Jesú Krists) 1859. Og enn komu síðar *Vorhugvekjur* (Hugvekjur til lestra frá páskum til hvítasunnu) 1871. Öll þessi hugvekjusöfn höfðu sömu kosti og sömu einkenni og prjedikanirnar, enda fengu sömu góðu viðtökur hjá þjóðinni, og voru gefin út hvað eftir annað. Og þótt nýjar góðar hugvekjur eftir aðra hafi síðan verið gefnar út munu Pjetursbugvekjur enn halda öndveginu þar sem daglegum húslestrum er haldið uppi á annað borð.

Þá hugsaði dr. Pjetur einnig fyrir *bænum* handa fólkinu, því að víða voru bænir notaðar við húslestrana, sem enn er títt sumstaðar. Um langan aldur hafði þá að eins eitt nýtilegt bænakver verið til og notað alment, nefnil. Bjarnabænir (Arngrímssonar), því að Þórðarbænir munu þá hafa verið úr gildi gengnar. Nýlega höfðu raunar góðar bænir verið gefnar út eftir síra Ólaf Indriðason; en dr. Pjetur mun þá þegar hafa haft sitt bænakver tilbúið. Það var ekki tilgangur hans að útrýma eldri bænum, heldur að gefa mönnum kost á tilbreytni. *Bænakver* dr. Pjeturs kom fyrst út 1860. Þar eru eins og í eldri bænakverum bæði vikubænir og tímaskifta- og tækifærisbænir. Bænir þessar, sem eru þíðar og hjartnæmar og með öðrum einkennum höfundarins eru enn í dag alment notaðar við húslestur, þar sem bænir eru annars hafðar.

Auk þessara guðræknisrita komu einnig út fleiri söfn eftir dr. Pjetur: *Nokkrar tækifærisræður* 1857, *Tvær hugvekjur á jólum og nýári* 1883 og *sjö miðvikudagshugvekjur á föstunni* 1884. Enn fremur voru gefnar út eftir hann ýmsar *tækifærisræður*, sumpart sjerstakar, en sumar í minningarritum eftir dána menn. Sverja þær sig allar í sömu ættina.

Jafnvel þótt bæði prestar landsins yfirleitt og þjóðin í heild sinni væri dr. Pjetri þakklát fyrir hinar mörgu góðu guðræknisbækur, hans varð hann þó einnig að öðru leyti að sæta sömu kostum og flestir aðrir, er eitthvað gott vinna fyrir þjóð sína öðrum fremur. Hann varð nokkrum sinnum fyrir ófyrirleitnum árásum fyrir ritverk sín, og það hjá einstökum prestum. Það, sem þessum verkum hans var einkum fundið til foráttu,

var aðallega tvent. Annað var það, að hann tæki sumar ritsmíðar sínar úr útlendum ritum, og gæfi þær svo út undir sínu eigin nafni. Sú átylla var fyrir þessu, að hjer og hvar í hinum áminstu ritum sínum hefir hann stuðst við samskonar rit útlendra höfunda, og á stöku stað munu vera beinlínis þýddir kaflar. En dr. Pjetri var engin launung á þessu; og í formálanum fyrir 1. útg. prjedikana sinna getur hann þess beinlínis að hann hafi stuðst við útlendar prjedikanir, þó að hann ekki skýri frá því nákvæmara, enda hefði það litla þýðingu haft fyrir allan þorra manna. Aftur hefir honum af hugsunarleysi yfirsjest að gjöra það með tilliti til sumra annara guðræknisrita sinna, sem hefði þó verið viðkunnanlegra; því að þótt engin ástæða sje fyrir presta að tilkynna það, þó að þeir stöku sinnum fari með þýdda eða hálfþýdda ræðu, er öðru máli að gegna um það, sem út er gefið. En Pjetur hugsaði eingöngu um það, að það, sem kæmi frá hans hendi, yrði að notum, um höfunda þótti honum minna skifta. Óyggjandi sönnun gegn því að hann hafi vísvitjandi ætlað að eigna sjer verk annara, er meðal annars það, að honum hlaut að vera kunnugt um það, að þessi rit, sum hver a. m. k., sem hann studdist við, voru í höndum margra presta landsins. Svo var það öllum vitanlegt, að hann þurfti ekki að fara í smiðju til annara. Ámæli þessu mun Pjetur annars hafa hrundið af sjer í blöðunum, svo að eigi var það vakið upp aftur. — Hitt, sem ráðist var á hann fyrir, var einkum það, að kristindómsboðun hans væri allt of mjúk og miðaði til að svæfa samvizku manna. En það sem hjer var ráðist á hann fyrir, var í rauninni það, að hann í stað þess að hræða menn og hrella með helvíti og kvölum, vildi kenna mönnum barnslegt traust á »föður miskunnsemdanna« og laða menn til að leita hans með auðmýkt og trú. Slíkum árásum sem þessari mun Pjetur varla hafa svarað, enda þurfti þess ekki. Það var auðráðin gáta, að hjer var ekki talað af trúarlegri alvöru nje vandlætingu, heldur af óvildarhug. — Hvortveggja þessi árás mæltist mjög illa fyrir alment, og fáir munu hafa verið svo grunnhygnir að taka mark á þeim. — En svo var Pjetur í elli sinni fyrir enn einni árás fyrir ritstörf sín; hún var þó hvorki af persónulegum rótum runnin nje eins sterk og hinar, en þó næsta óbilgjörn.

Þessi árás kom frá merkum manni í merku tímariti vestanhafs; en hún laut einkum að því, að hann ritaði »í svo almennum orðatiltækjum að enginn fyndi sig snortinn af því«, að »standandi orðatiltæki væru höfð um alt mögulegt«, og »afleiðingin væri sú að endalaus ruglingur væri kominn á hugmyndir manna og hin yngri kynslóð búin að fá óbeit á þessum steingjörfinga-kristindómi«. Þessi þungi dómur styðst við það að í ritum Pjeturs koma oft fyrir sömu orðatiltæki. En hvort sem menn kunna betur eða ver við þetta, er það í rauninni varla annað en sjerstakt höfundarmark, og þykir slíkt sjaldan með lýtum teljandi. En hitt eru ofsjónir að af því geti leitt svo illt, sem gefið er í skyn. Þessi dómur, sem ekki mæltist heldur vel fyrir, mun hafa sært hinn gamla mann, er fanst að væri verið að knjesetja sig í ellinni, og mundi það hafa verið miður vel tilfallið, ef svo hefði verið. Það var og engin furða þó að honum fyndist sjer vera gjört rangt til, ef þetta yrði dæmt niðurstaðan og afleiðingin af öllu hinu mikla starfi, er hann hafði unnið fyrir kristindóm þjóðarinnar.

Það var og ekki laust við það, að Pjetri hafi stundum verið brugðið um það, að hann hafi útbreitt svo mikið af guðræknisbókum helzt og fremst sjer til fjár og frama. En hversu slíkt er gersamlega ástæðulaust má meðal annars marka á því að hann gekst einnig öfluglega fyrir útkomu samskonar rita eftir aðra. Þannig gekkst hann fyrir því að safna *90 kveldlestrarhugvekjum eftir ýmsa andlegrar stjettar menn* 1888. Safn þetta, sem hefir raunar margar góðar hugvekjur inni að halda, er þó eigi svo vandað sem skyldi, einkum að því leyti að mál og búningur er sumstaðar í miður góðu lagi. Svo er og efnið sundurleitt sem eðlilegt er. En að valið hefir ekki tekist betur má sjálfsagt helzt kenna því, að eigi hefir verið nóg um að velja. Eigi að síður ruddu þessar hugvekjur sér til rúms ásamt öðrum hugvekjum. — Að ráði Pjeturs mun það og hafa verið að Pálsbænir (Jónssonar) voru gefnar út. Hann var ekki smeikur við keppinauta nje þeim mótfallinn.

Þá hafði dr. Pjetur mikil og eflaust góð afskifti af *endurskoðun þýðingarinnar á bibliunni* sjerstaklega að því er Nýjatestamentið snertir; og má telja það starf hans í senn bæði vísinda-

legt og alþýðlegt. Að þessu verki hans var ýmislegt fundið af sumum; og kann það að vera, að þýðingin sje ekki eins nákvæm og verið gæti. En Pjetur, sem var engin bókstafsmaður, áleit ekki nauðsynlegt að þræða mjög orðaröð frumtextans, sem oft hlýtur að verða óeðlilegt i islenzkri tungu, og efnið jafnvel fyrir það torskildara en ella. En honum var hjer sem annarstaðar mest um það hugað, að hugsunin næðist rjett, hvað sem einstökum orðum liði, og að alt yrði sem ljósast og að sem beztum notum. Svo var honum einkar annt um að útbreiða bibliuna sem víðast meðal alþýðu manna, og sýndi hann í því sem fleiru mikinn dugnað. Fyrir öll afskifti hans af þessu máli var hann gjörður heiðursforseti brezka bibliufjelagsins. — Hvað honum var annt um að menn hefðu sem bezt not bibliunnar má meðal annars marka á því að hann einnig þýddi og gaf út *Stuttan leiðaðvisi til að lesa bibliuna* 1862. Í þessu sambandi má og geta þess, að hann árin 1861—1863 gaf út ásamt prestaskólakennara Sigurði Melsteð: *Skýringar yfir nokkra staði í Nýjatestamentinu*, og mun Pjetur sjálfur hafa samið sumar þeirra. Hafa skýringar þessar, sem flestar eru um nokkra staði í brjefum postulanna, sjálfsagt upphaflega verið úr bibliuþýðingarfyrirlestrum á prestaskólanum, en þeim verið nokkuð breytt til að gjöra þær alþýðlegri.

Þá vann Pjetur einnig að *handbók presta*. Handbók sú, sem prestar höfðu áður haft um langan aldur, var nú alveg úrelt orðin fyrir margra hluta sakir, og þótti honum tími til kominn að endurskoða hana. Í þessu starfi sínu mun hann aðallega hafa lagt til grundvallar handbókar-frumvarp Mynsters biskups (Udkast til en Alterbog). Ýmislegt var fundið að þessari endurskoðun, en það ekki hvað sízt, að hann hefði ekki aðra þar i ráðum með sjer; og svo þótti endurskoðunin ekki nógu rækileg og víðtæk. Þetta álit manna, að endurskoðunin hefði ekki náð nógu langt, varð því almennara er lengra leið, og leiddi það til þess að skömmu eftir hans dag var efnt til nýrrar handbókar presta, er betur gæti samsvarað kröfum tímans. En aðgætandi er, að þá er Pjetur endurskoðaði handbókina var naumast kominn tími til að gjöra svo gagngerða endurbót í þessu tilliti, sem annars hefði verið æskilegt. Það var og skoðun hans, að í

hverju sem væri, væri hentugast að gera engin stórstökk, heldur feta sig áfram smátt og smátt; það mundi verða affarasælast.

Líka aðferð hafði hann með tilliti til *Sálmabókarinnar*. Honum var það snemma ljóst, að íslenzku kirkjunni væri þörf á nýrri sálmabók og betri en aldamóta-bókin, sem er svo oft kölluð. Þá er efnað var til hennar var andleysi alment í kirkjunni, að mörgu leyti meira en bæði fyr og síðar; og svo var íslenzk tunga þá í niðurlægingu og kveðskapur yfirleitt á lágu stigi bæði að efni og orðfæri og öllum ytra búningi. Í ársriti presta í Þórnesþingi syðra (1847) kom hann fram með vel rökstudda bæn til þáverandi biskups um nýja messusöngsbók, »sem að efninu til geymdi í sjer fjársjóði kristinnar trúar og að öllu skipulagi sambyði sanngjarni eftirvæntingu almennings«. En þetta var ekkert áhlaupaverk; og þó að Helgi biskup Thordersen væri þessu máli hlynntur varð þó árangurinn í bráð ekki annar en sá, að gefinn var út nýr viðbætir við sálmabókina (1861). Þetta þótti sem von var »lítilfjörleg bót á gamalt fat«, og mun viðbætir þessi hafa fremur lítið verið notaður, en var þó prentaður tvisvvar. Þá er Pjetur var orðinn biskup 1866 tók hann brátt að reyna að koma á nauðsynlegri endurbót í þessu efni og efna til nýrrar sálmabókar. Starfaði hann sjálfur mikið að undirbúningi bókarinnar ásamt síra Ólafi Pálssyni dómkirkjupresti og síra Stefáni Thorarensen á Kálfatjörn. Síra Stefán, sem var mjög sálmatróður maður og skáld, vann þó langmest að bók þessari. Hin nýja sálmabók, sem þó í raun rjettri ekki var annað en hin gamla sálmabók endurskoðuð og bætt, kom út 1871. Ritaði biskup rækilegan formála fyrir henni og mælti sem bezt með henni. En það kom fyrir lítið; menn höfðu vonast eftir miklu gagngerðari breytingu, og varð bókin fyrir allhörðum dómum úr ýmsum áttum, sumum reyndar ærið óbilgjörnum, en aftur höfðu aðrir við allgóð rök að styðjast; því að eftir því sem nú var komið þekkingu manna á eðli íslenzkrar tungu og kveðskap mátti gera meiri kröfur. Það er og eigi óliklegt, að breytingin hefði orðið nokkuð gagngerðari að því leyti sem Dr. Pjetur átti þátt í henni, ef hún hefði komið meðan hann var yngri, en nú var hann kominn á efri ár og farinn að verða íhaldsamari. Biskup reyndi fyrst um sinn að verja bókina, auð-

vitað hógværlega, eins og hans var von og vísa. En þar kom þó að hann ljet undan kröfum þeim, sem gjörðar voru, og efnaði nú til alveg nýrrar bókar með því að setja nýja nefnd til að undirbúa það mál (1878). Nefnd þessi starfaði í nokkur ár að verki þessu, og k m síðan með alveg nýja sálmabók (1886), er betur samsvaraði kröfum tímans og þörfum kirkjunnar. Að þessari bók vann biskup ekkert sjálfur. En það var honum til mikils sóma, hvernig hann snerist við þessu máli, þrátt fyrir það, sem á undan var farið.

Þá var *barnalærdómsbókin* eftir. Af því, sem hjer hefir verið talið, var nú reyndar minst aðkallandi með hana, því að hún var eigi orðin svo mjög á eftir tímanum sem hið annað. Því ljet biskup endurbót í þeim efnum geymast lengst. En honum var það þó ljóst, að engin mannaverk geta staðið til lengdar, en þurfa a. m. k. að skifta um búning við og við. Þetta höfðu menn og fundið í Danmörku, að því er barnalærdóminn snertir; þar var kominn á gang ný barnalærdómsbók eftir Balslev biskup og var þar alment notuð. Síra Ólafur Pálsson þýddi hana á íslenzku og var hún lögleyfð um það leyti er Pjetur varð biskup (1865). Hvort það hefir verið að hans ráði eða ekki er ókunnugt um; en farinn var hann þá að ráða um margt í kirkjulegum efnum. Barnalærdómskver þetta var notað almennt í nokkur ár, en náði hjer þó aldrei verulega almennings hylli. En þá var Pjetur biskup vakandi eins og vant var, og sá að hjer þurfti að efna til nýrrar barnalærdómsbókar. Vildi hann helzt að hún yrði frumsamin á íslenzku. Sjálfur var hann þá mjög tekinn að eldast og hafði ærið að starfa; treysti hann sjer því ekki að ráðast í það að semja sjálfur þesskonar bók, enda má vera að það hafi dregið úr honum, hvernig ýmsum endurbótatilraunum hans hafði verið tekið á síðari árum. Sneri hann sjer þá til þess manns, er hann vissi bezt til fallinn, en það var sjera Helgi Hálfdanarson, kennari við prestaskólann. Sjera Helgi, sem jafnvel hafði verið að hugsa um þetta áður, varð vel við þessu og samdi barnalærdóm þann, sem við hann er kendur. Kver þetta kom út 1877 og hefir alment verið notað síðan. En eigi var Pjetur biskup enn uppgefinn og árið eftir kom út eftir hann *Stuttur leiðarvísir til að spyrja börn* eftir kveri sjera Helga. Er

hann ofur auðveldur, ef til vill um of. Kver þetta hefir verið prentað tvisvar, en mun þó aldrei hafa verið notað mikið.

Þannig hafði Dr. Pjetur bæði áður en hann varð biskup og eftir það gjört margar endurbætur því nær á öllum innri svæðum kirkjulífsins. En honum var það ekki nóg; hann vildi að enn fleira leyti vinna gagn til eflingar guðsríki og góðum siðum á fósturjörð sinni. Þar til má telja, að hann safnaði ýmsum góðum *Smásögum* útlendum og þýddi þær á íslensku. Á þessu byrjaði hann tiltölulega snemma. Fyrzta hefti af smásögum þessum kom út 1859. Þá varð alllangt hlje. En á efri árum sínum tók hann aftur til við það, og komu þá út nokkur smásagnahefti, er hann hafði safnað og þýtt. Sögur þessar eru allar meira eða minna siðferðislegar að efni og hentugar til lestrar handa unglingum, var þeim mjög vel tekið af alþýðu manna eftir því sem gerist, og hafa flestar þeirra verið gefnar út oftar en einu sinni.

Fremur er það beint í kirkjulega átt, að hann gaf einnig út *Kristileg smárit*, er sömuleiðis voru einkum ætluð unglingum og jafnframt alþýðu manna. Smárit þessi komu út á árunum 1865—1869. Síðan gaf hann aftur út *Ný kristileg smárit* 1874. Í hvorutveggja smáritum þessum hefir hann sjálfur skrifað margt bæði þýtt og frumsamið, og er það alt vel valið og ágætlega frá því gengið. Meðal ritgjörðanna í smáritunum 1874 er ágæt grein um Pál postula, er hann að sögn sjónarvotts skrifaði í mesta snatri alveg fyrirvaralaust og án nokkurra stuðningsrita. Svo var hann þar vel heima.

Tvisvar gekst Dr. Pjetur fyrir stofnun annarskonar kirkjulegra tímarita. Í fyrra skiftið var það *Ársrit presta í Þórsnesþingi syðra* 1847 meðan hann var þar prestur og prófastur. Í síðara skiftið var það *Ársrit prestaskólans* 1850, er hann gaf út meðan hann var þar forstöðumaður, ásamt samkennara sínum Sigurði Melsteð. Í báðum þessum ritum eru ýmsar merkar ritgjörðir flestar frumsamdar, og hefir hann átt meiri hlutann af þeim. En hvorugu þessu tímariti var eins vel tekið og þau áttu skilið og urðu þau bæði skammær eins og raun hefir áorðið um flest kirkjuleg tímarit vor. Af hinu fyrnefnda tímariti komu að eins út 2 árgangar, og af hinu síðarnefnda að eins 1 árgangur. Var

það eigi lítill skaði, því að Dr. Pjetur hafði betri tök á því en flestir aðrir landar hans hafa haft að stýra slíkum ritum.

Í *dagblöðunum* svonefndu, bæði þeim sem hann sjálfur stýrði, og öðrum eru margar góðar greinir eftir hann um kirkjuleg efni. Sumar eru sjálfstæðar ritgjörðir, en sumar svör gegn ritgjörðum eða greinum annara. Venjulega þagði hannn við árásum þeim, er gjörðar voru á sjálfan hann, en var jafnan boðinn og búinn til að taka svari annara, ef hallað var á kirkjuna eða prestastjettina að ósekju að hans dómi. Það þarf ekki að taka það fram að aldrei hallaði hann á nokkurn mann að fyrra bragði nje bar á aðra lastmæli. En þá er hann svaraði öðrum, hvort heldur það var til varnar fyrir sjálfan sig eða aðra, og yfir höfuð hvað sem hann ritaði, þá ritaða hann altaf blátt áfram sanngjarnlega og hógværlega og hlutdrægnislaust eins og stöðu hans sómdi og hverjum góðum manni er samboðið. Hann var ekki aðeins mikill rithöfundur, heldur og góður rithöfundur í orðsins bezta skilningi.



Frú Sigríður Bogadóttir 1866.

getið. Sigríður ólst upp á Staðarfelli og fjekk eins og aðrar dætur Boga staðgóða menntun í öllum kvennlegum störfum og bóklega menntun meiri en þá var tízka. *Jarðþrúður Jónsdóttir* móðir hennar var hin mesta atgerfiskona, skörungur í búskap og hinn bezti læknir; hún var fædd á Stað í Grunnavík hinn 8. maí 1776, giptist Boga Benediktssyni 1795 og dó á Staðarfelli 13. marz 1858.[1]) Bogi og Jarðþrúður áttu 10 börn og af



Hús Pjeturs biskups í Reykjavík, sjeð frá Austurstræti.

þeim komust 8 til fullorðins ára.[2]) Frú Sigríður hafði gott tækifæri til að læra búskap af móður sinni, enda varð hún hin mesta búkona. Árið 1836 sigldi Sigríður Bogadóttir með seglskipi frá Stykkishólmi og dvaldi árlangt í Kaupmannahöfn; þar átti hún tvo bræður Bene-

1) Norðanfari VI, 1858, bls. 55—56. Þjóðólfur X, 1858 bls. 74, 84. Þjóðólfur segir meðal annars »það er ekki oflof um þá framliðnu þó vjer segjum, að hún muni hafa verið einhver hin mesta merkiskona hjer á landi« og líkt farast Norðra orð, þar segir meðal annars um frú Jarðþrúði: »Höndin var ávalt útrjett til að bæta úr þörfum hinna snauðu eða hverju því sem til báginda sýndist horfa með stakri ráðdeild og hjálpsemi«. Foreldrar frú Jarðþrúðar voru Jón Sigurðsson prestur í Grunnavík, Arnarbæli og Holti í Önundarfirði og Solveig Ólafsdóttir, systir Ólafs Olavius kamersekretera.

2) Þau eru talin í Feðgaæfi. Viðey 1823 bls. 74—75.

dikt og Jens, sem báðir voru stórkaupmenn þar í bæ og þá í uppgangi.[1]) Sigríður Bogadóttir giptist Pjetri Pjeturssyni prófasti á Staðastað 23. eða 24. ágúst(?) 1841 og fluttist til Reykjavíkur sumarið 1848. Eptir dauða Pjeturs biskups flutti hún sumarið 1892 til Kaupmannahafnar og bjó hjá dóttur sinni, landshöfðingjafrú Elinborgu Thorberg 1892—1895, en síðan hjá yngri dóttur sinni, frú Þóru Thoroddsen. Frú Sigríður andaðist í Kaupmannahöfn 10. marz 1903, á 85. aldursári.[2])

Frú Sigríður var hin mesta búsýslukona og sístarfandi utanhúss og innan og mátti heldur ekki sjá aðra óvinnandi, heimili hennar var því fyrirmynd hvað verknað snerti og hússtjórn; átti opt að koma þangað stúlkum til kennslu, en það fengu færri en vildu. Dætur sínar ljet hún læra allt, sem hússtjórn snerti, eigi að eins sauma og hannyrðir, almenna bóklega menntun, tungumál og hljóðfæraslátt, heldur hjelt hún þeim líka til lærdóms í allri tóvinnu og matargjörð og ljet þær fást við hvert það verk, sem á heimili er títt og búið þarf. »Ekki tekur á nema þurfi« var orðtak hennar við dæturnar. »Þið þurfið að kunna verkin, ef þið eig-

1) Af Boga og Jarðþrúði á Staðarfelli eru komnar miklar ættir bæði á Íslandi og erlendis. Afkomendur þeirra bræðra Jens og Benedikts hafa tvístrast um víða veröld, flestir þeirra búa og hafa búið í Kaupmannahöfn, en sumir annarstaðar í Danmörku, í Svíaríki, Síam, Californíu, Sumatra, Argentina og víðar. Bogaættin þótti auðsæl mjög á Breiðafirði frá því Brokeyjar-Jón forfaðir hennar kom frá Englandi 1604 »stórauðugur af lausafje«. Svo er enn, að í þeim greinum ættarinnar, sem erlendis dvelja, er margt efnað fólk og sumt stórauðugt. Til fróðleiks fyrir íslenzka ættfræðinga set jeg hjer í viðauka skrá yfir afkomendur þeirra bræðra Jens og Benidikts Benedictsen og búa þeir allir erlendis. Skráin er samin að fyrirsögn kapteins *Jens Jacobs Benedictsen*, sem á fyrri árum var mjög víðförull á verzlunarferðum um austurhluta Asíu, til Kína, Japan og víðar; hann er fæddur á Íslandi, á Ísafirði 29. apríl 1833.

2) Þegar Sigríður biskupsfrú dó var hennar að eins lauslega getið í íslenzkum blöðum; þar sjást þó annars stöðugt íburðarmiklar lofgreinar um æfi manna og kvenna, sem að eins örfáir þekkja, en líklega eru þær greinar borgaðar sem auglýsingar.

ið að geta sagt öðrum fyrir um þau«. Frú Sigríður var ráðdeildarsöm í stóru og smáu og vildi ekki, að neitt spilltist eða eyddist að óþörfu, en stórgjöful var hún opt og rausnarleg og hinn mesti bjargvættur margra fátækra, en um gjafir hennar fengu fáir að vita aðrir en þeir, sem fyrir urðu; góðgjörðasemi hennar fór fram í kyrrþey og hún kunni bezt við að hafa á því hið gamla snið, eins og verið hafði á Staðarfelli og öðrum stórheimilum við Breiðafjörð, þegar blómaöldin var í þeim hjeruðum í ungdæmi hennar. Hún dró t. d. að sjer á haustin miklar birgðir af matvælum, korni, baunum, kjöti, smjöri o. s. frv. og ljet svo hin fátæku heimili sækja til sín þegar harðna tók á vetrum það, sem þau helzt vanhagaði um. Frú Sigríður kom með öðrum frúm í Reykjavík á tóvinnukennslu fyrir fátæk stúlkubörn, tók þátt í ýmsum bazörum o. s. frv., en yfirleitt vann hún þó líknarstörf sín í kyrrþey og kom mjög sjaldan opinberlega fram.

Þegar mislingadrepsóttin gekk í Reykjavík 1882 áttu margar fátækar fjölskyldur mjög bágt og gjörði frú Sigríður þá allt, sem hún gat, til þess að hjálpa þeim, með peningum og mat. Vinnukonur á heimili hennar lágu þá allar í mislingum og fólk var ófáanlegt til aðstoðar. Þá eldaði frú Sigríður sjálf mat eigi að eins fyrir heimilið heldur og fyrir marga fátæklinga, er ekki gátu veitt sjer neina björg, og sendi svo hina yngri dóttur sína með matinn til hinna bágstöddu heimila í úthverfum Reykjavíkur.

Frú Sigríður var siðavönd mjög og stundum berorð um það, sem henni þótti miður fara, gerði hún sjer engan mannamun, en sagði skoðanir sínar afdráttarlaust, hverjum sem í hlut átti. Hún hjelt fast við forna siði, skeytti lítið um tízkuna og skipti sjer ekkert af því hvað fólk sagði um það sem var rjett og gott að hennar áliti. Yfir henni var töluvert af fornislenzkum höfðingjablæ og framganga hennar var tíguleg við hátíðleg tækifæri. Afkastamikil var frú Sigríður til allra verka,

ráðrík nokkuð og vildi láta hlýða sjer, trygg var hún og vinföst og raungóð þegar á þurfti að halda. Frú Sigríður var vel hagmælt, en tók lítið á því, hún skrifaði þo langt leikrit með siðferðislegri stefnu og eru í því mörg kvæði; leikrit þetta er enn til. Frú Sigríður var á yngri árum fríð kona, beinvaxin og grannvaxin og vaxtarlagið allt í góðu samræmi, hún var mjög hjálmfögur og hjelt litarhætti sínum fram á elliár.



Lítil skák af garðinum bak við húsið. Annað reyniviðartrjeð.

Frú Sigríður hafði hið mesta yndi af blómrækt og varði á sumrum öllum frístundum sínum til að hjúkra að blómum sínum og matjurtum. Reynitrjen tvö, sem stóðu við húsið, hafði hún sjálf plantað, fjekk ungar smáplöntur úr Hafnarfjarðarhrauni, sem uxu vel og þróuðust; hún fjekk eyrarrós norðan úr landi og plantaði hana fyrst allra í Reykjavík; úr garði frú Sigríðar eru víst flestar eða allar eyrarrósar-plöntur komnar í öðrum görðum í Reykjavík. Hún fjekk líka mörg blóm frá Englandi og Danmörku og þroskuðust sum þeirra vel, enda vantaði ekki pössunina, því frú Sigríður elskaði blómin sín; hún var ein hin fyrsta kona í Reykjavík, sem verulega ljet sjer annt um blómrækt utanhúss, og á fyrri árum var garður hennar fyrirmynd, sem margir komu að sjá, en síðar meir gekk hann nokkuð úr sjer er ellin færðist yfir hana. Eptir að frú Sigríður flutti sig úr Reykjavík var eðlilega, eins og venja er á Íslandi,

á fáum árum búið að skemma og eyðileggja allt, er hún hafði plantað.

Pjetur biskup og Sigríður Bogadóttir eignuðust 6 börn, en af þeim komust að eins þrjú til fullorðins ára, einn sonur, Bogi Pjetursson hjeraðslæknir í Rangárvallasýslu († 22. des. 1889[1]) og dæturnar Elinborg Anna Jensína, sem giptist landshöfðinga Bergi Thorberg, og Þóra kona prófessors Dr. Þorv. Thoroddsen. Þrír drengir dóu á ungum aldri (Pjetur, Bogi og Brynjólfur[2]). Þau hjón tóku til fósturs Kristínu dóttur Pjeturs Guðjohnsen orkanleikara og var hún hjá þeim til þess hún giptist Lárusi prófasti Halldórssyni.

Heimilislífið hjá Pjetri biskupi leið fram með stillingu og ró eins og á heimilum annara embættismanna í Reykjavík; bærinn var þá lítill og heimilisfólkið á flestum heimilum þekktist og umgekkst hvað annað. Embættismenn komu saman við og við hver hjá öðrum á spilakvöldum og hjeldu einstöku sinnum stærri boð. Danzleikir og gleðileikir voru hafðir stöku sinnum á vetrum og tóku flest heimili einhvern þátt í þeim. Lærisveinar skólanna komu þá miklu optar saman á heimilum embættismanna í Reykjavík en síðar er orðið, enda voru flestir eða allir í kosti í »húsunum«, sem kölluð voru, og hópaði unga fólkið sig saman á ýmsum heimilum til skemtunar og glaðværðar; útilíf á »kafé«-um var þá óþekkt á Íslandi, og fáir Hafnarsiðir höfðu náð að festa rætur, allar stjettir hjeldu íslenzkum siðum og lifnaðarháttum. Á heimili Pjeturs bisk-

1) Bogi læknir var giptur Kristínu Skúladóttur Thorarensen, tveir synir þeirra, Skúli og Pjetur, eru nú við háskólann, Skúli cand. med & chir. í janúar 1908. Landshöfðingjafrú Elinborg Thorberg og dóttir hennar Sesselja Thorberg búa í Kaupmannahöfn, Pjetur Thorberg sonur hennar (f. 4. des. 1876) dó 10. apríl 1897. Sigríður Thoroddsen (f. 26. júlí 1888) dó 7. apríl 1903.

2) Í brjefi til Finns Magnússonar 1. sept. 1846 segir Dr. Pjetur, að hann þá í mislingunum hafi mist »skynugan og frábæran son« ársgamlan, þessi drengur hjet Pjetur; s. á. fæddist annar drengur Bogi Pjetur, sem dó á fyrsta ári, en Brynjólfur fæddist í Reykjavík og dó líka ungbarn.

ups var jafnan gestkvæmt, til hans áttu margir erindi, prestar og aðrir, og á sumrum komu þar margir útlendingar, einkum Frakkar og Englendingar bæði sökum embættisstöðu Dr. Pjeturs og af því heimilisfólkið kunni að tala útlend mál. Voru það opt tignir gestir sem komu í biskupshúsið, stundam prinzar og lávarðar og foringjar á hinum frönsku herskipum komu þar jafnaðarlega. Í útlendum ferðabókum er því víða getið um Pjetur biskup og fólk hans.[1]) Þegar Napoleon prinz kom til Reykjavíkur 1856 gaf hann að skilnaði ýmsum embættismönnum góðar gjafir, Dr. Pjetri gaf hann mynd sína og forláta spiladós, en þau hljóðfæri voru þá sjaldsjen á Íslandi.[2]) Dr. Pjetur skrifaðist á við skáldkonuna Benedicte Arnesen-Kall alla æfi eptir að hún hafði verið á Íslandi.

Það mun hverjum ljóst, að Pjetur biskup, sem afkastaði jafn miklu, hlaut að vera hinn mesti starfsmaður, enda mátti heita, að hann væri aldrei óvinnandi. Dr. Pjetur var mjög árrisull og fór optast á fætur milli kl. 5 og 6 á morgnana; á vetrum ljet hann leggja eldivið í ofn sinn á kvöldin og kveikti sjálfur í ofninum þegar hann kom á fætur, löngu fyrr en annað heimilisfólk; settist hann þá þegar við skriptir og ritaði margt af hinu bezta, er hann skrifaði, á þessum fyrstu morgunstundum. Milli kl. 7½ og 8 fór Dr. Pjetur út í göngutúr hvernig sem veður var og borðaði morgunverð er hann kom heim aptur kl. 9. Vanalega gekk hann upp að Öskjuhlíð og sneri jafnan við hjá sama steini, stakk hann staf sínum í steininn í hvert skipti sem hann sneri við og var þar komin hola allmikil í steininn. Frá kl. 9—2 og 4—7 var skrifstofan opin og á þeim tíma gegndi hann embættisstörfum; kl. 2 gekk Dr. Pjetur aptur eitthvað, þá vanalega út á Mela eða vestur að Bráðræði og á sumrum gekk hann stundum

1) T. d. í bókum eftir Benedicte Arnesen-Kall, Lord Garvagh, Lord Dufferin, Antony Trollope, Baumgartner o. fl.
2) Þjóðólfur VIII, bls. 119.

líka milli kl. 7 og 8 á kvöldum. Göngur þessar taldi hann sjer nauðsynlegar til heilsubótar og hressingar og hjelt hann þeim meðan hann lifði, að eins seinasta árið voru þær orðnar töluvert styttri en áður.[1]) Þegar Pjetur biskup hafði borðað miðdegisverð kl. 3 fjekk hann sjer vanalega lítinn lúr sitjandi í hægindastól sínum, en aldrei lagðist hann til svefns á dögum þegar hann var heilbrigður. Pjetur biskup var hófsamur í mat og drykk, þó neytti hann víns daglega með mat, en að eins af skornum skamti. Á fyrri árum reykti Dr. Pjetur mikið, en var alveg hættur því á seinni árum, en tók þá í nefið. Pjetri biskupi þótti gaman að spilum og tafli og kenndi börnum sínum öllum skák. Ein hin bezta skemmtun Dr. Pjeturs var að tefla skák við góða skákmenn, enda var hann sjálfur ágætur skákmaður, optast tefldi hann við Þóru dóttur sína, stundum við Jón bróður sinn, sem bæði voru ágætlega fær í þeirri list; á kvöldum tefldu þau hjónin Dr. Pjetur og frú Sigríður stundum kotru, sem Pjetur biskup lengi hafði haft gaman af.[2]) Pjetur biskup fylgdi vel með

1) Eitt sinn var gestur einn í samkvæmi hjá Bergi amtmanni Thorberg að tala við Pjetur litla Thorberg, sem þá var fárra ára og spurði hann: »hvað vilt þú nú vera, Pjetur minn þegar þú ert orðinn stór. Viltu ekki verða biskup eins og afi þinn?« »Nei« sagði Pjetur litli. »Hvers vegna«. »Nei! biskupar þurfa svo mikið að ganga«. Hann hjelt, að göngurnar væru skyldukvöð á biskupsembættinu.

2) Í brjefi dags. Staðastað 9. maí 1846 til Árna Helgasonar stiptsprófasts talar Dr. Pjetur um kotru á þessa leið:

»Í kotru var jeg nógu góður á árunum, þó jeg hafi meir iðkað skáktafl í Höfn og á seinni tímum; seinast tefldi jeg kotru við sjera Stephán á Mosfelli í fyrra sumar, en beið þó ósigur, sem jeg þó mest eigna vanaleysi mínu seinustu árin, af því hjer kann engin neitt tafl heldur spila allir kaupstaðarbúar hjer nærlendis, en jeg vona að síra Stephán gefi mjer revanche. Gaman þætti mjer að heyra, hvernin yðar háæruverðugheit farið að halda kotrunni fram .... langar mig þó strax að leggja stein í lagið með því að halda með kotrunni, en það er sá ágalli á honum, að hann er langt til sóttur og hefir ef til vill á sjer dálítinn sjervizkublæ«.

»Kotran er ágætt lífgunarmeðal, af því hún spennir sina-

tímanum og hjelt mörg dagblöð og tímarit dönsk og frönsk og á seinni árum las hann fjölda franskra rita sjer til skemmtunar. Frönsku lærði Pjetur biskup ekki fyrr en hann var kominn yfir fimtugt, en varð vel að sjer í þeirri tungu og talaði hana og ritaði. Pjetur biskup var listaskrifari bæði á snarhönd og fljótaskript, sumt af því sem hann ritaði á yngri árum er eins og eirstunga og alltaf var rithönd hans fögur og glögg, þó var hann orðinn dálítið skjálfhentur síðustu árin sem hann lifði.

Eins og fyrr var getið var Dr. Pjetur Pjetursson fátækur maður og í töluverðum skuldakröggum er hann kom til Reykjavíkur 1847, og hafði þá mikinn tilkostnað.[1]) Honum tæmdist svo dálitlir arfar frá Víðuvöllum og Staðarfelli, svo hann komst úr skuldum.[2]) Ekki varð

---

kerfið (taugakerfið) með þeirri óvissu og eftirvæntingu, sem teningakastinu fylgir, en hún hefir það fram yfir flest önnur spil, að hún þreytir ekki, vegna þess hún spennir ekki sinarnar (taugarnar) í sífellu, heldur er sífeld breyting á teningaköstunum, svo eftirvæntingunni er jafnskjótt fullnægt og hún er á hæstu tröppu. Kotran er líka lærdómsrík af því hún sýnir, hvernig öllu lífi okkar er varið, við getum einungis búið alt sem bezt í haginn fyrir okkur, en eigum þó allajafna í óvissu, hvernig úttallið verður, því það eru þá aðrir teningar, sem skamta allt saman af. Kotran sýnir stöðu þá, sem hið endanlega stendur í til hins óendanlega, hitt verður eins og töflurnar að raða sjer sem bezt niður undir umráð þessa; þessvegna er mannlegt líf eintóm eftirvænting«.

1) Í brjefi til Jóns bróður síns 30. sept. 1848 segir Dr. Pjetur meðal annars: »jeg á nú, þjer að segja, langtum minna en ekkert« og 12. febr. s. á. segir hann: »jeg er kominn á þá trú, að mjer sje ómögulegt að lifa, hvar sem jeg er; það er einsog útgiptirnar spretti upp af engu óteljandi og gleypi öll launin«.

2) Í fyrri daga var mikið talað um auðinn á Staðarfelli, enda var Bogi Benediktsson auðugur af fasteignum, eftir því sem þá gerðist; mjer hefir talist svo til að hann muni hafa átt 5 hundruð hundraða í jörðum, en efnin gengu nokkuð saman á seinustu árum hans, börnin voru mörg og sum þurftu mikla hjálp, eins og t. d. Benedikt, sem komst í fjárkröggur; 1845 skipti Bogi nokkru af fje sínu (um 160 hundr.) meðal barna sinna, þó nokkuð misjafnt. Arfshlutar barnanna urðu því síðar ekki svo miklir. Til eru enn lóðseðlar frú Sigríðar við skipti á Staðarfelli;

hann ríkur af erfðafje, en með stakri hagsýni og starfsemi uxu smátt og smátt efni hans á löngum tíma, svo að hann var orðinn auðugur maður á elliárum, eptir því sem þá gerðist á Íslandi. Laun Dr. Pjeturs við prestaskólann voru allgóð, því peningar voru þá í miklu hærra verði en nú og óþarfa eyðsla og munaður þekktist þá ekki í Reykjavík; á því embætti hvíldu heldur ekki neinar skyldukvaðir, og sagði Dr. Pjetur síðar, að forstöðumannsembættið hefði í raun rjettri verið miklu betur launað en biskupsembættið, þó biskupstekjurnar að nafninu til væri töluvert hærri. Frú Sigríður var búkona ágæt, nýtin og hirðusöm, en sjálfur var hann hagsýnn mjög í öllum peningasökum. Góðgjörðasöm voru þau hjónin bæði og opt stórgjöful, en efni þeirra blessuðust samt, þó útgjöldin opt væri mikil; Dr. Pjetur var um langan tíma einn af aðalstyttum bæjarfjelagsins í Reykjavík, það munaði drjúgum um það, sem hann lagði til almennings þarfa.

Í þá daga var enginn banki og enginn sparisjóður á Íslandi;[1]) þeir, sem vildu ávaxta fje sitt, urðu annaðhvort að kaupa jarðir eða dönsk ríkisskuldabrjef. Margir voru þá sökum bankaleysis í vandræðum, sem þurftu á fje að halda, og leituðu sumir til Dr. Pjeturs og var hann alltaf fús á að lána fje þegar hann hafði það til, þó það eflaust hefði bæði verið vissara fyrir hann og miklu umstangsminna að kaupa dönsk skuldabrjef, en hann leit meira á þörf manna, þó það veitti honum engan ábata en töluvert erfiði og umstang að vera skuldskeyttur við marga einstaka menn, það hefði verið æði fyrirhafnarminna að eiga útlend skuldabrjef og

í föðurarf fjekk hún 15. maí 1850 288 rd. 75 sk., þá fengu bræður helmingi meira en systur, og í móðurarf tók hún 31. júlí 1858 1353rd. 36 sk. Allur arfur hennar var þá 1642 rd. 75 sk. en í lifandi lífi hafði faðir hennar gefið henni 13 hundr. og 30 álnir í fasteign. Þetta mundi nú ekki þykja mikill auður á vorum dögum.

1) Sparisjóður í Reykjavík var stofnaður 9. marz 1872, sbr. Stjórnartíðindi 1874, B. bls. 15—16.

vextirnir voru hinir sömu. Hjálpsemi hans í þessum efnum var honum opt misjafnlega þökkuð, eins og gengur, og þá komst sá orðrómur á, að Pjetur biskup væri vellauðugur og ríkastur maður á landinu;[1]) þó hann nú ekki væri það, þá uxu efni hans þó furðanlega, enda stóð fjársafnið yfir í langan tíma. Sumir embættismenn hafa haft jafnmiklar tekjur eða meiri og þó verið öreigar, er þeir fjellu frá, en það er misjafnt, hvernig á er haldið. Af bókum sínum hafði Dr. Pjetur nokkurn ágóða, en þó aldrei nærri eins mikinn eins og sumir hjeldu. Postillu sína seldi hann Egli Jónssyni fyrir 450 rd., en þegar Egill dó, keypti hann forlagsrjettinn að prjedikunum og hugvekjunum aptur af ekkjunni fyrir 1000 kr. Af þessu er auðsjeð að Egill Jónsson hefir haft allan aðalgróðann á guðsorðabókum Pjeturs biskups.[2]) Það sem kom inn fyrir hinar bækurnar var optast reitingur og ekki var hart gengið eptir þó útistandandi væri bóksölufje fyrir mörg ár, og tapaði hann þannig eins og flestir íslenzkir bóksalar allstórum upphæðum. Sumar bækur sínar gaf hann sjóðum, sem fyrr hefir verið getið. Óteljandi sinnum lánaði Pjetur

---

1) Líklega hefir Pjetur biskup verið ríkastur íslenzkra embættismanna er hann dó, en sumir kaupmenn áttu miklu meira. Bú Pjeturs biskups hljóp (skuldalaust), með hárri virðingu, á rúmar 80 þúsund krónur. Þetta hefði ekki þótt mikill auður hjá hinum fyrri biskupum í lútherskum sið, að eg ekki nefni hina fornu kaþólsku biskupa. Það sýnir bezt, hve Ísland er fátækt land í samanburði við önnur lönd, að 80 þús. kr. höfuðstóll, sem gefur af sjer 3200 kr. árstekjur, skuli vera talinn stóreflis auður. Í Danmörku mundi sá maður varla talinn með þeim auðugustu, sem hefði 80 þús. kr. í *árstekjur* (samsvarandi höfuðstól upp á 2 milliónir), og þó er auðsafnið í stóru löndunum miklu meira.

2) Samningar þeirra Dr. Pjeturs og Egils eru enn þá til. Eptir samningi 13. jan. 1855 fjekk Dr. Pjetur í ritlaun fyrir helgidagaprjedikanir sínar 450 rd., fyrir hugvekjur frá veturnóttum til langaföstu 500 rd. (13. júní 1857); fyrir föstuhugvekjur 400 rd. (1. sept. 1858); fyrir bænakver 120 rd. (28. júní 1860). Fyrir nýjar útgáfur fjekk hann enga borgun. Alls fjekk Dr. Pjetur þannig hjá Egli Jónssyni 1470 rd. fyrir guðsorðabækur sínar.

biskup mönnum smáupphæðir, sem hann aldrei fjekk aptur og var stundum góðfúsari á þesskonar lánum en þörf gjörðist; það bar víst sjaldan við að hann neitaði mönnum um lán, þegar hann hafði fje handbært.[1])

Það var ómælt, sem þau hjón Pjetur og Sigríður gáfu nauðstöddum og er þess meðal annars getið í Fróða (VII. 1886, bls. 215). Þar segir svo: »kunnugur og sannorður maður í Reykjavík hefir tjáð oss, að biskup og frú hans gæfi fátækum mikið, en vildu engan láta af vita. Vjer vitum, að þetta er satt og það er svo trúlegt, því naumast getur hógværara og yfirlætisminna mann en Pjetur biskup Pjetursson«. Í hvert skipti sem einhver opinber samskot urðu til líknar nauðstöddum, þegar slys eða harðindi báru að höndum var Pjetur biskup jafnan efstur á blaði með rausnarleg tillög; var það gjört af mannkærleika en ekki af fordild, það mætti færa dæmi til þess optar en einu sinni að hann leyndi því, hve mikið hann gaf. Árið 1871 var skiptapi mikill í Mýrdal, 28 menn drukknuðu og ljetu eptir sig 18 ekkjur og fjölda munaðarlausra barna. Þá gekkst Pjetur biskup fyrir samskotum og fjekk í nefnd með sjer Hilmar Finsen stiptamtmann og Jón Guðmundsson ritstjóra, söfnuðust þá 1181 rd. 72 sk. (2363 krónur), sem urðu til mikillar hjálpar fyrir þær fjölskyldur, sem misst höfðu fyrirvinnu sína.[2]) Á samskotalista þenna skrifaði Pjetur biskup sig fyrir 20 rd., en á sama lista gaf ónafngreindur maður (N. N.), 80 rd. og vissi enginn, hver gefandinn var, en það var líka Pjetur biskup, hann hafði ekki viljað skrifa sig fyrir svo mikilli upp-

1) Drukknum mönnum neitaði Dr. Pjetur altaf um fje. Eitt sinn kom ritstjóri einn, sem oft hafði fengið lán hjá honum og náttúrlega aldrei borgað, töluvert ölvaður til Pjeturs biskups og beiddi um lán, en Dr. Pjetur neitaði, þá hótaði ritstjórinn að skrifa skammir um hann í blaðið, en þá reiddist Pjetur biskup og rak hann út. Ritstjóri þessi, sem nú er dáinn fyrir löngu, var gáfumaður, en lánleysingi og vantaði algjörlega siðferðislegt þrek.

2) Þjóðólfur XXIII, bls. 98—99, 125, 177; XIV, bls. 175.

hæð til þess ekki að miklast yfir öðrum gefendum, sem miður voru efnum búnir.[1])

Þess hefir áður verið getið, hve rausnarlega Pjetur biskup styrkti ýmsa sjóði t. d. prestaskólasjóðinn, prestsekknasjóðinn og bræðrasjóð latínuskólans, en hann styrkti einnig í kyrrþey ýmsa efnilega nemendur bæði í Reykjavík og erlendis; hann lagði og fje fram til ýmsra annara, sem örðuglega voru staddir og má sjá nokkur dæmi þess í þakkarávörpum í blöðunum,[2]) en flestar gjafir voru ókunnar öllum nema viðtakendum. Þá hjálpaði hann einnig hvað eptir annað prestum, sem voru í peningakröggum.[3]) Meðal annars hljóp hann höfðinglega undir bagga hjá síra Þorkeli Eyjólfssyni er hann fór frá Borg. Bjarni Þorkelsson, sonur síra Þorkels, ritar svo: »Eg vil geta þess til sönnunar því hvað Pjetur biskup var drenglyndur og vinum sínum tryggur, að þegar faðir minn skilaði af sjer Borg vorið sem hann flutti að Staðastað, stóð inni hjá honum talsvert mikið af fje Borgarkirkju, sem faðir minn skilaði öllu nema 500 kr., sem hann átti erfitt með að borga nema að skerða bústofn sinn. Skrifaði hann því Pjetri biskupi og mæltist til að mega borga þessa upphæð á tveimur árum. Svo þegar sá dagur kom, að faðir minn skilaði Borginni, þá var þar viðstaddur prófasturinn í Mýrasýslu, síra Stefán í Stafholti, og sagði hann föður

1) Eftir frásögn síra Eiríks Briem, sem þá var biskupsskrifari.

2) Sbr. t. d. Þjóðólfur VII, 1855, bls. 36, 119; XXIV. bls. 115 og víðar.

3) Í skjölum Pjeturs biskups hefi jeg meðal annars fundið eftirfylgjandi ljóðabrjef frá síra Guðmundi Torfasyni á Torfastöðum dags. 19. ágúst 1874. »Gull með kveðju barst án biðar, biskup þýði, í lófa minn, nú hefi jeg sjeð að söm er yðar sinnisblíða og gjafmildin. Gjöfin þekk, er bætti baga, býsna lengi kætir önd, slík hefir ekki um æfidaga önnur gengið mjer í hönd. Mín ei rýra mærðin dugar mildirikum þakkað fá dýra gáfu af höfðingshuga herra slíkum senda frá. Óska jeg yður lukkan leiði, lífs ei dvíni gleðijól, en að liðnu æfiskeiði eilíf skíni morgunsól«.

minum, að biskupinn hefði skrifað sjer, að í sínum vörzlum væru 500 kr. frá síra Þorkeli, sem Borgarkirkja ætti og væru þær til reiðu nær sem óskað væri. Faðir minn var prestur að Borg á Mýrum í 16 ár og kom þar upp öllum börnum sínum, sem voru 10 að tölu, er fullorðins aldri náðu, og var því faðir minn fremur efnalítill«.

Við landseta sína og skuldunauta var Pjetur biskup mjög tilhliðrunarsamur og nærgætinn og hjálpaði þeim opt er á lá. Nokkrum árum áður en jeg komst í nánari kynni við Pjetur biskup gisti jeg eitt sinn á bæ hálfa dagleið frá Reykjavík. Bóndinn sagði mjer, að fyrir nokkrum dögum hefði komið þar landseti Pjeturs biskups með hest í taumi og verið mjög angurvær af því honum var ómögulegt að borga landsdrottni sínum nema nokkurn hluta af afgjaldi jarðarinnar og hann vantaði auk þess fje til þess að kaupa ýmsar nauðsynjar, er hann þurfti að fá í Reykjavík. Nokkrum dögum síðar kom bóndi aptur með klyfjaðan hestinn og ljek þá við hvern sinn fingur; Pjetur biskup hafði eigi að eins gefið honum upp skuldina heldur einnig gefið honum á hestinn það, sem hann vanhagaði um.

Pjetur biskup var með hærri meðalmönnum á vöxt, þrekinn og herðabreiður og rammur að afli á yngri árum og gengu margar sögur af aflraunum hans. Fremur var hann holdgrannur á efri árum og var aldrei feitlæginn. Andlitið var í breiðara lagi og nokkuð stórskorið, svipurinn fyrirmannlegur og þó ljúfmannlegur, móeygður var hann og snareygður, sambrýnn og augnabrýrnar óvanalega miklar, ennið hátt og breitt, hár og skegg dökkjarpt fram undir sjötugt. Dr. Pjetur Pjetursson var mikilmenni á flestan hátt, tígulegur og mjög höfðinglegur í allri framgöngu og þó yfirlætislaus, þrekmaður hinn mesti til sálar og líkama, stillingarmaður og lipurmenni. Pjetur biskup og Jón Sigurðsson hafa líklega verið höfðinglegastir að útliti allra Íslendinga á 19. öld. Gáfur Pjeturs biskups voru mikl-

ar og farsælar, námsmaður var hann ágætur og lærður vel; á yngri árum hneigðist hann til vísindalegra rannsókna, en margbreytt opinber störf og embættisannir hindruðu áframhald vísindaiðkana eptir að hann fluttist til Reykjavíkur. Hjartagæzku og ljúfmennsku Pjeturs biskups var viðbrugðið, hann var gætinn og grandvar i öllu framferði, hinn mesti ráðdeildarmaður, og stjórnaði geði sínu og tilhneigingum, sem upprunalega voru ríkar, með hinu mesta þreki. Pjetur biskup var óvanalega orðvar og mátti aldrei heyra neinum manni hallmælt. Í viðræðum var hann opt smá-kýminn og fyndinn, hagmæltur var hann vel, en tók sjaldan á því.[1]) Hógvær og rjettsýnn var hann í öllum málum og vildi vinna meir með lagi en stífni, aldrei ljet hann tilfinningarnar hrífa sig til hvatra dóma um menn eða málefni, hann þekkti veröldina eins og hún er með göllum þeim og breyskleikum, sem mannlífinu eru samfara og skoðaði á efri árum lífið frá sjónarhæð langrar reynslu og athugunar, þess vegna var hann mjög umburðarlyndur í trúarefnum og öllum öðrum efnum; þeir, sem minnst vita og minnst þekkja mannlífið eru vanalega óbilgjarnastir. Pjetur biskup var hinn frjálslyndasti maður í öllum fjelagsmálum og var mjög illa við alla kúgun, hvort sem hún kom að ofan eða neðan, í stjórnarham eða frelsishjúpi. Þetta kemur opt fram í blaðagreinum hans og þingræðum, bæði að fornu og nýju, og lýsti sjer ekki sízt í dagfari hans og viðræðum, hann bar glöggt skyn á það, að siðferðislegt þrek er hinn eini grundvöllur undir sönnu þjóðfrelsi, en öll ofstæki var honum fjarlæg og honum datt aldrei í hug að reyna að þvinga menn til annara skoðana með ofbeldi þegar röksemdir ekki bitu. Í verklegum efnum unni Pjetur biskup öllum sönnum framförum, en vildi eigi kasta að ófyrirsynju því, sem gott var, eingöngu af

1) Í Ísafold XVIII (1891), bls. 45 og 73 eru prentaðar vísur »eptir gamlan mann«, sem Pjetur biskup hefir ort.

því það var gamalt, honum stóð stuggur af því breytingabramli, sem opt grípur þroskalitla menn, er gleypa allar nýjungar hvernig sem þær eru og vilja brjóta allt niður hugsunarlaust og miskunnarlaust, sem gamalt er, hversu ágætlega, sem það hefir reynzt. Hann vildi í því sem öðru fylgja meðalhófi og hagsýni, og fara að dæmi Englendinga, sem unna því gamla og eru þó ekki eptirbátar neinna þjóða í framförum.

Pjetur biskup var alla æfi heilsuhraustur og hjelt líkamsburðum sínum fram yfir áttrætt. Hin síðustu ár varð hann fyrir miklum raunum, tengdasonur hans, Bergur Thorberg landshöfðingi dó snögglega 21. janúar 1886 á bezta aldursskeiði, en 22. desember 1889 dó einkasonur hans Bogi læknir; þó hann tæki þessu böli með vanalegri stillingu og þolinmæði, þá höfðu þessir snögglegu sorgaratburðir þó auðsjáanlega mikil áhrif á heilsu og líkamsburði hins gamla manns, svo mátturinn fór að þverra. Hinn seinasta vetur, sem Pjetur biskup lifði (1890—91) varð hann nokkuð að stytta hinar daglegu göngur sínar, því fæturnir voru farnir að bila, en sálarkröptum sínum hjelt hann alveg óskertum og hvorki förlaði honum heyrn nje sjón að neinum mun; auðfundið var þó, að hann var orðinn saddur lífdaga og langaði til að leysast hjeðan. Í byrjun maímánaðar 1891 varð Pjetur biskup lasinn af bakverk og var þó fyrst um tíma á fótum, en varð svo að leggjast í rúmið og kraptarnir þverruðu smátt og smátt. Líklega hefir veikin verið í nýrunum þó ekki kæmi það fram svo augljóslega, að læknar fengju skynjað það með vissu; en ellin var búin að veikla líkamann, svo mótstöðuaflið var þrotið. Um hádegi 15. maí 1891 sofnaði Pjetur biskup út af með hægu andláti og hafði hann næstu daga á undan optast verið meðvitundarlaus, nema stöku augnablik á milli, þá var hann með fullri rænu og bjóst við dauða sínum með sinni vanalegu ró og trúartrausti. Pjetur biskup hafði þá lifað 82 ár 7 mánuði og 12 daga, virtur og elskaður af þjóð sinni. Það má

með sanni segja að öll alþýða bar staka lotningu fyrir hinum ágæta öldungi og ljet söknuð sinn í ljósi á margan hátt.

Greptrun Pjeturs biskups fór fram 3. júní 1891; á þeim degi hafði hann tekið mót biskupsvígslu fyrir 25 árum. Veðrið var blítt og fagurt þann dag og öllum búðum í Reykjavík var lokað kl. 10—4, en flögg voru allstaðar dregin í hálfa stöng. Útförin byrjaði á húskveðju, er lektor, síra Helgi Hálfdánarson flutti; eptir það báru kennarar hinna æðri skóla í Reykjavík líkið út og áleiðis til kirkju, en í broddi fylkingar gekk hornleikaraflokkur og blés sorgarlög, þá stúdentar frá prestaskóla og læknaskóla með fána sína og svo lærisveinar latínuskólans með sinn fána. Inn kirkjugólfið báru hinir helztu embættismenn kistuna. Bæjarstjórnin hafði látið tjalda kirkjuna svörtu og var hún prýdd mikilli ljósamergð og háar svartklæddar ljósastikur stóðu í röðum beggja megin í kirkjunni og kringum altarið. Kistan og líkpallurinn voru alþakin blómsveigum og var sá mestur, sem kennarar prestaskólans höfðu sent. Í kirkjunni talaði fyrst biskup Hallgrímur Sveinsson, þá prófastur síra Þórarinn Böðvarsson og loks dómkirkjuprestur Jóhann Þorkelsson. Út úr kirkjunni báru líkið prestar hempuklæddir, en síðan stúdentar og skólapiltar út að kirkjugarði, en frá sáluhliði að gröfinni aptur tómir prestar. Við gröfina flutti síra Oddur V. Gíslason ræðu og loks mælti prófastur Þórarinn Böðvarsson fáein orð áður en hann kastaði rekum á kistuna.[1]) Eptir greptrunina var að fornum sið aptur gengið til kirkju og sunginn hinn latneski útfararsálmur »Jam moesta quiesce querela«. Líkfylgdin mun hafa verið hin fjölmennasta, sem sjest hafði í Reykjavík, eptir jarðarför Jóns Sigurðssonar forseta, í fylgdinni voru að minnsta kosti

---

1) Ræðurnar eru ásamt erfiljóðum prentaðar sjerstaklega: Ræður fluttar við jarðarför Pjeturs Pjeturssonar biskups 3. júní 1891. Reykjavík 1891. 44 bls. 8º.



Legsteinn yfir Pjetur biskup Pjetursson í Reykjavíkur-kirkjugarði.

1500 manns, þar á meðal 17 prestar og allir embættismenn og heldri menn úr Reykjavík og nærsveitunum.

Erfingjar Pjeturs biskups ljetu reisa veglegan minnisvarða á gröf hans úr íslenzkum grásteini og var greipt inn í hann að framan svört graníthella tvær álnir og fjórðungur á hæð, en alin á breidd og sex þumlungar á þykkt. Hellan er fægð á alla vegu, en á þá hlið, sem út snýr, er gljáinn tegldur af, svo að bæði letrið og önnur prýði kemur fram sem upphleypt væri. Þar er efst dúfa á flugi með olíuviðarkvist í nefinu, en neðar er krossmark og er hvorutveggja umvafið bergfljettu. Þar fyrir neðan er letrað: »Pjetur Pjetursson biskup yfir Íslandi. Fæddur 3. okt. 1808, dáinn 15. maí 1891. Virtus post fata perennat«. Undir hellunni er á grásteininn klappað skjaldmerki Pjeturs biskups. Í kringum reitinn eru járngrindur með eikarlaufum. Minnisvarðinn var gjörður eptir teikning og fyrirsögn frú Þóru Thoroddsen, dóttur Pjeturs biskups. Steinverkið íslenzka gjörði Schov steinhöggvari, en graníthelluna Schannong í Kaupmannahöfn. Síðar ljetu erfingjarnir H. C. Siegumfeldt, einn af hinum helztu listamönnum Dana mála mynd af Pjetri biskupi og gáfu alþingi, hefir hún síðan hangið í sal efri deildar.[1])

Sá sem lesið hefir rit þetta og kynnt sjer störf Pjeturs biskups og ritsmíðar, hlýtur, ef hann er rjettsýnn og óhlutdrægur að kannast við, að Dr. Pjetur Pjetursson er framarlega í röð hinna helztu ágætismanna, sem uppi voru á 19. öld. Það mun óhætt að

1) Nokkru síðar kom bóndamaður einn til mín og sagði mjer, að hann væri í sveitarnefnd, sem kosin hefði verið til að heiðra gamlan hreppstjóra á afmælisdegi hans, sagðist hann hafa sjeð mynd Pjeturs biskups og líkaði hún vel og beiddi mig að segja sjer nafn listamannsins og heimili, svo þeir gætu útvegað sjer hjá honum samskonar mynd af hreppstjóranum. Jeg spurði hann, hve miklu þeir vildu tilkosta og svaraði bóndi þá, að þó myndin kostaði 20—30 krónur mundu þeir ekki ganga frá. En er jeg sagði honum, að mynd Pjeturs biskups hefði kostað nærri 800 krónur, fjell honum allur ketill í eld, svo ekkert varð af myndargjörðinni.

segja að enginn biskup í lútherskum sið hefir afkastað jafnmiklu fyrir kirkju og kristindóm síðan Guðbrandur biskup Þorláksson dó, og starfsemi Dr. Pjeturs í almennings þarfir var svo mikil og margbrotin að öðru leyti, að fáir samtíðarmenn hans voru honum jafnsnjallir. Enginn Íslendingur hefir síðan Guðbrandur biskup var uppi látið prenta jafnmargar guðsorðabækur og önnur rit til eflingar siðgæðis og guðsótta og engan guðfræðisrithöfund hefir íslenzk alþýða á 19. öld lesið jafnmikið og unnað jafnheitt; áhrif Pjeturs biskups á kristindóminn á Íslandi hafa því verið afarmikil. Dr. Pjetur varð biskup á örðugum tíma og þá hniginn að aldri. Mörg mál, sem hann áður hafði barist fyrir, komust þó til framkvæmda í biskupsdómi hans og um miðja öldina var Dr. Pjetur hinn ötulasti og frjálslyndasti framfaramaður í öllum kirkjulegum málefnum. Á byltinga og breytinga tíma gat Pjetur biskup með lipurð sinni og ljúfmennsku liðkað margar snurður og honum tókst með hyggindum og málamiðlun að koma mörgu til leiðar, sem meiri ákafamenn ekki hefðu verið færir um. Pjetur biskup átti mikinn þátt í að leggja grundvöll þeirrar kirkjulegar löggjafar, sem nú er, hann útvegaði Íslendingum eptir langan undirbúning og mikla fyrirhöfn ágæta sálmabók og stuðlaði að því að þeir fengju endurskoðaða og ódýra ritningu, hann samdi og þýddi ágætar guðfræðis- og siðfræðisbækur og bætti hið íslenzka guðfræðismál stórum, hann ritaði kirkjusögu Íslands um heila öld, kom prestaskólanum á stað og útvegaði honum álit og traust þjóðarinnar, gaf út hin fyrstu kirkjuleg tímarit á íslenzku, stofnaði og studdi þarflega sjóði, var afkastamikill þingmaður o. s. frv. Hinar einstöku framkvæmdir og störf Pjeturs biskups í þarfir kirkjunnar og þjóðfjelagsins höfum vjer áður talið og þarf ekki að orðlengja um það. Minning Pjeturs biskups mun seint fyrnast á Íslandi.

# XI. Viðaukar.

1. Brjef frá Brynjólfi Pjeturssyni forstöðumanni hinnar íslenzku stjórnardeildar í Kaupmannahöfn til Dr. theol. Pjeturs Pjeturssonar í Reykjavík.

Kaupmannahöfn 14. sept. 1849.

Bezti bróðir!

Í gær fjekk jeg frá þjer kærkomið brjef frá Helsingjaeyri, og er Rosenörn víst þangað kominn (4 dögum eftir að þeir eru komnir Johnsen og Jón Sigurðsson). Jeg skal þakka þjer fyrir það seinna, ef jeg lifi, þegar jeg skrifa þjer brjef. Nú er jeg ekki að skrifa þjer brjef heldur ætla jeg að ljetta ofurlítið á hugskoti minu, sem nú er of þungt af alþingismálum, sem jeg fjekk í gærkveldi. Þegar jeg komst ekki fram í vor með baráttu mína við Bardenfleth og Melsted um kosningarlögin lifði jeg í þeirri von, að þingið mundi reisa við það, sem rangsnúið var. Það var nú að sönnu grundvallarlaus von hjá mjer, sem þekkti svo glöggt, hvað ómögulegt alþingi er, að rjetta nokkurn hlut í lögum, þar sem það aldrei hefir brugðist, að hafi breytingaratkvæði þess slampast á að hitta á eitthvað órjett,[1]) hafa þau[1]) altjent komið með verri vitleysu í staðinn. Það er ekki ýkt sem jeg hjer segi. Jeg vildi, að jeg hefði einhverntíma tíð og tækifæri til að færa sönnur á það mál, því jeg er viss um að geta sannað það öldungis skýlauslega fyrir hverjum manni, sem hefir

1) Svo í hdr.

fulla skynsemi og vill veita því eftirtekt. En það er nú mannleg náttúra að vona það, sem menn vilja. Jeg er öldungis hissa á því ófrelsi, sem alstaðar kemur fram í gjörðum Íslendinga. Og þó eru þeir að babla um frelsi, og læra þar að lútandi talshætti, sem lagðir hafa verið út handa þeim. Sjálfræðið vilja þeir hafa. En jöfnuðinn og rjettlæti og kristilega bróðurást og allt annað, sem í frelsinu býr, þekkja þeir ekki eða láta að minnsta kosti sem þeir ekki gjöra það. En, segir þú! hvar gerir almenningur það. Óvíða, segi jeg. En alstaðar annarstaðar sje jeg þó einstöku menn gera það. Og þó er vankunnáttan hjá löndum okkar miklu verri en ófrelsisandinn. Jeg hef enn aldrei á alþingi sjeð nokkurn mann koma fram, sem hugsar skarpt. Það er þó merkilegt. Stundum koma nefndirnar með mestu mönnunum fram með vitleysur, sem eru öldungis óútgrundanlegar, og allir fallast á þær. Mikið hefir nú tímaleysið og öldungis vitlaus þingsköp gjört að verkum. En það er þó ekki nóg afsökun. Er það nú ekki örvinglunarefni að eiga við þetta að sýsla. Eg verð að koma aftur til efnisins. Konungsfrumvarpið var mesta ó-ræsti og hafði einkum einn annmarka; en hann og allt annað illt, sem í því finnst, var komið frá alþingi sjálfu. Svo var um tvöföldu kosningarnar, ef þær skal kalla með því nafni, því þær eru þó ekki órjettlátar, heldur deila öllum jafnan rjett. Svo var og um að sýslurnar skyldu vera kjördæmi og kosningarnar fyrir það sama vera án alls jafnaðar. Eins var um versta atriðið í kosningarlögunum, að kjörmannakosningar skyldu fara fram á manntalsþingum. Jeg setti mig á móti öllum þessum atriðum hjer af öllum krafti og þó einkum þeim síðustu tveimur, en þau höfðu þingið fyrir sjer, og jeg komst ekki upp fyrir moðreyk. Hefði nú þingið nú tekið úr þessi atriði og sett annað gott í staðinn, þá hefði það farið rjett að. En hvernig fer það nú að? það tekur burt tvöföldu kosningarnar, sem er það eina, sem gjörir sýsludæmin þolanleg, og heldur *þó* sýslukjördæmunum og eykur þar á ofan allan þann órjett sem af þessu leiðir við einfaldar kosningar með því að gjöra öll kjördæmin jöfn (það er jöfnuður!!!). Jeg hef sjaldan heyrt aðra eins vitleysu úr manns munni koma, eins og ástæður nefndarinnar fyrir þessu. Þær eru svona: Fyrst segir nefndin, að úr því enginn almenni-

legur eða fullkominn jöfnuður eftir fólksfjölda sje á frumvarpinu, geti hann eins vel verið helmingi minni og svo bætir hún við: »En þar til hyggur nefndin *að engin sje ástæða til, að líta á neinn fólksfjölda eða fólksfæð þegar til þjóðfundarins skal kjósa, sem að eins á að ræða allsherjarmál en vart nein einstaklega«. Þessa ástæðu *tví*tekur nefndin (nei! hún *þrí*tekur hana). Segðu mjer nú: hafa þeir menn, sem svona tala, og þeir þingmenn, sem á þetta fallast, nokkurn snefil af ímynd um, hvað þjóðvilji er, eða hvað fulltrúakosning þýðir? og þessir menn eiga að búa til kosningarlög!! Guð hjálpi mjer, það er óttalegt að hugsa til þess. Það er óttalegt að sleppa löggjöf lausri við aðra eins menn. Mjer þykir miklu minna varið í, að sýslukjördæmin gjöri það að verkum, að þau leggja á mikið stóran »indirecte Census« og að einföldu kosningar þingsins þannig eru orðnar miklu minna alþýðulegar (demokratiske) en tvöföldu kosningarnar frumvarpsins. En þegar nú þingið bindur svona kosningarrjettinn »indirecte« við fjáreign og þar á ofan heimtar, að kjósendur leggi til sveitar af efnum sjálfra sín (sem mjer annars ekki líkar svo illa) því í rækallanum eru þeir þá að stinga upp á 30 ára aldrinum? Bardenfleth játaði sjálfur að það væri *engin* ástæða til þess á Íslandi að taka slíkan aldur, en þorði þó ekki að *stjórnin* skyldi stinga upp á 25 árum, af því hjer, sem alt er öðruvísi ástatt, er 30 ára aldur. Það var eina orsökin til að 25 ára aldrinum í konungsfrumvarpinu loks var breytt í 30 ár. Jeg vil ekki minnast á »redactionina« á frumvarpi þingsins, það yrði oflangt mál. Ekki heldur á atriðin sem minna er varið í; það er alt í þoku og reyk. Einungis skal jeg geta þess, *að* þeir sem vilja hafa lagfæringu á kjörskránni, eiga að segja sýslumanni til *4 dögum* áður en kjörþing byrjar og síðan á nú sýslumaður að senda á stað til þeirra, sem útundan verða, og mótmælenda þeirra t. a. m. frá Höfðabrekku austur í Hornafjörð eða frá Ey vestur í Hrútafjörð, *að* sýslumaðurinn í Skaptafellssýslunum á *sama daginn* að halda kjörþing bæði í Austur- og í Vestur-Skaptafellssýslum, og annað því um líkt.

Þegar jeg skrifaði þetta var jeg ekki búinn að fá bónarskrá og álitsskjal alþingis um kosningarmálið frá konungi. Nú (18. sept.) fjekk jeg það í þessu augnabliki. Ekki batnar, þykir

mjer, við þessi skjöl. Það er ógnar lítið vit í þeim. Jeg skammast mín fyrir þau niður í hrúgu. Til dæmis vil jeg taka það: í athugasemdum stjórnarinnar við frumvarpið var sagt, að ef menn gjörðu sýslurnar að kjördæmum og ljeti kjósa einfalt, yrði maður *annaðhvort* að láta kjósendurna úr öllu kjördæmnu koma saman á einn stað, og það yrði illt fyrir fátæka menn, sem búa langt frá kjörstaðnum, *eða* menn yrðu að láta kjósa í »snevrere Kredse« (jeg veit ekki hvernig Melsted hefir lagt það út) og leggja síðan atkvæðin saman eins og margir, t. a. m. Jón Sigurðsson í Fjelagsritunum, hafa stungið upp á, en af því mundi eiða, að atkvæðin tvístruðust af því menn gætu ekki talað sig saman etc. Veiztu nú, hvernig alþingi hrekur þetta: Þetta þarf engan vegin að óttast segja þeir »því að öllu bærilegu veðri kosningardaginn mætti úti kjósa undir berum himni, en væri veður illt mætti inni kjósa í kirkju eða þinghúsi, og gætu þar að minnsta kosti rúmast búar eins hrepps í senn, er þá mætti kveðja til kosninga í vissri röð«. Hvernig *geta* menn verið svona vitlausir? »Motiverne« voru svona stuttorðaðar: »Foruden . . at . . . etc., maa den indirecte Valgmaade i et Land, hvor Befolkningen er spredt over et stort Terrain, som i Island, anses for mere folkelig (ɔ. end den danske). Naar nemlig Vælgerne her skulde samles til *et Valgmöde* i hvert Valgdistrict, vilde det være det samme som at udelukke Massen af Vælgerne fra al Deltagelse i Valget af dens Repræsentanter (da nemlig Bekostningen ved Rejser til Valgmödet bliver for de fra Valgestedet fjernere boende, uformuende Mænd aldeles uforholdsmæssig stor). Der maatte altsaa stemmes skriftlig i snævrere Kredse (á manntalsþingum eða hreppastefnum). Men naar Vælgerne ikke saaledes kunde samvirke vilde Stemmerne spredes paa en aldeles unyttig og hensigtsstridig Maade, og Fölgen deraf blive, at enten vilde Althingsmændene blive valgte med et ubetydeligt Stemmeantal, eller hyppige Gjenvalg blive fornödne« (nl. ef menn heimta vissa atkvæðatölu og vilja ekki láta sjer nægja með 10 eða 12 atkvæði). Er nú ekki þessi ókostur á einföldum kosningum í stórum kjördæmum og illum yfirferðar hjer framsettur með fullum skarpleik? En hvernig skilur alþingi þetta? Það ímyndar sjer, að meiningin af þessari klausu sje: Þegar allir kjósendurnir úr

einu kjördæmi eiga að koma saman á einn stað, þá er ekki nógu stórt hús til að koma þeim inn í öllum. Þess vegna verður að skipta þeim í flokka og láta hvern flokk kjósa sjer og þá fer allt í klúðri. Segðu mjer nú satt! Getur nokkur maður með fullri skynsemi fengið þessa meining út úr klausunni, sem jeg hefi tilfært? Lýsir ekki þessi misskilningur ekki einungis fullkomnum ókunnleik til alls, sem fulltrúakosningum við kemur, heldur og beinlínis staklegri heimsku.

Þegar alþingi í bænaskránni sinni tekur einu sinni enn upp aptur þessa makalausu röksemd, sem þeir eru svo ógnarlega montnir af, »að þegar um almenningsmál og ekki einstakleg (líklega mál einstakra staða) er að gjöra, þá sje engin þörf á að hafa nokkurn jöfnuð á fulltrúakosningunum eptir fólksfjölda« og það gildi því alt að einu þó menn láti innbyggjendurna í einum hrepp eða á einum bæ eða jafnvel einn mann, þann sem allra heimskastur er í landinu, kjósa 39 af fulltrúunum, en alla aðra menn í landinu þann eina sem eftir er — þá bæta þeir við þessari röksemd: Náttúrlegast hefði verið, að allt landið hefði verið eitt kjördæmi, og þar af leiða þeir gegnum öldungis óútsegjanlegar vitleysur og galinna manna óra, að kjördæmin eigi að kjósa jafnmarga hvert, þó þau sjeu misstór að fólksfjölda. Enginn getur sjeð, að ef það er náttúrlegast, að allt landið væri eitt kjördæmi, þá er líka náttúrlegast að skipta fulltrúunum á kjördæmin eptir fólksfjölda! Sjá þeir þá ekki, að þegar allir menn í landinu kjósa í einu kjördæmi þá fær *enginn* maður stærra atkvæði en honum ber í tilliti til fólksfjöldans og *enginn* minna? Ástæða þeirra er því sú sterkasta sem orðið getur móti ályktuninni. Því segi jeg það: Guð hjálpi mjer og föðurlandi mínu! Hvað á að verða úr því, þegar þeir menn eiga að ráða kjörum þess, sem ekki hafa meiri náttúrlega »Logik«!

Jeg hefi nú lesið breytingaratkvæði þín. Jeg er ánægður með, hvernig þau eru samin, *úr því* þú hefir látið leiðast til að leggja frumvarp alþingis til grundvallar, og það finn jeg, að þú hefir langbeztan »parlamentarisk Takt« af þeim, sem þar hafa verið á þinginu, og nóga »Logik« til að koma ekki með það, sem hvað stríðir móti öðru. En ekki líkar mjer það, að þú hefir tekið upp vitleysurnar í alþingisfrumvarpinu (t. a. m. um full-

trúajölnuðinn), þú hefðir átt að láta einhvern annan sitja með þær, og þverneita að bera þær upp, því það er ekki nóg að þú segir: úr því það er samþykkt af alþingi, þá sting jeg upp á það sje tekið upp í þetta frumvarp.

Fyrirgefðu mjer bezti bróðir, að jeg er svona reiður við þingið. Það kemur, eins og þú sjer, til af því, að mjer blöskrar hvað það er ónýtt.

Nú (20. sept.) er jeg búinn með alþingismálið. Jeg fjekk Bang »Forestillingen« og það nýja frumvarp, sem jeg hefi samið í gærkveldi. En hann er búinn að segja af sjer innanríkisstjórnarherra embættinu, og er nú verið að þinga um, hver vera eigi í hans stað. Það hefir truflað mig nokkuð við kosningarlögin, að jeg get ekki látið það ganga hlutlaust fram hjá mjer.

Jeg ætla að reyna til að senda þjer eptirrit af »Forestillingen« ef jeg get, svo þú sjáir mínar ástæður, sem þú getur skýrt fyrir þjer sjálfur þó þær sjeu stuttar. Jeg ætla ekki að skrifa meir hjer, því þú ert, ef til vill, í standi til ekki að lesa þetta blað, að minnsta kosti ekki fyrr en einhverntíma, og því er bezt jeg byrji nýtt brjef.

Þinn heittelskandi bróðir

Br. Pjetursson.

Kaupmannahöfn 27. sept. 1849.

Elsku bezti bróðir minn!

Jeg hefi fengið frá þjer 12 brjef þetta árið, og af þeim held jeg, að jeg hafi fengið 5 síðan jeg skrifaði þjer seinast með Eyrarbakkaskipi. Jeg þakka þjer sem hjartanlegast fyrir þau öll.

Þetta rugl, sem jeg hefi skrifað þjer í reiði minni um alþing, ætla jeg að senda þjer, þó það sjeu sundurlausir þankar. Þú kannt að geta brúkað eitthvað af því, ef þú skrifar eitthvað um kosningarlög framvegis. Jeg lauk við alþingislögin eins og jeg hefi sagt þjer fyrra fimmtudag. En síðan hefir margt merkilegt tilborið. En »Quintessensen« af því öllu er, að Rosenörn, fyrrum stiptamtmaður á Íslandi er orðinn stjórnarherra fyrir innanríkismálunum. Það kom yfir mig eins og aðfangadagskvöld yfir kerlinguna (eins og Danir segja), þegar jeg heyrði nokkrum

af stjórnarherrunum hafði dottið í hug, að fá Rosenörn í stað Bangs, öldungis nýstiginn af skipsfjöl, eins og hann var. En þó jeg hefði getað tálmað því (og það *þó* á sjer þó ofurlítinn snefil af líkindum), þá hefði jeg fyrir hvern mun ekki gjört það, vegna þess að jeg gat ekki sjeð neinn útveg til að fá þann mann, sem jeg vildi, og vissi ekkert, hver það kynni að verða. En Rosenörn er þó altjend í nokkrum efnum á mínu máli um Íslands hagi sem óvíst er, að aðrir heldu orðið. En hvers af honum er að vænta í því efni yfir höfuð, það er ómögulegt fyrir mig að leiða getur um. Þó finn jeg, að hann vill ekki gefa okkur sömu kosti og Bang, og jeg er sannarlega mikið hræddur um, hann vilji ekki gefa okkur mikið ráð yfir álögum þeim, sem á okkur skal leggja.

Nú er búið að kjósa alþingismenn konungsins. Það er Bjarni cfrd., Þórður Sv. dto, Melsted amtm., biskupinn, þú og sjera Halldór. Jeg var öldungis hissa á því að Rosenörn skyldi taka Bjarna og Þórð, en mjer var ómögulegt að telja hann frá því. Að taka Bjarna blindan og teyma hann suður í Reykjavík, það er þó sýnist mjer ekki fallegt, og Þ. Sveinbjörnsson hafði þegið sig undan kosningunni í brjefi til konungs. Rosenörn hefir samt víst komið sjer saman um það við Bardenfleth, en við »Statsraadet« vildi hann ekki nefna málið.

Þú ætlar að fara að gefa út blað í Reykjavík. Rosenörn segir mjer, að hann hafi látið prentverkið forleggja það, og þú eigir einungis að vera ritstjóri og ábyrgðarmaður. Við Oddgeir ætluðum hjer líka að gefa út blað, eins og jeg trúi jeg hafi skrifað þjer áður, og vildum láta stjórnina halda okkur skaðlausa fyrir svo sem 100 dölum, ef blaðið gæti ekki borið sig sjálft. Það vildi Sponech ekki leyfa (Bang var nl. æfinlega vanur að spyrja hann um hverja útgipt) og þá ætluðum við okkur að gefa út boðsbrjef í vor og dálitið sýnishorn um leið. Nú held jeg við sleppum því öldungis. Það getur víst ekki staðizt við hliðina á Landstiðindunum, og hefir mjer dottið í hug að við skyldum senda þjer það, sem við viljum láta prenta, þó margir ókostir sjeu á því, þar við þá hvorki ráðum hvað þú tekur, eða getum eins haganlega farið eptir tómstundum okkar; því tíminn er beztur á veturna og þá má taka saman og láta prenta það,

sem koma á út um vorið. Það sem við þá ættum að senda þjer yrði ekki annað en »officielle Meddelelser« og hvað merkilegt gjörzt hefir í stjórn Íslands, sjeð frá þeirri hlið, sem stjórnin hefir sjeð það, »statistiske Optegnelser«, og þesskonar. Jeg get annars ekki neitað því, að mjer sýnist þú takast á hendur vandasamt mál með ritstjórnina á Landstíðindunum, því ef þú ætlar að hafa þar í »resonnerende« artikula um stjórnarefnin, þá er vandasamt að stýra milli skers og báru. Líka sje jeg vandi verður á, ef við sendum þjer álit stjórnarinnar á ýmsum málum, þegar það fer móti því, sem þú hefir áður sagt. En hvað um það er, þá held jeg að jeg sendi þjer í vor eitthvað af þessu tagi. Mjer sýnist þú ættir ekki að byrja tíðindin fyrr en um nýárið, því það er mest í varið við útgáfu þesskonar rits, að vera ekki efnislaus, svo maður þurfi ekki að taka það, sem maður á eptir iðrast eptir að hafa tekið. Í þetta skipti get jeg ekkert sent þjer, því þessi hugmynd um Landstíðindin er svo ný fyrir mig, að jeg er ekkert undir það búinn. Ekki get jeg heldur, sem mig hefði langað til, í þetta skipti skrifað þjer neitt um fyrirkomulagið á sambandi Íslands við ríkið allt, og þess vildi jeg óska, að þú farir sjerlega varlega í það mál, Það sem stóð í Reykjavíkurpóstinum um það í vor eð var, var ekki í mörgu tilliti svo galið, eptir minni meiningu, en nokkuð var þar þó töluvert undið.

Jeg sendi þjer ekki eptirrit af »Forestilling«-unni minni um alþingismálið. Rosenörn hafði fallist hjerumbil á hana, en Bardenfleth eyðilagði hana fyrir mjer í »Statsraadet« með því að fá þá til að fallast á uppástungu alþingis um að kjósa 2 menn fyrir hverja sýslu. Þið getið haft það eins vitlaust og þið viljið fyrir mjer, jeg er þar ekki maður á milli.

Með blöðunum sem jeg sendi þjer, legg jeg dálítinn pjesa. Seinni »Afhandlingen«, sem prentuð er nú í »Tilskueren« hefi jeg skrifað. Hún þótti hjer vel skrifuð og gjörði ofurlítið »Opsigt«, og því sendi jeg þjer hana að gamni mínu. Annars var hún anonym, eins og það litla, sem jeg annars skrifa í blöðin. Jeg skrifaði hana til að fyrirbyggja, að enginn annar Íslendingur skyldi hlaupa til og skemma málstað okkar, annaðhvort með skömmum eða vitleysu; en mjer tókst það þó ekki, því seinna

kom hjer út dálítil »Brochure« á íslenzku og dönsku, sem hafði nóg af hvorutveggju til að bera.

Nú verð jeg að hætta hjer við bezti bróðir! og kveð þig því með óskum allrar Guðs blessunar.

Þinn af hjarta elskandi bróðir.

Br. Pjetursson.

Kaupmannahöfn 16. marz 1850.

Elsku bezti bróðir!

Nú er hræðilega langt síðan jeg fjekk tækifæri til að senda þjer nokkrar línur, en nú fer skip á morgun frá Knudtzon til Reykjavíkur eða Hafnarfjarðar og því fer jeg nú að heilsa upp á þig, bezti bróðir! og þakka jeg þjer þá, meðal annars fyrir tvö elskuleg brjef, sem jeg fjekk frá þjer í nóvembermánuði. Jeg sendi þjer sömu dagblöðin sem áður, og ná þau til laugardagsins var, nema »Fædrelandet«, sem nær til þessa dags. Þau eru annars leiðinleg á þessum tímum, því það er nokkurskonar örvinglun yfir mönnum yfir þessari illu stöðu, sem Danmörk er í.

Hjer hefir ekki viðborið neitt sjerlega merkilegt í vetur. Ríkisþingið var að sönnu sett seinast í janúar, en þar hefir ekkert komið fyrir sjerlega merkilegt og ríkisþingstíðindin er varla vert að lesa. Það eru allt mál, sem ekki snerta Ísland í minnsta máta, nema hvað þess er minnst í »Budgettet« og verður það líklega prentað í Fjelagsritunum. Það mál hefir enn ekki komið fyrir. Ekkert hef jeg, hamingjunni sje lof! átt við þetta ríkisþing, nema hvað þeir fundu upp á hjerna í bæjarpartinum, sem jeg bý í, að kjósa mig fyrir kjörmann til landsþingsins fyrir Kaupmannahöfn.

Af því, sem Íslandi viðvíkur, er það, sem mest er undir komið, enn þá óútgjört. Það er eins og þeir sjeu deigir á að gjöra nokkuð við það mál, af því ekki lítur út fyrir, að stöðu Sljesvíkur muni verða komið fyrir fyrst um sinn. Þó hefir Rosenörn beðið mig að koma með uppástungu mína í næstu viku og liggur það mál nú þungt á hyggju minni. Hamingjan veit, hvað þeir ráða af í því efni, en jeg get ekki sjeð, að þar sje til nema einn máti, til að koma ásigkomulagi Íslands fyrir, og ef

þeir steypa honum, verður það þungbært fyrir mig að koma því fyrir, sem byggja skyldi á annari hugmynd. En eg skal ekki tala meira um þetta fyrr en eitthvað verður úr því ráðið.

Af embættisveitingum, Íslandi viðkomandi, er einungis stiptamtmannsembættið enn þá veitt, hin bíða póstskipsins. Stiptamtmaður varð greifi nokkur að nafni Trampe, sem var áður »Overauditeur og Auditeur« í Helsingjaeyri. Það sóktu ekki aðrir en hann og Johnsen í Álaborg. Jeg þorði ekki að sækja vegna þess að þeir sögðu mjer báðir Bardenfleth og Rosenörn, að stiptamtmaðurinn æfinlega ætti að vera danskur maður og vegna þess að jeg heyrði strax, að Rosenörn hafði kosið sjer Trampe. En í »Forestillingen«, sem við ljetum Ros:(enörn) setja endahnútinn á minntist hann ekkert á þetta princip, heldur færði til allt annað, sem einungis var sjerstaklegt, og skal það hafa verið eptir ákvörðun stjórnarherranna. Það, sem líka gerði mig deigan að sækja nú, var sú hugsun að fengi jeg það, mundi það standa í vegi fyrir, að þú yrðir biskup, ef það embætti losnaði. Hver amtmaður verður fyrir norðan er ómögulegt að segja fyrr en menn vita með póstskipinu, hvort Jónassen hafi ekki snúizt hugur. Hann hefir annars staðið vel í stöðu sinni, nema hvað hann var svo »uresolut« í málinu um heimreiðina til Gríms sáluga, að hann gerði ekki annað en senda það hjer niður, þó hann mætti hafa sjeð, að úr því hann gerði ekkert strax væri það öldungis vitlaust að taka það upp aptur í sumar, og það vildi hann þó láta vera. Ef Jónassen sækir ekki, fær líklega Kristján embættið, því jeg get sjálfsagt ekki komið Jóni þar inn, þó hann sje miklu betur til þess fallinn. Hver þá verður landfógeti og bæjarfógeti, er ekki gott að segja. Jeg veit, að Jón vill ekki vera bæjarfógeti, að minnsta kosti mundi honum það nauðungarval, og jeg held líka honum yrði það óþægileg staða. En jeg býst ekki við, að jeg geti aðskilið landfógetaembættið frá bæjarfógetaembættinu, því Rosenörn er það þvert um hug. Assessorsembættið minna getur Jón fengið hvernig sem fer, en það er oflítið handa honum í Rvk., 800 rd. um árið. Jeg var búinn að fá Bardenfleth til að lofa mjer að hækka öll yfirrjettarlaunin í »Budgetudkastet«, sem jeg átti að gjöra og setja yngsta dómarans laun á 1000 rdd., en þá kom uppástunga frá Rosenörn

um hækkun á launum við landsyfirrjettinn, og þar var yngsti dómari ekki með. Bardenfleth þorði því ekki að stinga upp á meira en stiptamtmaðurinn, sem þá var, hafði gjört. Þegar Ros: og jeg fann að uppástungu[1]) (því (þá) var hann undir mjer) þá afsakaði hann sig með því, að þar sem stiptamtmenn ættu að vera danskir mundi það bezt, að þeir leituðu styrktar hjá yngsta assessor og gæfi honum þóknun fyrir af því, sem er um of til skrifstofugjalda. En jeg sagði Rosen:, að (það) væri niðurlæging fyrir þann embættismann, og ætla jeg að ráða honum frá því, ef allt gengur nú öfugt, enda mun Trampe þurfa á öllu sinu að halda, því hann er barnamaður og bláfátækur.

Ekkert veit jeg, hver commissarius muni verða við þenna þjóðfund í sumar. Það hefir ekki verið minnst á það við mig enn, nema Rosenörn spurði mig einusinni að, hvort jeg áliti það ekki rjett, »at gjöre det til fremtidig Regel, at Departements-directeuren for det isl: Depart: fungerer ved Althinget paa Regjeringens Vegne«, en þar til svaraði jeg: »Jo vel! naar han *ellers* duer dertil« og þar með var það efni úttalað. Jeg er líka sannfærður um, að *jeg* er ekki fær um að vera það. Fyrst og fremst er jeg of heilsutæpur til þess, og þoli ekki sjóferðina, ef jeg þarf að velkjast á einhverri vesældar skútu, sem öll líkindi eru til að verði mitt hlutfall, ef jeg væri settur til þess, þar sem Marineministeren ekki vill lofa að senda herskip til Íslands í sumar, sem hann annars hefði ætlað sjer, af því stríðið vofir yfir, og þar er ekki meiri útsjón til að friður verði, en að úlfaldinn geti smogið gegnum saumnálaraugað, nema Danir vilji öldungis láta undan strax og gefa frá sjer Sljesvík, því jeg hef aldrei sjeð nokkurn hlut svo grant, sem að Prússar ætla sjer að taka þann ríkishluta frá Dönum, og gefast þeir ekki upp frá því fyrir smáræði. Annað er það að jeg er ónýtur ræðumaður, bæði vegna þess jeg kann ekki almennilega að koma fyrir mig orði, sízt á íslenzku, og líka þess vegna að jeg verð nokkuð »distrait« þegar jeg er ekki vel friskur. Og það sem ef til vill verst er, það er að jeg hef víst fordóm móti mjer hjá Íslendingum, því annars hefðu þeir ekki farið í fyrra vor undir eins að hnjóða í De-

1) Svo í hdr.

partementið fyrir seinlæti og annað. Mjer dettur nú í hug, að Rosenörn hefir einu sinni sagt mjer, að þú hafir verið einna óþolinmóðastur yfir seinlæti okkar. Jeg gjöri mjer nú í hugarlund að það hafi verið eitt víst mál, sem þjer hefir þótt dragast of lengi, en jeg vona, (að þú sæir) ef þú þekktir allar kringumstæður, jeg gat ekki með góðu móti komið því fyrri í kring. En öll önnur skólamál og prestaskólamál, sem voru ekki mörg, bæði þau, sem lágu til okkar hjer og sem komu hingað með póstskipi, þau afgerðum við strax, já, við afgerðum enda tvö mál, sem við höfum ekki fengið álit stipsyfirvaldanna um. Álitsmál biskupsins eins (stiptamtmanns votum vantar enn) um reglugjörð prestaskólans og skólans komu ekki fyrr en eptir að póstskip kom í haust, og þó beiddir þú mig í einu af þínum elskulegu brjefum í fyrra vor að flýta fyrir málinu um prestaskólann. Undir eins og jeg fæ það frá Trampe, sem hefir dregið að senda mjer það, legg jeg það fyrir kirkjumála stjórnarherrann. Mjer líkar annars sjerlega vel skjalið þitt, og það er ekkert í því, sem jeg efast um nema það eina, hvort það væri ekki í sjálfu sjer rjettara og í meira hag fyrir seminariið, að jafna prófunum hjer og þar öðruvísi saman, svo að »udmærket« svari til »egregie« o. s. frv., en kandidötunum hjeðan væri aftur gefið 3 eða 4 »Anciennitet« fyrir þann tíma, sem þeir brúka fram yfir hina til studeringanna. Þó verður það sjálfsagt endinn á þeirri umhugsun hjá mjer, að jeg held mjer til þinnar uppástungu. Jeg er nú kominn langt burt frá því, sem eg var að tala um og bæti því nú við, að þó mig langi ósköp til að geta talað við ykkur og verið hjá ykkur báðum, ef Jón kemur til Reykjavíkur, þá ætla jeg þó ekki, af því jeg veit ekki, hvort jeg heilsunnar vegna get haldið það út, að láta falla eitt orð um að verða commissarius, en ef mjer verður uppálagt það, þá ætla jeg ekki að skorast undan því, nema svo að eins, að frumvarp stjórnarinnar til fyrirkomulagsins á Íslands efnum, verði svo, að það stríði mót samvizku minni að forsvara það.

Jeg hefi ekki getað skrifað neitt til Lestrarkversins, því jeg hefi ekki tíma til. Þið sögðuð okkur heldur ekkert um, hvernig það ætti að vera, svo jeg hefði ekki getað átt neitt við það, hefði jeg (ekki) lesið um áformið um innihald kversins (mig

minnir) í Þjóðólfi[1]). En af því jeg hefi áður lesið í gegn safn sjera Guðmundar Jónsson(ar) og gjört merki við hvort af því, sem þar stendur eptir því hvort það er málsháttur og góður og íslenzkur málsháttur, þá byrjaði jeg einu sinni á því í sumar að raða þeim niður eptir efninu, til að geta látið fylgja stafróðinni dálitla fræðibók, sem máls(hættirnir) skyldu koma allir fyrir í, svo börnunum gæti betur skilist meining þeirra, því á þann hátt skilst þeim betur en við útskýringar yfir þá málshætti, sem tvíræðir eru eða vandskildir. En jeg komst ekki langt með þetta og mátti síðan hætta við það.

Jeg ætla ekki að minnast á alþingismál frá í fyrra, nema rekamálið, ekki af því það sje skynsamar farið með það, en önnur mál, en vegna þess, að það gengur yfir mig að þið geistlegu mennirnir ekki skylduð taka kirkjurnar betur en þið gjörðuð. Alþingismenn voru allir á því, sem von var, að þar sem um bændaeign er að gera, þar er rekaeigandi og jarðeigandi — jeg held án einnar einustu undantekningar — optast sami maðurinn, og játuðu, að þar sem það væri ekki, hefði hvorugur þeirra nokkurn rjett til vogreks. En það er öldungis ótækt, segja þeir, að halla rjettindum þeim, sem nú eru, og það er þar sem bændur eiga reka á kirkjujörð, því nú fái þeir rekann, sem kirkjan átti áður. En fyrst er það á móti því, sem hverjum manni gefur að skilja, að bóndi geti átt nokkurstaðar reka fyrir kirkjujörð, og dæmið, sem til var fært úr Þingeyjarsýslu, sannar ekkert, því það var gamall klaustursreki, sem þá (var) verið að tala um. En þó eitthvert dæmi fyndist upp á þetta, þá er það mikið vafasamt, hvort kirkjan á það vogrek, því löggjöfin nefnir ekki annað en »Forstrande« og »Strande« (á einum stað), en það eru rekar og ekkert (annað), svo þar sem kirkjur eiga ekki reka, þar eiga þær vogrek, en annars ekki. En til að fyrirbyggja þessi óttalegu rangindi, að taka frá kirkjum — ef nokkur þeirra á jörð, sem annar á reka á — þann vogreksrjett, sem þær aldrei hafa átt, stingur alþingið upp á að svipta *hverja* kirkju, sem til er á Íslandi, þeim vogreksrjett, sem lögin hafa gefið þeim um langan aldur, og leggja þeim fyrir að sanna vogreksrjett sinn af mál-

1) Það var í Reykjavíkurpósti III, 1849 bls. 101—103. Sjá bls. 93 að framan.

dögum og gamalli venju, en sú sannan er optast nær aldeilis ómöguleg.

Fyrirgefðu mjer, bezti bróðir! þetta risp. Það er óafsakanlegt, að jeg skrifa þjer ekki rækilegar eptir svo langan tíma. En jeg skal, ef Guð lofar, reyna til að bæta það upp. Góður Guð veri með þjer alla tíma!

Þinn af hjarta elskandi bróðir
Br. Pjetursson.

Kaupmannahöfn 11. apríl 1850.

Elsku bezti bróðir!

Það tókst illa fyrir mjer í þetta skipti með brjef til þín. Nýi stiptamtmaðurinn var hjer í þessu bili hjá mjer, að kveðja mig, og sagði mjer að hann færi niður til Helsingjaeyrar að stundu liðinni, því skipið væri þangað komið, til að taka á móti hyski hans og búnaði, og ætlaði nú að sigla í kvöld eða snemma í kvöld. Jeg kemst því ekki til að skrifa þjer nema nokkrar línur í þetta skipti, en skal, þar jeg nú ekki get sent þjer dagblöð vegna tímaleysis, gjöra það með fyrstu ferð; annars er ekki í þeim neitt, sem merkilegt er. Allar þessar fregnir um herbúnað, hervon, friðarvon og vopnahlje eru ekki nema tómur grautur og óvissufregnír, sem hvern dag koma hver á mótt annari. Það getur heldur enginn lifandi maður sjeð, hvað ofan á muni verða, ekki einu sinni þeir sem bezt eru kunnugir öllum viðskiptum ríkisstjórnendanna.

Póstskipið er ekki komið enn, og ekkert hefir til þess heyrzt. Sumir eru farnir að verða hræddir um það, en veðrið er hjer ógnar óstöðugt og hafa hjer verið seinustu þrjár vikurnar austan og sunnan vindar, svo að póstskipið, ef það hefir ekki sloppið hjá slíkum óbyr, er varla væntanlegt, þó því ekki hafi á hlekkst.

Jeg hefi engar frjettir að segja þjer. Flest íslenzku málin bíða póstskipskomunnar. Jeg hefi búið til frumvarp til stjórnarlaga Íslands og fengið Rosenörn, og held jeg, að jeg *kynni* að geta unnið *hann*. En hann er of deigur til að geta komið fram sinni meining við hina, af því hann raunar vill, að Ísland verði,

sem mest má, sameinað Danmörku, þó hann hins vegar vilji gefa því frelsi í *eigin* efnum, sem *honum* sýnast vera svo. Þó vildi jeg, að jeg ætti við hann einn að eiga. Hann hefir nefnt við mig nú nýlega, hvort jeg vildi ekki fara heim sem commissarius, en jeg svaraði honum, að ef ekki hefði verið um önnur mál að gera í þetta skipti en þau, er lítið var undir komið, mundi jeg ekki hafa tregðast við að gjöra það, þó jeg hefði ekki verið stjórninni samdóma í þeim málum og enginn hefði annar fengist. En nú þar sem um Íslands velferð er að gjöra um aldur og æfi, gæti jeg samvizku minnar vegna ekki tekizt commissarii embættið á hendur, nema stjórnin vildi fallast á uppástungur mínar. Hann svaraði mjer því, að *hann* mundi ekki verða í stjórnarráðinu í höfuðefninu af annari meining en jeg, en að hann vonaði, að jeg mundi ekki neita, ef því yrði framgengt, þó greinum, sem minna er í varið, væri breytt. Þar upp á svaraði jeg: nei, ef þær breytingar draga ekki rót undan höfuðstofninum. Við höfum ekki talast við síðan, en hann hefir lofað mjer að gjöra ekki neitt, fyrr en við höfum talast nákvæmlega við um málið.

Tíminn er nú á enda fyrir mjer, og verð jeg að biðja þig, bezti bróðir! að fyrirgefa mjer flaustrið.

Þinn af hjarta elskandi bróðir.

Br. Pjetursson.

2. **Brjef frá hra Matthias Hans Rosenörn innanríkisráðherra í Kaupmannahöfn til prófessor Dr. theol. Pjeturs Pjeturssonar í Reykjavík.**

Kjöbenhavn d. 9. Juni 1851.

Höistærede Hr. Professor Dr. Pjetursson!

Jeg skylder Dem oprigtig Tak for Deres venskabelige og indholdsrige Breve af 7. Sept. og 2. Oct. f. A. samt 3je Marts d. A. og for den consequente Virksomhed, som det der af fremgaar, at De stedse viser for Islands sande Vel og Befæstelsen af dets Forbindelse med Danmark.

De vil nu af Regjeringens Udkast se det Resultat, hvortil man for Tiden er kommen. Man har ikke næret nogen Tvivl om at Hovedgrundsætningen — Islands Stilling som integrerende Bestanddel af det danske Rige — ikke kunde sættes under Discussion, og der vil for dem, som ville Islands Vel og med nogen Indsigt bedömme Forholdene, vistnok ikke være nogen anden Vej end at stutte sig til og opretholde Hovedpunkterne i Regjeringens Udkast. En saadan Understöttelse vil imidlertid ogsaa være af megen Vigtighed, thi efter alle tidligere Erfaringer troer jeg neppe, at der i en islandsk Forsamling vil kunne ad Discussionens Vej opnaas betydelige Resultater ved nogen dansk Kommissarius, og det er altsaa fornemmelig paa Medvirkning af de loyale og indsigtsfulde Medlemmer af selve Forsamlingen, at Regjeringen maa stole. Iövrigt vil Islands egen velforstaaede Interesse maatte före til i det væsentlige at tiltræde Regjeringens Forslag, thi disse ere vistnok saa gunstige for Landet, som de vel kunne tænkes, og hvis de afvises, tvivler jeg meget paa, at de ville blive gjentagne. Man vil imidlertid da ikke kunne fölge det andet af dem ommeldte Alternativ, at lade Alt forblive in statu quo, eller, som De siger, fremdeles at lade Kongen være uindskrænket paa Island. For det Förste er nemlig det sidste allerede ikke saa ganske Tilfældet, eftersom Finansloven allerede nu omfatter alle Statsudgifter og Statsindtægter ogsaa Island vedkommende, og dette Afsnit af dem, lige med de övrige, allerede nu behandles og vedtages af Rigsdagen. Dernæst fordrer ogsaa Grundloven, hvis fulde Gyldighed for Island hidtil kun har været udsat efter den nu afholdende Forsamlings Betænkning om Modaliteten af dens Indförelse, vedblivende sin Fyldestgjörelse ogsaa for denne Del af Riget. Det andet Alternativ, hvorpaa der kan tænkes, vil ogsaa være — forudsat at den hele nyere Udvikling staar fast ogsaa i Danmark, og i modsat Fald vil status quo ante af sig selv være given — at gjöre Grundloven og Rigsdagens deri begrundede Myndighed gjældende for Island uden anden Lempelse, end der fölger af, at Islænderne ikke vilde have Representanter i Rigsdagen, eller med andre Ord, at lade Kongen og Rigsdagen udöve Statsmagten for Islands Vedkommende i dens fulde Omfang, uagtet ingen islandske Rigsdagsmænd

give Möde, men med Iagttagelse af de hidtil bestaaende Love om Althinget som en raadgivende Provinsialinstitution. Dette er ogsaa, saavidt jeg har kunnet mærke, hele Statsraadets udelte Mening, og selv et Ministerskifte vil neppe i denne Henseende frembringe et gunstigere Resultat for Island. Det er nemlig især Madvig og jeg, der have sat de nærværende Forslag forelöbig igjennem, og hvis der indtræder nogen Ministerforandring, — hvoraf jeg ikke benægter Sandsynligheden —, er det ikke rimeligt at vi to blive i Ministeriet, eftersom vi begge i höj Grad ere lagte for Had hos »Hs Majestæts Allierede«, han som »Nationalist« og jeg som »Democrat« (paa Grund af den nye Jagtforordning og andre lignende Forhold, som i höj Grad have opbragt Godsejerne og de ældre Konservative). Naar Islænderne imidlertid tiltræde de nærværende Forslag, vil Regjeringen ikke kunne komme bort derfra, og de ville da, efter Erfaringen fra Færöerne, gaa igjennem paa Rigsdagen, saaledes som denne endnu i denne Session er sammensat.

For mit Vedkomnende skulde jeg ikke have været utilböjelig til at give Althinget en större Betydning, men dels var Stemningen bleven temmelig uvillig mod Island ifölge disse, tildels höjst uoverlagte Forslag fra Sysselcomiteerne (hvilke man har forbeholdt sig at lade oversætte paa Dansk til Orientering for Rigsdagen, men hvilket dog maaske endnu kan modarbeides, naar Efterretningerne fra Landet fremdeles lyde godt), og dels har jeg meget savnet Bistand af Deres Broder, ligesom jeg da ei heller fra Grev Trampe modtog det Allermindste i denne Retning. Det har i det hele gjort mig inderlig ondt at se og erfare, hvor svag Deres Broder er. Han er for Tiden kun som en Ruin af sin gamle Aandsstyrke og navnlig er det ham næsten umuligt i alt Fald mundtlig, at give sine Tanker et correct og fuldstændigt Udtryk; han har i Virkeligheden været dispenseret fra alle Forretninger lige siden forrige Efteraar, og hans Befindende viser endnu ikke kjendelige Spor til Bedring.

Med Hensyn til Antallet af Althingets Medlemmer har jeg holdt mig til Cfrd. Sveinbjörnssen af Dem mig meddelte Forslag, men efter nærmere Overvejelse kommer man vist til at opgive de faste Pladser, saa meget mere som frit Valg af Kronen er

almindeligt i de fleste fremmede lignende og til et Kammer indskrænkede Institutioner.

Min Kone hilser Dem og Deres paa det venligste ved Deres oprigtig hengivne.

Rosenörn.

### 3. Skólavitnisburður Pjeturs Pjeturssonar.

*Petrus Petri filius* die 3º Octobris Anno 1808 natus Miklabajæ, villa parochiali toparchiæ Schagfjordensis in septentrionali insulæ nostræ quadrante sita, patrem colit Petrum Petrinum dictæ toparchiæ olim dignissimum Præpositum et matronam Thoram Brynjulvi filiam, qui nulli operæ pepercere, quin suus filius artibus imbueretur liberalibus, optimamque morum nancisceretur conformationem, eumque in finem primum informandum tradidere Pastori ecclesiæ Saurbajensis Eyfjordensium Einari Thorlacio, doctrina et informandi solertia perquam conspicuo, et deinde ante triennium in scholam nostram misere ulterius instituendum. Nec operam et oleum perdiderunt, nam noster cum ingenii docilitate et judicii sinceritate conjungit literarum amorem at indefessam industriam, unde quoque tantos reportavit fructus, ut in examine publico quod superiore mense sustinuit

in auctoribus latinis et græcis interpretandis, religionis doctrina: *egregia laude*

in stylo latino, analysi hebraica, novi testamenti exegesi, geometria: *magna laude*

in lingva danica, stylo islandico et danico, historia, arithmetrice et algebra: *laude*

dignus censeretur, tyrocinio quoque demum homiletico feliciter fungeretur. Nil igitur restat, nisi ut optimæ spei juvenem, morum candore, comitate et facilitate perquam commendabilem, nobisque dilectissimum, honeste dimissum testemur, atque faustissimis votis ad patrios poenates redeuntem prosequentes, omnibus literarum, bonarumque mentium amicis et moecenatibus toto ex

animo mandemus, imprimis Vobis summe reverendi Universitatis Havniensis Professores! si unquam vestram civitatem ambiverit.

Lambhusis die 16º Junii 1827. Vidi 2. Julii 1827.
J. Jonæus Steingrimus Jonæus
Lect. theol. Sch. Bess: Episc. Islandiæ.
(L. S.).

4. **Vitnisburðir háskólakennara.**

Hr. *Peter Petersen* Candidat i Theologien fra April 1834 med Charakteren *Laudabilis*, er mig fra det academiske Cursus bekjendt som en særdeles agtværdig og haabefuld ung Theolog. Ligesom han har bivaanet mine Forelæsninger og deltaget i mine skriftlige Övelser med udmærket Flid, saaledes har hans hele Studium vidnet om lige saa megen videnskabelig Interesse som Evne til at skride fremad i videnskabelig Udvikling. De skriftlige Arbeider, han har indgivet som Deltager i de nysomtalte Övelser, have saavel fra Indholdets som fra Formens Side stedse hört til de fortrinlige og ved den offentlige Examen tilkjendtes ligeledes hans Specimina den förste og en meget hæderlig Plads. Da nu denne Candidat understöttes ved ualmindelig gode Forkundskaber og besjæles af Lyst til videnskabelig Syslen, saa tör Videnskaben vente sig glædelige Frugter af hans fortsatte Virksomhed naar denne maa möde fortjent Opmuntring og Understöttelse, ligesom hans hele Tænkemaade forvisser om værdig og gavnlig Embedsförelse i Kirkens Tjeneste naar Tiden dertil kommer.

Kjöbenhavn den 7de Mai 1834.
H. N. Clausen.

Hr. Candidatus Theologiæ P. Petersen, som idag har taget den theologiske Embedsexamen, har i de foregaaende Aar med saare megen Flid, ved et grundigt og nöjagtigt Studium af de theologiske Videnskaber forberedet sig til den; ogsaa har han særdeles flittigen bivaanet mine Forelæsninger over det gamle

Testament, saavel som mine i Aaret 1833 holdte skriftlige Övelser.

Ligesom hans Arbeider stedse afgave tydelige og hæderlige Vidnesbyrd om hans grundige og omfattende Kundskaber, saaledes var dette ogsaa Tilfældet ved Examen, hvor hans skriftlige Udarbeidelser udmærkede sig ved Orden, Klarhed og Udförlighed i Fremstillingen. Med fuld Föje tilkjendtes ham derfor Charakteren Laudabilis, og efter min Overbevisning hörer han ved sine Kundskaber, sin Flid og Stræben efter Grundighed til de theologiske Candidater, der fortjene den bedste Anbefaling.

Kjöbenhavn den 14de April 1834.

M. H. Hohlenberg.

Hr. Cand. Theol. P. Petersen, som i indeværende Maaned absolverede den theologiske Embedsexamen med Charakteren Laudabilis var mig allerede för min Ansættelse ved Universitetet bekjendt som en særdeles flittig og velbegavet Studerende. Han forlader Universitetet med omfattende og grundige Kundskaber og Evne og Lyst til at fortsætte sin Dannelse i videnskabelig Retning.

Kjöbenhavn den 23. April 1834.

Engelstoft.

### 5. Staðarfellsættin erlendis.

I. *Jens Jacob Benedictsen* f. 3. sept. 1806, d. 14. júní 1842. Stórkaupmaður, átti verzlanir á Grundarfirði, Ísafirði og í Vestmannaeyjum en bjó í Kaupmannahöfn. Giptist í marz 1830 Anna Maria Frohm (f. 30. sept. 1811, d. 24. april 1891). Þeirra börn:

1. *Jens Jacob* f. á Ísafirði 29. april 1833. Skipstjóri og kaupmaður, fór víða um heim á verzlunarferðum, til Kína, Japan, Indlands, Indlandseyja og víðar. Keypti búgarð á Sjálandi (Brandstrupgaard) og bjó þar mörg ár; býr nú í Kaupmannahöfn. Giptist 27. júlí 1860 Catharine Koch († 4. maí 1876). Þeirra börn:

A. Jens Jacob f. 1861; d. 1862.
B. Olav Emil f. 7. febr. 1863 á Indlandshafi fyrir sunnan Java. Læknir i Kaupmannahöfn. Giptist 1 júlí 1890 Elin Santesson, sænskri. Þeirra börn:
 a, Anna Maria f. 30. des. 1892.
 b, Sigrid f. 2. marz 1896, d. júní 1896.
C. Botilde f. 16. marz 1866, dó ógipt 10. júlí 1887.
D. Anna Maria f. 26. febr. 1868. Giptist 15. des. 1886, generalkonsul og etazráði H. N. Andersen Cmdr. af Dbg. Þau bjuggu lengi í Bangkok í Siam; hann er nú forstjóri hins mikla Austurindiafjelags í Kaupmannahöfn. Þeirra börn:
 a, Jens Jacob f. 2. april 1889; d. 23. oct. 1890.
 b, Astrid f. 3. des. 1890.
 c, Jens Sigurd f. 1894.
 d, Kay Ivar f. 1895.
E. Astrid f. 27. febr. 1873. Giptist 14. april 1894 kapteini í sjóliðinu Guldberg, sem er forstjóri Austindlafjelags í Bangkok. Barnlaus, búa í Bangkok.

2. *Anna María* f. á Ísafirði 1. febrúar 1835, d. 27. des. 1874. Söng- og leikkona við konunglega leikhúsið í Kaupmannahöfn. Giptist 20. júlí 1857 stórkaupmanni Ferd. Meyer († 1887). Þeirra börn:
 A. Axel f. 30. des. 1857, stórkaupmaður í Kmhöfn. Giptist 1893 Valgerda Fugl. Þeirra börn:
 a, Helga f. 11. nóvbr. 1894.
 b, Ragna f. 15. febr. 1898.
 c, Ritta f. 15. maí 1899.
 d, Vera f. 8. jan. 1901.
 e, Gudrid f. 11. sept. 1902.
 B. Alma f. 24. des. 1860. Gipt 1886 C. v. Holck herforingja. Þeirra son:
 a, Hakon f. 10. jan. 1890.
 C. Olga f. 7. ágúst 1863. Leikkona við þjóðleikhúsið í Kmhöfn; ógipt.
 D. Aage f. 13. júlí 1866. Rithöfundur og ferðamaður, hefir dvalið meðal margra ræningja- og villiþjóða í

Asíu og komist í margar mannhættur. Kona hans Jannet van Dörs dó 1904, barnlaus.

E. Harriet f. 28. febr. 1868. Giptist 1890 Jeppesen Borgbjerg foringja jafnaðarmanna. Þeirra börn:
  a, Jarne f. 2. des. 1890.
  b, Ydun f. 3. júlí 1892; d. 11. sept. 1906.
  c. Sif f. 19. febr. 1901.

F. Thyra f. 10. marz 1870, d. 1905. Giptist 1893 kaptejn Schmiegelov, deildarstjóra í Austindiafjelagi. Þeirra börn:
  a, Arne f. 24. júlí 1894.
  b, Finn f. 15. oktbr. 1896.
  c, Vagn f. 13. júní 1899.
  d, Eigil f. 14. jan. 1903.
  e, Thyra f. 10. oktb. 1905.

3. *Julie Johanne* f. 25. des. 1836. Giptist Carl Braun, lögfræðingi og málafærslumanni í Stockhólmi (f. 1828, d. 1905). Barnlaus. Býr í Stockhólmi.
4. *Emil* f. 7. nóv. 1838, d. 1891, ógiptur.
5. *Thorvald* skipstjóri og verzlunarmaður f. 26. nóv. 1840. Giptist Klara Krause, þýzkri, 1877. Þau bjuggu á Sumatra í Indlandseyjum, þar var hann síðast forstjóri á tóbaksbúgarði, og dóu bæði barnlaus 1892 í Singapore.
6. *Olav* f. 10. jan. 1842, ógiptur, býr í San Fransisco í California

II. *Benedict Benedictsen* f. 21. jan. 1798. Stórkaupmaður og rodemeistari í Kmhöfn. Giptist 21. júní 1820 Johanne Vinding. Þeirra börn:

1. *Bogi* f. 8. oktbr. 1823, Cand. theol., kennari í frönsku; lærður vel, en einrænn og sjerlundaður, var auðugur og gaf fje sitt allt fátækrastjórn Kaupmannahafnar. Dó ógiptur og barnlaus 15. jan. 1905.
2. *Velhelmine Jacobine* f. 23. maí 1825, d. 21. sept. 1864; gipt A. P. Wulf kaupmanni († 22. sept. 1866), sem verzlun hafði á Íslandi; var fyrst nokkur ár verzlunarstjóri við Knutzon's verzlun í Reykjavík. Þeirra börn:
   A. Gudrun Louise Herdis f. 30. jan. 1852, d. 4. maí 1877. Gipt Grove presti og áttu þau eina dóttur.

a, Gudrun Vennerike Ingrid f. 26. des. 1876, fæst við málaralist í Kmhöfn.

B. Alice Ingeborg f. 2. october 1855. Gipt Arnold Ferdinand Kristen bakarameistara í Marstal á Ærö. Þau barnlaus.

C. Martin f. 12. júní 1857, málari í Argentina í Suðurameriku. Giptur Manella Hardia f. 15. júlí 1868. Þau eiga mörg börn.

3. *Sören* dó í júlí 1840, 14 ára.
4. *Louise Maria* f. 18. april 1829. Dó 21. ág. 1864 ógipt.
5. *Vilhelm Jacob* f. 24. maí 1836, dó í júlí 1866. Premierlautenant og riddari af dannebrog.

**6. Skrá yfir rit Pjeturs biskups Pjeturssonar, sem prentuð eru.**[1])

---

A. Sjerstakar bækur og ritlingar.

Stutt Ræðusnið eða Fáeinar Hugvekjur, ætlaðar Prjedikurum. Viðeyjarklaustri, 1839, 52 bls. 8º.

Symbolæ ad fidem et studia Tyrannii Rufini presbyteri Aquileiensis illustranda, e scriptis ipsius petitæ. Havniæ 1840 4 + 102 bls. 8º.

Historia ecclesiastica Islandiæ. Ab anno 1740, ad annum 1840. Havniæ 1841, 7 + 508 bls. 4º.

Commentatio de jure ecclesiarum in Islandia ante et post reformationem. Havniæ 1844, 4 + 129 bls. 8º.

Ársrit samið og gefið út af prestum og aðstoðarprestum í Syðra-Þórnessþingi. Fyrsta ár. Rvík 1846, IV + 60 bls. 8º. Annað ár Rvík 1847, IV + 52 bls. 8º.

Skýrsla um Vesturamtsins almenna bókasafn í Stykkishólmi samin af B. Thorsteinsson og P. Pjeturssyni. Reykjavík 1847. 39 bls. 8º.

Ársrit prestaskólans, eptir Dr. P. Pjetursson og S. Melsted. Fyrsta ár. Rvík 1850. IV + 216 bls. 8º.

---

1) Skrá Jóns Borgfirðings í Andvara 18. árg. er lögð til grundvallar, en er hjer mikið aukin og endurbætt.

Svar upp á aðsenda grein í Þjóðólfi um árrit prestaskólans Han orthographisk var. (Ásamt S. Melsted). Reykjavík 1850, 4 bls. 4°.

Lanztíðindi. Ritstjóri P. Pjetursson. Fyrsta ár. Reykjavík 1850, 100 bls. 4°. Annað ár. Rvík 1851, 108 bls. 4°.

Skýrsla um gjörðir og fjárhag hins íslenzka bibliufjelags (á íslenzku og dönsku). Rvík 1854, 39 bls. 8°.

Skýrsla um prestaskólann í Reykjavík. Rvík 1856, 65 bls. 8°.

Prjedikanir ætlaðar til helgidagalestra í heimahúsum. Kmhöfn 1856, IV. + 640 bls 8°. (með formála höf.). Önnur útgáfa. Kmhöfn 1864, X + 574 bls. 8°. Þriðja útgáfa. Rvík 1885, IV + 440 bls, 8° (með formála útg.).

Nokkrar tækifærisræður. Rvík 1857, 4 + 128 bls 8°.

Hugvekjur til kvöldlestra frá veturnóttum til langaföstu. Kmhöfn 1858, 433 bls. 8°. Önnur útgafa. Kmhöfn 1868, 433 bls. 8°. Þriðja útgáfa. Rvík 1885, 344 bls. 8°. Fjórða útgáfa. Bessastöðum 1901, 360 bls. 8°.

Fimmtíu hugvekjur út af pínu og dauða drottins vors Jesú Krists. Kmhöfn 1859, 214 bls. 8°. Önnur útgáfa. Kmhöfn 1868, 214 bls. 8°. Þriðja útgáfa. Rvík 1884, 160 bls. 8°. Fjórða útgáfa. Rvík 1895, 164 bls. 8°.

Smásögur, safnað og íslenzkað hefir P. Pjetursson. Rvík 1859, 3 + 262 bls. 8°.

Smásögur safnað og íslenzkað hefir P. Pjetursson til ágóða fyrir prestaekknasjóðinn. Rvík 1876, 103 bls. 8°.

Nýtt smásögusafn. Þýðari og útgefandi P. Pjetursson. Rvík 1877, 3 + 256 bls. 8°.

Nýjar smásögur. P. Pjetursson íslenzkaði. Rvík 1887, 3 + 88 bls. 8°.

Brot af æfisögu Ásbjarnar ágjarna. Íslenzkað af P. Pjeturssyni. Akureyri 1891, 64 bls. 8°.

Smásögu-safn, er Dr. P. Pjetursson hefir þýtt. Rvík 1890—1898. Níu hefti, hvert 96 bls. 12mo. (Er endurprentun úr Smásögunum 1859, 1876 og 1877 — nema fyrsta heftið).

Bænakver (með formála) Kmhöfn 1860, 6 + 82 bls. 8°. Önnur útgáfa. Kmhöfn 1873 (með eftirmála), 91, + 3 bls. 12mo Þriðja útgáfa Rvík 1884, 4 + 80 bls. 12mo. Fjórða útgáfa. Rvík 1905, 87 bls. 8°.

Skýringar yfir nokkra staði í Nýjatestamentinu eptir P. Pjetursson og S. Melsted. Rvík 1861, 4 + 194 bls. 8o.; 1862 4 + 194 bls. 8o.; 1863, 2 + 192 bls. 8o.

Stutt leiðbeining til að lesa biflíuna sjer til gagns, eftir R. Möller, biskup og doktor í guðfræði. Íslenzkað hefir P. Pjetursson. Rvík 1862, 48 bls. 8o.

Registur yfir bókasafn prestaskólans. Rvík 1863, 2 + 43 bls 8o.

Nýja Testamentið. Endurskoðuð útgáfa. Oxford 1863 og 1866, 4 + 628 bls. 4o.

A Letter from the Right Rev. P. Pjetursson Dr. Theol. Bishop of Iceland, to G. Vigfusson Esq. dated Reykjavik June 19. 1868, 2 bls. 8o.

Til Íslendinga, svar til Guðbrands Vigfússonar um þýðing á Nýja Testamentinu. Rvík 1870, 4 bls. 8o.

Kristileg smárit handa Íslendingum. Dr. P. Pjetursson útgefandi. 1. ár, nr. 1—8, Rvík 1867; 2. ár, nr. 1—8, Rvík 1868; 3. ár, nr. 1—5, Rvík 1869 8o.

Ný kristileg smárit. Útgefandi P. Pjetursson. Rvík 1874. 2 + 82 bls. 8o. (12mo.)

Handbók fyrir presta á Íslandi. Endurskoðuð. Rvík 1869. 4 + 160 bls. 8o.

Hugvekjur til húslestra frá páskum til hvítasunnu. Kmhöfn 1871, 3 + 120 bls. 8o. Önnur útgáfa Rvík 1878, 112 bls. 8o. Þriðja útgáfa Akureyri 1883, 112 bls. 8o.

Prjedikun flutt á Íslands þúsund ára hátíð 2. dag ágústmánaðar 1874, í Reykjavíkur dómkirkju. Kmhöfn 1874, 15 bls. 8o. (á íslenzku og dönsku).

Stuttur leiðarvísir til að spyrja börn. Rvík 1878, IV + 134 bls. 12mo. Önnur útgáfa Akureyri 1883. 152 bls. 12mo.

Brjef til safnaðarins í Hólmabrauði 15. apríl 1882. Rvík 1882, 2 bls. 4o.

Tvær hugvekjur á jólum og nýári. Rvík 1883, 15 bls. 8o.

Sjö miðvikudaga hugvekjur á föstunni út af sjö orðum Jesú Krists á krossinum. Rvík 1884, 36 bls. 8o.

Ræða »Við afhjúpun minnisvarða Hallgríms Pjeturssonar í Reykjavík 2. ágúst 1885«. Rvík 1885 4 + 8 bls. 8o.

Auk þess gaf hann út:

Tvær fáorðar líkræður, fluttar við jarðarför madame Önnu sálugu Sigríðar Aradóttur. Kmhöfn 1840, 16 bls. 8º.

Tvær líkræður, önnur flutt við jarðarför Pjeturs Pjeturssonar prófasts á Víðivöllum 1842, hin flutt við jarðarför Dr. Hallgríms Schevings 1861. Rvík 1879, 24 bls. 8º.

Stutt æfiminning síra Pjeturs Pjeturssonar, fyrrum prófasts í Hegranessþingi eptir Jón prófast Konráðsson. Útgefandi P. Pjetursson. Rvík 1881, 35 bls. 8º. Aptan við er: Lítið sýnishorn af latneskum og íslenskum skáldskap Pjeturs prófasts Pjeturssonar.

Níutíu kvöldlestrahugvekjur eptir ýmsa íslenzka andlegrar stjettar menn. Útgefandi: P. Pjetursson. Rvík 1883, IV + 448 bls. 8º. (Formálinn eptir Pjetur biskup).

Bergur Thorberg landshöfðingi yfir Íslandi (Æfi og útfarminning). Rvík 1886, 39 bls. 8º.

Bogi P. Pjetursson hjeraðslæknir (Erfiljóð eptir V. Br.). Rvík 1890, 8 bls. 8º.

B. Ritgjörðir í ársritum og öðrum ritum, líkræður í útfararminningnm o. fl.

Í »*Fjölni*«. Um tekjur presta á Íslandi VII. ár 1844, bls. 3—26. Skýrsla um bindindisfjelagið (ásamt Gunnl. Þórðarsyni) s. st. bls. 58—70.

Í »*Ársriti*« presta í Syðra-Þórnesþingi. Fáein orð um fjelagsskap og samtök presta. 1. ár. 1846 bls. 1—14. Ekki nema hálfyrði um meðferð alþingis á »frumvarpi til tilskipunar, er nákvæmar tiltaki það, sem fyrir er mælt í reglugjörð 17. júlí 1782«. I, bls. 44—48. Ræða um ofdrykkju (þýdd) I, bls. 49—59. Frá fundi presta 16. apríl 1846 II, 1847 bls. 1—2. Um kirkjurækni II, bls. 3—16. Um að kenna foreldrum og húsbændum að spyrja börn II, bls. 25—39. Bæn um nýja messusöngsbók II, bls. 49—52.

Í »*Sorgarhátíð*« í minningu dauða Kristjáns konungs áttunda. Rvík 1848. Ræða haldin í Reykjavík 8. maí 1848. bls. 5—14.

Í »*Árriti*« prestaskólans. Rvík 1850. Ræða við setningu prestaskólans 2. október 1847, bls. 15—27. Skýrsla um ástand prestaskólans bls. 28—40. Um kirkjuhreyfing á Þýzkalandi bls.

41—80. Martensen um Sakramentin bls. 81—122. Ágrip af æfisögu Guðbrands Þorlákssonar Hólabiskups bls. 123—184. Umburðarbrjef biskups til allra prófasta á Íslandi, dags. 8. marz 1850 bls. 185—190.

Í »*Ræðum*« við jarðarför Sveinbjarnar Egilssonar rektors. Rvík 1855. Líkræða flutt í kirkjunni. Einnig pr. í »Tækifærisræðum« bls. 78—85.

Í »*Útfararminning*« Jóns Thorsteinssons landlæknis. Kmhöfn 1856. Ræða í kirkjunni bls. 14—23. Einnig pr. í »Tækifærisræðum« bls. 86—98.

Í »*Minningarriti*« hins íslenzka bókmenntafjelags 1816—1866. Kmhöfn 1867. 4o. Ræða forseta á fundi í deild hins íslenzka bókmenntafjelags í Reykjavík, 13. apríl 1866, bls. 1—5.

Í »*Alþingistíðindum*« 1867. Reikningur yfir alþingiskostnaðinn 1865 og yfirlit yfir alþingiskostnaðinn 1867 samið af Pjetri Pjeturssyni varaforseta. I. bls. 77—81 (Viðbætir B.). Umburðarbrjef til prófasta 17. júlí 1867, s. st. 1867, I, bls. 423—424. Auk þess fjöldi af ræðum, álitsskjölum, nefndarálitum, konungsávörpum o. fl.

Í »*Kristilegum smáritum*«. Ertu kristinn? I. ár nr. 1 1867 bls. 2—9. Veðráttan I. nr. 2, bls. 5—11. Hinn rangi og hinn rjetti friður II. árg. nr. 1. bls. 1—14. Rödd frá gufuskipinu Ástría II, nr. 2, bls. 1—7. Gott ráð II, nr. 2, bls. 13—14. Stormurinn í oss II, nr. 2. bls. 15. Drottins orð II, nr. 4 bls. 1—8. Heimspekingurinn Henrik Steffens II, nr. 4, bls. 14—15. En guði sjeu þakkir, sem oss hefir sigurinn gefið fyrir drottinn vorn Jesúm Krist, II, nr. 5, bls. 11—16. Um kristindóminn í daglegu lífi, III, ár nr. 1. bls. 12—19. Hinn gerzki (rússneski) skraddari III, nr. 3, bls. 1—12. Dr. Pjetur hefir eflaust þýtt og frumsamið margar fleiri greinar í Kr. sm., en nú er örðugt úr því að skera, hverjar þær eru, því allar eru nafnlausar.

»*Ný kristileg smárit*«, Rvík 1874. Páll postuli bls. 4—18. Jóhannes Krysostomus bls. 19—36. Kristniboð Jóns Vilhjálms á Suðurhafseyjum, bls. 37—56. Hugleiðing um forsjón guðs bls. 64—69. Sóknarpresturinn í Saint-Lyphar, bls. 70—76.

Í »*Sálmabók*«. Reykjavík 1871. Formáli eptir Dr. P. P. dags. 21. júlí 1871, 4 bls.

Í »*Minning*« sál. biskups Helga G. Thordersen. Kmhöfn 1875. Ræða við jarðarför biskups H. G. Thordersen, bls. 16—21.

Í »*Líkræðum*« við jarðarför P. Pjetursssonor prófasts (1842) og dr. H. Schevings (1862). Rvík 1879. Formáli og ræða við jarðarför Dr. Hallgríms Schevings bls. 17—24.

Í »*Útför*« Jóns Sigurðssonar og Ingibjargar Einarsdóttur, Rvík 1880. Ræða í kirkjunni við jarðarförina bls. 48—54.

Í »*Sýslumannaæfum*« Boga Benediktssonar, I. bindi Rvík 1881—1884. Skrá yfir handrit Jóns Espólíns sýslumanns, bls. 426—430.

Í »*Tímariti*« hins íslenzka bókmenntafjelags, V. árg. 1884. Æfisaga Brynjólfs biskups Sveinssonar, bls. 36—67.

Í »*Dýravininum*« III, Kmhöfn 1889. Hrafnar bls. 15.

C. Greinar í dagblöðum.

Í »*Reykjavíkurpóstinum*« II. ár 1848. Auglýsing um sjóð prestaskólans, bls. 116—118. III, októberm. 1848. Um prestaskólann (svar til Norðurfara) bls. 6—8.

Í »*Lanztíðindum*« 1—2. ár. Rvík 1849—51 er fjöldi greina eftir Dr. Pjetur, líklega hefir hann sjálfur ritað meira en helming alls, sem þar er prentað. Helztu ritstjórnargreinir eftir hann eru þessar: Inngangur I, bls. 1—2; um kosningar til þjóðfundarins að ári I, bls. 2—3, 5—6, 9—10, 13—14, 17—19. Um frjálsa verzlun I, bls. 14—16. Um prestaskólann og æðri skóla I, bls. 23—24. Sundurlausar hugmyndir um stjórnarskipun hjer á landi eptirleiðis I, bls. 29—31, 33—34, 37—38, 41—42, 49—50. Um Ross skipherra og norðurgöngu hans I, bls. 71—72. Hálfyrði um skólamálið I, bls. 74—75. Sýnishorn af riti Dr. Schleisners um Ísland I, bls. 88—89. Dálítið um umburðarbrjef biskups frá 8. marz 1850 II, bls. 101—103. Hálfyrði um árrit prestaskólans II, bls. 109—110. Konunglegur úrskurður um brauðaveiting á Íslandi II, bls. 110—111. Gulllandið Kalifornía II, bls. 160—162, 166. Um þingvallafund í sumar II, bls. 193—194. Svar til Þjóðólfs um Þingvallafund II, bls. 197—199.

Í »*Ingólfi*« 1853. Svar upp á brjef um prestaskólann bls. 62. Svar til J. Guðmundssonar lögfræðings um prestaskólann, bls. 66—67.

Í »*Íslendingi*«. Svar til bóndamannsins í Íslendingi nr. 3. þ. á. II, árg. (1861) bls. 27. Umboðsbrjef til »Skýringa yfir nokkra staði í Nýjatestamentinu« (með S. Melsted) s. st. bls. 112.

Í »*Þjóðólfi*«. Ávarp um tækifærisræður. VIII, árg. (1856) bls. 65. Athugasemd (um prentvillur í útfararminningu Dr. Jóns Thorstensen) VIII, bls. 131—132. Skýringargrein, (svar gegn ritdómum í Norðra) XI, (1858) bls. 2—3. Ávarp (um kaup á Nýja-Testamentinu) XV (1863) bls. 190—191 (sbr. bls. 160). Út af bókafregn í Norðanfara (um bók Magnúsar Eiríkssonar) XVII (1865) bls. 72—73; 192. Umburðarbrjef til prófasta og presta á Íslandi. XVIII (1866) bls. 150—151. Svar til síra Stefáns Þorvaldssonar XXII (1870) bls. 106. Svar til Guðbrandar Vigfússonar um þýðingu á Nýja-Testamentinu XXII (1870) bls. 114—115, 117—118. Svar til Guðbrandar Vigfússonar (út af brjefi frá E. M.) XXIII (1870) bls. 22. Áskorun (um innleiðslu sálmabókarinnar 1871) XXIV (1872) bls. 111—112. Svar til Norðanfara um grein í Bergens Tidende XXV (1873) bls. 63—64. Um Sálmabókina. XXV bls. 65. Um nefndina í skólamálum vorum XXVIII (1876) bls. 21. Svar til Styrbjarnar í Nesi XXIX (1877) bls. 38. Sálmabók vor XXX (1878) bls. 41. Um synodus XXXVI (1884), bls. 119. Skortur á lærdómsbókinni XXXVII (1885) bls. 1. Svar um grein í Nationaltidende XXXVIII (1886) bls. 188.

Í »*Norðanfara*«. Brjef biskupsins yfir Íslandi til amtmannsins í Norður- og Austuramtinu dags. 21. des. 1866 (um heilbrigðisnefndir) VI. árg. (1867) bls. 9. Brjef frá biskupinum yfir Íslandi d. 2. des. 1867 til ritstjóra Norðanfara (um sölu á Nýja-Testamentinu) VII (1868) bls. 1. Spurningar til sóknarmanna og presta við vísitaziu í Eyjafirði VII (1868) bls. 37. Brjef til ritstjóra Norðanfara (um árásir síra Jóns Bjarnasonar á hina íslenzku kirkju og prestastjett) XVII (1878) bls. 57—58. Til ritstjóra Norðanfara (²¹/₇ 1880) (um húsvitjanir presta) XX (1881) bls. 37. Til safnaðarins í Hólmabrauði. XXII (1883) bls. 47.

Í »*Víkverja*«. Um ný kristileg smárit II. árg. (1874) bls. 99. Áskorun til ábyrgðarmanns Víkverja að nafngreina óreglupresta. II, (1874) bls. 168.

Í »*Ísafold*«. Handbók presta III (1876) bls. 6. Um hagtæring hallærisgjafa VI (1879) bls. 6—7. Um húslestra VI, bls. 10—11.

Embættismannastjettin VI. bls. 14—15. Svar til Oddgeirs Stephensen um íslenzka sjóði, einkum kirkna VIII (1881) bls 123. Brjef frá presti í Ameríku um Mormóna IX (1882) bls. 37. Áskorun (um hugvekjur presta) IX, bls. 77. Hinn nafnfrægi hugvekjusafnsstyrkur X., (1883), bls. 70—71. U msynodus XI (1884) bls. 115. »Trúarjátning framtíðarinnar« XIV, (1887), bls. 190—191. Hálfyrði um biskupsvísitazíur XV. 1888 bls. 187. Rýrnun biskupsvaldsins XVI (1889) bls. 2—3. Prestsekknasjóðurinn XVI. bls. 49—50. 105—106. Vísur eptir gamlan mann. XVIII (1891) bls. 45, 73.

Í »*Fjallkonunni*«. Um brjefkafla frá »einum merkasta presti landsins« III. árg. (1886) bls. 93.

Í »*Skuld*«. Svar upp á grein í Skuld (30. nóv. 1882) um hneykslanlegan drykkjuskap prests V. árg. (1883), bls. 124.

D. Greinir í útlendum ritum.

Í »*Reports of the British and Foreign Bible Society, London*« eru prentaðar margar skýrslur og brjef frá Pjetri biskupi Pjeturssyni. *1864* bls. 75—76; *1865* bls. 79—82; *1866* bls. 78—80; *1867* bls. 99—101; *1868* bls. 90—91; *1870* bls. 89; *1871* bls. 117—118; *1877* bls. 96—97; *1878* bls. 77—78; *1879* bls. 82; *1880* bls. 91; *1881* bls. 73; *1882* bls. 112; *1884* bls. 92—94; *1886* bls. 103—104; *1889* bls. 95; *1890* bls. 91. Í »Report« 1884 er brjef um 300 ára afmæli heil. ritningar á Íslandi og um siðabótina bls. 93—94.

Í »*Comtes rendus de l'Academie des sciences*«, Paris 1860. Tom. LI: Sur une nouvelle éruption d'un volcan islandais, extrait d'une lettre de M. Pjetursson à M. de Saulcy.

Í »*Schleswig — Holstein — Lauenburgisches Kirken und Schulblatt*« 1889—90. nr. 45. Zwei denkwürdige Briefe aus Island (frá Pjetri biskupi).

Í »*Luthersk Ugeskrift*« Udg. af F. W. Bugge og I. C. Heuch 8de Halvaar Juli—Dec. 1880 Kristiania bls. 337—343, 386—392. Om den kristelige Kirke i Island.

Í »*National-Tidende*« eru allmargar frjettagreinir og aðrar greinir á árunum 1882 til 1887, eptir Dr. P. P.

### 7. Kvæði til Pjeturs biskups Pjeturssonar og erfiljóð eptir hann og frú Sigríði.[1]

Fyrir minni Dr. theol. Pjeturs Pjeturssonar biskups yfir Íslandi í samsæti Íslendinga í Kaupmannahöfn 27. júní 1866. (Tvö kvæði).

Sunnan aptur sólin nú
sendir geisla hlýja
og um fannhvítt fjallabú
fegurð vekur nýja:
meðan brosir hýr og heið
hún yfir jökultindi
heim við biskup búum skeið
beztum óskavindi.

Nú er lærdóms goldið gjald,
góðs til hyggja eigum,
þeim er hæfast veitt nú vald
vel sem treysta megum:
neyttu heill fyrir norðan sæ
náms að fornum stólum
Gizurar og Ísleifs æ
og svo Jóns á Hólum!

Nú er stríðs og styrjar öld,
stórtíðinda biðum,
ýta verk sjer eiga kvöld
öll í heimi víðum:
reistu heima hellubjarg
hitt er öld ei felli,

1) Jeg hefi hjer safnað kvæðum um Pjetur biskup og erfiljóðum eptir hann og læt prenta þau í einni heild eins og tízka hefir verið í íslenzkum æfiminningum. Sum kvæðin eru gullfalleg, sum ljeleg og lítilfjörleg eins og gengur, þó þau lýsi góðum vilja. Menn eru nú á dögum svo vanir að sjá misjafnan kveðskap á prenti, svo jeg vona menn hneykslist ekki þó hjer sjeu ýms ljettvæg ljóð innanum og saman við. Jeg hefi ekki sleppt hjer neinu sem jeg þekkti nema »Kveðju til P. Pjeturssonar, er hann fór heim til Íslands sumarið 1844«, sem prentuð er í Ljóðmælum Gísla Thorarensens, Rvik 1885, bls. 30—31.

þó við tálan tíðar varg
tímans skepnur hrelli!

Vitum það, að vorri þjóð
villt þú allt hið bezta,
drottinn veitti dug og móð
dáð að vinna flesta:
ungum frágum iðnir þær
ítran föður kenna
þar sem viðum völlum nær
vötnin stríðu renna.

Landi boðar frelsi frið,
flug og anda vekur,
eymd og hræzlu, argan sið,
allt á burtu rekur:
fer í gegnum fjöllin stór,
frjóvgar urð og steina —
vísirinn er mikils mjór,
mustarðs-kornið eina!

Ó, að sá, sem leitt fram ljet
líf úr bergi hörðu,
heillum leiði hvert þitt fet
hamralands á jörðu!
sá, sem kyrrði sæ og vind,
sinni þjer öllum tíðum,
og þjer veiti lífsins lind
leiða fróns að hlíðum!

Pjetur biskup, há og heið
heim þig gæfan leiði,
og um nýtast æfiskeið
æ þjer veginn greiði!
njóti ítrar elli til
Ísland verka þinna
og þín liðins langt um bil
lífsælastra minna!

Gísli Brynjúlfsson.

Veg þinn, er sæmdin sumarheið[1])
vor biskup kær! nam rósum reifa,
með vinaliljum ljósum dreifa
íslenzkar hendur hafa þreyð;
heill sjertu með oss halur blíði,
hróðmögur lands og stjettarprýði,
virðingin, sem að var þjer sýnd,
verður með óskum bræðra krýnd.

Þjer hjálmunvöl í hendur gaf
Alvaldur fleyi fögru að stýra,
mænir í stafni merkið skíra,
og víðan leggur ljómann af.
Sýna mun leið um svæði vasta
segull og leiðarstjarnan fasta,
blíðfara straumar beina gnoð,
byrvindur himins fyllir voð.

Þjer laukagarður lífs við sól
ljeður er til að rækta og gæta,
vanmegnu hjúkra, brostið bæta,
þrifnað að veita vörn og skjól,
treysta má þínum högum höndum,
hugkvæmri rækt og gjörðum vöndum,
gleðji þig allt sem frjóvgast fær,
föðurlands það í moldu grær.

Þjer hjörð í geymslu gefin er,
lifanda vatns hjá lindum skærum,
ljúft ber hún traust á hirði kærum,
sem tryggur hana tjóni ver.
Hve muntu glaður henni sinna?
Holl verða launin starfa þinna,
gagn, sem þú vinnur góðri hjörð,
gleðja mun þína fósturjörð.

Svo fagurt starf þjer valið var,

1) Norðanfari V. 1866, bls. 37 og 41. Kvæði þessi eru líka prentuð á lausum blöðum.

það móðurfoldu fögnuð veitir,
því góðu vonin henni heitir,
af því sem áður ávöxt bar.
Nú, sem á manndóms itrum árum,
eflirðu prýddur silfurhárum
kirkjunnar veg og kennidóm
með kærleiks dáð og snjöllum róm.

Fylgi þjer blið um bláa Rán
af bræðrafund í faðminn móður
ósk vor, að fremst þinn hefjist hróður,
og vinnudag þinn lengi lán.
Kvöldroðinn loks, þá dvínar dagur,
dýrðlega skíni seinn og fagur,
guðblíður þegar lýkur leið
ljómandi á runnið æfiskeið.

Steingrímur Thorsteinsson.

Viro maxime venerabili
Domino *Petro Petræo*
Recens inaugurato Islandiæ episcopo dignissimo
Doctori Theologiæ celeberrimo,
Danebrogici ordinis equiti aurato,
Britannicæ Bibliorum Societatis Præsidi honorario
Patriæ nomine gratulatur subscriptus.[1])

Cui prius applaudat patria' et sua gaudia dicat,
Quam Tibi', amor patrii deliciæque soli!
Quem potius docta fas est celebrare camena,
Certatimque pia tollere' in astra chely,
Quam Te, docte Pater! spes o fidissima rerum!
Christicolis tutum præsidium' atque decus!
Ut raucus niveos interstrepit anser olores,
Desvetæ repeto sic ego fila lyræ.
Te Tua læta cohors merito veneratur amatque,

1) Norðanfari VI. 1867, bls. 71.

Ad quem confugiat, quemque sequatur, habet.
Nam Tua signa sequens vigilantior, optime Præsul!
Jam sibi commissum, Te duce, munus obit
Cum quondam gens grata Deo premeretur acerbo
Servitio', oppressis adfuit Amramides.
Post ubi commentis fæderari' ecclesia vanis
Coepit et injusto subdere colla jugo,
Magnanimus Christi surgebat præco Lutherus,
Ausus Lernæam voce ferire feram,
Et Deus omnipotens jam lumen amabile Petrum
Qui Christi sanctum servet ovile, dedit,
Vix ullum' inveniens, melius qui' impendere vitæ
Numinis ad nutum, tempora sciret eo.
Quot scripta' egregii sacrorum' antistitis exstant!
Scripta salutifero lumine plena Dei.
Hæc opera' ambrosii pretii non ulla vetustas,
Impia non hostis spuma' abolere potest.
Omnipotens numen spatium Tibi proroget ævi,
Ut patriæ niteas, gemma corusca diu!
Serus, terrestri mitra lituoque relicto,
In coeli redeas regna beata precor.

Optimi episcopi observantissimus,
E. Th. (Einar Hallgrímsson Thorlacius).

Íslenzk þýðing hinna latnesku ljóða.[1]) Eptir sira Jón Ingvaldsson.

Mæringi' heiðurs hæst verðugum,
herra Pjetri Pjeturssyni;
biskupi nýskeð bezt til kjörnum,
vígðum hjer á voru landi;
kennifóður frægsta' í guðvísi,
riddara dýrrar Danabrogs orðu;
bibliufjelags Breta-þjóðar
heið-tignuðum heiðursforseta;
í sins ættlands óskar nafni
æztu heilla undirritaður.

1) Norðanfari VII. 1868. Aukablað við nr. 3—4. Þar aptan við eru skýringar.

Hvern í hávegum hafa vort ætti
föðurland fremur, og fögnuð inna,
en þig! vorrar ættlands þjóðar
ást og unan ágætasta!
Hvern ber fremur hverjum við annan
lærðra lofvísum leyfa keppast
og helgrar trúrænis hörpuslætti
hefja í hæðum hæstum sóma,
en þig lærði lærifaðir!
öruggst traust vorra aðalmála,
athvarf óhult og ítur sómi!
Krists þeim trú og kenning rækja.
Eins og þá raddhás raular gassi
innanum svana söng fannhvítra
eins eg nú upp tek elllstirðnaður
lengi óleikna ljóðgígju strengi.
Þinn þjóðskari þjer hugglaður
vegsemd og ást að verðleik tjáir,
hjá þjer óhults athvarfs sjer leitar,
og forsjá traustri fylgir þinni.
Því fylgjandi þínu merki,
biskup bezti! bezt árvakur,
köllun embættis kná'r bezt rækja,
undir leiðsögn ítri þinni.
Þegar fólk Guðs forðum daga,
þjáðist sáru þrældómsoki,
Amrams arfi undirþrykktum
að Guðs ráði aðstoð veitti.
Seinna er Krists var kirkja saurguð,
af hindurvitnum váljúgstrúar,
og hlaut háls og höfuð að beygja
und trú'roki allrangsnúnu.
Hófst þá handa hugumstóri
knárr Lutherus krists trúboði,
er lernuvargi líkt trúskrípi,
leiptri raddteins lemstra þorði,
en ný Drottinn allsvaldandi,

blys-ljóss ást-holt biskup Pjetur,
veitti, gæzlu og vörð að haldi
sá Krists helgu á sauðahúsi.
Vart nam nokkur verða fundinn
að bending Guðs er betur hánum
verja stundi' og vel að neyta
gáfum lífs og gefins tíma.
Hve mörg helg rit hjá oss finnast,
hirðis dýrðlegs helgra dóma,
öll er innra Guðs uppfyllt birtast
sálheilnæmu sannleiks ljósi.
Helguðu samgild himnabrauði,
rit þau elli engin megnar,
engin guðlaus gómaspýja
dólgs fjón-froðu foreydd vinna.
Heima og himna hár alvaldur,
lofsælt líf þitt lengi teygi!
að sem eðalsteinn íturfagur
lengi og vel lýsir landi voru.
Biskupstignar búnað jarðligan,
þegar hjer loks, þjer af leggur,
hæstri' í hljótir himnasælu
bústað bezta; bið eg af hjarta,
biskupi beztum, bezt lýðskyldur
í undirgefni E. H. Th.

I. Ý s.

**Lucubratio gratulatoria.**

Castalides nymphæ! vetulas recreate medullas,
Dum canere' experior tenuis modulamine fili
Dignos laude viros longe melioris avenæ.

Est locus — indigenis in aperto pervia campo
Spatia reddit humus — præpollens ubere glebæ.
Pone tegunt montes lætasque' armenta per herbos
Pascuntur, lateque gregum vaga copia' oberrat,

Quæ quamvis avido satis est numerosa colono.
E regione loci Zephyros spirare secundos
Audis, et virides permulcere flamine ripas
Quas præterlambens fluviorum maximus amnis
Irrigat et cingit spumosi gurgitis æstu,
Ne quis opes domini poterit deperdere' inultas.
Najadum formosa cohors his præsidet undis.
Hic prisci proceres patrios posuere penates,
Atque Vidivallas diverunt nomine fundum.
Sedes grata suis, longo spectabilis ævo.
Hanc rite' excultam tenuit volventibus annis
Et sacer et sancti decoratus nomine Petri,
Heros usque bonus, sparta bene functus adeptæ,
(Præpositum salutant cleri qui tractat habenas
Imperioque regit) quo non præstantior alter
Nec pietate fuit nec docta' instructior arte
Sev Flacci pulsare chelyn vel Apolline digna
Indigeno' adgressus deducere carmina plectro,
Sive dei celebrare pio mysteria cæpit
Ore, atque angelicas ad siderea tollere laudes.
Quanta' oris, formæ, gestusque habitusque decentis
Majestas et amor, pariter facilique gravique
Digna viro! quanti sumtus vitæqe labores,
Sev fessos placido longisque erroribus actos
Hospitio' excepit, sev qvos fortuna novercans
Fregerat, auxilio juvit lætosque remisit!
Nunc gremio' Abrahæ cælesti pace quiescit.
Quid tibi, musa, moræ est thalami percensere fausti
Pignora, quæ nostris fulgent per secula fastis,
Primo digne loco, prima dicende Camena!
Provida cui pietas proprio de nomine nomen
Et bona quæque dedit tenero, Petrumque vocari
Jussit, et ingenitas ad sidera crescere dotes.
Audit vota deus, quid enim præstantius unquam
Ætas nostra tulit? verbis, precor, invidia' absit!
Rite creatus eras Doctor sanctique Professor
Officii, qui quicquid erit sapientiæ' ad ungvem

Perlustrasti animo docili' et cum lacte bibisti,
Frugiferæ' assidue diffundens munera messis.
Tu petræ' impositam tractas, adamas recitasque
Mellifluis labiis doctrinam cælitus ortam.
Palladio' hoc tutus quæcunque hostilia spernis
Spicula tartarei necnon mala toxica Ditis.
Sic bene respondent Petri venerabile nomen
Et tibi delatæ partes, hoc pulpita, chartæ
Testantur, juvenumque chorus, qui docta magistri
Discendi cupidus præcepta'in pectore volvit.
Macte nova meritorum' hedera, doctum caput, esto!
Jamque auratus eques, non dudum' insigne corusco
Donatus, multos vigeas valeasque per annos!
  Alterum' honorato genitum de fædere lecti,
Omnia laudato similem' et sat honoribus auctum,
Muneris exhausto celebris vitæque labore
Humano longe major Sapientia captu
Ad meliora ciens æterna luce beavit,
Divinumque novo jam nomine numen adauxit.
  Scilicet ut niteat genitor cev luimne terno
Tertius evasti non ultima gloria fratrum,
Qui, qvoties scandis nullis venale tribunal
Illecebris, sævas, recti servator et æqui,
Justa lance domas lites. Sic itur ad astra!
Ne quid defieri patiatur diva potestas
Connubio'est eodem stabili concepta virago
Inter formosos longe pulcherrima cætus.
Quæ, postquam nupta'est venerando casta marito,
Cottidie' ante' oculos juvenilia perspicit arva.
Hoc erat in votis. O terque quaterque beati,
Queis bene contingit Sobolem producere talem!
Vive, vale felix Petri clarissima proles!
Optima perpetuo virtutis præmia carpens!

Honoris et amoris causa

E. Th.

**Echo borealis**

ad sepulcra quorundam transalpina.

Evigilans animus terræ pertæsus opacæ
alta petit, rutili miratus lumen Olympi
auroræ borealis equis, (mirabile dictu!)
invehitur lateque volans per inane peregit
austrum versum iter, tandem delapsus ab alto
arboris excelsæ grata reqvievit in umbra.
Heic secum repetit vita meliore beatos,
defunctos memorans patres, dehinc talia fatur:
Te memini' eximium nobis patrem et omnibus omne
o *Vidaline!* *bonus* merito cognomine dictus;
præsulis hunc titulum non ulla' oblitterat ætas.
Et meminisse juvat doctum *Steingrime!* tuum cum
mitra micans decorare caput pietate refulgens
cœperit et digno resonarint omnia plausu.
Nullum' equidem memini, qui par tibi sit fueritve,
*Egilides!* nostri lux sane maxima secli,
maxima perpetuos Heliconis gloria'in annos.
Quis nescit summo medicinæ munere functum
*Thorsteinium* famam sibi conciliasse perennem
atque feros doctis manibus repulisse dolores?
Et jam mæsta Themis magnum sibi luget ademptum
*Sveinbjörno* genitum, jam publica damna tribunal
conqueritur propriamque dolet cecidisse coronam.
O pater omnipotens, divinæ fons et origo
justitiæ! justo qui libret pondere lancem,
redde virum vacuæ sedi'et res adspice nostras!
Multos præterea, quorum cælestia sertis
tempora cinguntur roseis et victrice lauro,
observari' animo sensi mentemque memore.
O Reychjavicæ quoties cev fulmine tacta
tecta tremunt! quoties effuse grandinis instar.
funera notorum densantur magna tuorum!
Lumina terna tamen claro splendore relucent:

*Helgo, Petrus* nosterque pio satus *Helgone* Nestor
cætus Christiadum clare fulgentia fulcra.
Salve lux hominum, rerum tutela salusque,
adsis et totum' illustra splendoribus orbem,
facque tua afflari bene fotum desuper aura!

E. Th.

**Bergmál Norðurlands**

við grafir nokkurra Sunnlendinga (frihendis útlagt).

Náttvakinn andi frá mjer flaug
norðurljósa
leið um rósir
svam loks yfir Suðurbaug.

Hniginn niður á háan meið
framliðinna
feðra sinna
minntist þar á þessa leið.

Man jeg þig enn þá *góði Geir*
föður beztan
mannvin mestan
minning þinna dygða' ei deyr.

Man jeg þig *Steingrím* mitur hans
engilbliðan
bera siðan
tign samboðin bezta manns.

Man jeg jafnoka þinn ei þó,
*Egils* mögur
fræg og fögur
meginprýði á Parnasso.

Heyrði' jeg víðfrægan læknir lands
*Þorsteins* arfa
ítum þarfa,
þrautgóð reyndist höndin hans.

Og nú hinn mikla *Sveinbjörnsson*
æðsta blóm
í yfirdómi
sofinn Themis trega kon.

Rjettláti Guð! lát rjettlætið
þíns eigin hjarta
ímynd bjarta,
endurkrýna autt sætið.

Margra fleiri þá minnast tók,
hverra nafn
í helgra safni
ljómar skært á lífsins bók.

Raunum þráslegin Reykjavík!
þínir beztu
megir mestu
fallnir eru og liðin lík.

Þó loga enn þá ljósin þrenn
*Helgi, Pjetur*
og *Helga* getinn
vitrir Síons vökumenn.

Kirkjunnar vörður, sannleiks-sól!
lát þíns anda
ljósskínanda
ljóma' um alheims bygð og ból.
E. Th.

»Þegar frjettist með vissu, að kominn væri aftur til landsins með biskupsvígslu herra prófessor, Dr. theol. Pjetur Pjetursson urðu til þessi ljóðmæli«.[1])

Velkominn vertu
af vegi Dana,
ættjarðar sómi,
ættmanna hrós;
fagnar þjer fjörgyn
fegins hugar,
og breiðir faðminn mót
frægstum niðja.

Heill sje því skipi
sem þig heilan flutti
aftur heim
að heima þínu;
farsæl var sú stund
er þú fæti steigst
fyrst aftur á lóð
fósturjarðar.

Fár vann þjer meira
til frama guðsríkis;
fár vann þjer betur
til fræðslu sálum;
mun það æ uppi
meðan öld lifir,
sú ei vettugi
virðir Drottins orð.

Sóttir þú heiður
í hilmis sali
sem verðskuldaður
var fyrir löngu;
því var sú för þín
rjettnefnd frægðarför
og að verðleik goldið
vel unnið starf.

Víst er þjer að nýju
vandastarf falið
en þar sem ráða
rjettvísi og mildi,
guðsótti og vizka
gjörðum öllum
leiðist allt framt
til lukku og frama.

Verði þjer þannig
vegur sá hinn nýi
og æfispor hvert
til yndis og gæfu;
krýnist æfin öll
ástsæld og heiðri;
og hin efsta stund
endalykt sælli.

8.

**Til biskups Dr. Pjeturs Pjeturssonar 1. janúar 1867.**
Frá einum af lærisveinum hans.[2])

Í dag er bjart í biskupsdæmi þínu,
hin blíða sól á kaldan jökul mænir,

1) Norðanfari VI. 1867 bls. 24.
2) Þjóðólfur XIX. 1867, bls. 50.

og vill hann þíða vörmu ljósi sinu.
Svo girnast stundum huldar hjartans bænir
með helgum yl að þíða brjóstin köldu,
sem hrekjast líkt og brotinn ís á öldu.
Svo girnist ætíð guðdómsljósið bjarta
að glæða lífsins yl i vorum sálum,
og bræða klaka kólgu þrungins hjarta.
Hið bjarta mót á tímans hringdans hálum,
sem hverfur út í nýjar aldaraðir,
þjer boði nú ljós og líf, *vor kæri faðir!*
Þjer boði ljós frá lífsins ríka stóli,
svo ljósið megirðu' enn þá lengi glæða,
og akur lífsins vökva, verma, græða.
Þín sáðkorn grói í sælu herrans skjóli;
líkt sabbatshelgi byrjað ár þjer renni
og blómkranz nýjan bindi þjer að enni!

**Ávarp eða tileinkun til Dr. Pjeturs Pjeturssonar.**
Framan við vikusálma Guðmundar Gísla Sigurðssonar 1862.[1])

Þú aldarljósi sem hrifinn helgum anda,
á himinlindum þyrstri svalar önd,
þín lærdómsverk í lofi munu standa
sem logskær stjarna Fróns á jökulströnd.
Það fræ, sem þú á fósturmoldu sáir,
ei fölnað getur vetrarstormum í,
því auga drottins á það geislum stráir
og ódauðleikans blómgun veitir því.

**Til Pjeturs biskups.**
Á 50 ára embættisafmæli hans 17. júlí 1886.[2])

Á móðurskauti sjúkur sonur lá,
er sólin reis og horfði ljórann á,

1) Vikusálmar og nokkrir aðrir sálmar eptir Guðmund Gísla Sigurðsson stud. theol. Reykjavík 1862 12 mo.
2) Ísafold XIII, 1886, bls. 125.

og signdi snót með sorgartárin skær,
er sat og horfði' á undra-perlur tvær.
Hún sá þar brotna bárur fjörs og hels
með böli lífs og draumi fagrahvels.
»Þú lífs míns guð, jeg lypti sál til þín,
æ, lát ei deyja þessi ljósin mín«!
En rjett í sama rekkur stóð hjá henni,
ramlega vaxinn, studdi hönd að enni.
Þau störðu á barnið sorgar-heilög sjón;
ei sáust víða skörulegri hjón.
En kaldur sveiti kom á sveinsins brá,
í kyrð hin smáa hönd á brjósti lá.
Þá talar svanni sorgarþrumu lostinn:
»Æ, sjerðu augun brostin — nær því brostin«!
En bliki andans brá á mannsins hvarm,
hann brosti við og mælti: »Still þinn harm.
Und drottins hönd vjer eigum oss að beygja,
*en ekki munu biskupsaugun deyja«.*

* * *

Vor kæri biskup, þú varst þessi sveinn,
við þessa sögu kannast hver og einn.
Svo mildilega móðursorgin bættist,
svo minnilega föðurspáin rættist!
Þín fögru augu skyldu' ei skoða hel,
þau skyldu spegla Drottins fagrahvel.
Þau skyldu vaka á verði skær og stillt
og verða mörgum ljós, ef gengi villt.
Þín öld var full af táknum tilbreytinga,
af táli og þokum margra sjónhverfinga.
Og bjartar sjónir bólstrar tíðum heptu,
en biskupsaugun stefnunni' aldrei slepptu.
Hin ytri sól vor augu sker og mæðir,
hin innri birta sjónarkraptinn glæðir.
Hver eru augun, aldrei sem að deyja?
þau augu, sem að ríki Drottins eygja.
Vor kæri biskup, sit við heilla hag,
vjer heiðrum Guð, að sástu þennan dag!

Með stilling, hógværð, styrk og elju stakri
þú striddir hálfa öld í Drottins akri.
Við sæld og þraut, við sorg og eptirlæti
með sæmd og æru fyllir þú þitt sæti.
Því veiti hann, sem gefur náðargjöld,
þjer, góði biskup, fagurt æfikvöld.
Og þegar síðast sól á fjöll þjer skín,
og síga taka hvarmaljósin þín,
í föðurs þíns trú þú æðra ljós munt eygja,
*því ekki skulu biskupsaugun deyja.*

Matthías Jochumsson.

**Grafskript og erfiljóð.**

Hvílir nú örendur hinn ágæti biskup
Pjetur Pjetursson,
doctor theologiæ, stórkross af dannebrog.

Hann var fæddur 3. október 1808, tók embættispróf í guðfræði 1834, prestvígður 1836 og prófastur 1838—47, forstöðumaður prestaskólans 1847—66, sæmdur prófessors-nafnbót 1849, biskup yfir Íslandi 1866—89.

Kvæntist í fyrra sinni 1835 Önnu Sigríði Aradóttur († 1839), í síðara sinni 1841 Sigríði Bogadóttur.

Með seinni konu sinni eignaðist hann 6 börn, en af þeim lifa nú að eins 2 dætur. Andaðist 15. maí 1891.

Ljós er hjer horfið,
er lengi skein
logskært landi voru;
en bjarmi þess
mun bjartur lýsa
enn um aldir margar.

Stólpi er hjer fallinn,
er styrkur reyndist
vorri veiku kirkju:
en seint þess munu
merki fyrnast,
hve så stólpinn studdi,

Hjarta er hjer kólnað,
sem helgrar trúar
öflugt var af afli,
og hrifið af hreinum,
himinbornum,
kærleikskrapti ríkum.

Hönd er hjer stirðnuð,
sem hjálparþurfum
ljúft var lið að veita;
margir þess minnast
munu lengi
og hjálparhönd þá blessa.

Líf er hjer liðið
lofsælt og fagurt,
helgað dyggð og drottni;
en ávextir þess,
þótt árin líði,
munu skærir skína.

Syrgja má ættjörð
soninn fræga,
sinnar aldar sóma;
klæðast má kirkja
klæðum sorgar,
hrygg af hirðis láti.

Þótt kirkjuföður kæran hörmum vjer,
vor kirkjusorg með lofgjörð enda ber;
oss ber að lofa guð, er gaf oss hann,
til góðs hjá oss er flestum meira vann.

Oss ber að þakka þessa miklu gjöf!
já, þökkum við vors kirkjuföðurs gröf
hans fyrir líf, hans fyrir verk og trú,
og fyrir launin, sem hann hlýtur nú.

En biðjum þar og góðan guð um náð,
að góða sæðið hjá oss niðursáð
af honum, sem nú hjeðan kvaddur er,
þann hljóti vöxt, er slíku sæði ber.

Helgi Hálfdánarson.

Nú sit jeg hjer eptir sólarlag
og sje yfir langan fagran dag.
Í vestrinu dagsbrún hinnst er hnigin,
en hinum megin upp fegri stigin.

Hinn ljósi dagur er liðinn braut
í liðinna alda' hið djúpa skaut.
Úr djúpinu stjörnur ljósar líða:
þær ljúfu minningar fyrri tíða.

Já, það er svo margs að minnast hjer,
svo margt, sem nú fyrir sjónir ber;

svo margar og fagrar myndir vaka,
á mannsæfi þá er lít til baka.

Jeg lít hvar fyrrum hann stóð í stól;
þar stafaði geislum andans sól, —
hún stafaði guðs orðs geislum björtum
og gjörði svo bjart í margra hjörtum.

Jeg lít hvar hann sat með sveina-hjörð
og sáði fræinu' í gljúpa jörð.
Margt guðs orðs fræ, er hann fyr þar sáði,
ber fagran ávöxt á móðurláði.

Jeg lít hvar hann eins og Aron stóð
við altari guðs í helgum móð,
með breiddan faðm og með bæn á tungu
og blessun lagði' yfir hina ungu.

Jeg lít hvar hann stóð á þingi þar,
um þjóðar málin er samið var;
hann talaði stillt og stýrði þingi
sem staðföstum hæfir þjóðmæringi.

Jeg lít hvar hann sat við lampann hljótt
og las og skrifaði fram á nótt.
Þótt dvínaði löngum dagsins stundin
ei dapraðist sál nje þreyttist mundin.

Hver rún var það, sem að rjeð hans hönd?
hvað ritaði þar hin iðna hönd?
Þar drottins rúnir hann rjeð og kenndi
og ritaðar út um landið sendi.

Í björtum stofum við ofnsins yl,
í aumum kofum, í hríðarbyl
menn upp þeim kyndlinum bregða bjarta,
sem birtu' og yl gefur mörgu hjarta.

Þá haustið kemur og húmar að,
í húsum kveykt er ljósið það;

það logar svo bjart og lýsir öldum
á löngum og dimmum vetrarkvöldum.

Þá fastan kemur með frost og snjó,
það fræ í kuldanum lifir þó,
er sótt að krossinum Krists hann hefir,
því krapturinn guðs því lífsmagn gefur.

Þá vorið kemur svo bjart og blítt,
þá boðar hann aptur lífið nýtt;
þá sjá menn þau vorsins blöð í blóma,
er boða þeim upprisunnar ljóma.

Þá dagur kemur og dagur fer,
þá dimman rjenar og ljósið þver,
sem englar smáir hans bænir benda
upp bænarengla til guðs að senda.

Þá helgur dagur á himni skín
og hvílast menn eptir verkin sín,
þá leita menn hvíldar lúnum anda
við lífsorð þau, er á bók hans standa.

Hins gamla og þreytta þungu sár,
hins þjáða og mædda stríðu tár,
þau mýkir hans kenning milda' og þýða
um miskunnsemdanna föður blíða.

En börnum smám, sem enn eru ung,
þeim orðin guðs eru stundum þung.
Ei gleymir hann þeim: Með góðum sögum
hann gefur þeim skyn á drottins lögum.

Nú hnigin í val er hetjan sterk
og hvílist nú eptir mikil verk:
Þau afreksverk, er hann vann í friði,
og verða svo mörgum enn að liði.

Hve lengi vara hjer verkin hans
til viðreisnar kirkju frelsarans,

það fara mun eptir aldaranda,
en æfinlega mun nokkuð standa.

En eitt er víst: að þau áhrif góð,
sem andans menn hafa' á sína þjóð,
þau aldrei fyrnast, þótt aldir líði,
þau yngri kynslóðum verða prýði.

Og eitt er víst um það aldarljós:
að aldrei dvínar hans maklegt hrós;
hans göfuga nafn með sæmd og sóma
á sögunnar himni bjart mun ljóma.

Já, kirkjusaga vors kæra lands
hún krýna mun lengi verkin hans;
en kærleikur hans og mikla mildi
og mannúð aldrei fellur úr gildi.

Ef eignumst vjer margan afbragðsmann
með iðni, gáfur og þrek sem hann,
og mannúðarríkt og hógvært hjarta,
vjer höfum í vændum framtíð bjarta.
Valdimar Briem.

Háaldrað, höfugt og þreytt,
ó, hneig þig í signuðum friði,
(guði sje lof sem þig gaf!)
göfgasta höfuð vors lands!

Kirkjuleg öld vor er ei,
en öldin til grafar þjer fylgir,
blessandi biskupsdóm þinn,
biskup í sannleik þú varst!

Hirðir þú varst, eigi völd
nje valdboð nje hjátrú þig studdi;
innan og ofan frá kom
embættistign þín og dáð.

Vægð fyrir vald kaustu helzt,
og valdherrans strangleik þú beittir
(af því varð auðna þín stór)
einungis sjálfan þig við.

Leiðtogi' og ljós varstu oss,
þín lífsspeki náði til hjartans,
af því að orðið var Krists,
eiginni sjálfsprófun stutt.

Nytsemi, friðsemi, frægð
og fegurð var líf þitt til enda,
kveður sem signandi sól,
slokknar sem altarisljós!

Fækka landsins fornu trje
frostnæðingi kaldar,
guði vígð á hauður hnje
heiðurs björkin aldar.

Sorgar fregn um fjöll og dal
fer að hverjum garði;
eins í hreysi' og háum sal
hvílir *Pjeturs* varði.

Hann var þjóðar sinnar son,
sendur henni' í stríði,
ungur hennar ást og von,
aldinn hennar prýði.

Hennar forna hraustleik bar,
hetju kostum búinn,
gjörfileik og gæfu þar
gipti snilld og trúin.

Rík var sál, en hraust var hönd
heiminn við að stíma,
viljinn stór, en viðkvæm önd,
valdi ráð í tíma.

Ungum munni minntist við
móður sína kalda,
fjell á knje að fornum sið
fyrir kóngi alda.

Sór, að vernda hraustri hönd
hennar skírnarklæði,
sór, að leggja líf og önd
lífs við æðstu gæði.

Gekk svo fram með stólu' og staf
stríðs að helgri yrkju,
hönd og dáð og hjarta gaf
heiðri guðs og kirkju.

Allir hrósa auðnu hag
afreksmanns á foldu,
þó er víst, hann þungan dag
þoldi ofar moldu.

Hjartað klökkt, en hyggjan þjett,
heimur vjelar tómar,
gabb og brigzl fyrir gott og rjett,
grimmir og kaldir dómar.

Þó varð honum hvergi um megn
heimsins vana-glaumur,
annar dýpra gekk í gegn
geigvænn tímans straumur.

Og á slíkum öldu-sjó —
eins og helgum nafna, —
fannst honum víst sem festa' og ró
farast myndi' og kafna.

En sem þegar Ísrael
átti stríð um nóttu,
ekki sáu aðrir vel
ógnir þær hann sóttu.

Guð einn telur góðs manns tár,
gefin fyrir lýði;
kappinn nefnir sjaldan sár,
sem hann fær í stríði.

Þótt nú flestum finnist senn
fölni klerka blómi,
lengi voru vígðir menn
vorrar þjóðar sómi.

Hver hefir fleiri manna mein
mýkt á vorri foldu?
Loks eru þessi biskups bein
byrgð í vigðri moldu.

Er sem heyri' eg óma róm
orðtak seinni tíða:
betur kunni' ei kristindóm
klerkur fyrr að þýða.

Legðu, þjóð mín lyndisgljúp,
lengi rækt við *Pjetur*,
fár þitt sjúka sinnis djúp
sá eða lýsti betur.

Þakka máttu stríð og starf,
stórverks þjer hann unni,
mundu hann gaf þjer mikinn arf
meðan bærast kunni. —

Yfir guðsmanns bana ból
breiðist drottins heiði;
guði dýrð mót glaðri sól
gráti rós á leiði!
Matth. Jochumsson.

**Frú Sigríður Bogadóttir.**[1]

Þegar ár í öldu
ýtum gjörði fróa
sólin skein á skjöldu,
skatnar keyrðu jóa;
brosti haf og hauður,
hlógu blóm á velli —
þá var ást og auður
undir *Staðarfelli.*

Rjeði rausnargarði
rekkur þjóðum kunni,
framar en Fáfnis arði
fræðum lands sá unni,
studdi höld í stafni,
sterk og prúð á velli,
jöfurs brúða jafni
*Jarþrúður* á Felli.

Lengi lánið undi,
líf og fjör og iðja,
fár á Fróni mundi
fegri geta niðja,
fulla fremdarauði:
fóstra minn hinn staka[2])
*Jens*, er býtti brauði,
*Benedikt* hinn spaka.

Átti dýrar dætur
drós með göfgum manni,
sæmilegri sætur
sjaldan lýstu ranni.
Brostu ljúf í lyndi
liljublóm á velli,
þá var ást og yndi
undir Staðarfelli.

1) Þjóðólfur 56. árg. 1904 bls. 29.
2) Brynjúlfur í Flatey († 1870).

Lýsti fósturlandi
ljós af ungum vonum,
fagur frelsisandi
fæddist landsins sonum.
Blómin sólar biðu
bljúg og þýð á velli —
horskir herrar riðu
heim að Staðarfelli.

Sem í dýrstu sögum,
sonum landsins beztu
hjón með rausnarhögum
heimasætur festu.
Loks var gleðin gengin,
grjetu strá á velli —
rósin eptir engin
undir Staðarfelli.

Hvar er horski skarinn?
hvað í efni fleira?
Fram hjá eru farin
fimmtíu ár og meira.
Autt er út um haga,
engin blóm á velli.
Inn mjer óð þinn, saga,
undir Staðarfelli.

Sorgarstef min stilli
strengir harmi grættir;
fjöri enn mig fylli
frægðar vorrar ættir.
Hvað mun helst sem bægir:
hrygðarlund og elli
eða »skarðið« ægir
undir gamla Felli?

Þótt eg hati að heyra
harmatölur nauða,

eltir samt mitt eyra
ómur »þessa dauða«.
Aðall minnar aldar
allur horfinn, farinn,
þar sem fölvu faldar
feigðar kaldi marinn.

Hvergi sá jeg síðast
síga feigs að velli
bjarkanna, sem blíðast
brostu undir Felli?
Þitt jeg yrki erfi,
aldinbjörkin prúða
faldin fögru gerfi
fölskvalausust brúða!

Aldrei biskups beður
búinn verður neinni
— satt mitt kvæði kveður —
konu sálarhreinni.
Íslenzk varstu í anda,
orði, verki, þekking,
sterk í veg sem vanda
vissir ei af blekking.

Allt hið góða, gengna,
geymdir þú í sóma,
en hið »ferska« fengna,
fannst þjer vandi að róma.
Upp í einfaldleika
önd þín leit til hæða,
þar sem ráð vor reika,
rjettan veg að þræða.

Bekkur var þjer búinn,
beztur forðum talinn,
trygðin nú og trúin
tjalda brúðarsalinn.

Sætt í svölu rúmi
svanninn hvíli frómi;
dreifi döpru húmi
Drottins sólarljómi.

Látum hugann hressa
helgar Bragaræður.
Enn skal ykkur blessa
ítru systur, bræður!
Hvílið frægðum faldin,
frí við sorg og elli
enn þá gróa aldin
undan Staðarfelli.

Matthías Jochumsson.

Nú hefi eg búið um 24 Biflíur í kassa til Yðar, sem eg vildi geta sent með hentugri sjóvegsferð úr Borgarfirði, en bið Yður, herra Prófastur, að leggja undir við einhvern, sem fer hingað suður, að taka hjá mér fleiri Biflíur til Yðar. Að öðru leyti treysti eg því, að þjer gjörið Yður allt far um að útbreiða Biflíuna í Yðar prófastsdæmi.

Reykjavík, 11. dag Októbermán. 1867.

P. Pjetursson.

Sýnisharn af rithönd dr. P. Pjeturssonar.

Úr brjefi til prófasts Mýramanna.

